# ÆFISAGA JÓNS ÓLAFSSONAR INDÍAFARA

SAMIN AF HONUM SJÁLFUM

(1661)

NÚ Í FYRSTA SKIFTI GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGI

MEÐ ATHUGASEMDUM

EFTIR

SIGFÚS BLÖNDAL



KAUPMANNAHÖFN
PRENTSMIÐJU S. L. MØLLERS
1908—1909

# FORMÁLI.

## I.

Bók sú, sem hjer kemur á prent í fyrsta skifti, nærri því þrjúhundruð og fimtíu árum eftir að hún var samin, er að mörgu leyti merkileg. Hún er ein af hinum fáu sjálfsæfum í íslenskum bókmentum og ein af okkar fáu reglulegu ferðabókum. Í henni eru mjög merkilegar og góðar lýsingar á lífinu í Kaupmannahöfn á dögum Kristjáns 4., og hún fræðir um ýmislegt, er menn ekki hafa vitað til hlítar áður, viðvíkjandi staðarlýsing þeirrar borgar. Hún er á kafla merkilegt heimildarrit fyrir verslunarsögu Norðurlandaþjóða á Indlandi og gefur góðar upplýsingar um sum atriði í Íslands sögu, sem ekki fást annars staðar. Af öllu þessu leiðir, að hana má telja með merkari ritum í íslenskum bókmentum á 17. öld.

Að íslenskri alþýðu hefur fallið sagan vel í geð má ætla af því hvað margar afskriftir eru til af svo löngu riti. Lærðir Íslendingar og útlendingar, sem þektu ritið, hafa heldur ekki verið í neinum vafa um gildi þess. Finnur biskup Jónsson (Hist. Eccl. Isl. III, bls. 563) bendir á, að í riti Jóns sje ýmislegur fróðleikur, sem ekki sje annarsstaðar að fá, og Hálfdán Einarsson (sem nefnir bókina Hist. litt. Isl. 1786, bls. 154—155) reyndi til að gera hana kunna í útlöndum. Sendi hann hinum danska sagnaritara J. H. Schlegel útdrátt á dönsku úr sögunni. Schlegel ljet svo prenta útdrátt úr sögunni á þýsku, í hinu merka safnriti sínu Samlung zur Dänischen Geschichte II, 4, bls. 173—179, Kph. 1775, er sá útdráttur eingöngu úr 1. hlutanum; átti framhaldið að koma síðar, en Schlegel dó frá verkinu

og varð svo ekki meira úr því. — Merkilegt er það að Espólín ekki virðist hafa þekkt söguna, að minnsta kosti hefur hann ekki í árbókum sínum tilfært neitt um víg Pjeturs hirðstjóra, og eru þó ekki mörg hirðstjóravígin á Íslandi, ekki heldur um bardagann milli Englendinga og Frakka fyrir Látrabjargi, nje sendiförina til Bessastaða og það sem í 3. parti sögunnar er sagt um Tyrki þar, en alt þetta hefði hann líklega notað ef hann hefði þekkt bókina.

Á 19. öldinni fengust nokkrir við ritið. Í Konunglega bókasafninu í Khöfn er til dönsk þýðing (hdr. Ny kgl. Saml. 2077 a, sjá skrá Dr. Kålunds, bls. 289—90), en hún endur í 16. kap. fyrsta partsins, og er full af misskilningi og vitleysum; hún hefur því aldrei verið gefin út. Heyrt hef jeg sagt að Páll heitinn Briem amtmaður hafi haft í hyggju að gefa söguna út, en orðið að hætta við það. Þá gerði Valdimar Ásmundsson ritstjóri útdrátt úr sögunni, og birti í blaði sínu Fjallkonunni 4. árg. 1887. Ólafur Davíðsson birti í Sunnanfara V, 37—38 frásögn Jóns um viðræðu sína og Jóns Halldórssonar við Kristján 4. (hjer bls. 49—50) og um Íslendinga í Höfn (hjer bls. 33—34). Dr. Jón Þorkelsson landsskjalavörður gaf út kaflana um Tyrkjaránið (III. partur, k. 2—6) í »Tyrkjaránið á Íslandi 1627. Sögufélag gaf út. Rvík 1906-09«, bls. 200—316. Árið 1905 kom út fyrsti partur bókarinnar í danskri þýðingu eftir mig: Jon Olafssons Oplevelser som Bøsseskytte under Christian IV. Nedskrevne af ham selv. I Oversættelse ved S. Blöndal. Udgivne af Julius Clausen og P. Fr. Rist. Gyldendalske Boghandel, Nordisk Forlag (København 1905), V + 244 bls. 8⁰, og er sú þýðing 1. bindi í ritsafninu »Memoirer og Breve« sem þeir Julius Clausen bókavörður og P. Fr. Rist ofursti gefa út. Athugasemdirnar voru langflestar eftir þá útgefendurna, jeg ritaði líka stuttan formála og ýmsar athugasemdir um það er Ísland snerti. Árið 1907 kom svo síðari hlutinn: Jon Olafssons Oplevelser som Ostindiefarer under Christian IV. Nedskrevne af ham selv. I Oversættelse ved S. Blöndal. Udgivne af Julius Clausen og P. Fr. Rist. Gyldendalske Boghandel, Nordisk

Forlag (København 1907), V + 198 bls. og er það 7. bindi í »Memoirer og Breve«. — Seinni hlutinn er mjög styttur í þýðingunni, og er fremur að skoða sem útdrátt en eiginlega þýðing víðast hvar. — Viðv. athugasemdunum skiftum við eins verkum með okkur og við fyrra partinn. Mjer varð ánægja að því, að áður en bókin kom á prent, var handritið að henni notað sem aðalheimildarrit fyrir elstu sögu dönsku nýlendunnar í Tranquebar af dönskum vísindamanni er fjekkst við það efni um þær mundir (Hr. Kay Larsen í De dansk-ostindiske Koloniers Historie I. Kbh. 1907). — Þýðingum þessum var vel tekið, og ýmsir hvöttu mig til, sumir opinberlega, aðrir í brjefum til mín, að gefa út íslenska frumritið. Hafði jeg lengi haft það í hyggju og rjeði þá af að gera það. Hafnardeild Bókmentafjelagsins samþykkti svo að gefa það út á ársfundinum 23. April 1907. Er þeirri útgáfu nú lokið. Skal jeg hjer í formálanum drepa á nokkur atriði viðvíkjandi höfundinum, sögunni, og starfi mínu.

## II.

Jón Indíafari reit þessa bók í elli sinni og er því eðlilegt að hann sumstaðar hefur misminnt um ártöl og svo um nöfn og einstök önnur atriði. Flest af þessu er þó óverulegt, og er leiðrjett hjer í athugasemdunum. En til þess að fá glöggt yfirlit yfir alt saman set jeg hjer helstu atriðin úr tímatalinu.

Jón Indíafari er fæddur 4. Nóv. (gl. st.) 1593 (bls. 5); hann fer til Englands snemma um sumarið 1615 (bls. 13); til Danmerkur frá Englandi um haustið sama ár, og gengur rjett á eftir í herþjónustu sem byssuskytta (bls. 31). Árið 1616 fer hann í siglingar um Norðurhöf með Jörgen Daae (bls. 107—123), kemur á þeirri ferð víða við í Noregi og alt norður til Kildin við Norður-Íshafið, en fer þaðan til Færeyja (bls. 120—123). Vorið 1617 er hann aftur á flotanum

og þá í siglingum með Kristjáni 4. (bls. 46—53). Árið 1618 er hann við innreið biskupsins af Verden í Höfn. Um haustið það ár hefur hann líklega farið til Krónborgarkastala (bls. 87, sbr. ath. við þá bls. og bls. 85 og 91). Hann talar um mikil frost »annan veturinn«, er hann var á Krónborgarkastala, og segir að það hafi verið sama veturinn og halastjarnan sást (bls. 91). »Annan veturinn« verður hjer að skilja sem »annanhvorn veturinn«, því halastjarnan sást þar í Nóv. og Dec. 1618, og Jón hefur þá aðeins verið kominn fyrir nokkrum mánuðum. Árið 1619 nefnir hann »á því öðru ári er eg þjenti á Krónborgarsloti« (bls. 92). og segir (bls. 98) að það hafi verið sama ár sem Kristján 4. og Gústaf Adolf hittust í Halmstad, en það var í Febrúar 1619. Jón hefur verið á Krónborg aðeins einn vetur, en part úr tveimur árum, því um vorið 1619 (hann segir sjálfur ranglega 1618, bls. 125) fer hann með Henrik Vind til Spitsbergen (bls. 125—140). Haustið 1619 er hann aftur í Kaupmannahöfn, og veturinn 1619—1620, er íslensku sendimennirnir út af einokunartaxtanum voru þar, komst hann í klandur við týhúsið og var settur í Bláturn (bls. 140—164). Svo var hann áfram við týhúsið, þangað til 1622 (hann segir ranglega 1621, bls. 177) að hann fór til Björgynjar með Kristjáni 4., og 8. Okt. s. ár fer hann til Indlands (bls. 208). Hann kemur við á Madagaskar á leiðinni og fleiri stöðum. Hann dvelur svo í Dansborgarkastala við Tranquebar til þess í September 1624. Þá er það að hann stórslysast (bls. 338—345), og fer rjett á eftir aftur til Norðurálfunnar. Eftir ógurlega hrakninga kemst skipið til Youghal á Írlandi snemma í Júní 1625 (bls. 364). Þaðan fer hann til Noregs og Danmerkur, og kemur þangað seint um haustið sama ár. Næsta vetur er hann í Khöfn, en fer svo til Íslands vorið 1626 (bls. 384). Veturinn 1626—1627 er hann í Bæ á Rauðasandi (bls. 388). Sumarið 1627 er hann sendur til Bessastaða af Ara í Ögri, og er þar þegar Tyrkir komu þangað. Nokkru síðar, þegar hann er kominn heim, giftist hann Ingibjörgu Ólafsdóttur og reisa þau bú á Tröð. Líklega hafa þau giftst árið 1628, að því er ráða má af því

er segir á bls. 400, að hann hafi búið í »Eyrardal«, í 11 ár áður en hann fór til Vestmannaeyja 1639; líklega er »Eyrardal« misminni þess er skrifaði fyrir »Tröð«, í Eyrardal bjó Jón seinna; ef það er rjett, hefur brúðkaupið staðið sumarið eða haustið 1627, og þau hjón svo búið í Tröð um veturinn, en flutt til Eyrardals vorið 1628. Hann gerist svo konstabel í Vestmannaeyjum 1639 og er þar þangað til sumarið 1640, fer þá aftur til Vestfjarða og sama haust drukknar kona hans (bls. 402). Í Janúar 1641 deyr sonur hans Kristófer Bogi. Árið 1644 giftist hann aftur Þorbjörgu Einarsdóttur, það ártal má ráða af því er segir í 8. kap. (bls. 403), býr með henni 5 ár í Uppsölum, en síðan 30 ár í Eyrardal, sem hann árið 1654 fjekk afgjaldslaust til ábúðar. Hvenær Ólafur sonur hans er fæddur verður ekki sagt með vissu. Um fáein af ritum hans vitum við hvenær þau eru samin, og skal síðar minnst á það. Loks deyr Jón Indíafari 2. Maí 1679 nærri því 86 ára gamall, ekki á 87. árinu einsog segir bls. 406.

## III.

Um æfi Jóns Indíafara vita menn ekki mikið annað en það, sem í æfisögunni stendur. Bestar upplýsingar gefur hdr. í Kalls safni í Konungl. bókasafninu í Khöfn, Nr. 616, 4°, sem er lýst nánar hjer síðar; þar hefur verið bætt fáeinum línum fyrir aftan annan part sögunnar, sem stuttlega segja frá síðari æfi Jóns; þær enda svo: ». . . var hann (ɔ: Jón) maður skemtinn og glaður og kunni mörg tíðindi að segja. Hann var skraddari sæmilegur og vissi líka skyn á lækningum, hagmæltur og vel greindur á marga luti, en átti bágt í búi jafnan . . . . . Átti Ólaf fyrir son, er með lækningar fór eftir föður sinn . . .«

Ýmsar þjóðsögur hafa myndast um Jón Indíafara, og eru nokkrar af þeim prentaður í viðaukunum hjer fyrir aftan bókina. Eiga þær mest að sýna krafta hans og karlmensku, og getur verið að einhver fótur sje fyrir sögunni

um ferð hans á Suðurlandi, en þó er það alveg óvíst. — Sæmundur Eyjólfsson segir um hann (Búnaðarrit 10, Rvk. 1896, bls. 111) að þegar hann kom fyrst í landsýn við Ísland úr siglingum sínum, og sá jöklana koma upp úr hafinu, hafi hann orðið frá sjer numinn, hlaupið í loft upp á þilfarinu, og kallað: »Ísland er þó það besta land, sem sólin skín uppá.« Jeg veit ekki hvaða heimild Sæmundur hefur fyrir þessu, en hann var lærður maður og áreiðanlegur, og er í sjálfu sjer ekkert því til fyrirstöðu að þetta geti verið rjett, það líkist Jóni mjög, ást hans til Íslands var svo mikil, að hann mátti aldrei heyra því neitt til hnjóðs talað, og kaus heldur að lifa þar sem fátækur bóndi, en vera í góðri stöðu erlendis. En hinsvegar er óvíst hvort orðatiltæki þetta upprunalega stafar frá Jóni.

Í þriðja parti æfisögunnar er ekki minnst einu orði á aðallífsstarf Jóns, ritsmíðar hans, sem gera hann að merkismanni í íslenskum bókmentum sinna tíma. En þó vita menn ýmislegt um rit hans, og bæði Hálfdán Einarsson, Hallgrímur djákni Jónsson og Einar Bjarnason frá Mælifelli gefa skrár yfir þau. Jeg set hjer skrá Einars tilfærða með hans eigin orðum:

»1. Ferðasaga í 2 pörtum, langt rit og greinilegt.
2. Grænlands króniku, er út kom á dönsku 1608, sneri hann á íslensku.
3. Útlagði hann á íslensku úr dönskum kvæðum sögu af Persenober konungi fyrir sýslumann Ara Magnússon.
4. Orkti hann kvæði, sem innihjelt ágrip æfisögunnar, að tilmælum Ara Magnússonar sýslumanns í Ísafjarðarsýslu; er 197 eyrindi; byrjar þannig:

»Hrær þú Drottinn hjarta og tungu mína,
þar með líka lífið, sál,
limirnir, æðar, vit og mál[1])
virði og prísi velgjörninga þína.«

5. Sálminn: »Jesú ágætur! Hvað ertu mjer sætur!« etc.«

---

[1]) „sál“, hdr.

Auk þessara rita vitum við að Jón þýddi fyrir Ara Magnússon úr dönsku hin frægu gömlu kvæði um Stíg Andrjesson stallara (»Marsk Stig«); eru sumar af þeim þýðingum enn til.

Við skulum nú athuga nánar það sem hjer er sagt, og líta þá fyrst á kvæðin.

Sagan af Persenober konungi finst í dönsku kvæði frá miðöldunum (Persenober og Constantianobis), og er það sama efni og í Partalópa sögu. Um danska kvæðið læt jeg mjer nægja að vísa í bók J. Paludans, Danmarks Literatur i Middelalderen, Kbh. 1896, bls. 130. Hvort þýðing Jóns hefur verið í bundnu máli eða óbundnu er óvíst, orð Einars virðast benda á, að hann hafi þýtt kvæðin í óbundið mál. Jeg hef hvergi getað frjett neitt annað um þessa þýðingu Jóns, og væri þó hugsanlegt að einhversstaðar á Íslandi væri til afskrift af henni.

Kvæði það er Jón orti um utanför sína hef jeg heldur ekki sjeð, og er mjer ekki kunnugt um að það sje í neinu opinberu safni; það lítur þó út fyrir að Einar hafi sjeð það.

Þýðingar Jóns á kvæðunum um Stíg stallara eru í handritinu í safni Árna Magnússonar Nr. 153, 8⁰. Það handrit er safn af ýmsum fornkvæðum og er því nákvæmlega lýst í skrá Dr. Kålunds yfir safnið (II, bls. 418—19) og því óþarfi að lýsa því hjer. Alls eru þar þýðingar á 6 kvæðum, en hafa verið fleiri áður. Er í bókinni brjefpartur frá Snæbirni Pálssyni á Mýrum í Dýrafirði dags. 28. Júní 1708, og segir þar svo:

»... Marsk Stígs kvæði hygg jeg tvö vanti, sem tengdamóðir mín Ástríður segir fyrir sjer glatast hafi. Jeg heyri Jón Ólafsson Indíafari hafi þau öll útlagt. Fornkvæðabókin þykir mjer ekki svo rík af fornkvæðum sem hjörtu og brjóst áttræðra kerlinga hef jeg vitað nær jeg var barn, en þær með þeim fróðleik eru flestar í jörð grafnar nú ...«

Fyrsta kvæði byrjar svo:

Eirekur Glipping áður í öld
átti Danmörk ráða,

sá bar hjálm og skygðan skjöld
til skarpra hreystidáða.
Frúin situr í Sællandi og syrgir sinn vanda.
Alls er kvæðið 70 erindi.

Annað kvæðið byrjar svo:

Marsk Stígur vaknar um miðja nátt
og mælti við frúna blíða:
»Af sjerlegum er mjer draumi dátt,
Drottinn veit hvað hann skal þýða.«
Minn eðallegi ungi herra Marsk Stíg!
Alls 41 erindi.

Þriðja kvæðið byrjar svo:

Þeir dyljast margir Danmörk í
sem drotnar vilja heita,
sumir í Ríbsborg setjast með frí,
sínum klæðum breyta.
Nú stendur landið í voða!
Alls 58 erindi.

Fjórða kvæðið byrjar svo:

Seint er að orka sögn um stað
úr sjálfri historíunni,
þó skal víkja efni að
aftur í fjórða sinni.
Vjer erum drifnir af Danmörk í vanda.
Alls 35 erindi.

Fimta kvæðið »af Marsk Stígs dætrum« byrjar svo:

Þá vísinn deyr, það verður að ske,
vilt munu býurnar fljúga,
hygg eg eins þeim háttað sje
sem harma ber hjer grúa.
Hrekjast verður um heiminn margur víða.
Alls 39 erindi.

Sjötta kvæðið byrjar svo:

Rymur dans um Ríbshúss stræti —
Slotið það er unnið —
fyrir gleðinni riddarar gengu mætir —
Fyrir Eirek, kónginn unga;
með þeim svo voru þeir.

Alls 21 erindi.

Líklega hefur Jón Indíafari snúið kvæðum þessum eftir kvæðasafni Vedels (kom fyrsta sinni út 1591).

Öll þessi kvæði eru kveðin fyrir 1652, dauðaár Ara í Ögri.

Sálminn »Jesú ágætur«, hef jeg ekki getað fundið í neinni af sálmabókum vorum nje Grallaranum, en get þess þó, að jeg hef einungis farið gegn um registrin við þær útgáfur, sem til eru hjer á Konunglega bókasafninu í Khöfn. Jeg þori því ekki að fortaka að hann sje prentaður, en ólíklegt þykir mjer það.

Ritin í óbundnu máli, sem Einar nefnir, eru bæði til. »Grænlands chronica« finnst nú í safni Árna Magnússonar, Nr. 779 c, 4⁰; þrjár fyrstu ritgerðirnar (24 bl., 24 bl. og 30 bl.) þar eru afskriftir af þýðingu Jóns Indíafara. Handritinu er lýst í skrá Dr. Kålunds, II, bls. 200—201. Frumritið er eftir danskan rithöfund, Claus Christoffersen Lyschander, Grønlandske Chronica, Kbh. 1608.

Hitt ritið, aðalrit Jóns Indíafara, er æfisaga hans, sú er hjer er prentuð. Hann samdi hana í elli sinni, árið 1661, að því er handritin segja. Að því er ráða má af formálanum gjörði hann áður aðra tilraun til þess, en lánaði þá bók frá sjer og hún glataðist. Það getur verið að hjer sje átt við kvæði það um ferðir hans, er hann orti fyrir Ara í Ögri, en líklegra finst mjer þó, að hann eigi við æfi- eða ferðasögu í óbundnu máli. Líklega hefur það verið stutt rit og alveg glatast.

Einsog þegar hefur verið drepið á eru ýmsar smávegis villur í æfisögunni, einkum hvað tímatal snertir, og bendir það á að hann hefur samið bókina eingöngu eftir minni, en ekki eftir dagbókum. Hafi hann samið eitthvað þegar hann var í fyrra skifti í Danmörku og á Indlandi, þá hefur

það að líkindum glatast með góssi hans; minsta kosti getur hann um handrit (þýðingar?) úr lækningabók Henrik Smiths, sem hafi verið borin með góssi hans inn í káetuna (bls. 175) þegar hann lemstraðist, og auðvitað glatast, því það sem þangað var komið fjekk hann aldrei aftur. Að vísu er dagbókarsnið á einstaka stað, t. d. bls. 337: »Fóru þann dag, sem var sá 28. Augusti«, o. s. frv., en það mun tilviljun ein.

Þegar þessa er gætt þá er það hrein og bein furða hvað lítið er skakt af því sem hann segir, því víða er hægt að reyna það. Sýnir það hvað hann hefur verið eftirtektasamur og stálminnugur.

Niðurröðun efnisins er sumstaðar nokkuð ábótavant, og leiða af því smávegis endurtekningar. Hann segir t. d. frá því, sem bar fyrir hann á siglingum árið 1616, í kafla, sem hann skýtur inn á eftir atburðum, sem gerast árið 1619; hann mun hafa gert það til þess að hafa í samhengi frásagnirnar um ferðir sínar í norðurhöfum 1616 og 1619. — Hann hefur stundum verið nokkuð auðtrúa, hann trúir t. d. því sem honum hefur verið sagt um ræður páfagauksins (bls. 345), og eins um sjávarorminn (bls. 265), en að því er orminn snertir, þá er enginn vafi á því, að hann hefur sjeð eitthvað, sem hann og aðrir á skipinu hjeldu að væri stór sjávarormur, því allir trúðu þá (og sumir enn) að þesskonar væri til. — Frásögnin er sumstaðar ekki alveg laus við sjálfhól, t. d. bardaginn við höggorminn (bls. 312—15) og sagan um hvernig hann sætti foringjana (bls. 135—136), og á einstöku stað ber á ýkjum, (t. d. frásögnin um herlið Calicuts, bls. 321). En sjálfhólið styður hann með góðum rökum, og að því er ýkjurnar snertir, þá hefur hann líklega ekki tekið eftir þeim sjálfur. Hann dregur engar dulur á breiskleika sína, og margir kaflar bókarinnar bera vott um innilega guðrækni og hjartans auðmýkt. Það sjest líka á öllu að hann hefur verið mesta lipurmenni í umgengni, vel metinn af fjelögum sínum og yfirmönnum, og best af þeim sem bestir voru. Það hefur snemma borið á bóklegum tilhneigingum hjá honum, á leiðinni til Indlands er hann að kenna fjelögum sínum að lesa og skrifa, og þegar hann

kemur aftur til Danmerkur er honum boðin staða sem skólakennari, og síðar á Íslandi hefur hann kennarastarf á hendi samhliða búskapnum, ritstörfum sínum og læknisstörfum.

Þekking íslenskrar alþýðu í almennri landafræði var á þeim dögum lítil, einsog við mátti búast. Til þessa hefur Jón fundið, og vegna þess, og líka til þess að gera bók sína sem fullkomnasta og áreiðanlegasta, hefur hann tekið upp ýmsa kafla úr dönsku fræðiriti, þar sem lýst var löndum þeim, er hann ritar um. Bók sú, er hann hefur notað er Compendium Cosmographiæ, stutt landafræði á dönsku, eftir Hans Nansen, hinn fræga borgarstjóra í Khöfn. Sú bók þótti gott alþýðurit á sinni tíð; af henni eru til útgáfur frá árunum 1633, 1635 og 1646, og er nokkur munur á þeim. — Kaflarnir, sem Jón hefur tekið, eru lýsingarnar á Rússlandi (bls. 113—114, aftur að orðinu »hlýddi« l. 10), Afríku (bls. 243—244), og Indlandi og Asíu (bls. 255—260). Á ýmsu má sjá að hann hefur farið eftir útgáfunni 1646; þannig er í þeirri útgáfu taldir upp þjóðhöfðingar á Indlandi (»Kongen i Pegu . . Den store Mogor«, osfr., sbr. hjer bls. 257), en því er slept í báðum hinum útgáfunum. Ritháttur sumra nafnanna bendir og á sama, og fleiri smáatriði, t. d. að í þeirri útgáfu er af vangá sett komma milli nafnanna Medina og Talnaby, sem í eldri útgáfunum ekki eru aðgreind, þar sem þau í raun rjettri eru eitt, samsett nafn á þessari borg, en komman í útgáfunni 1646 hefir orðið til þess, að Jón Indíafari hefur haldið að Talnaby væri sjerstakt borgarheiti (sbr. bls. 259 og 1. athugas. neðanmáls). — Þessar þýðingar Jóns eru nærri því orðrjettar á köflum, en nokkuð dregnar saman, t. d. þegar borgir eru taldar upp, tilfærir Hans Nansen auðvitað nöfnin, en Jón lætur sjer oft nægja að segja að þar og þar inni sjeu svo og svo margar borgir.

## IV.

Rit Jóns hefur upprunalega endað með afturkomu hans til Íslands og því aðeins verið 2 fyrstu partarnir. Eftir dauða hans hefur þriðja kaflanum verið bætt við. Hann er einkennilegur að ýmsu leyti.

Í yfirskriftinni stendur »samanskrifað eftir fyrirsögn Ólafs Jónssonar, eftir því sem hann frekast minnast kann eftir síns sáluga föðurs frásögn«. — Það lægi næst að ætla að Ólafur Jónsson væri höfundurinn, þó þarf eigi að skilja orðin svo, heldur má taka þau þannig að Ólafur hafi verið aðalheimildarmaður þess sem skrifaði; það er hvergi sagt að það sje samanskrifað af Ólafi, heldur »eftir fyrirsögn« Ólafs. »Fyrirsögn« getur í þessu sambandi þýtt þrent 1) frásögn; 2) það að segja fyrir hvernig og hvað rita skuli (forsögn), og 3) loks má jafnvel nota það um sjálft höfundarstarfið. Jeg held hjer hljóti það að vera notað í fyrstu merkingunni. Það er líka ýmislegt sem bendir á að Ólafur ekki muni vera höfundurinn. Það eru í þessum kafla villur og mótsagnir við söguna sjálfa, sem ólíklegt er að svo kunnugur maður hafi sett, þó það að vísu hafi getað hent að hann hafi mismint eða misskilið eitthvað, sem hann hafði heyrt föður sinn segja frá fyrir löngu.

Hjer er fyrst að geta þess sem sagt er bls. 386 að þeir langömmubræður Jóns Indíafara, Hannes og »Baltazar«, hafi verið á lífi 1625—26 og þá boðið honum til sín. Fyrst er nú nafnið Baltazar rangt, höf. hefur ruglast í nöfnunum á þremur Austurlandaspekingunum, maðurinn er í sögunni nefndur Melchior, — og í öðru lagi er ólíklegt að þeir hafi þá verið á lífi eða vitað nokkuð um Jón (sbr. athugas. við bls. 386). Jeg þori ekki að neita því, að þessi sögn geti stafað af misskilningi Ólafs, en auðvitað getur hún líka stafað af misskilningi þess, sem skrifaði eftir Ólafi. — Þá segir á bls. 387 að Jón hafi komið út til Íslands með Holger Rosenkranz í Seilunni á Bessastöðum. Þetta er í beinni mótsögn við orð Jóns sjálfs, sem í 33. kap. 2. kafla (bls. 384) segist hafa komið út á Skutulsfjarðareyri. Að Ólafur hafi skrifað þetta er mjög ólíklegt. — Þá kemur villan um jarðirnar, sem Jóni voru veittar (bls. 389 og ath.), náttúrlega gat Ólafi orðið á að setja þesskonar smávillu, það getur verið af vanþekking manns, sem var ókunnugur á Norðurlandi, eða þá bláber skrifvilla. — En vafalaust verður að álíta að Ólafur hafi þekkt faðerni fyrri konu föður síns,

Ingibjargar, dóttur Síra Ólafs Sveinssonar á Stað í Súgandafirði. Hjer kemur það til greina, að elsta handritið af sögunni B (sjá hjer síðar), sem öll hin hdr., er hafa 3 þáttinn, hafa sótt hann til, beinlínis eða óbeinlínis, hefur eyðu fyrir föðurnafni Síra Ólafs á öðrum staðnum, er það kemur fyrir (bls. 399, sbr. orðamuninn við þann stað), en sú eyða hefur svo verið útfylt með nafninu »Jónssonar«, sem er bersýnilega rangt, einsog bent er á í 1. athugasemdinni við bls. 390. Höfundurinn hefur því ekki munað nafnið, en það er afarólíklegt að slíkt hafi hent Ólaf, eða rjettara sagt, það tekur öll tvímæli af, svo það má telja víst að hann er ekki höfundurinn.

En hver er hann þá? Höfundurinn er, að mínu áliti, Magnús Magnússon, sýslumaður í vesturhluta Ísafjarðarsýslu 1652—81, fróður og merkur maður. Um æfi hans og rit hefur verið skrifað allítarlega af öðrum, og vísa jeg í ath. 1 við bls. 404 í það helsta af því. Það sem mjer finst benda á að hann sje höfundurinn er einkum það sem hjer skal greina.

1. Handritið B er að aftan skrifað af Magnúsi. Hönd hans er vel kunnug og á því er enginn vafi. Allur þriðji kaflinn er með hans hendi. Nú má sanna að öll þau handrit, sem hafa þriðja kaflann, stafa beinlínis eða óbeinlínis frá þessu handriti. Það sýnir orðamunurinn (sjá hjer síðar) og ýmislegt fleira. — Þriðji parturinn er skrifaður í flýti í þessu handriti, við og við er af vangá slept orðum, sem þyrfti meiningar vegna; þegar nú hin hdr. fylla upp í skörðin gera þau það oftast sitt á hvern hátt, og sýna þannig að orðið hefur vantað í frumritið. Sumstaðar eru, einsog dæmi hefur verið fært til, eyður fyrir nöfnum, og hefur Magnús sjálfsagt ætlað að fylla þær út síðar er hann frjetti nánar um þau; þessar eyður eru vanal. skakt útfyltar í afskriftunum.

2. Þar sem sagt er frá því, að Jón fjekk Eyrardal til ábúðar afgjaldslaust (bls. 404—405) er tilfært brjef frá Thómasi Nikulássyni fógeta á Bessastöðum til Magnúsar Magnússonar og skýrt svo óþarflega ítarlega frá innihaldinu, að

jeg á bágt með að skilja í að nokkur maður hafi farið að segja frá því á þann veg, nema Magnús sjálfur, enda snerti málið hann líka, þar sem hann ljet jörðina af hendi við Jón.

3. Í sömu átt bendir enn, þó lítið sje, athugasemdin um starf Jóns sem hreppstjóri (bls. 406); það er æðri valdsmaðurinn sem hjer lýsir velþóknun á starfi hins óæðra. Vitaskuld þarf ekki sýslumann til að skrifa slíkt, en sje litið á þessa athugasemd með aðalsönnununum, finnst mjer hún styðja þær.

Jeg álít það fullsannað að Magnús sýslumaður sje höfundur síðasta partsins. Við megum vera honum þakklátir fyrir verkið, því þar er margt fróðlegt, t. d. kaflinn um bardagann fyrir Látrabjargi og afleiðingar hans, líka alt það er lýtur að Tyrkjaráninu, og kafli þessi er aðaluppspretta þekkingar okkar á æfi Jóns Indíafara eftir að hann kom úr siglingum. En Magnúsi sýslumanni hafa hjer verið mislagðar hendur, því yfirleitt er þessi kafli ekki vel saminn. 1 og 2 persónu er blandað saman í fyrstu köflunum. Það gæti stafað af því, að hann á þeim parti hefði stuðst við eitthvað skriflegt frá Ólafi, þar sem Jón var látinn tala, en þó er það ólíklegt. Hinsvegar má telja víst að Ólafur hefur verið heimildarmaður hans í ýmislegu, einsog ráða má af fyrirsögninni, og hjá Ólafi hefur hann líkl. fengið (máske til láns með frumhandritinu af sögunni) vottorð Níels Clemenssonar, sem hann afskrifar aftan við bókina (sjá hjer í viðaukunum). — Svo er, einsog áður er getið um, sleppt orðum og nöfnum sumstaðar, það er fljótaskriftarsnið á því öllu, og líklega hefur Magnús sýslumaður ætlað sjer að bæta það síðar en ekkert orðið úr. En mesti gallinn er þó, að ekkert er sagt frá ritstörfum Jóns og lítið sem ekkert af því, sem á dagana dreif fyrir hann eftir að hann giftist í síðara sinni. Um það hefði Ólafur getað skrifað margt. Magnús ljet það ógjört.

## V.

Handritin að sögunni skiftast í tvo aðalflokka. Kalla jeg hjer hinn fyrri A-flokkinn. Til hans teljast:

1. Handritið 2076, 4⁰ í Ny kongelig Samling í Konunglega bókasafninu í Khöfn. Það er 460 bls. og blaðsíðustærðin 19,3×16 cm. Lýst í skrá Dr. Kålunds, bls. 289 (Nr. 908). Á titilblaðinu stendur að bókin sje: »Enn nú ä ný med flyte vppskrifud ad Augre vid Issafjardardjúp Anno 1729. I Decembri manude fyrer Iol«. — Jeg hef því kallað þetta hdr. Ögursbók. Sem saurblað er að framan notað danskt blaðrifrildi frá 1761 og standa á því orðin »e libris Magni Titi«; sem saurblað að aftan er notað brjefrifrildi og skrifað utan á til Guðm. Eiríkssonar lögrjettumanns í Reykjarfirði. Með annari hendi eru þar líka orðin »prófasturinn herra Magnús Teitsson«. Á þessu má sjá að bókin hefur verið eign Síra Magnúsar Teitssonar, prests í Vatnsfirði 1741—1779 og prófasts í norðurhluta Ísafjarðarsýslu. — Frá honum er bókin komin í eign hins ágæta danska sagnaritara og bókavinar Suhm's († 1798), var hún í safni hans nr. 421, 4⁰, og komst með öðrum bókum hans og handritum á Konunglega bókasafnið.

Skriftin er greinileg fljótaskrift. Í þessu handriti finnst formáli höfundarins og dönsku brjefin í lok annars kafla standa hjer á sínum stað í textanum, án íslenskrar þýðingar. Bókin endar á fullmaktinni til Söfrens Villatssonar; síðasta bls. hálf auð.

2. Handrit í Landsbókasafninu í Reykjavík, nr. 212, 4⁰; 167 blöð; blaðsíðustærð 20×15,5 cm. Fljótaskrift frá fyrri hluta 19. aldar. Það endar í 13. kap. annars parts á orðunum »2. Gára, 3. Marasia, 4. Catagan, 5. Satigan«, og hefur frá upphafi ekki verið lengra, því á eftir fara óskrifuð blöð, en hinn ágæti bókavinur Páll amtsskrifari Pálsson hefur bundið inn handritið og bætt við niðurlagi 13. kap. með sinni hendi. Handrit þetta er náskylt Ögursbók, og má ráða af samanburði þeirra að það er af henni komið, líklega

þó ekki bein afskrift, heldur eftir afskrift af henni, tekinni áður en hún komst til Suhms. Má ráða þetta af ýmsum smávillum, sem eru einkennilegar fyrir bæði þessi handrit, t d. bls. $97^{28}$ Sníðingahjeraði, $157^{28}$ að taka, $197^{19-20}$ Stop, o. s. frv. Sbr. orðamuninn. Þar sem Ögursbók er til, er þetta hdr. því þýðingarlaust og hefur ekki verið notað við útgáfuna.

3. Handrit í Árnasafni nr. 959, 4°. 200 blöð; blaðsíðustærð 20,3 × 16,8 cm. Hjer í útgáfunni nefnt *E*. Það er ritað á fyrri hluta 19. aldar með fallegri snarhönd. Árnasafn fjekk það 1883 hjá Konungl. norræna Fornfræðafjelaginu. Víða er frásögnin talsvert stytt, og sleppt úr einstökum köflum. Í þessu handriti er formáli höfundarins, og dönsku brjefin í lok annars kafla standa hjer á sínum stað í textanum án íslenskrar þýðingar. Textinn nær aftur að fullmaktinni til Söfrens Villatssonar í lok 2. kafla, og standa fyrir neðan orðin »Sagan er á enda«.

Þetta handrit er mjög líkt Ögursbók, (þegar ekki er litið á það, að einstaka köflum er sleppt), en er þó ekki afskrift af henni, beinlínis eða óbeinlínis. Af lesháttum, sem eru einkennilegir fyrir bæði þessi handrit hef jeg í orðamuninum tilfært ýmsa, og get hjer nefnt t. d. bls. $54^{28}$ fyrst, sem bæði sleppa, $57^{4}$ segir, sem bæði sleppa, $59^{4}$ bað, þar sem BCD hafa »bið«, $64^{15}$ Martein Jacobsson, þar sem BDC hafa »M. Jacob«. o. s. frv. En að það ekki er afskrift af Ögursbók er þó bersýnilegt á því, að það hefur sumstaðar sama ritháttt og hin hdr., og tekur með ýmislegt smávegis, sem ritari Ögursbókar hefur hlaupið yfir af vangá, t. d. bls. $67^{31}$ hnálega, $332^{6}$ af landsmönnum, sem vantar í Ögursbók, en E og hin hdr. hafa. Það er því augljóst að til grundvallar fyrir Ögursbók og E liggur sama afskriftin af frumriti Jóns Indíafara.

4. Handrit í Landsbókasafninu í Reykjavík nr. 723, 4°, áður í safni Síra Eggerts Bríms (Nr. 66, 4°), og komst á Lbs. með safni hans 8. Maí 1893. Alls nú 171 bl.; blaðsíðustærð 19,2×15,2 cm. Hjer í útgáfunni nefnt *D*. Handrit þetta hafa ýmsir skrifað, 1. höndin er á bl. 1, þá vantar

5—6 bl, hjer í útg. frá bls. 7[5]: hans 2, til bls. 19[4]: og mjótt inn-; svo kemur 2. hönd bl. 2—9 og 3. hönd bl. 10—13r, sem á þeim kafla er uppfrískuð af 4. höndinni (?); þriðja höndin heldur áfram bl. 13v—21v, (kafli ofantil bl. 19r uppfrískað af fjórðu höndinni); þá kemur fjórða höndin bl. 22r—43r, þá aftur þriðja höndin 43v—69v, þá fimta hönd 70r—133v, þá aftur þriðja höndin 134r—171. Eyður eru á bl. 22r—v, hjer í útg. bls. 73[17]: leyfi til, til bls. 75[18]: því skeðu, bl. 39r—v, hjer í útg. bls. 108[17]: nálægast höfninni, til bls. 110[20] gjörð sinni, og bl. 146r—v, hjer í útg. bls. 324[14] í það sinn, til bls. 325[37] Á næsta degi. Hendur þessar eru laglegar fljótaskriftarhendur. Aftan á bókinni stendur »S. Sölvason« og er það líklega hinn nafnkunni lögmaður († 1782), sem einu sinni hefur verið eigandi bókarinnar. Innan í henni, neðantil á spássíu á bl. 22r stendur Sr. (?) Árna Illugasyni, og er óvíst hver það er — máske Síra Árni á Hofi á Skagaströnd († 1825). Bókin endar á útdrætti á íslensku á fullmaktarbrjefinu til Söfrens, en í textanum er á sínum stað brjef Kristjáns (V.) prins á dönsku án íslenskrar þýðingar. Útdrátturinn úr brjefinu til Söfrens, með tilvísunarmerkjum, ber þess vott, ásamt brjefi prinsins, að í bók þeirri, sem D er ritað eftir hafa dönsku brjefin öll staðið á sínum stað í textanum án íslenskrar þýðingar. — D er ágætt handrit, í lesháttum svipar því ýmist til Ögursbókar eða B, en frá hvorugu þeirra er það runnið. Það er að öllum líkindum bein afskrift af frumriti Jóns Indíafara.

6. Handrit í safni Kalls, nr. 616, 4⁰ í Konunglega bókasafninu í Khöfn. 158 bl., blaðsíðustærð 20×15,9 cm. Frá 18. öld. Lýst nákvæmlega í skrá Dr. Kålunds (nr. 1238, bls. 385). — Á þessari bók eru margar sögur, og er »Reisusaga« Jóns þar bl. 13—32. Dönsku brjefin eru hjer öll á sínum stað í textanum, og sagan endar á fullmaktinni til Söfrens. Frásögnin er hjer víðast dregin mjög saman, svo handrit þetta getur ekki komið að verulegum notum við orðrjetta útgáfu. Fyrir aftan fullmaktarbrjefið er bætt við fáeinum línum um síðari æfi Jóns, sem getið er um hjer að framan.

Þá er hinn handritaflokkurinn, sem eftir aðalhandritinu má kalla B-flokkinn; til hans heyra:

7. Handrit Bókmentafjelagsins nr. 92, 4°, hjer nefnt *B*, nú í Landsbókasafninu í Rvík. Blaðsíðustærð (heil blöð) 17×14,2 cm. Alls er það hdr. 237 blöð í afarslæmu standi, alt í blöðum, og nærri því hvert blað fúið á röndum. — Handriti þessu er lýst í Skýrslu um handritasafn hins Ísl. Bókmentafjelags I, bls. 44. Á fyrstu þremur blaðsíðunum er sjerstök hönd; þá kemur hönd sem mjer sýnist vera sama höndin (eða mjög lík) sem er á nr. 2 í handritinu 779 c, 4° í Árnasafni, þýðingu Jóns á Grænlandskroniku Lyschanders, en það er hönd Steindórs Ormssonar, og er hún vel kunn annarsstaðar frá; nær sú hönd út bl. 101, til loka 1. partsins. Byrjunin á 2. partinum, bl. 102—150 er með hendi Magnúsar sýslumanns Magnússonar; þá kemur bl. 151—209 aftur með hönd Steindórs, en endirinn bl. 210 til loka bókarinnar er með hendi Magnúsar. Allar eru hendur þessar greinilegar, en engin eiginlega falleg; bönd eru lítil. Magnús sýslumaður dó 1704, svo hdr. er skrifað fyr, og líkl. ekki mjög löngu eftir dauða Jóns (1679). Sagan sjálf nær hjer aftur á bls 218$^{r}$. Þriðji kaflinn byrjar á bl. 218$^{v}$ og endar neðst á bl. 232$^{r}$. Þá kemur bl. 232$^{v}$ sem fylgiskjal danski textinn af brjefi Kristjáns prins og fullmaktarbrjefi Jóns Ólafssonar, og svo 233$^{v}$ vitnisburður Níels Clemenssonar. Þá loks registur bl. 234—237. Formáli er enginn við bókina og hans er ekki getið í registrinu. Þó má ekki álykta af því að hann ekki hafi verið, því registrið er ónákvæmt, telur t. d. ekki heldur öll seinustu fylgiskjölin. Það er einmitt líklegt að inngangsbrjefið hafi verið einhverntímann í þessari bók, því eitt af handritunum, sem af henni er komið, Ny kgl. Sml. 2076 b, 4° hefur það. En hinsvegar er inngangsbrjefinu eðlilega oft slept í afskriftum. — Í bókina vantar eitt blað, milli bl. 38—39 frá orðunum á bls. 74$^{9}$ »af kónglegri skikkan« aftur að orðinu á bls. 75$^{28}$ »köngi«. Í hdr. liggur brjef frá Jónasi Jónssyni í Sigluvík til Síra Jóns Ingjaldssonar í Húsavík, sem útvegaði það hjá Jónasi handa Bókmentafjelaginu. Segir Jónas í því brjefi,

að handrit þetta hafi þeir átt faðir sinn Jón Þórarinsson í Sigluvík, faðir hans Síra Þórarinn Sigfússon á Tjörn í Svarfaðardal, og faðir hans Síra Sigfús Sigurðsson á Felli í Sljettuhlíð á seinni hluta 18. aldar. Verður ekki rakin saga handritsins frá því það fór úr eign Magnúsar sýslumanns til þess það komst í eign Síra Sigfúsar. — Blað af skrifuðu sálmakveri hefur verið notað til innlags í bindið að framan, en að aftan brjefrifrildi frá Jóni sýslumanni Jakobssyni á Espihóli til Síra Þórarins Sigfússonar, (sem þá var pr. á Hvanneyri í Siglufirði), dags. 14 Júní 1797, standa á því ýms nöfn, sem óþarfi er hjer frá að greina.

Handrit þetta er elsta handritið af sögunni, svo kunnugt sje.

Einkenni þessa handrits þegar það er borið saman við A-flokkinn eru: 1. Það sleppir ýmsum setningum (sjá orðamuninn) einkum guðrækilegum hugleiðingum, og styttir nokkuð aðrar setningar. 2. Það hefur brjefin inni í textanum í íslenskri þýðingu, en dönsku frumbrjefin sem fylgiskjöl aftan við. 3. Það hefur þriðja part sögunnar, og er einsog sýnt er fram á hjer að undan, frumrit á þeim kafla. 4. Auk þess sem nú er talið hefur þetta hdr. ýmsa einkennilega leshætti, svo sem bls. $8^{24}$ »Marteinsmessu«, þar sem A-fl. hefur »Andrjesarmessu« ofl. (sjá orðamuninn)

Frá þessu handriti eru komin ýms önnur, og skal jeg hjer lýsa stuttlega þeim sem jeg hef skoðað.

8. Handrit í Ny kgl. Samling Nr. 2076 b í Konunglega bókasafninu í Kaupmannahöfn. — 377 bls., blaðsíðustærð 19,6×16,1 cm. Það er með fallegri settletursliendi frá síðari hluta 18. aldar (ca. 1780—1800 á að giska); fyrstu 16 og seinustu 7 blaðsíðurnar (bls. 378 óskrifuð) eru með annari hendi frá byrjun 19. aldar. Handritið var áður í eign próf. Byrgis Thorlacius og á bókauppboði hans að honum látnum keypti safnið það árið 1830. — Hjer er inngangsbrjef Jóns, sem einsog áður er getið vantar í B, en hefur líkl. verið þar meðan það hdr. var heilt. — Þó er það ekki líka alveg ómögulegt að sá sem skrifaði upp aftur

fyrstu 16 bls. hafi skrifað þær eftir handriti af A-fl., og á þann hátt fengið inngangsbrjefið með.

9. Handrit Landsbókasafnsins í Reykjavík nr. 1183, 4°, áður nr. 17 í safni Dr. Jóns Þorkelssonar landskjalavarðar, er hann seldi Landsbókasafninu 5. Febr. 1904. 328 bls., blaðsíðustærð 18,5×14,4 cm. Bls. 1—2 og 327—28 nýlegri, frá því um miðja 19. öld eða nokkru síðar, en aðalhluti bókarinnar virðist vera skrifaður með sömu hönd og hdr. næst hjer á undan (nr. 8); aftan við bókina stendur »þann 23. Febr. 1795« og mun það tákna, að þá var lokið að skrifa hana. — Dr. Jón fjekk bók þessa hjá tónskáldinu Síra Bjarna Þorsteinssyni (nú presti á Siglufirði) á stúdentsárum hans, en hann hafði fengið hana hjá Símoni Sigurðssyni á Kvígstöðum. Eru nöfn Símonar og Þórdísar Símonardóttur á bókinni.

Nr. 8 og nr. 9 eru mjög lík, og orðamunur enginn verulegur. Einkennilegt er það, að þessi tvö hdr. umsteypa þriðja partinum mjög í orðfæri, til að fá betra mál á hann, og bæta inn í aukaklausum. Dönsku fylgiskjölunum er alveg slept, en íslensku þýðingunum haldið í textanum. Nr. 9 hefur ekki inngangsskjalið, hvort sem það nú hefur vantað frá upphafi, eða verið sleppt þegar byrjunin var skrifuð um á 19. öld.

10. Handrit Landsbókasafnsins nr. 668, 4°. Áður nr. 10 í safni Síra Eggerts Bríms, og keypt með hans safni. 460 bls., blaðsíðustærð 20,5×16 cm. Í bókinni stendur að hún sje rituð 1. Jan til 27. Mars 1853 af Þorsteini Þorsteinssyni í Bæ. Höndin er greinileg en ekki falleg. Fyrst er bls. 1—68 »Reisubók Friðriks Bollins«, þá æfisaga Jóns Ólafssonar bls. 69—458, með íslensku þýðingunum í textanum; dönsku fylgiskjölunum er sleppt, nema vitnisburði Níelsar Clemenssonar sem er þar á bls. 459. Loks eru nokkrar vísur til heiðurs Jóni Indíafara »úr vísum, sem framan til við bókina voru, sem þessi er eftir skrifuð«. — Bókin, sem þetta hrd. er gert eftir, hefur verið góð afskrift af B.

11. Hdr. Landsbókasafnsins, áður í safni Bókmenta-

fjelagsins, nr. 147, 4⁰. Ritað á 18. öld. Nú 95 blöð, en vantar nokkur. Blaðsíðustærð 20,3×16,5 cm. Áður í eign Þorl. O. Johnsons kaupmanns. Handriti þessu er lýst nákvæmlega í Skýrslu um hdr. safn. hins Ísl. Bókmfj. I, bls. 66, og vísa jeg þangað. Frásögnin er víðast mjög stytt, og hefur þetta hdr. enga þýðingu fyrir orðrjetta útgáfu; jeg hef því ekki notað það.

Jeg bar hdr. 8—11 saman við B, á mörgum stöðum, og kom það fram að enginn vafi var á að þau væru þaðan runnin. En þegar það var ljóst sá jeg líka að þau aðeins höfðu þýðingu á þeim stöðum sem B var skaddað eða vantaði í það. Jeg hef því aðeins notað nr. 8—10 þegar svo hefur á staðið.

Einkenni A-flokksins og einkenni B-flokksins sum koma bæði fram í tveimur merkilegum handritum, sem nú skal lýst.

12. Handrit Landsbókasafnsins 405, 4⁰; hjer nefnt *C*. 218 blöð, blaðsíðustærð 19,9×14,7 cm. Prýðilega skrifað með greinilegri settletursbönd, nema hvað titilblaðið og þrjú síðustu blöðin eru með nýlegari hendi. — Á titilbl. stendur »skrifað á ný á [!] Svefneyjum á Breiðafirði Anno 1758 af Pjetri Jónssyni«. Handrit Pjeturs endar neðst á bls. í 6. k. 3 parts á orðunum »Vigur, og fór út eftir Álfta—« Titilblaðið er sjálfsagt afskrift af gamla titilblaðinu, og seinustu blöðunum og því hefur verið bætt við síðar, líklega um leið og bókin hefur verið bundin upp. Brjefrifrildi til Síra Ólafs Sívertsens í Flatey hefur verið notað sem saurblað; síðan fjekk Ólafur Guðmundsson hjeraðslæknir á Stórólfshvoli bókina eftir afa sinn og gaf hana árið 1885 þáverandi stud. theol. Birni Jónssyni, nú presti á Miklabæ í Blönduhlíð í Skagafirði, en hann gaf Landsbókasafninu. — Hjer eru brjefin í textanum á íslensku og þriðji partur sögunnar með, og væri það í sjálfu sjer nóg til að sýna að bókin er komin af B, en auk þess styrkist sú skoðan við orðamuninn, sem mjög oft er líkur B. — En aftur á móti er þess að gæta að hjer er líka formáli

höfundarins, sem nú vantar í B, og ennfremur er haldið hinum andlegu hugleiðingum og ýmsu öðru smávegis sem B fellir úr. Þetta bendir á að til grundvallar hafa legið tvö handrit, annað af A-flokknum, hitt af B-flokknum. — Held jeg A-flokkshandritið hafi verið notað mest, þangað til það þraut, en úr því B-flokkshandritið eingöngu. Einkennilegir fyrir þetta handrit og hið næsta eru ýmsir smákaflar, er hin handritin sleppa, báðir flokkar, t. d. athugasemdin um Konráð Íslending á bls. 12 að hann hafi verið »síðasti kaupmaður Hamborgara hjer í höfnum«; ennfremur kaflinn um jarlinn af Cork, sem prentaður er neðanmáls bls 371, og er alt öðru vísi sagt þar frá en í hinum handritunum. Það er varla nema um tvent að gera, annaðhvort eru þessir viðaukar frá Jóni Indíafara, síðari leiðrjettingar hans, máske á lausum blöðum lögðum inn í handritið og hafa því verið týndar úr þegar t. d. D og frumritið af Ö og E voru skrifuð, — eða þá einhver annar fróður maður hefur bætt þessu við, kaflann um jarlinn af Cork hefur hann máske smíðað í eyðu, sem kann að hafa verið í bókinni, sem hann skrifaði eftir. Líklegri þykir mjer síðari tilgátan. — Annars ber C það með sjer að það er leiðrjett handrit, setningunum víða snúið við til að fá betra mál á þær, óljósum stöðum slept eða þeir umskrifaðir svo þeir skiljist betur, osfr.

13. Náskylt C er handrit Landsbókasafnsins nr. 617. 4⁰; það er skrifað með ljómandi fallegri hendi og er á að sjá hjerumbil frá sama tíma og C, líklega lítið eitt yngra. Það er alls 338 bls. og blaðsíðustærðin $20{,}3 \times 15{,}5$ cm. Landsbókasafnið keypti það 2. Jan. 1892 af Pjetri Eggerz og mun það áður hafa verið í eign föður hans Síra Friðriks Eggerz. Framan á titilblaðinu stendur »Brynjólfur Bjarnason á bókina«. Á síðasta saurblaði: »Vigfús Sigarsson(?) á bókina«. Þessi tvö hdr., C og 617, eru svo lík, að jeg held helst 617 sje afskrift af C; orðamunur mjög ómerkilegur og víðast hvar eru handritin alveg eins, sleppa sömu setningunum, hafa sömu einkennilegu viðaukana, sömu umskriftirnar osfr. — Eitt er þó ólíkt, og gæti bent á að 617 ekki væri runnið

frá C heldur frá sameiginlegu frumhandriti, en það eru myndirnar, sem í C vanalega eru einsog teiknaðar með reglustriku, en eðlilegri í 617 (t. d. myndin af gálganum bls. 106). Jeg þori því ekki að neita að þau geti verið það, en líklegra finst mjer þó hitt, að 617 sje komið af C, minsta kosti hvað textann snertir, þó skrifarinn máske hafi teiknað sumar myndirnar, út í spássíunni eftir öðru handriti, af því honum þóttu þær óeðlilegar í C. En aftur á móti held jeg það sje áreiðanlegt að C er ekki skrifað upp eftir 617, bæði eru ýmsir rithættir sem eru á sinn veg hjá hvoru þeirra, líkari eldri hdr. í C, og ennfremur má sjá það á myndinni á veifunni (bls. 274), sem er mjög einkennileg og lík í báðum handritunum, nema hvað myndin í C er með skafti (einsog myndin í D, sem er prentuð í textanum) en myndin í 617 er skaftlaus; ef nú einhver hefði teiknað eftir 617 þá hefði hann varla fundið upp á því að bæta svo einkennilegu atriði við myndina; má því telja víst að C er ekki ritað eftir 617. — Annar mismunur á þessum hdr. er líka sá, að í 617 er vitnisburður Níels Clemenssonar, þýddur á íslensku, fyrir aftan bókina, en hann hefur vafalaust líka verið í C, þegar sú bók var heil.

14. Að lokum skal hjer nefnt handrit áður í safni Bókmentafjelagsins 78, 8⁰. Það er brot, 10 blöð, 15,5×9,5 cm. bls.-stærð. — Það er útdráttur úr 2. og 3. parti sögunnar, hefur hann verið skrifaður eftir öðrum eins, að því er segir í enda kversins, en sá útdráttur hefur líklega ekki verið gerður eftir neinu handriti, heldur hefur einhver skrifað aðalinntakið úr sögunni eftir minni að jeg held. — Handritsbrot þetta hefur enga þýðingu fyrir textann í æfisögunni, að því jeg fæ sjeð.

Auk þessara handrita hef jeg frjett af þeim, sem hjer skal greina, en ýmsra ástæðna vegna hef jeg ekki sjeð mjer fært að nota þau fáu af þeim, sem jeg hef frjett til hvar niður eru komin, enda engin brýn þörf á því, þar sem jeg hafði svo mörg góð handrit sjálfur undir höndum.

Á lausum miða sem lagður er inn í B, sem Daði Níelsson fróði hefur skrifað, kemst hann svo að orði: »Af sögu

Jóns Indíafara hefi jeg sjeð: 1) Exemplar skrifað af Síra Sæmundi sál. Þorsteinssyni í Garpsdal, það átti merkur bóndi Bjarni Oddson frændi minn 1825, 4°. 2) Exemplar skrifað með fallegri settletursliönd af þeim nafnfræga bókaritara Pjetri Jónssyni, bónda í Svefneyjum á Breiðafirði og víðar þar í eyjunum fram á seinni hluta 18. aldar, það átti Síra Tómas Sigurðsson, síðast prestur að Holti í Önundarfirði, 4°. 3) Bók með mörgum ferðasögum, og seinast sögu Jóns Indíafara, fyrstu blöðin af henni hafði skrifað Síra Hjalti sál. Jónsson á Stað í Steingrímsfirði, síðan alla söguna til enda Síra Guðmundur sál. Bjarnason (hinn síðari) að Árnesi, ágæta vel. Hana átti, þá eg síðast vissi, Guðbrandur bóndi Hjálmarsson á Valshamri í Geiradal vestur, hún var í arkarbroti. 4) Eina á Síra Benedikt próf. á Hólum, 4° með gamalli hönd.« Sig. Jónasson, sem líka prentar þessa athugasemd Daða í Skýrslu um hdr. s. h. Ísl. Bókm. (I), bls. 44—45, bætir við. »Auk þessa eru til, sem vjer vitum til, þrjár afskriftir af sögu þessari, eina á hin stóra Konungl. Bókhlaða í Kmh., aðra Fornfræðafjelagið og þriðju Skúli Thorlacius, registrator við skjalasöfn stjórnarinnar.« — Líkl. er nr. 2 hjá Daða = C; nr. 1 hjá Sigurði er Ögursbók, en nr. 2 = E.

Í brjefi til mín dags. 1. Júní þ. á. segir próf. B. M. Ólsen mjer frá, að í safni Jóns Sigurðssonar í Lbs. finnist í nr. 29 fol. afskrift af sögu Jóns Indíafara ásamt fleiri ferðasögum, útlendum, þýddum á íslensku. Skráin segir að sú bók sje »með hendi Síra Hjálmars Þorsteinssonar (?)« Hann dó 1819 (Sv. N. Prt)

Dr. Jón Þorkelsson, landsskjalavörður í Rvík, hefur sagt mjer frá tveimur öðrum handritum, einu í eign Hr. Ólafs Eyjólfssonar, skólastjóra í Rvík; það er ritað á Látrum í Breiðafirði; öðru í eign Hr. Einars Jónassonar, málafærslumanns í Rvík.

Þá hefur Frú Bríet Bjarnhjeðinsdóttir sagt mjer frá handriti af sögunni, er maður hennar sálugi, Valdimar ritstjóri Ásmundsson átti, en nú er glatað. Hefur hann lík-

lega notað það handrit við útdrátt þann úr sögunni, er hann gerði í Fjallkonunni, en þó er það óvíst.

Handritin má nú setja upp í töflu til að sýna skyldleika þeirra; tákna x, y og z handrit, sem víst er að hafa verið til, en menn nú ekki vita hvar eru.

Frumrit Jóns Indíafara (týnt)

x — D — y — B

x: Ö, E; Ö: 212

B: $z^1$ 2076 b*) + 17 $z^2$ $z^3$; $z^2$: 147; $z^3$: 668

y, $z^1$: C; C: 617

A-flokkurinn. B-flokkurinn.

Þegar nú gætt er að aðaleinkennum flokkanna ber mest á tveimur, 1) að brjefin í A-flokknum eru á dönsku í textanum, en í B-flokknum þýdd á íslensku, og 2) að B-fl. hefur 3 partinn, sem vantar í A-flokkinn. Má ganga að því vísu, að B-flokkurinn er hjer ekki eins upprunalegur, og að brjefin í frumritinu hafa verið á dönsku óþýdd, því það er alveg ótrúlegt að nokkur hafi farið að þýða þau á dönsku aftur og setja þau inn í textann, ef hann hefði sjeð þau í honum fyrir sjer á íslensku.

B hefur líklega verið skrifað eftir sjálfu frumriti Jóns meðan það var heilt; virðist Magnús sýslumaður hafa fengið það til láns ásamt fleiri skjölum um Jón. Hefur það handrit því líka seinasta blaðið, sem verið hefur í frumritinu, kaflann í lok annars parts, frá því er fullmaktarbrjefið endar. Það blað hefur týnst aftan af frumritinu, og því enda öll þau handrit A-flokksins sem lengst ná, á fullmaktarbrjefinu. Magnúsi sýslumanni hefur þótt óviðkunnanlegt að sjá skjöl á dönsku inni í íslenskum sögutexta, hann hefur því þýtt þau á íslensku en til fróðleiks sett dönsku frumbrjefin aftan við bókina.

*) Inngangsbrjefið þó ef til vill eftir hdr. af A-flokknum.

Starf útgefandans er nú fólgið í því, að reyna að láta textann verða eins líkann orðalagi frumritsins og hægt er, og er það mikill vandi, þar sem handritunum ber mjög á milli. Þó eru miklar líkur til þess að það sje rjett, sem stendur samhljóða í aðalhandritum beggja flokka. Jeg hef aðallega lagt til grundvallar handritin Ö, D og B. Þar sem Ö og B hafa verið samhljóða hef jeg látið það vanalega standa, hafi þau greint á hef jeg oftast látið D skera úr; þó hef jeg líka tekið einstöku leshætti úr C og E, þar sem ætla mátti að ritháttur hinna aðalhandritanna væri rangur. Hin handritin hef jeg vanalega aðeins notað í eyðum höfuðhandritanna. Þriðja partinn hef jeg auðvitað gefið út eingöngu eftir B, en þar sem það hdr. hefur verið aflagað eða vantað í það hef jeg stuðst við afskriftirnar, sem af því eru komnar. Dönsku brjefin hef jeg gefið út stafrjett. Á fáeinum stöðum hef jeg tekið getgátur frá sjálfum mjer upp í meginmálið, þar sem öll hdr. voru meir eða minna úr lagi færð. Jeg hefi gert grein fyrir tilgátum mínum í orðamuninum aftan við bókina. — Helst hefði jeg viljað prenta allan orðamuninn, en sá það mundi verða alt of kostnaðarsamt, hann hefði einn orðið líkl. einar 2—4 arkir að minsta kosti. Jeg hef því látið mjer nægja að taka aðalatriðin úr honum, og vona jeg að það sje nóg til að rökstyðja það sem jeg hef sagt um afstöðu aðalhandritanna hvers til annars; einkum hef jeg auðvitað tilfært þá staði, þar sem verulegur vafi gat leikið á hver rithattur væri upprunalegri.

Rjettritun handritanna hef jeg ekki haldið, nema hvað eiginnöfn og útlend orð hef jeg látið halda sjer oftast nær einsog þau voru í höfuðhandritunum, og þá farið aðallega eftir B. Þar sem eiginhandrit Jóns er glatað, er lítil ástæða til að gefa út afskriftirnar stafrjettar, þær mundu sýna rjettritun annara manna og tíma. Að vísu má telja það ókost á útgáfunni að leggja ekki elsta handritið (B) til grundvallar og gefa það stafrjett út, því þá fyrst yrði útgáfan með þeirri vísindalegu nákvæmni, sem heimtuð er, ef á að nota hana til að rannsaka sögu orðmynda. En margt aftraði

mjer frá þessu, fyrst og fremst ásigkomulag B-hdr., sem er svo víða máð og rotið, að ekki verður ráðið úr því nema með aðstoð hinna handritanna, auk þess er textinn, einsog tekið hefur verið fram, svo styttur og breyttur í því víða, að Ö og D gefa líklega betri hugmynd um frumritið þegar öllu er á botninn hvolft. Auk þess hefði þá þurft að leysa úr böndum og prenta slíkt með breyttu letri, og prenta allan orðamun — þetta alt hefði orðið svo mikið verk og kostnaðarsamt, að hvorki sá jeg mjer fært tímans vegna nje fjelaginu peninganna vegna að leggja út í þesskonar útgáfu. Jeg kaus því heldur að reyna að búa til nokkurnveginn áreiðanlega útgáfu að því er innihaldið snerti, og láta hana að því leyti geta komið vísindamönnum að gagni, en um leið vildi jeg láta hana verða það sem Jón sjálfur hefur ætlast til að rit sitt yrði, fróðleiks og skemtibók handa íslenskri alþýðu. Ef eiginhandarrit Jóns einhverntímann finst, á það skilið að vera gefið út stafrjett.

Víða þurfti athugasemda við, og getur verið erfitt að finna hvað það er, sem flestir vilja eða þurfa að skýrt sje. Veit jeg að jeg get ekki farið varhluta af aðfinningum út úr þessu fremur en allir aðrir sem slíkt gera. — Jeg hef auðvitað notað margar af athugasemdum Rists og Clausens við dönsku þýðinguna, einkum úr fyrsta hlutanum; þær, sem jeg hef tekið frá þeim, eru merktar RC; en jeg tók hvergi nærri allar, því margar þeirra áttu ekki við íslenska lesendur. Sumt hefur mjer fundist rjettar að skýra öðruvísi en þeir. Hef jeg auðvitað einn ábyrgð á öllum athugasemdunum. Mjer var bent á, þegar fyrsta heftið kom út, að athugasemdirnar væru nokkuð fáar, einkum þyrfti alþýða, sem ekki skildi útlend mál, fleiri skýringar á útlendum orðum. Jeg sá að þetta var rjett, og hef því í viðaukunum aftan við bókina sett einskonar viðbætir við athugasemdirnar, svo að ef lesandinn finnur eitthvað, sem hann þarfnast skýringar við, og vantar skýringu neðanmáls, getur hann leitað hennar aftan við. — Fáeinar myndir til prýðis og fróðleiks hef jeg látið fylgja með þessari útgáfu, er myndin af Khöfn hin sama og í dönsku útgáfunni, en hinar mynd-

irnar eru þar ekki; aftur á móti er þar mynd af Dansborg og herskipum frá þeim tíma, en af því kastalamyndin er miklu yngri en atburðir sögunnar og samskonar skip má sjá á myndinni af Höfn, tók jeg þær myndir ekki með. — Aftan við bókina hef jeg líka bætt fáeinum köflum, er snertu söguna; er þar fyrst kafli um Pjetur Skyttu, sem var oflangur til að geta komist að sem neðanmálsgrein, ennfremur fáeinar þjóðsögur um Jón Indíafara og svo niðjatal hans. Jón Indíafari er svo merkur maður, að mörgum mun þykja gaman að geta rakið ætt sína til hans, og sú ættartala á hvergi betur heima en aftan við æfisögu hans. Það er ýmislegt einkennilegt við þessa ætt. Fyrst er þýskur ættleggur (Pjetur Skytta) tvinnaður saman við göfuga íslenska ætt (Ástríður systir Jóns Sigmundssonar lögmanns), og ef til vill sænska (ætt Síra Jóns Matthíassonar); svo er sá ættleggur lengi á Íslandi uns kvísl af honum flytst til Danmerkur í byrjun 19. aldar, og er nú ættin orðin allblómleg þar, og hefur flutst þaðan til Ástralíu og Vesturheims. Vona jeg að mörgum þyki vænt um að fá ættartöluna prentaða. Ættu menn síst að gleyma því, að okkur Íslendingum er því skyldara en öðrum að leggja rækt við ættfræði sem við þykjumst meir en aðrar þjóðir af forfeðrum vorum. Finst mjer það óþjóðlegur og all-lúalegur hugsunarháttur, sem því miður ber stundum á, að vera að niðra ættfræði og slíkum greinum. Ættum við heldur að virða þá menn, sem við slíkt vilja fást, því til að gera það vel þarf mikinn skarpleika, lærdóm, minni og samvitskusemi. Annars hef jeg þá trú að ættfræðisrannsóknir muni fá nokkuð annað snið framvegis en hingað til, menn munu hætta að láta sjer nægja að setja upp þurrar ættartölur, en reyna heldur að bæta við þær ýmsu um fólkið, einkum t. d. reyna að rekja ýmsa eiginlegleika, andlega og líkamlega, sem ætla má að sjeu arfgengir. Ýmsir ágætir náttúrufræðingar eru þegar farnir að rannsaka slíkt, en það er óþrjótandi verk að vinna á þessum nýju og lítt könnuðu sviðum. Sagan og náttúrufræðin munu geta hjálpað hvor annari meir en margur heldur.

## VI.

Að lokum vil jeg þakka öllum sem hafa liðsint mjer við útgáfu þessa, fyrst og fremst forstöðumönnum safnanna í Reykjavík, landsbókaverði Jóni Jakobssyni fyrir lán á ýmsum handritum Landsbókasafnsins til afnota hjer í Kaupmannahöfn og ýmsar upplýsingar þeim viðvíkjandi, og landsskjalaverði Dr. Jóni Þorkelssyni fyrir margar ágætar upplýsingar um handrit af sögunni og ýmislegt viðvíkjandi ættum í henni. Þá þakka jeg útgefendum dönsku þýðingarinnar, Julius Clausen bókaverði og P. Fr. Rist ofursta fyrir alla þá velvild sem þeir hafa sýnt þessu riti og starfi mínu. og einkum fyrir leyfið til að nota það sem jeg vildi af athugasemdum þeirra við dönsku útgáfuna. Þá prófessor Finni Jónssyni, sem hefur litið yfir aðra prófórk af bókinni, prófessor Þorvaldi Thoroddsen, forseta Hafnardeildarinnar, sem hefur litið yfir þriðju prófórkina, og meistara Boga Th. Melsteð, sem hefur litið yfir 2. prófórk af síðustu örkunum og formálanum, og hafa þeir allir gefið mjer ýmsar góðar bendingar. Þá forstöðumanni Gyldendals bókaverslunar, Hr. Ernst Bojesen, sem góðfúslega lánaði fjelaginu ókeypis plötuna að hinni stóru mynd af Khöfn, er fylgdi dönsku útgáfunni og nú prýðir bók þessa. Þá Dr. Valtý Guðmundssyni, sem lánaði mjer eiginhandarrit afa síns Einars Bjarnasonar á Mælifelli af Fræðimannatali hans, og leyfði mjer að nota það. Þá Hr. Karli Finnbogasyni, kennara á Akureyri fyrir þjóðsögurnar um Jón Indíafara, og Hr. Jóhanni Kristjánssyni ættfræðingi í Reykjavík og Frú cand. mag. Ásu Rohde hjer í Khöfn fyrir ættartöluna. Þá Hr. Chr. Schlesch, gjaldkera Trúboðsfjelagsins danska, fyrir skýringar hans á ýmsum orðum í tamíl, sem mjer hefði annars orðið erfitt að fást við. Þá premierlieutenant Stöckel við sögulega vopnasafnið í Týhúsinu í Höfn, sem hefur gefið mjer merkilegar upplýsingar viðvíkjandi sjaldgæfu vopni, sem getið er um hjer í bókinni. Þá stud. med. & chir. Stefáni Jónssyni, sem hefur aðstoðað mig

við registrið. Síðast en ekki síst þakka jeg þeim sem mest hafa hjálpað mjer, kennara mínum prófessor Birni M. Ólsen í Reykjavík, sem hefur litið yfir hreinprentanir af öðrum og þriðja kafla sögunnar, bent mjer á ýmislegt, sem skýra þurfti, og gefið mjer margar ágætar upplýsingar, — og konu minni, cand. phil. Björgu Þorláksdóttur, sem hefur afskrifað fyrir mig mikinn part af Ögursbók og hjálpað mjer við prófarkalesturinn.

Kaupmannahöfn, 4. Júlí 1909.

*SIGFÚS BLÖNDAL.*

# ÆFISAGA

# JÓNS ÓLAFSSONAR ÍSLENDINGS

# INDÍAFARA

*af honum sjálfum uppteiknuð fyrir frómra manna umbeiðni, eftir því sem hann framast kann minnast nú í sínum aldurdómi 1661. Biðjandi alla fróma og guðhrædda sína landsmenn, hærri stjettar og lægri, þetta sitt svo fánýtt og auðvirðilegt verk vel að virða, hvers hann af þeim auðmjúklega óskar.*



*Náð, friður og blessan Drottins vors Jesú Christi sje með yður öllum! Amen.*

Elskulegir vinir! Skylt væri að eg ei fundinn yrði í of miklu óþakklæti fyrir Guðs furðanlegar margskonar og óteljanlegar velgjörðir, sem hann mjer af sinni skærri náð, miskunn og gæsku svo mjúklega og mildilega veitt hefir, bæði til líkama, lífs og sálar, í svefni og vöku, á nótt sem degi, á sjó og landi í ýmsum áttum veraldar, undir heitu lofti og köldu, í fjarlægð og nálægð míns föðurlands, á meðal kristinna og heiðinna þjóða, í meðlæti og mótlæti; hverjar hans margar og miklar velgjörðir og dásemdarverk mjer hefði sannarlega borið og hæft að hrósa, virða og víðfrægja bæði hjer innanlands og utan, hvað eg þó, því miður, ei gjört hefi, sem mín frek skylda var þar til, hverja forsómun og hirðuleysi sá náðugi Guð virðist mjer að fyrirgefa, sem og öll mín afbrot og misgjörðir. En þó eg fyrir nokkrum árum liðnum hafi uppbyrjað þetta hið sama að uppteikna, en ei þó til lykta, og í láni glataðist, samt hefi eg mig þó ei síðan þar til gefið sakir míns bjargræðis daglega áliggjandi ómaks og erfiðismuna, og í öðru lagi misjafnt geð manna til að meðtaka þvílíkt af mjer, svo tilkomulitlum manni. En með því að nokkrir góðir menn hafa mig hjer til góðmannlega uppvakt og áhvatt að nýju, hefi eg nú um síðir litla ávísan tilgjört með ósjelegri skrift og óorðentlegri diktan, um það hvað hið sjerlegasta hefir skeð og við mig framkomið á allri minni umliðinni æfi, vitandi mig því framar afsakast hjá alþýðu landsins, eftir því eg, svo sem í vernd

og skjóli þeirra frómra manna, er mig hjer um hafa tilkvatt, má dirfast þessa mína fávisku að auglýsa. Og enn þó að hjer inni sje margt auðvirðilegt og hjegómlegt, þá bið jeg góðan lesara það og fleira að umlíða með góðri þolinmæði, en allra helst, hvað sem hjer talast um Guðs verk, bið eg að snúist Guðs heilaga nafni til vegsemdar, heiðurs og dýrðar, en mörgum til góðra nota og gagnlegra eftirtekta. Svo óska eg og einnin, að í hverju sem mjer hefir yfirsjest á öllum tíma minnar æfi, sjerhvers embætti, sem eg hefi verið til kallaður, mætti öðrum til vareigðar, lærdóms og viðvörunar verða, svo þeir því heldur forðist mín vond dæmi, en framar athugi siði forsjálra til óhættari stundunar og stöðu í þeirra embætti og tilsettri kallan. Hjer með yður og öll Guðs börn almáttugum Guði befalandi til allrar umhyggju lífs og sálar. Amen.

*J. O. S. I. F.*

## HJER BYRJAST FYRSTI PARTUR ÞESSARA FRÁSAGNA,

### HLJÓÐANDI UM MÍNA ÆFI ALT TIL MINNAR AUSTINDÍALANDSREISU.

---

I. KAP.

*Innihaldandi um mína fæðing, ætt og uppfóstur og það fleira, sem viðbar, til þess eg var 22 ára gamall, og eg hjeðan úr landi burt sigldi.*

Þremur árum fyr en kóng Christian sá fjórði, loflegrar minningar, yfir Danmerkur ríki tók kóngdóm eftir sinn sáluga föður, kóng Friderich hinn annan, afgenginn 1588, hvers krýning skeði í Kaupinhafn 29. Augusti Anno 1596 á hans 20. aldurs ári, á sunnudagsmorgun mjög árla, næstan eftir Allra heilagra messu, fæddist eg í þennan heim[1]) á Svarthamri við Álftafjörð í Eyrarkirkjusókn, innan Ísafjarðarsýslu, af erlegum ektaforeldrum, Olafi Jónssyni og Ólöfu Þorsteinsdóttur. Hans faðir var Jón Þorgrímsson, sá eð var sonur Þorgríms Jónssonar; þessi Þorgrímur

---

[1]) Fæðingardagur höfundarins er þá 4. Nóv. 1593 í gömlum stíl; sje talið eftir nýjum stíl verður hann 7. Nóv.

var mikilmenni og nafnfrægur maður, þó ei væri hann stórríkur; hann hafði bústað sinn lengi í Æðey í sókn Snæfjallakirkju, og andaðist þá hann hafði fjóra vetur um áttrætt. Föðurmóðir mín hjet Bríit Þórðardóttir, fróm kvinna. Þessi hjón, Jón og Bríit, urðu vel 70 ára gömul, og önduðust mörgum árum fyr en eg fæddist á heimili minna sálugu foreldra. Móðir mín, Ólöf Þorsteinsdóttir, var norðlensk að ætt, í Miðfirði uppalin, af göfugum ættarstofni upprunnin; hennar faðir hjet Þorsteinn Sveinsson, sá eð átti 4 bræður, Olaf Sveinsson, stjúpföður Þórunnar Bjarnadóttur, sem sál. Síra Sveinn Símonsson[1]) kvongaðist, item Þórð og tvo Jóna; þessir menn voru í ætt Jóns Magnússonar[2]), sá eð var afi þeirra loflegu bræðra s[álugu] Magnússona. Hennar móðir hjet Hildur Helgadóttir, dóttir Síra Helga, sá eð var sonur Síra Jóns svenska[3]) er svo nefndist, af hverjum göfugir ættliðir eru komnir. Móðir Hildar hjet Marin Pjetursdóttir, þess er kallaður var Pjetur Skytta[4]), einn Hamborgari, og var hirðstjóri og hjer búandi í landi; hann átti Ástríði Sigmundsdóttir, sú eð var systir Jóns Sigmundssonar, sá eð var afi Herra Guðbrands biskups yfir Hóla stifti. Pjetur átti tvo sonu, Hannes og Mel-

---

[1]) Síra Sveinn (faðir Brynjólfs biskups) var fyrst kirkjuprestur í Skálholti 1578—82, en síðan prestur að Holti í Önundarfirði 1582—1635. Prófastur í vesturhluta Ísafjarðarprófastsdæmis varð hann 1588. Hann dó 1644, 85 ára gamall. (Sv. N. Prestat. IV. 17. XI. 5, 14.)

[2]) Um Jón Magnússon á Svalbarði (giftan Ragnheiði á rauðum sokkum Pjetursdóttur) og ætt hans (Svalbarðsættina síðari) læt jeg mjer nægja að vísa í Sögu Magnúsar prúða eftir Jón Þorkelsson, bls. 7—11. Um Magnússyni (ɔ: sonu Magnúsar prúða) sjá sama rit bls. 92—93; þeir ættmenn koma víða við sögur einsog kunnugt er.

[3]) Síra Jón svenski (Matthíasson) forstöðumaður fyrstu prentsmiðjunnar á Íslandi og prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi 1530—1567. Hvar Síra Helgi sonur hans hefur verið prestur er óvíst. Í Prestatali Sveins Níelssonar er hann ekki nefndur, eða að minsta kosti fæ jeg ekki sjeð að neinn af þeim prestum, er sama nafn bera, geti verið hann.

[4]) Um Pjetur Skyttu (Schytt) og ætt hans og mægðir við Jón lögmann Sigmundarson, sjá viðbæti aftan við bókina.

chior, og tvær dætur, Marínu og Guðrúnu.[1]) Þessi Pjetur var veginn af sínum sjálfs tveimur þjenurum, sem þar til voru keyptir af nokkrum hjerlandsmönnum, fyrir einhvers haturs sakir, nær hann gekk úr baði um veturinn á föstu. Þessir hans 2 synir drógu til Hamborgar og tóku mestallan ríkdóm með sjer, einkum kvennlegt skart upp á 12 jómfrúr, en þær systur báðar, Marín og Guðrún, urðu hjer eftir, og þessi Marín var mín langamma, sú eð var móðir Hildar, Hildur var móðir Olafar, sú eð var móðir mín, en Guðrún var langamma Marínar Halldórsdóttur, sem nú er í Súðavík. En af þessum áðurnefndu Pjeturssonum er sögð stór ætt til Hamborgar sje afkomin.

Mínir sálugu foreldrar áttu 14 börn sín í milli í heiðarlegum hjúskap, og af þeim komust ekki utan 3 til aldurs, sem var Halldór, Þóra og eg. Á milli mín og Halldórs var 14 ára munur, en 17 milli Þóru og mín, og var eg næstur seinasta barni minnar móður fæddur, og var ei sóknarprestur í þann tíð nálægt, nje innan sóknar, en sakir fjúks og stórveðurs varð og ei heldur sóktur í Ögurþinghá. Mínir foreldrar útbjuggu 2 menn og eina kvennsnift með mig til Eyrar í Skutulsfjörð á fund Síra Sigmundar

[1]) Í 2076 b er ættartalan sett upp í töflu svohljóðandi:

Vatnsfjarðar-Kristín
|
Solveig m. Sigmundur
|
Jón Sigmundsson lögmaður — Ástríður m. Pjetur Schytt hirðstjóri

Jón Sigmundsson lögmaður
|
*) Jón — Helga
Jón | Síra Arngrímur | Síra Þorkell — Hildur
Síra Þorkell | Mag. Jón Vídalín biskup í Skálholti.
Hildur | Páll Vídalín lögmaður. N og S.
Helga | Guðbrandur biskup | Steinunn — Kristín
Steinunn | Þorlákur Skúlason biskup.
Kristín | Síra Jón Arason í Vatnsfirði. | Oddur hinn digri | Guðrún.

Ástríður m. Pjetur Schytt hirðstjóri
|
Marín
|
Hildur
|
Ólöf Þorsteinsdóttir
|
Jón Ólafsson Austindíafari.

*) Hjer er hlaupið yfir ættlið: Guðrúnu Jónsd. Sigmundssonar, gifta Jóni Hallvarðssyni.

Egilssonar,[1]) sá eð veitti mjer þá heilögu skírn, og sú ferð lukkaðist vel fram og heim aftur, fyrir Guðs og hans heilagra engla aðstoð.

Til þess eg var hálfs annars árs gamall öðlaðist eg góða heilbrigði og döfnun. Síðan veiktist eg, og var mjer í fóstur komið til þeirra hjóna, er undir Hlíð bjuggu í sömu sveit; maðurinn hjet Eyvindur Jónsson, en konan Guðrún Guðmundsdóttir, og voru frómir menn. Hjá þeim var eg tvö ár í fóstri.

Á sjöunda ári míns aldurs var eg undir bók settur. Á því ári gekk hjer blóðsótt mikil í landi, í hverri margir í burt sofnuðu. Úr þeirri sótt sofnaði í burtu hjeðan minn sálugi faðir og fleiri bændur þessarar sveitar um haustið í Octobris mánuði. Halldór minn bróðir var þá 20 ára gamall; hjelt hann samt búskap með móður okkar. Að öðru hausti eftir kvongaðist hann erlegri dándiskvinnu Randíði Olafsdóttur, og ól með henni 6 börn.

Þá um veturinn eftir kom sá mikli og nafnfrægi vetur, sem landsmenn hjer nefndu Píning, og um vorið milli sumars og krossmessu kom mikill hvalur upp úr ís inst sveitar fram undan Hattardalsstekk, að hverjum varð stórt bjargræði og varð mikil aðsókn þangað úr öðrum sveitum, því stór skortur bjargræðis var víða orðinn hjer í sveitum manna á milli, því vetrarróðrar uppgáfust með Andrjesarmessu, er þá viðbjóðlega uppgekk til stórveðráttu, svo sem raun gaf vitni síðar; heyskapur um sumarið fyrir varð víða hjer um sveitir lítill, og nýttust heyin misjafnlega sakir óþerra.

Á mínu fjórtánda aldurs ári gafst mjer heilsubót fyrir Herrans náð, og góð lækning við minni langvaranlegri ungdómsmeinsemd, af einum dönskum skipherra, Andrjes að nafni, fyrir meðalgöngu frómrar kvinnu, Þorkötlu Pálsdóttur, sú eð var mín ljósmóðir, og var það eitt epli,

---

1) Síra Sigmundar er getið 1592 og 1603 sem prests á Eyri við Skutulsfjörð og segir Sveinn Níelsson í prestatali sínu, að hann hafi verið orðinn prestur þar fyrir 1583, en fyrir 1596 hefir hann fengið Dýrafjarðarþing. (Sv. N. Prestatal. XI. 4 og 7).

hvers eg neytti til hálfs, er hann sendi með henni til minnar móður; síðan þar eftir fjekk eg góða heilbrigði og viðgang.

Þá eg var 5 ára gamall var eg því nær í bæjarlæknum á Svarthamri í minni sjálfs vöggu druknaður, sem vera átti skipsmynd, hefði ei mína sálugu móður svo skjótt að borið. Item í öðru sinni, þá eg var átta vetra gamall, er eg á einum laugardegi um sumarið var með *Halldóri* bróður mínum riðinn í veiðiár fram í fjörð, lá mjer við að drukna á þeirri stóru Fjarðará, er svo kallast, en bróðir minn *Halldór* kom mjer með Guði til hjálpar. Í þriðja sinni á sama ári, er eg var sendur inn yfir ósa eftir mönnum í kaupstaðarferð, lá mjer við í Seljalandsós af hesti að flotna, er um flæði og framarlega að sjónum á sund með mig hljóp. Ráðning fjekk eg í hvert sinn hjer fyrir, svo sem verðugt var. Mín elsku móðir bar stóran kvíða fyrir mjer, við vatnsföllum allra helst, og mælti hún það og margir, að mjer mundi auðnast yfir vötn að ferðast, en Guð bað hún mig jafnan annast, hverja hennar jafnlega bæn að Guð miskunsamur faðir hefur heyrt, og náðarsamlega bænheyrt. Sje hans heilaga nafn lofað og blessað að eilífu! Amen.

Anno 1615, á mínu 22. ári, lá mjer við úr Dvergasteinshlíð um veturinn mjer til heljar að hrapa, svo eg fjekk yfir 40 köst, og kom eg jafnan niður á bakið. Ei fjekk mín móðir það að vita, en minn mágur *Skeggi Gunnlaugsson*, var í þann tíma úti staddur er svo við bar, og vissi ei hvað til ráða skyldi, og ei meinti hann mig aftur lifandi líta. Svo bar til um vorið fyrir, að móðir mín elskuleg og eg höfðum flutt vist vora frá Eyrardal og til Dvergasteins til *Skeggja* og *Þóru* frá *Halldóri*, og voru því sauðir þar ókendir, og urðu stansa undir skorum og náðust ekki allan veturinn, og liðu sult mikinn, en oft til reyndi óvitandi minni móður og í hennar þrásamlegu forboði. Og í þetta sinn er nú greindist, brast broddur í staf mínum nærri miðhlíðis, og síðan varpaðist eg ofan að urðum, og í hverju kasti horfði eg til himins; og nær köstum hætti, fyrir Guðs náð og vilja, var þá ei lengra til urðar en tveir eður þrír faðmar. Svo er Guði alt hægt og mögulegt að verka og

veita, eftir sinni guðdómlegri vild, makt og velþóknan. Og nær eg stóð á fætur var eg að öllu því nær og óhindraður, lof sje Guði! Amen. Mörgu minna gildis verður á loft haldið. Skeggi fagnaði mjer innilega, þá eð miðvegis mjer var móti kominn, og með glúpnan Guði lof sagði.

Eg má segja Guð hafi varðveitt mig í lofti, á jörðu, í vötnum, við mararbotn og í eldi, undir skruggum og reiðarslögum. Ei er það skeð til þess að því skuli strax gleymt verða, heldur en önnur Guðs stórvirki og dásemdarverk, sem uppritast hafa, heldur miklu framar ætti það að skrást og daglega að tjást, fyrir börnum og barnabörnum, alt til enda veraldar, svo Guðs nafns dýrð vari, vaxi og aldrei þverri.

Heiður og dýrð um himin og jörð[u]
af hverri tungu sje þjer sungið,
lifandi Guð vor lífsins faðir,
lof þitt haldist um aldir alda! Amen.

A Snæfjöllum bar til stór tilburður á mínum ungdómsárum, af þeim uppvakningi, sem menn meintu að vera myndi, og hvað margt furðanlegt og skelfilegt þar við bar, gjörist ei þörf hjer að innsetja, en margt hefir auðvirðilegra hjer í landi og annarsstaðar annálast og greinst til minnis þeim, er fæðast skulu.

Á mínu 11. ári bar svo við, að ein gift kona, Bóthildur að nafni, hafði ferðast hjeðan úr Álftafirði og vestur yfir heiði í Önundarfjörð með veturgamalt eður tvævett sveinbarn, sá eð Ketill hjet. Og þegar móðirin vildi hafa hingað aftur ferðast með sinni ungri barnkind til sinnar sveitar, þá vissu það engir í Álftafirði. Þetta skeði um Maríumessu fyrri. Og nær hún kom hingað og fór heiðarskarðið, skeldi yfir myrkraþoku, svo hún gekk og viltist of mikið til hægri handar, alt þangað sem Valagil heita, hvar að eru miklir forvaðar, og með því að hún var bæði veik og mædd orðin, nam hún þar staðar fyrir Guðs anda áeggjan, hið næsta sem mátti þessum forvöðum, og af löngum burði sinnar barnkindar hafði henni þar í brjóst runnið og svo

aldeilis út af sofnað í Herrans vald. Nú vissi enginn maður hvorki Önundarfjarðar nje Álftafjarðarhrepps af þessu tilfelli. — Skömmu síðar í vikunni heyrðist barnsópið ofan til bygða, og ætluðu þeir menn, sem næstir bjuggu, að einhver sjerdeilis dýrshljóð vera mundu. Þetta bar til snemma í Augusto. Í þann tíma A:o 1604 bjó Síra Jón Grímsson[1]) í Svarfhóli í Álftafirði, sá eð var sóknarprestur Ögurs og Eyrar, og nær hann fjekk þetta að spyrja, sendi hann með skrifaðan seðil út eftir sveitinni heim á hvern bæ til hvers búandi manns og bónda, sem það innihald hafði, að hver þeirra kæmi með vopn í hendi heim á hans garð með hraðasta hætti, þá strax samdægurs, og þar samtaka í sinni nálægð og með sínu ráði hvernin þeir sjer hegða skyldu í greindu efni, og gjörðist sú ályktan, að menn skyldu uppleita með alvarlegasta hætti hvaðan þessi ýlfran væri og eymdarhljóð eður af hverri skepnu. Gengu þeir svo af stað frá prestsins garði. Þá gengu allir skattbændur með þrískúfaða atgeira, sem hingað á umliðnu ári fyrir þetta fluttust til kaups eftir Kg. M. [skikkan og] befalningu.[2]) Og nær þeir komu í þann stað, sem konan lá önduð fyrir löngu, og fundu barnið hjá henni ennþá lifandi og konuna óskaddaða, því barnið hafði varið hennar lík í mörg dægur, þá hnykkti hverjum þeirra hjer við, og þótti hryggileg aðkoma, en þeim manni ei síst, sem bóndi og ektamaður var nefndrar konu, sá eð Jón Eyvindsson var að nafni. Var hennar lík svo flutt til bygða og þaðan með erlegum tilbúningi og meðferð til Eyrarkirkju að hún greftraðist. En þessi þeirra sonur uppólst hjá sínum föður þangað til hann var kominn úr ómegð og var síðan vinnuhjón Síra Thómasar Þórðarsonar[3]) og andaðist þar vel tvítugur að aldri á Snæfjöllum.

---

[1]) Síra Jón Grímsson var orðinn prestur í Ögurþingum fyrir 1599; hann var áður eitt ár prestur í Árnesi í Trjekyllisvík, en 1615 fjekk hann Prestbakka í Hrútafirði. (Sv. N. Prestatal. XI. 8, XII. 1 og 4).

[2]) Um vopnaburð á þeim tímum og vopnadóm Magnúsar prúða 12. okt. 1581 sjá Jón Þorkelsson, Saga Magnúsar prúða, 1895, bls. 63—77.

[3]) Síra Tómas varð prestur á Stað á Snæfjallaströnd (»Snæfjöllum«) árið 1629 og var þar til dauða síns 1670.

Þá Danskir komu hjer fyrst í hafnir [skrifaðist datum] Anno 1601, sem var vorið eftir Píningsvetur hinn mikla, sem nú teljast 60 ár (ár 1661) og hjet sá Trúels er fyrstur var kaupmaður af Dönskum eftir Konráð Íslending [er síðasti kaupmaður var Hamborgara hjer í höfnum].[1])

## II. KAP.

*Innihaldandi um mína hjeðansigling til Englands.*

Á því sama ári, sem fyr var getið, þegar að skrifaðist 1615 bar svo við um vorið fyrir krossmessu, að eitt engelskt skip upp á 50 lestir sleit upp við Vestmannaeyjar í miklum stormi og hleypti inn á Ísafjarðardjúp, og lögðust fram undan þeirri veiðistöðu er Rómaborg nefndist, hvar eg var til fiskiútvega. Og með því vor leið lá daglega nálægt þessu skipi fýsti mig og mína meðfylgjara einn morgun að róa að þessu skipi. Skipherrann hjet Isach Brommet, einn sjerdeilis ágætur, frómur og ráðvandur maður. Hans mæti hjet Vilhelm Hundten;[2]) bátmeistarinn hjet Vinsentzius. Þessi skipherra meðtók mig og mína lagsmenn vel, og þar fyrir þarf ei sögur um að lengja, að eg án vitundar minnar e[lskulegu] móður rjeðst til fars og útferðar með þessum manni. Okkar sáttmáli var þesskonar, að eg mátti flytja góss með mjer svo mikið sem eg ætti og sjálfur vildi, og eftir engelskri vísu skyldi afgreiða honum 10 dala gildi nær

---

[1]) Öll þessi klausa (Þá danskir o. s. fr.) kemur efni kapítulans ekkert við. Sum handritin hafa misskilið hana og sett hana í samband við það sem á undan fer (ɔ: dauða Ketils), en það getur ekki verið rjett, því ef Ketill hefur verið tvævetra 1604 þá hefur hann ekki dáið fyr en eftir 1621, og sje það rjett að hann hafi verið hjá Síra Tómasi, þá hefur hann ekki dáið fyr en 1629 eða síðar. Um nafnið Trúels, og um Konráð Íslending sjá orðamuninn aftantil í bókinni.

[2]) Nafnið er afbakað; máske er þetta enska nafnið Hunter eða þá Huntden(?) Nafnið Brommet er líklega ɔ: Bromhead, ritað eftir framburði. Til er á þeim tímum ensk ætt með því nafni.

við kæmum í England. Þetta fjell mínum samlagsbróður mjög þunglega og líka öllum mínum meðfylgjurum.

Að þremur dögum liðnum fann eg mína elskulega móður, og kunngjörði henni slíkt sem til var fallið, en með því henni var þessi minn ásetningur fyrir löngu alkunnugur, fjell henni ekki þetta í þyngsta máta, og ljet viljuglega mig því ráða, befalandi mig eftir daglegri venju þeim eina og þrenna almáttuga Guði í vald, vernd og umhyggju til lífs og sálar, hver hennar kröftug fyrirbón í Guði mig stutt hefir; lofaður sje Drottinn og blessað sje hans heilaga nafn æfinlega.

Jónsmessukvöld um náttmálabil skildist eg við mína e[lskulega] móður Olöfu Þorsteinsdóttur, sú eð hafði öðlast af Drottni 68 ára aldur. Margir syrgðu mína burtför, þó eg ei þess verðugur væri. Hjeldum vjer svo heiman úr Álftafirði og út til djúps með góðri veðurstöðu; flutti mig minn bróðir Halldór, mágur og bestu vinir. Þungan draum dreymdi mig þá nótt er eg lá á Oshlíð, um mínar eftirkomandi raunir. Að morgni fórum við til skips, og var gjörð stór veisla. Síðan skildum við með gráti og bað hver öðrum góðs.

Að morgni hjeldum við burt af Ísafjarðardjúpi vestur og frá landi til hafs, og kom það skipmönnum saman að draga fisk til matar sjer, og drógu 7 hundruð af þorski. Þá áhljóp mikið landnyrðingsveður, svo naumlega gátum vatursegli náð, og mistum 10 tunnur lýsis, og þá tunnu, sem eg hjeðan með mjer hafði að mestu. Hleyptum vjer svo vestur á Tálknafjörð, og settum upp vor mersusegl. Þar kom á borð til vor sá loflegi kennimann S. Guðmundur Skúlason,[1]) er þann tíma hjelt Laugardalsstað. Hann afeggjaði mig frábært að framhalda ferðinni til Englands og bauð mjer án betalings að koma öllu mínu norður aftur. En sem skipherrann hugleiddi okkar hljóðtal gramdist hann mjög prestinum, því hann grunaði að okkar hljóðtal mundi afráðum

---

[1]) Síra Guðmundur Skúlason var síðan prestur á Rafnseyri, og dó 1623 (Sv. N. Prestat. XI. 1).

gegna. Presturinn varð af að láta, og skildum vjer svo að gjörðri bæn og blessan yfir mjer og minni ferð.

Að tveimur dögum liðnum sigldum vjer þaðan í nafni Drottins, að morgunsöng enduðum, bæn og lítaníu, og í haf suður fyrir jökul, og að öðrum morgni sáum vjer Vestmannaeyjar. Þaðan sigldum vjer austur fyrir Horn, og hjeldum í haf síðan í landsuður. Og nær landið var oss nýlega horfið rak á stór mótviðri af suðaustri í gegn oss. Eitt engelskt kræskip[1]) kom á veg fyrir oss, og var í vorri ferð í 3 vikur, þar til stórir stormar oss aðskildu, svo að hvorugir vissu til annara. Skipherrann yfir þessu skipi hjet Thomas Græ.[2]) Hvern dag var suðaustanvindur og hjeldum vjer suðaustan til við Færeyjar, hverjar vjer sáum naumast. Halda stýrimenn þær liggi í landsuður hjeðan frá landi 80 mílur. Þaðan sigldum vjer að Hjaltlandi og eru þar á milli 40 mílur eftir mínu minni; það er og eitt eyland og býr á fátækt fólk. Það hefur legið fyr meir undir Danmörk, og var í brúðarheimangjöf í pant sett þeim Engelsku, og hefur ei verið síðan til Danmerkur innleyst, og liggur því síðan undir England.[3]) Þaðan sigldum vjer þar til vjer fengum Orkneyjar að líta. Á þeim sandrifum eður grynningum þar á milli sáum vjer 700 hæringsskip[4]) og sigldum vjer hjá þremur, er köstuðu síld í skip til vor. Síðan sáum við Skotland, sem er nær því áfast við England, utan eitt lítið sund þar

---

[1]) Svo nefndust einskonar lítil verslunarskip á þeim tímum; orðið er uppr. komið úr miðaldalatínu craiera, creyera, en verður á ensku craye, crayer, dönsku krejert, sænsku krejare og lágþ. kreier, kreiger, kreger.

[2]) líkl. = Thomas Gray.

[3]) Jakob 3 Skotakonungur giftist 1469 Margrjeti einkadóttur Kristjáns 1.; gaf Kristján konungur þá Skotum eftir afgjald það, er Noregskonungar áttu að fá af Suðureyjum, enda hafði það ekki verið greitt í mörg ár. Margrjet átti að fá 60,000 gyllini í heimanmund, en þar eð konung skorti fje til að greiða hann út í einu, veðsetti hann Skotum Orkneyjar, og ári síðar Hjaltland. En fje þetta var aldrei goldið og komust eyjar þessar þannig undir Skotlandskrúnu. Tiltæki Kristjáns konungs gramdist Norðmönnum mjög. (Sjá um þessa atb. Kr. Erslev í Danmarks Riges Hist. II. 551 og 565).

[4]) ɔ: síldveiðaskip; hæringur = e. herring, síld.

á milli[1]) Þá vorum vjer því nær og öllausir utan eitt hofsetur[2]), og átti það að vatnsblanda hefði lengur í reynt. Þá vjer hjeðan í haf hjeldum var kannað hvað mikið öl þá var til, sem voru 11 hofsetur öls; en hvert kvöld nær skipherrann var til hvílu genginn upphófu þeir sinn ölskap.

Einn maður var þar innanborðs, Rúben að nafni; hann sá eg fyrst tóbak með hönd hafa og hvert kvöld taka, og þá list að læra gjörðist minn tilsagnari. Skipherrann og alt fólkið untu mjer hugástum. Skipherramætið og eg tefldum einatt kotru saman þegar tilgaf, og glímdum; hann var glettinn og hvatorður, sem þeir fleiri, um Ísland og þess fólks skikkan, hvar af eg oft firtist við hann; ei var eg hans jafnaðarmaður til glímu, því hann var hinn mesti listamaður þar til og fleira, en í tafli hafði hann aldrei við. Samt vorum við í meinleysi tilsamans, og vildi oftlega hafa fengið mig til Jarmóð[3]) með sjer, þar sem hann átti heima, og koma mjer þar í vist, en skipherrann varaði mig við honum, og kvað hann misjafnlega bæði sjer og öðrum reynst hafa. Eg hafði káhyttu efst og aftur lengst hjá bátmeistara Vinsentzius, hver eð var minn fóstri og sjerdeilis góður. Skipherra bað hann um mig og lofaði honum launum þar fyrir.

Getum nú þess að vjer sáum England þar sem Nýkastali[4]) nefnist. Urðum vjer þá allir næsta glaðir; höfðum vjer þá verið sjö vikur í sjó, og liðið megn stormviðri. Nær vjer áttum nær 3 mílur til lands kom staðarins lífskip frá landi siglandi hið harðasta og beinsta að oss. Þetta var snemma morguns. Skipherrann bauð oss kyrrum að standa til beggja handa sjer, og með afsett höfuðklæði, og fyrirbauð oss bros að sýna eða eitt einasta orð að mæla, og til hvers þeir kölluðu kvaðst ei dirfast annars en í tje láta.

---

[1]) Landafræðiskunnáttu höf. er stundum nokkuð áfátt, einsog hjer, þó hann auðvitað hafi haft langt um meiri þekkingu á slíku, en flestir landar hans á þeim tímum, einsog vænta mátti.

[2]) Líkl. = d. oxehoved, e. hogshead, og mun orðið vera komið inn í íslensku úr ensku.

[3]) ɔ: Yarmouth.

[4]) ɔ: Newcastle.

Þetta skip var geysistórt og veglega útbúið með stykkjum og margskonar öðrum herbúnaði, þar með einnin gylt og göfuglega stafferað um fremri og efri hluta skipsins. Kaptuginn þeirra kom og talaði til vors skipherra svo trássugt að hverju hann spurði; tóku síðan strik frá oss og urðum glaðir við.

Þegar leið yfir miðdag komu út frá Nýkastala 3 hundruð skip, öll hafandi inni steinkol, er þangað víða úr löndum sækjast, og með ærnu fje kaupast; þau skip áttu heima í ýmsum stöðum, í Englandi sum, í Frans, Þýskalandi, Hollandi, Noregi og Danmörk. Um nónbil á sama degi hljóp á æðistormur mikill af norðvestri, því og rjett undan ljetu öll skipin suður með landi hörfa, þar til fyrir Jarmóð kom; þar forgengu tvö skip um kvöldið, á því rifi, er þar fram undan liggur. Vor seglrá brotnaði í miðju sundur. Þetta skeði laugardag í Augusto. Að morgni næstum þar eftir, sem var sunnudagsmorgun, gekk vor skipherra til kirkju. Í þann tíma voru þar í Jarmóð ei fleiri kirkjur utan sú ein; hún var geysistór með háum turni, í hverjum að voru miklar klukkur, sem frábært hljóð af sjer gáfu, og vítt umkring til heyrðist.

Eftir miðdag hjeldum vjer þaðan og suður með landi þar til vjer komum til Harits[1]), hvar skipherrann og fólkið átti heima. Þá komu út á bátum þeir, sem tóku fregn á hverju skipi, er í hafnarmynnið innsigldi. Þessir menn fögnuðu skipherranum vel og hans fylgdarmönnum. Og nær skipið var fyrir sínum atkerum fast orðið, norðvestan til á móðunni hinumegin og gegnt borginni, dró skipherrann til lands með mörgum af fólkinu og heim í borgina, en eg og skipherramætið Vilhelm Hundten skyldum á skipinu með nokkrum af fólkinu til kvölds eftir dvelja. Um miðdegi kom bátur frá norðvesturlandinu; sat í honum einn ríkur maður Sæmund Kock[2]) að nafni. Þessi tók okkur

---

[1]) ɔ: Harwich.

[2]) Líkl. hefur hann heitið á ensku Simon Cock, en skírnarnafnið verið afbakað eftir framburðinum [Saimon] í íslenska nafnið Sæmundur. Sjá athugasemdirnar um orðamuninn aftantil í bókinni.

til síns heimilis með sjer, og gjörði okkur þar mikla veislu. Hann bjó í einu þorpi og margt fínt fólk annað; þar voru þrjár kirkjur og var mjer sýnt í eina þeirra og var eg leiddur af meyjum ungum þangað, þær eð buðu mjer heim til sinna foreldra. Um kvöldið ljet hann fylgja okkur 4 menn í gegnum þann skóg er þar lá í milli þorpsins og elfunnar, og sakir morðingja og ránsmanna var oss fyrirskipað að tína grjót í vora hatta. Við eitt steinsnar urðum við varir um kvöldið, því mjög myrkt var orðið. Og er við komum að móðunni var þar strax til reiðu einn ferjumaður. Menn Sæmunds gengu heim aftur óhindraðir. Þessi Sæmund Kock var mjög kunnugur hjer í landi; eg bað hann að koma mjer þar í góða vist, en hann kvaðst ei það að sjer taka, því hann vissi misjafnt fólk og sjer vanþekt í Englandi vera.

Nú er þar aftur til máls að taka, að við um kvöldið fórum með ferjumanninum yfir móðuna til borgarinnar, langt eftir dagsetur. Þá gengum við heim í borgina og til skipherrans húss; þá var hann ei heima er við þar komum, því hann var genginn til sinna reiðara, að skýra þeim frá sinni reisu [og því hann hefði atkerið mist]. Kona hans tók fegins hendi við mjer og sagði mig guðvelkominn með frábæru blíðlæti. Þá við höfðum litla stund þar setið, þá biður hann skipherrans húsfrú að lofa mjer með sjer lítinn veg at ganga; hann lofar henni að skuli með mig koma strax aftur. Hún samþykti það nauðug. Eg gekk svo með honum. Hún ljet fylgja okkur sína þjónustumey með ljóslykt, og nær við komum að einu porti gekk hún heim aftur. Vilhjálmur sló á dyrnar með þeim stálhamri er á porthurðinni hjekk, og strax kom ein stúlka að opna portið og spurði hverjir væri. Vilhjálmur sagði til sín, og sagðist vilja við herra hússins tala, hvern hann nefndi Thómas Tvidd, sá eð var herramanna gestaherbergjari og þeirra, er ríkir og mektugir voru. Þessi Thómas var vellauðugur maður, en ei fylgja auð allar dygðir, hljóðar máltak gamalt, og máske á honum ei síst sannast hafi. Kvinnu átti hann ágæta, sú eð bar kurteislega hegðan eftir mannlegu áliti, við hverja

hann misjafnlega höndlaði. Hún hjet Bersabe; dóttir þeirra hjet Temperenz; hún var væn og dægileg en þó ljúf og lítillát. Þar inngekk þessi Vilhjálmur og eg. Gjörðist þar stór veisla um kvöldið. Ei vildi hann trúa því eg íslenskur væri, því eg í þann tíma hafði lært svo góða engelsku í þær 7 vikur, að hann hjelt mig engelskan mann vera. Þessi Vilhjálmur kom því til leiðar, að eg vistaðist um kvöldið hjá honum, þvert í móti mínum vilja. Þetta gjörði Vilhjálmur því hann fjekk mig ei með sjer til Jarmóð, og til móðs við þann fróma mann Isach Brommet, til hvers hann bar jafnan kælu undir niðri, því hann þóttist ofgóður að vera hans mæti, með því hann var einn skálkur í þeli niðri. Þar hvíldist eg um nóttina í frábæru eftirlæti og af honum til sængur fylgt. Meðtók hann svo mitt alt meðhafandi góss til geymslu, sem var 5 vættir af vorfiski, tvær kistur fullar, item tvær voðir; fjekk eg Isach aðra, fyrir þá 10 dali, er eg var honum um skyldugur, fyrir utanför með honum; item lítið lýsi, sem eftir varð af fullri tunnu, er spiltist og fyr var umgetið.

Um morguninn gengum við Vilhjálmur aftur til Isach og kunngjörðum honum og hans kvinnu hvar komið var. Varð hann mjög reiður við Vilhjálm, og lofaði hann skyldi þess af sjer gjalda á meðan hann til entist, því hann sagðist mig þar síst til vista vita vilja sakir Thómasar Tvidds harðýðgis, fláttskapar og vonsku, en hresti sig þó við hans kvinnu dygðir.

Hann hjelt 3 sveina og skyldi eg í eins þeirra stað á Mikaelsmessutíð innganga, en þangað til skyldi eg mig sjálfur kosta. Tók eg mjer ferð til Nýkastala fyrir laun, sem voru 4 dalir, og líka hans vegna, í þann máta að kynna mjer leið, þegar hann mig í sín erindi þangað senda vildi. Sigldum vjer þangað í 4 daga. Skipherrann hjet Thómas Græ[1]) og fengum vjer gott byrleiði þangað.

[1]) Höf. nefnir líka annan skipstjóra bls. 14 þannig, og getur verið að annaðhvort nafnið sje misminni; sbr. líka bls. 21 Vilhelm Gray; annars er nafnið Gray svo algengt, að það er ekkert því til fyrirstöðu að þetta sje rjett.

## III. KAP.

Við sjómálið, sem skipunum er innlagt á móðuna, sú eð liggur upp í landið, stendur einn kastali; í honum brenna ljós um nætur, þeim skipum til leiðarvísirs, er þar skulu að sigla, því þar fyrir utan eru sandrif og mjótt innhlaup, svo varpa má hlut á land upp til hvorrar handar er vill af skipinu, og eru 5 mílur upp til borgarinnar Nýkastala; það er fögur borg og fallega bygð; þar eru 3 kirkjur og ein kostuleg bryggja yfir um móðuna þvera, með hvelfingsportum í gegn upp í landið, og í gegnum þau koma stórar prjámur ofan úr landinu með steinkol til skipanna, sem þangað eftir steinkolum sigla og fyr var um getið. Þar dvöldumst vjer í 3 vikur, og bauðst mjer þar vist hjá einni ríkri og kostulegri ekkju, sú eð hjet Jóhanna, en eg sagði henni hvernig háttað væri, þar öðrum fyr lofast hefði og virti hún það vel fyrir mjer. Þar voru og enn nokkrir kostulegir gentilmenn, er þar svo kallast, sem mjer innilega buðu vist hjá sjer.

Þaðan sigldum vjer að góðu veðri og heim til Harits að þremur dögum liðnum; komum vjer síðla heim fyrir borgina og fórum vjer til lands skömmu síðar. Þá var víðast fólk til sængur komið í borginni; veik því skipherrann Thómas Græ mjer heim til sín, en eg þáði það ei, því eg vildi mjer ei það til hneyxla teldist að eg mitt heimili forsómaði; gekk eg því heim til portsins og sló upp á með hamrinum nokkuð kyrlega. Þjónustustúlkan kom strax og lauk upp portinu, því hún var ei til hvíldar gengin, en var að vaska upp borðsilfur og tin í steikarahúsinu. Neytti eg nokkurs; síðan bað eg hana um lykil til þess húss er mitt góss var inni; hún fylgdi mjer svo þangað með ljós, og strax fann eg mínar kistur brjálaður og meströllu úr þeim rænt, hvar upp á ei mun hafa stórt brostið að verið mun hafa 30 dala gildi. Varð mjer þá ei gott í geði, sem hver má næst geta, sá eð hugleiðir eins framandi þesskonar ólagleg

efni eða óheillasama tilviljan. Þessa sömu nótt svaf eg harla lítið en gekk þó upp í loftsalinn; þar stóð mín sæng með grænum sparlökum umkring.

Um morguninn árla klæddist eg og fann hans ágætu kvinnu, Bersabe, og var ættuð af þeim stað Ipsits[1]) borgarherra dóttir. Temperenz þeirra dóttir var og ástúðleg og líktist sinni móður. Eg segi þeim með hryggu hjarta hvað mig skeð hefur, hvar yfir þær sig stórum aumkuðu með gráti og ráðlögðu mjer að kunngjöra meistaranum, Thómas Tvidd, og vita hvað hann til segði eða til svaraði. Þennan morgun voru komnir til hans að taka brekfost[2]), það er frúkost, eftir venjunni tveir herramenn, er þeir kalla nobilismenn, hverjir ásamt honum sátu upp á loftsalnum. Þangað gekk eg og upphóf að kæra fyrir honum mínar tilfallnar raunir, hverjum hann illa gegndi og fyltist ofsa og mikilli bræði, greip skerdisk og af hendi til mín fleygði, skipaði sínum sveini mig að slá, í hverju hann og sýndi sig. Urðu um gólfið með okkur sviftingar, þar til hann fjell. Síðan gripu herramenn Thómas, er hann vildi losa, og varð á salnum slark mikið. Þeir álösuðu honum stórlega, er hann svo við einn framandi [breytti og] sjer hagaði, gaf hann mjer það helst að sök, að eg heimti mitt góss að honum, sem hann til ábyrgðar og fullrar varðveislu af minni hendi meðtók, þegar eg til vista rjeðst hjá honum. Og með því eg fjekk ei betra andsvar en sem greint er, afsagði eg honum, undir þeirra heyrn, framar mitt loforð við hann að halda, með því hann hefði sín fyrri brugðið. Þessu urðu þeir báðir samþykkir. Þessir voru báðir herramenn af Ipsits og bauð sá eldri mjer þjenustu hjá sjer í sjö ár, og þriðjung sinna eigna ef eg sjer þóknast kynni, því hann átti enga nákomna erfingja; en með því svo hafði skeð, sem nefnt var fyr og eg hafði viðbjóð þar í landi langa dvöl að hafa, neitaði eg þessu boði, hvað honum mikið þótti, því hann ljet svo í orði sem eg hefði gott álit. Hann keypti

---

[1]) ɔ: Ipswich.
[2]) ɔ: breakfast.

af mjer 5 hundruð fiska fyrir 25 dali engelska og það lýsi er eg eftir hjelt.

Thómas Tvidd átti einn fróman bróður, sá eð hjet Michael Tvidd; hann var aðmíráll fyrir vínskipaflotanum að Spanía. Hann bjó þar í borginni Harits, og var ei þann tíma heima, er þessi aðburður skeði. Hans bróðurs kvinna Bersabe bauð mjer þrásamlega vist hjá sjer eður hjá sínum mági Michael Tvidd; gekk eg tæpt að því, því eg óttaðist fyrir Thómasar svikum, með því hann hafði ilt geð til mín. Nær Michael heim kom, ljet hann kalla mig fyrir sig eftir ráði Bersabe; rjeðst eg svo hjá honum til vista, og ljet eg flytja minn fátækdóm þangað. En tveim dögum síðar spurðist til Harits að tvö skip kóngsins í Danmörk Christiáns fjórða[1]) væri komin til Lundún til kóng Jacobs með skenkingar. Og nær eg það spurði, fjell mjer senn til geðs að biðja Michael Tvidd um orðlof, hvað og skeði, fyrir meðalgöngu og milda tilhlutan Bersabe.

Tveimur dögum síðar gekk hún með mjer ásamt sinni dóttur til strandar að spyrjast fyrir um far til Lundún; fjekk hún að fregna, að einn skipherra að nafni Vilhelm Græ[2]) vildi innan þriggja nátta til Lundún; senn útvegaði hún mjer far hjá honum og það sjálf borgaði; skenktu þær mæðgur mjer mörgu gagnlegu, nærri 15 dala gildi; skildist eg svo við þær með elsku og góðum kærleika. Hún átti einn bróður til Lundún, sá er var einn kokk stórhöfðingja; honum sendi hún brjef með mjer að hafa mig hjá sjer í herbergi, þar til eg kæmist til Danskra, er þar voru komnir og fyr er nefnt.

Síðan sigldum vjer þaðan og fengum gott byrleiði suður að Lundún, og minnist eg ei betur en þar sje í milli 40

---

[1]) Kristján 4. sendi þessi árin við og við menn til Jakobs 1. Englandskonungs mágs síns með gjafir til hans og heldri manna á Englandi, til að tryggja vinfengið við Englendinga, sem ekki var trútt um að stæði á völtum fótum meðal annars vegna þess að Kristján konungur hafði neitað Englendingum um rjett til hvalveiða í Norðurhöfum er Jakob konungur hafði farið fram á. Sbr. athugas. við dönsku þýð. (hjer á eftir nefnd RC.) bls. 17 og rit þau er þar er vísað í.

[2]) líkl. ɔ: William Gray.

mílur eða 50. Fyrst komum vjer að þeim stað er Grafsund nefnist, sá eð liggur við þann ós eður innhlaup, sem upp til Lundún liggur. Þar fyrir utan, nær vjer slöguðum inn fyrir borgina, misti eg góðan hatt af höfði mjer, er segl út sló.

Við bryggju borgarinnar lágu 50 ferjubátar, og aðrir jafnmargir við Lundúnarbryggju. Þar leigði eg mjer bát, og annar maður, sá er hjet Daníel af hollenskri ætt, upp til Lundún, og komum þar síðla dags. Sá ferjumaður er okkur ferjaði, sagði mjer öll örnefni tveim megin móðunnar, og er það fagurt pláss á báðar síður; þar liggja bygðir og þorp, og ein borg, er kallast Kvinsborg[1]). Þar má margan sjá úti hvern við sitt handverk og erfiði, suma við sín akurverk, suma við trjesmíðis handverk, suma við hverfisteinasmíði og aðra steina að úthöggva, ferjur að byggja, skútur og skip og önnur nauðsynleg þarfindi. Skipum mættum vjer fáum, þau eð bljesu í sín trómet. Nær vjer komum á miðja leið, litum vjer þann mikla turn, S. Páls turn, dómkirkjunnar til Lundúnar, sá eð er tilsýndar sem ein fjallsgnýpa, og aðra turna, bæði þeirra tveggja slota, sem að eru til Lundún, og kirknanna, sem að eru innan borgar og utan 3 hundruð að tölu. Vegarlengd til borgarinnar eru 15 mílur engelskar. Ferjumanna bátar eru fallega málaðir, smíðaðir og vel tilsettir; í þeim eftri helmingi þeirra eru tvær bjúgar sperrur og tjald yfir slegið, nær sem döggvar, svo fartugar vökna ei; þar undir kunna þeir að hafa gott bílífi öls og matar. Fyrir borginni liggja mörg skip, stór og smá, á móðunni, og prjámur við bryggjurnar, á hverjum flutt verður korn og malt, og önnur margslags vara frá og til. Í þessum kornprjámum hafa dúfurnar sinn náttstað og gestaherbergi. Á móðunni synda fáeinar álftir, er nefnast kóngsfuglar, og liggur hvers manns bani við, er þær deyðir, með skotum eður öðrum hætti.

Nú tek eg þar til máls aftur er vjer komum seint upp

---

[1]) Líklega er átt hjer við Queenborough, en hún er ekki á leiðinni frá Gravesend, heldur liggur utar, sunnanvert við Tempsárós.

til borgarinnar; þar mátti heyra trómet, bumbur, pípur og hljóðfæri allskonar upp á spilað, og aðrar þesskonar raddir, hana, manna, fjenaðar, klukknanna, á hverjar spilaðir voru psálmar á fjögur hljóð á kvöldin eftir vaktklukkurnar. Ferjumaðurinn fylgdi mjer til kokksins, til hvers eg hafði brjefið úr borginni Harits; Daníel fylgdi með, og bað mig að árna sjer herbergis ásamt mjer hjá þessum hjónum. Vjer fundum fyrst húsfrú steikarans, og fylgdi hún mjer strax til hans, hver eð svaf á einum stól sitjandi, en svo var um búið að steikarahjólin sjálf vendu umkring steikunum. Hún vekur hann af svefni, en ei gegndi hann mjer að nokkru, fyr en hann fjekk sinnar systur Bersabe brjef lesið; strax tók hann mjer i hönd, og bauð mjer sess hjá sjer, herbergi og kost á meðan eg þar dvöl hefði.

Þessi maður var mjög aldraður, en hans húsfreyja ung. Börn áttu þau engin sín á milli utan eina stúlku, sú eð var 7 ára að aldri og í besta máta vanin, tamin og tilsett. Þetta var hennar daglegt háttalag: nær hún hafði af sinni hvílu útgengið lauk hún upp stofuhurðinni og fjell á sín knje á þröskuldinum og bauð sínum foreldrum góðan dag og öllum þar inni, óskandi því húsi og þeim Guðs verndunar og varðveislu; síðan setti hún sig til fyrir speglinum; þar eftir setti hún sig undir borð og las sín fræði, fægði húsið og settist undir sauma. Þessi hjón ljetu mig vel og veittu mjer hverjum degi öðrum betur. Daníel var þar til herbergis svo sem fyrir minn bænastað nærri mánuð; þótti honum það, að mjer var framar honum virðinga leitað. Hann biður húsfreyju einn sunnudagsmorgun að útvega fyrir sinn bænastað, að eg ljeði sjer nokkur klæði til kirkju, því hann ljest til sakramentis vilja ganga. Eg trúði þessu og hans mörgum gyllyrðum, og ljeði eg honum heilan klæðnað til handa og fóta og bók í hönd, og að honum í burt gengnum leit eg hann aldrei meir, hvað alt var víst 20 dala gildi. Þetta þótti þeim frómu hjónum mikils vert. Þrír menn ríkir er bjuggu til Lundún lofuðu að láta finna hann og upphengja; þessir grömdust yfir minni tilviljan.

Dvaldist eg í 9 vikur í greindu herbergi fyrir ekkert



Mynd af Lundúnabr

verðkaup. Einn dag, sem mjer gafst hentugur tími, fann eg þrjá menn í einu húsi; þeir voru frómir af fylgjurum danskra manna. Einn þeirra hjet Jóhann Marteinsson: hann kunni nokkuð í íslensku, því hann kvaðst hjer í landi í 3 ár legið hafa með reiðara góss; hann tók mig strax vel og kvað skyldi mjer hið besta tilleggja hjá eðalmönnum, sem var kóngsins gesant í Danmörk, hvað hann fullvel enti. Skildist eg svo með elsku og kærleika við þau hjón, og óskuðu mjer velferðar og lukku af Guði, bæði fyr og síð. Margir ríkir menn í Lundún buðu mjer þjónustu hjá sjer, en eg fjekk þar aldrei vild til, því mig langaði svo mjög til Danmerkur og hingað.

Fyr en eg tala öldungis um mína burtför þaðan vildi eg lítið áminst hafa um Lundún og Lundúnarbrú, með styttsta hætti og fleira annað. Lundún er þrísett og eru stór kauptorg þar í milli og leikvellir, á hverjum framdir verða allskonar leikir. Þar inni og fyrir utan portin eru 3 hundruð kirkjur tólfræð, smáar og stórar, þar íbland eru 70 höfuðkirkjur. Í Lundún eru tvö slot. S. Pálskirkja er sú stærsta og dómkirkjan. Þeim megin, sem fram að móðunni vendir, er borgin á þann veg bygð, sem er, að um flóð gengur vatnið upp undir borgina, svo hátt, að ei þarf að stiga ofan að vatninu meir en 3 tröppur þeir eð sækja



ndúabrú frá rúml. 1600.

vatn til neyslu úr þeim húsum, er á þeim vatnsbarmi standa. En sem hæst útfall er orðið þá má inn undir borgina langt á leirnum ganga, og þar undir borginni stendur mikill fjöldi stólpa, staura og styttna, sem uppi heldur þeim hluta borgarinnar.

Lundúnarbrú er þann veg bygð, að af sterkum grundvelli frá neðarsta er af úthögnum stórum björgum og nær yfir alla breidd móðunnar; þykt hennar eður breidd veit eg ekki, því mikill hluti borgarinnar stendur þar upp á[1]); þar upp á standa 3 þær stærstu höfuðkirkjur, og fleiri að eg meina smærri. Í þann tíma var mjer sagt að í þeim hluta borgarinnar, er á brúnni stendur, væri 700 gullsmiðir. Í hverju steikarahússgólfi, er á brúnni stendur, eru hlemmar ferkantaðir, yfir þeim götum, sem neysluvatn er úr móðunni uppdregið daglega, og þá fiskur er í móðunni verður hann með dorg þar uppdreginn, og strax svo lifandi til matgjörðar tekinn. Undir brúnni eru 9 eða 10 hvelfingar eður dyr, sem undir brúnni upp í gegn liggja, hvar í gegnum móðan hefur sína rás; mikill straumur er við þessa bryggjustólpa eður hvelfingsdyr. Furðulega stór akkeri eru þar í fyrstu

---

[1]) Þetta er auðvitað orðum aukið, en eins og sjá má á myndinni stóðu mörg hús á brúnni.

innmúruð, hverra hringar af múrnum úthanga, í hverja með bátshökum krækt verður af þeim þar í gegn fara á skútum, prjámum, skipum og bátum, með allra handa góss til og frá. Þetta sje um brúna talað með styttsta hætti.

Eitt lítið þorp lá í þá tíma suðaustan til við móðuna, þvert yfir frá og gegnt borginni; um háfjöru á móðunni standa þau stærstu skip á grunni, og liggja á leirnum án skaða.

Borgin var mjer sögð 9 mílur umkring engelskar, sem er meir en hálf þingmannaleið. Þar eru löng stræti, sem liggja upp í borgina, og veglegar húsaraðir á hvora síðu, og sje langt gengið upp í borgina, þá hljóta menn leiðsögu að fá, að rata aftur til strandar, hvar fyrir kompásar fyrir dyrum standa víða úti, og eru konur svo vel sem karlmenn þar til hentugar þá leiðsögu að gjöra, sem hver beiðist og við þarf.

## IV. KAP.

*Innihaldandi hvað í þann tíma viðbar, er eg var til Lundún og þeir dönsku þar dvöldust. Hvernig 5 af ráðinu hugðu að svíkja kóng Jacob þann 6. í Englandi.*

Eitt kvöld sem kóng Jacob kom neðan frá Grafsundi nærri dagsetri í Octobermánuði á bátum þeim, er kallast kóngsbátar, og eru að tölu 18 og voru það alt tíuæringar og tólfæringar, og með honum vel 200 manns, höfðu þeir þær vjelar gjört með púðri þar á bryggjunni, er kóngur skyldi að leggja, og hann plagaði á land að stíga, en kona ein, sú eð epli plagaði að selja við ströndina, gjörði kóngi bending, svo hann frá þeim svikum með Guðs hjálp frelsaðist.
21 Þrír af þeim náðust en tveir ekki, svo lengi sem vjer dvöl þar höfðum. Þá ljet kóngur setja eitt stórt þing fyrir neðan Lundúnarslot á víðum og sljettum völlum; var þar frábærlega margt fólk saman komið. Og að þeirra svikræði prófuðu

og með dómsatkvæði ályktuðu urðu þeir hjólbrotnir, liður frá lið, og svo lengi sem þetta var ei yfirstaðið urðum vjer þar að dvelja, svo ályktan þess máls með öllum aðburði yrði Danmerkur kóngi uppritað sent.[1])

Nú er þar til máls að taka hvað á þessu sama sumri viðbar Anno 1615, að kóngins skip 2 í Danmörk að nafni Victor og Júpiter í [Jú]nímánuði náðu einum nafnkunnugum sjóræningja austur undir Rússía í Hvíta hafinu, þar eð kallast Archangel; sá nefndist kaptuginn Manda[us][2]); hann hafði legið *15* ár í hernaði og ásetti sjer í það sinn er þetta skeði, að liggja fyrir einu hollensku skipi, er komst í gegnum Veigat og frá Austindíen hafði síglt, en honum tókst það ei, því hann tapaðist fyr. Þessi sami var stallbróðir þess ræningja, er á þessu sama ári varð unninn á Vatneyri og heitstrengt hafði Ísland að eyða[3]). Þessara stallbræðra varð fimm daga munur að deyja. Kaptuginn Mandaus varð hengdur fyrir utan Austurport í Kaupinhafn í einni vippu, og hans undirkapteinn og skipherra. Þessi Mandaus átti 5 bræður á Englandi, og voru allir handverksmenn.

---

[1]) Merkilegt er það að í brjefi Jakobs 1. sem hann einmitt sendir Kristjáni 4. með Adam Bülow og er dags. $^{26}/_{10}$ 1615, er ekkert minst á þetta. Jeg hef hvergi getað fundið neitt um þetta banatilræði, og býst við að hjer sje mjög blandað málum. — Haustið 1615 stóð einmitt yfir hið nafnkunna mál móti Somerset lávarði (sem áður hafði verið einn af helstu vildarmönnum konungs og með voldugustu mönnum á Englandi) og frú hans, sem voru dæmd til dauða fyrir að hafa látið byrla Sir John Overbury eitur. — Frásagnir um það mál hafa svo líkl. runnið saman hjá JÓl. við frásagnir um tilraun þá, er Guy Fawkes gerði árið 1605 til að sprengja í loft upp með púðri Jakob konung og alt þingið. — Sjá um þessa atburði Gardiner, Hist. of Engl. 1603—1616. London 1863 Vol. 1, 216—257 og Vol. 2, 206—250. Verið getur líka að JÓl. hafi eitthvað heyrt um það að Jakob konungur 1614 ljet fangelsa 4 þingmenn (sama rit II. 164).

[2]) Kapt. Mandaus hjet rjettu nafni Juan Mendoza; um hann sjá 1. kafla, 17. kap.

[3]) Frá þessu segir Espólín þannig: »Þá (ɔ: 1615) komu um sumarit sjóvíkingar á Patriksfiörd, oc ætludu at ræna Vestfiördu, þeir höfðu tekit nockra Enska menn með sér nauduga, enn er þeir komu á land, oc sióvíkingar ætludu at ræna Dani á Vatneyri, rédust hinir ensku menn á þá, oc urpu þeim í sjóinn oc drápu marga, enn tóku tvo fyrirliða oc fóru á brott sídann.« (Árb. 5 d. bls. 135—36).

Víkjum nú þar til máls aftur, að þar sem eg var fyrir einum degi kominn til Danskra á það skip er S. Pjetur nefndist, en skipherrann Christian Ross, að eftir miðdegi á fimtudag kom fram til vors skips einn af þeim 5 Mandaus bræðrum, sá eð var atkerasmiður og einn ríkur mann, Rúben að nafni; hann spyr Christian Ross að, hvort hann vissi ekki af sínum bróður Mandaus að segja, sem kóngsins skip í Danmörk hefði tekið undir Rússíaríki. Christian kvaðst það geta, og sagði hann hengi fyrir utan Kaupinhafnar Austurport þar í vippunni. Þessum Rúben brá illa við þá fregn og tók mjög litaskifti, kvaddi og gekk svo fyrir borð. Að þremur dögum liðnum kom boðskapur út af slotinu frá kóng Jacob, til vors yfirmanns, sá eð hjet Adam Billau[1]) og var einn með þeim æðstu eðalmönnum í Danmörk, að þessir hans 5 bræður Mandaus vildu nú hefnast á oss og útsenda 3 herskip oss til deyðingar, og var mikið gjört af þeirra umsveiflum í borginni. Kóngur sendi út af slotinu til vor 80 músskyttur, sem vjer köllum luntabyssur, og önnur nauðsynleg vopn móti þessum vorum óvinum.

Og nær sem Adam Billau hafði sitt orðlof fengið þaðan í burt að reisa, hjeldum vjer þaðan úr höfnum um nóttina með lempe ofan til Grafsund.

Skamt fyrir neðan borgina Lundún í luktri höfn fyrir innan grindur lágu kóngs Jacobs herskip stór og sterkleg tilsýndar. Og sem vjer komum til Grafsund höfðum vjer þar litla dvöl; gegnt þeirri borg lágu 2 megtug kóngsins herskip.

Nú er frá því að segja, þar sem eg i fyrstu rjeðst til fars með þeim dönsku, og í þjónustu hjá nefndum eðla manni Adam Billau, að eg var með tveimur öðrum ágætum mönnum settur inn uppá ærlega undirholdning á það skip S. Pjetur. Einn þeirra hjet Magnús af norskri ætt, sá eð var kóngsins í Danmörk stallmeistari, góður maður og

---

[1]) Adam Bülow; († 1619) hann var þá stallmeistari konungs; sbr. ath. RC. við þennan stað.

frómur, annar hjet Jacob Pjetursson, sem til Lundún í 7 ár dvalist hafði, að læra snúruvefnað af gulli, silfri og öðru margskonar, er þeir kalla pússmenterí. Þessir tveir menn voru mjer góðir og hagkvæmir, svo sem og alt það skipfólk.

## V. KAP.

Og svo sem fyr var sagt að lítilli dvöl entri hjeldum vjer burt frá Grafsund og í haf að Jótlandsskaga. Þar hljóp á megnveðri mikið af austri, utan vjer fyrir Guðs náð gátum náð þar Noregi er Flekkefjörður heitir með því skipi eg á var, en hitt skipið, sem eðalmaðurinn á var, og Jónas nefndist, náði höfnum sunnar í Noregi, og komst hálfum mánuði fyrri heim til Danmerkur en vjer.

Adam Billau reisti strax á kongs fund, er í þann tíma var vestur í Jótlandi með sinni hirð allt til vors. Ei sá eg þennan Adam Billau í 3 ár, en Magnús, er eg fyr um gat, tók mig að sjer, og vildi að eg þjónaði í kóngsins stalli og yrði hans beriðeri og stall-knekt, hvar til eg mig velviljuglega gaf.

Kóngsins stallur stóð í þann tíma við Hábrú í Kaupinhafn, slotsmegin við portið. Þar í því húsi er við portið stendur bjó einn frómur maður aldraður, Christian að nafni. Hans kvinna hjet Elín; hún var yngri en maður hennar. Þar í því húsi hjá þessum guðhræddu hjónum hafði Magnús sitt herbergi, og af meðgæddri manndygð tók mig þangað til herbergis og lagði mig í sæng hjá sjer, veitandi mjer ærlega tæring við þeirra borð, samjafnt sjálfum sjer. Þjónustu hafða eg enga aðra en þá, að eg gekk með honum tvisvar hvern dag í stallinn hestunum að kemba og þá vandlega að vakta og verka og tvisvar daglega að útleiða til vatns og hressingar og upp á trumbu að slá fyrir þeim.[1]) 2 þjenara hafði hann aðra, sem stallinn fægðu

[1]) til að venja þá við hávaða.

daglega. Þessi mín stallþjónusta varaði ekki lengi, sem var nærri 6 vikna tími; því svo bar við að kóngl. Majest. sendiboði kom til Magnúsar og bar honum þá fregn, að hann sem snarast skyldi koma á fund kóngs, en fyrir það Magnús dró til ferða, bað hann um mig í herberginu hjónin bæði að þau ljeti mjer í tje allt það mig um nauðsynjaði.

Síðan afreisti Magnús frá Kaupinhafn og vestur til Jótlands; kóngur í þann tíma hjelt sitt hof í Jótlandi með 80 hoffólks. Svo bar við á einu kvöldi, sem Magnús gekk af slotinu heim til síns lossamentis og svefnstaðar, að hann, því ókendur var í borginni, gekk til órjettra dyra, hvar einn kóngsins dravant var fyrir í herbergi, og eftir því hann á dyrnar þráklappaði, gramdist sá dravant honum og hljóp til dyra með sinn atgeir og veitti honum bana, hvar fyrir hann hlaut hálsinn að missa.

Nær sem þetta spurðist til Kaupinhafnar og til míns herbergis, fyltist eg harms og trega, og margir hörmuðu Magnús, því hann kom sjer vel. Var eg þá í neyð staddur og munaðarlaus. Þá talaði Elín til við mig einn dag og spyr mig að, hvort eg hafi nokkuð gjald til betalings fyrir kost og herbergi, en ei var gjald þá meir til. Kvinnan af dygð sinni gekk út einn dag, að leita við að koma mjer til einhvers handverks. En með því að komið var fram að jólum svo nær að hver hafði fullráðið fjekk hún ei því orkað.

Einn dag gekk eg ofan á bryggjur mjer til skemtunar, þær stóð einn ungur maður á meðal annars fólks, sá eð Ambrósíus var að nafni. Hann spurði mig að ætt og nafni og hvers lands maður eg væri, hvað eg honum alt hið glöggvasta tjeði. Þessi maður þekti mig og minn bróður Halldór og tók mig heim í sitt herbergi með sjer, þar rjeð fyrir mágur hans og systir, mætir menn og frægir í borginni. Hann hjet Hans Jacobsson, hann var kjallaramaður hinn ypparsti á Bremerhólmi. Hann bauð mjer þangað og láta mig þar innskrifa fyrir viss verðlaun, en eg hafnaði því með öllu, því eg hugði mig sneiða hjá kóngsins þjenustu, þó ei svo yrði. Síðan gekk hann uppá slotið og fann

kóngsins silfur-popp, sem vaktan hefur daglega á kóngsins öllu borðsilfri, og vildi hafa komið mjer í sveinsstjett hjá honum. Þessi lofaði að morgni komandi þar upp á honum andsvar að gefa. Enn á meðan hann var uppá slotinu varð eg áeggjaður af þeim manni, er Rasmus hjet og var einn könnusteypari, að gefa mig undir kóngsins regimente fyrir einn byssuskytter,[1]) og hrósaði því mjög og týhússins yfirvöldum einkum meistara Hannesi,[2]) sá eð var í þann tíma týmeistari og kóngsins byssuskyttur yfir settur ásamt týjunkurnum sem Adolphus Fridericus Grabov hjet,[3]) og þá var nýlega kominn frá landi Holsten og stóð þar nálægt, er við Rasmus vorum um greint efni að samræða. Varð það svo fyrir hans stóra eftirleitni að eg lofaði mig þar til að gefa undir heyrn og handsöl junkursins Grabov. Befalaði hann greindum Rasmus, sem var einn kóngsins byssuskytter, að fylgja mjer heim í borgina til eins manns, er Jón Halldórsson var að nafni, og var íslenskur og ættaður úr Eyjafirði, líka ogsvo einn byssuskytter, og lofaði honum borgun fyrir þann kost, er hann mjer veitti, til þess eg yrði undir regimenti kóngl. Majst. innskrifaður, hjá

---

[1]) 'Byssuskyttur' voru á þeim tímum kallaðir hermenn í fallbyssuliðinu: þeir fengu í mála minst 9 dali á hverju missiri. Einkennisbúningur þeirra var rauður og gulur. Þeir voru notaðir á flotanum, týhúsinu og í Krónborgarkastala; þeir stóðu undir forstöðumanni týhússins, sem var nefndur »Tøjjunker« eða »Øverste Arkelimester«; undir honum voru svo aðrir arkelímeistarar. Þeir höfðu aðstoðarsveina til að vinna fyrir sig það sem verst var við fallbyssurnar, en þeir áttu sjálfir að skjóta af þeim. — Oft höfðu þeir einhverja vinnu aukreitis á friðartímum auk herþjónustu sinnar, og tilfærir Jón Ólafsson ýms dæmi þess. — En fyrst árið 1645 komst gott lag á skipun fallbyssuliðs í Danmörku. — Sbr. ath. RC. við þenna stað og rit þau sem þar eru tilfærð.

[2]) Hann hjet fullu nafni: Hans Kort og var arkelímeistari 1602—1617. RC.

[3]) Adolph Friðrik Grabow af Watike, af þýskri aðalsætt var æðsti-arkelímeistari 1618—1624. Hann varð 1619 varaformaður í indverska verslunarfjelaginu og 1624 »berghauptmand« í Noregi, en var settur af fyrir illan embættisrekstur, og vita menn ekki með vissu hvað af honum hefur orðið síðar. Sbr. ath. RC. við þennan stað og I. bls. 216. og rit þau er tilfærð eru á fyrri staðnum.



Byssuskyttur frá dögum Friðriks 2. — Annar hermaðurinn heldur á luntastöng með brennandi lunta. (Joach. Arentsehe).

hverjum eg dvaldist upp frá því í þrjú ár til herbergis, og átti eg hann fyrir einn góðan og trúfastan vin og stallbróður bæði leynt og ljóst alt til hans æfiloka, hvað reiknast mátti ein góð vingjöf af Drottins hendi, einkum í framandi stöðum.

Þrem vikum síðar en fyr var umgetið, varð eg innskrifaður með öðrum 25 undir regimentið, og í regimentis manntalið brustu, sem iðuglega skyldu vera eftir rjettum passa og tilskikkun kónglegrar tignar hálft fjórða hundrað, og þá í fyrsta sinni sór eg kóngl. Majest. hollustu og trúnaðareið, ásamt öllum þeim regimentislýð þar saman komnum. Ei var kóngur þar í þann tíma. En svo er tilháttað, að eitt borð er sett innan vjebanda í týhúsinu, á það er látið salt og brauð, þegar eiðar eru unnir, en þess þýðing er Christur og hans orð, og kallast að sverja upp á salt og brauð.

Sex vikum síðar var eg tekinn og tilsettur við týhúsið vakt að halda, en til þess tíma hafði eg frípass, spilrúm og liðugan gang í borginni, framar öðrum, er komu samtíðis mjer undir regimentið, því sá frómi gamli mann, Meistari Hannes, týmeistari, var mjer svo frábærlega góður og eftirlátur, sem eg hefði verið hans eiginlegur sonur, og af því vóx elska og ástsemd fólksins til mín og varð eg því ei síðstur haldinn af öllum mínum jafnöldrum og samnótum, hvar út í Guðs náð og ósegjanleg þolinmæði sig bevísaði, mjer aumum og framandi til eflingar og hjartans hugsvölunar.

Mínir landsmenn reyndust mjer flestallir góðir og gagnlegir, tryggvir og tállausir, hverjir hjeðan af landi voru þangað komnir. Fyrst í þann tíma, eg þangað kom, var norðan frá Hólum kominn Þorlákur Þorkelsson,[1]) sem prestur varð síðar og ordíneraður til þeirrar sóknar 3 mílur frá Kaupinhafn er Orupp hjet, þó honum það ei auðnaðist, því hann andaðist í Kaupinhafn og var minn elskulegur

---

[1]) Hann var sonur Þorkels Gamlasonar, ráðsmanns á Hólum, og varð $^{20}/_{7}$ 1621 prestur í Hvidovre, en dó í Janúarmánuði 1622. Hann er talinn að hafa orðið fyrstur Íslendinga prestur í Danmörku síðan siðabótin komst á. Sjá RC. og rit þau er þar eru nefnd.

og góður vinur. Item og þaðan var kominn Jón Gissursson[1]) frómur maður þangað, sem síðar varð skólameistari í Skálholti og á Hólum, og síðan prestur og staðarhaldari fyrir norðan á Múlastað. Item Finnur Böðvarsson[2]) úr Borgarfirði úr Sunnlendingafjórðungi, minn frómur og elskulegur vinur, hver eð í Kaupinhafn hjeðan í burtu sofnaði til Drottins náða. Item Guðmundur Jónsson frá Hítardal,[3]) einn frómur og góður maður, hver eð ásamt hinum áðurnefndum auðsýndi mjer stóra æru, elsku og velgjörðir. Þessi andaðist og í Kaupinhafn, og fengu þessir allir 3 stúdentar heiðarlega greftran. Item Pál Sveinsson[4]) fann eg þar, þessum samtíða, sá eð var einn bartskeri og góður medicus, einn frómur mann, og minn jafnan góður vin, ættaður og kominn frá Holti í Önundarfirði, og andaðist einnin í Kaupinhafn og varð ærlega greftraður í Hellige-Geistis kirkju jurtagarði, er svo kallast, hvern eg með öðrum 6 vænum ungum mönnum, þar til keyptum, jós moldu.

---

[1]) Um hann sjá Janus Jónsson, Sögu latínuskóla á Íslandi (Tímarit Bókmfj. XIV. 1893, bls. 53). Síra Jón fjekk Múla í Aðalreykjadal árið 1633 og var þar prestur til 1660; þá slepti hann brauðinu og dó 1662. Hann var prófastur í Þingeyjarprófastsdæmi 1636—1660. (Sv. Níelsson Prt, XVI, 9 og 18.)

[2]) Um hann sjá Árbækur Espólíns V. 141, VI, 33. — Hann var sonur Síra Böðvars Jónssonar í Reykholti (1518—1626), er Finsensætt er komin af í beinan karllegg (Dr. J. Þorkelsson í Obituaria Island. bls. 221).

[3]) Hann var sonur Síra Jóns prófasts Guðmundssonar í Hítardal og Guðríðar Gísladóttur lögmanns Þórðarsonar. Sjá Espólíns Árb. VI. 6.

[4]) Páll Sveinsson var sonur Síra Sveins prófasts Símonarsonar í Holti í Önundarfirði († 1644) með fyrri konu hans, Þórunni, laundóttur Björns Hannessonar, og var því hálfbróðir Brynjólfs biskups Sveinssonar. — Hann hafði tvo um þrítugt er hann andaðist. (Dr. J. Þork. í Obit. Isl. 215).

## VI. KAP.

*Innihaldandi um það hið sjerlegasta hvað viðbar fyrst eg kom í Kaupinhafn, og það fleira sem áminst verður.*

Skömmum tíma þar eftir er eg var innskrifaður í kóngsins bók og að unnum eiði, bar svo við einn snemma morgun að eg gekk yfir þá járnrist, sem gengin er inn á kirkjugarðinn dómkirkjunnar, sem kallast Vor Frue kirkja (það er Maríu kirkja), að leita eftir Þorláki Þorkelssyni studioso, þá gekk karlmaður og kvensvift undan mjer að þeim brunni, er þar stóð, vatn að sækja. Og er þau litu í brunninn, gáfu þau mikið hljóð af sjer, og sögðu þar flyti eitt dautt meybarn í brunninum. Þangað gekk eg skyndilega og leit hvað skeð var. Slíkt frábært tilfelli barst skyndilega um borgina og rannsökun gjörð með ýmsum hætti, og úr þeirri sókn straks að morgni 500 þjónustumeyjar upp á ráðhúsið hafðar, og þar til reynt hvort mjólk væri í þeirra brjóstum, hvað ei fanst vera hjá nokkurri þeirra. Og af slíku tilfelli gekk kveinan og grátur í borginni, og í kirkjunni bæn gjörð til Guðs, að auglýsast mætti, hvað þó ei skeði augljóslega, utan hvað tilgátur voru, að komið væri af húsi einnar hálærðrar persónu M. Hr. m. Var þá við lokið skömmum tíma þar eftir þar meir um að tala, til þess að 3 ár voru liðin, bar svo við að tvö börn vansköpuð fæddust í borginni í því stræti, sem kallast Vagnmannsstræti, en í þeirra líkprjedikun var af prestinum Hr. Menelao[1]) áminst um margskonar ósiði, sem honum virtist tíðkast og í vöxt fara í borginni, og á meðal annars varð honum áminst um þetta barn, og talaði harðlega til þeim andlega selskap um vandlætingarleysi, bæði um fyrirboðna hoffrakt og yngismeyjanna ljótlega klæðadrakt, því þessi áður nefndu

[1]) Menelaus Poulsen Næstved, 1585—1626, varð 1610 æðsti kapellán við St. Nikulásarkirkjuna, og hallarprestur 1617 RC.

2 meybörn báru þvílíka vansköpun, eftir meyjanna hárfljettum, topp-húfum, axlasaumshæðum, pilsrykkingapípum og afsettum skóm með öðru þvílíku dreisslegu teikni, hverjar afskaplegar fæðingar að tíðar skeðu bæði þar og víðar annarsstaðar, hvar til Guð verður þrátt neyddur með ýmislegri óhófs athöfn og Guðs gáfna vanbrúkun.

En með því H. Menelaus, sem var kapellan til St. Nikulás kirkju, var næsta harðmæltur til prestanna um þeirra alvöruleysi að aftaka fyrst af sjer og sínu húsi alla vansemd, og fyrirboðið klæðasnið sinna þjónustukvenna ljetu viðgangast, og þessa íbland mintist þessa áðurnefnda dauða barns, sem í brunninum fanst með kvenna bandi um hálsinn, segjandi ei skyldi það komið af húsi þeirra hálærðu og etc. — Sóknar-herrann M. Andrjes[1]) bar það helst úr hans prjedikun fyrir erkibiskupinn Hans Resen,[2]) hvarfyrir hann komst í hans og allra hálærðra reiði og ógunst, afsögðu hann frá embætti og þeirri kirkju. Einatt gekk hann einmana um Nikulásar kirkjugarð. Síðan gjörði hann þar sína síðustu prjedikun, undir hverri eg óverðugur var ásamt öðru frómu fólki, hvert hann með miklum gráti kvaddi, og yfir því auðmjúka blessan gjörði, söfnuðurinn honum það aftur auðsýnandi, því allir untu honum hugástum.

Síðan gekk erkibiskupinn ásamt þeim hálærðu fyrir kóng, framtöldu hans sakir, er þeir gáfu honum, og óskuðu kóngs úrskurðar, að hann annaðhvort útrækist eður aftækist. Enn með því að þeir fyrir fáum árum höfðu einn merkilegan mann útrekið, að nafni M. Olaf Kock,[3]) hvað kónginn stórum angraði, fengu þeir því ekki meira aðgjört nje ráðið. Ljet kóngur strax senda eftir honum, og befalaði prjedikun fyrir sjer strax á slotinu, ásamt þeim hálærðu að

---

[1]) Skáldið A. Christensen Arreboe, sem var sóknarprestur við St. Nikulásarkirkjuna 1616—18. RC.

[2]) 1561—1638; Sjálandsbiskup frá 1615 til dauðadags.

[3]) Ole Jensen Koch frá Björgvin í Noregi var prestur við St. Nikulásarkirkjuna, en Resen þótti hann of kalvínskur, og fjekk komið því til leiðar að hann var rekinn í útlegð 1614. RC.

gjöra, hvað og skeði. Geðjaðist kónginum mjög vel hans ræða, og sagði hann sjer velkominn upp á slotið, og varð þar svo slotsprestur síðan.

Eitt mannsmorð skeði að skömmum tíma þar eftir er eg kom í Kaupinhafn, um nótt í því stræti, er Leirstræti[1]) kallast. Vegandinn flúði og höndlaðist ekki.

Margir misgjörðamenn urðu þar með ýmsum hætti refstir og rjettaðir í gálga og steglum og vippu[2]) þar til að kóngur sá að ei að heldur vildu misgjörðir í minkun fara; gjörðist sú samþykt á herradegi, að enginn í 12 ár skyldi rjettast, hverskyns glæpamaður sem væri, utan eitthvert frábært illvirki aðhafst eða gjört hefði. Þar fyrir var stiftað eitt fangelsi á Bremerhólmi, Truncen, þar inn voru settir þeir menn, sem stærst og smærst ávirðing hafði tilfallið. Þeirra fangelsi var á þann veg, að þeir um lífið höfðu eina járngjörð svo rúma, að klæðaskifti gjört fengu, og fyrir neðan hægra hnjeð aðra, og láu digrir hlekkir utanlærs þeirra á milli. 4 menn voru settir yfir þá, sem til daglegs erfiðis og þrælkunar skyldu fram drífa með kaðalsvipum og bera mat fyrir þá og þeirra nauðsynjar að athuga, fangelsishúsinu að læsa, og aftur upp að ljúka, eftir venju og tilsettum tíma kvölds og morguns. Allrahanda embættisfólk, sem brotlegir urðu í hvern máta, sem vera kunni, voru þar innlátnir, og með dómi tími skamtaður þar að vera, eftir málavexti sjerhverrar persónu. Sumir skyldu þar vera 1 mánuð, 2, 3, 4, ár heilt, 2, 10, 20. Item stórglæpamenn alla sína æfi. Vaktmeistarinn, Söfren Trafn, var þar innsettur fyrir það misferli, að hann með sinni skarvakt[3]) um nóttina hafði yfirfallið einn herramann á Kaupinhafnar strætum, barið og sýnt stórt ofríki. Item tveir aldraðir menn og fógetar, sem hjer kallast sýslumenn, komu þangað úr Lálandi, af drotningunni Sophiu[4]) til sama fangelsis sendir, og skikkaðir

---

[1]) Gatan hjet rjettu nafni Læderstræde. RC.

[2]) Góð lýsing á vippugálga er í 2. kafla 23. kap.

[3]) Lögreglusveit bæjarins var svo nefnd.

[4]) ekkja Friðriks 2. (1557—1631), hafði að lífeyri krúnujarðir á Lálandi og Falstri og var sögð hörð landsetum sínum. RC.

þar að ganga í nokkur ár fyrir ranga dóma og misjafna lögsögn. Item einn stúdent, Pjetur að nafni, ættaður úr Kárseyri,[1]) var þar innsettur og eftir dómi 18 ára tími tilsettur, sá eð knífsting lítinn með pennaknífi hafði veitt sínum stjúpföður. Við höfðum báðir einn heilan vetur saman haft sæng og herbergi, og var kominn fram undir vígslu. Þessi Pjetur með öðrum sjö af nefndum föngurum komst úr fangelsishúsinu, þeir eð skriðu aftur á bak, gegnum saurindarennuna alt út í sjóinn, og vörpuðu sjer ofan fyrir múrinn, nærri tvo faðma að hæð, en djúp vatnsins var 3 eða 4 faðmar, og svömluðu svo úti með múrnum á leirana, brutu af sjer járnin, og rýmdu síðan upp til Svíaríkis. Einn af þeim náðist og varð uppheingdur. Þessi Pjetur, studiosus, varð til Svíaríkis herramannabarna skólameistari eitt ár. Síðan fór hann að finna stjúpföður sinn, að krefja síns föðurarfs. Hinn krafðist hans vitnisburðar, að hann væri ærlega kominn frá sínu fangelsi, og að honum auglýstum hjet honum sinni erfð, hvar við Pjetur reiddist og gjörði stórt upphlaup og vildi enn að nýu slá sinn stjúpföður; var svo tekinn af yfirvöldum borgarinnar og færður til Kaupinhafnar, og á slotsplássinu rjettaður, að endaðri þeirri oratiu eður sermon, sem gjörst hafði af innihaldi og texta þess 4. Guðs boðorðs.

Á árinu áður en eg kom til Kaupinhafnar voru 3 galdrakonur brendar í Sælandi. Ein þeirra, sú hin helsta, hjet Marín Kringsteðs, ein ríkiskona, ei minnist eg þeirra tiltæki.

Einn tíma bar svo við 1617 um sumarið, á einum torgdegi, sem var laugardag, að einn maður Jens að nafni, sá eð var nýgiftur einnri frómri dándiskvinnu og bjó í Litla Ferjustræti í Kaupinhafn, var útgenginn fyrir borgina um Vesturport með einum frómum borgara og voru að spássera þar um grundirnar, sem bændurnir skyldu fram um fara, þeir eð áttu heima uppá landsbygðinni og tvisvar í hverri viku komu í borgina uppá torgið, með allrahanda,

[1]) nú: Korsør.

sem af bóndabygðinni plagast að flytja í kaupstaðina, sem er rúg, maltrúg, bygg, þríslags grjón, hveiti, humal, hunang, smjör, ost, svín, gæsir, andir og margslags fisk úr ferskum vötnum. Á meðal annara bænda, sem úr borginni óku á vögnum, var einn bóndi, sem nokkuð var drukkinn. Þessi ungi borgari, Jens að nafni, upphóf eftir sinni gamalli venju að grýta bændurna með hestaperum, þar til þessi drukkni bóndi varð fyrir hans kasti, hrópi og spottyrðum; en með því að hann mjög svo kendi undan hans áköstum og þar með illa sveið hans hæðni, og var í þessu óaflátsamur, og með engu móti hirti um hins annars borgarans umtölur nje afletjan, hljóp úr vagninum með riðugan korða, sem bændur plaga þar án bals[1]) liggja láta og strax hann með honum í gegn nísti, hljóp svo á sinn vagn og burt keyrði. Hinn fjell þar strax dauður niður til jarðar. Borgarinn hinn annar bar þessi tíðindi í borgina, var hann svo sóttur og innfluttur, og að morgni greftraður upp á St. Nikulás kirkjugarði. Hann fjekk eftir sig vont rykti af prestinum í prjedikunarstólnum, hvernin hann í ungdómi hefði sínum foreldrum óhlýðugur verið. Lýst var vegandanum með brjeflegri lýsingu en ei eftir runnið af hans frændum og ei syrgður af hans kvinnu, við hverja hann hafði haturlega breytt, og ekki af nokkrum manni. Síðan aflagðist lengi spott og háðyrði við bændurnar af borgarlýðnum.

Item bar svo við einn tíma, að smápiltar, þeir eð gengu í þann danska skóla, voru að leika sjer við ráðhúsmúrinn með sínum pungum, um það bil að klukkan var 4, það er stund af nóni, og voru nýkomnir út af skólaherberginu, að tveimur af þessum unglingum bar til þrætu, var einn 7 ára en annar 9. Sá yngri þeirra greip sinn pennakníf og stakk þann eldri með til dauða, og strax rann á flótta. En strax sem þessi aðburður skeði, og pilturinn var burtflúinn, barst þvílíkt með skyndi um borgina, svo þys og ys varð mikið, og það varð sagt býfógetanum, það er staðarins

---

[1]) ɔ: slíðra, þ. Balg.

sýslumanni. Útsendi hann sína þjenara, sem kallast býsveinar, og jafnan eru þar komnir, sem nokkuð ilt viðber, að höndla þennan pilt, sem vígið hafði framið. Og sem þeir voru á leið þangað, sem þessi aðburður skeð hafði, þá mætir þessi ungi sveinn þeim, á því stræti, er lá upp að Vesturporti borgarinnar, og spyr þá að segjandi: »Eftir hverju hlaupið þjer.« Þeir sögðu: að þeim pilti þann annan deytt hefur. Pilturinn sagði: »Þar hljóp einn piltur lítill skömmu fyrri, en þið mættuð mjer, og var á mjög hörðu striki,« og benti þeim þangað af vegi. Senn runnu þeir þá leið, er hann þeim tilvísaði, en hann með hægð komst í flóði annara í gegn um borgarhliðið og svo út og uppá landsbygðina til eins bónda, tjáandi honum sína tilviljan. Skömmu eftir, sem hann var útgenginn, kom boð til allra borgarhliða, að enginn piltur innan 10 ára skyldi útgang fá. En með því hann hafði svo hyggilega undan komist, varð engin eftirför honum veitt, heldur skikkað að hjálpa sjer ærlega hvar og hvernin hann kynni, utanlands eða innan, að hann kæmi ekki í Kaupinhafn, og lyktar hjer svo frá honum að segja.

Á mínu 6. þjónustuári undir kónglegu regimenti, skeði eitt hryggilegt morð skamt frá Kaupinhafn á einum prestgarði. Presturinn hjet H. Söfren[1]). Svo bar við að presturinn hjelt einn húsþjenara, ei minnist eg glögt hans nafn. Hann skipaði honum eitt laugardagskvöld að kljúfa við til tveggja sunnudagsmáltíða, svo með því erfiði sunnudagurinn ei vanhelgaðist. Presturinn eftir máltíð haldna ásamt sinni ektakvinnu og 5 eður 6 ára gamallri dóttur og gjörðri bæn gekk til sængur, en 2 þjónustumeyjar, er þessum frómu elskuhjónum þjónandi voru, staðnæmdust við á meðan þessi maður hafði ei við lokið sitt tilskikkað erfiði. Presturinn af meðaumkan og manngæsku skikkaði annari sinna þjónustumeyja, að færa honum út könnu fulla af sínu eigin öli, til hugkvæmdar, því hann vissi vel, að þetta kvöldverk mundi honum illa geðjast. Stúlkan gjörði sem henni var befalað,

---

[1]) Líkl. er hjer átt við Søren Pedersen, prest í Skævinge, sem var myrtur 16. Nóv. 1618. Wiborgs Præstehistorie III. 103. RC.

en strax sem hún kom til hans með ölið út í garðinn, heilahjó hann hana í einu til dauða, og sagði hún prestsins gjalda skyldi. Og nær prestinum þótti hennar dvöl yfir máta langgæð verða, sendi hann hina aðra stúlkuna að vita hvað hennar dvöl valda mundi, og gekk það til fyrir henni á sömu leið sem fyr það hina skeði. Síðan gekk þessi morðingi inn í stofuna að hvílu hjónanna. Presturinn spurði, hvað stúlkurnar dveldi. Hann kvað þær liggja dauðar út í garðinum og hjet honum sömu kjörum og hans kvinnu, svo hann skyldi ekki annað laugardagskvöld fá sjer við að kljúfa. Presturinn með miklum ótta og hræðslu bað um grið og líf og hjet honum aldrei við skyldi fá framar um það kvöld að kljúfa. En þar hjálpaði engin bón nje fortölur. Presturinn bað hann um svo langan frest, að hann læsi faðirvor, hvað honum og veittist. Bar hann svo sína öxi blóðuga á loft og hjó þau bæði í sænginni til dauða. En af því að mjög var dimt í herberginu og áhöld höfðu orðið með þeim í fyrstu, þá skreið þeirra litla dóttir aftur af sænginni og komst út í burt til manna, er þar í þorpinu ekki sjerdeilis langt frá bjuggu. Morðinginn eftir þetta fordæðuverk framið, gekk með skyndi í prestsins hirslur upp að brjóta, og af því dýrasta hans góssi svo ræntu bjó hann sjer bagga svo stóran, sem hann naumast gat borið og meðfarið. Liðu svo 3 ár fyr en þessi morðingi höndlaðist í landi Holsten, er skeði með þvílíkum aðburði sem nú eftirfylgir.

Þessi sálugi prestur átti bróðurson og var kominn í landið Holsten í eitt gestaherbergi; á meðal annara frómra manna sjer þessi hinn ungi maður, að einn situr með hatt síns föðurbróðurs. Prestsins frænda bregður svo við, að hann feldi matarnautn, og þykir nú vant efni sjer að höndum komið, og er nú í umbyltingu sinna þanka, hvað hann helst skuli til bragðs taka. Húsvörðurinn spyr hann að, hvort honum að nokkru óglatt væri, hinn kvað lítið um það vera. Þessi hinn ungi mann spyr að þennan, hvar hann hafi fengið þann hatt er hann bæri, og sagði það vera hatt síns föðurbróðurs, herra Söfrens, er myrtur hefði verið í

Sælandi af sínum eigin þjenara. Honum brá þar lítt við, en kvaðst þó hattinn með fullu verði keypt hafa. Þessi ungi maður efast með sjer, hvort hann skuli á hann hendur leggja. En með því skrif var útgengið um alt ríkið, að hann skyldi höndlast, hvar sem hann þekkjast kynni, þar fyrir í Guðs trausti, þó hann þekti hann ei, lagði hann hendur á hann að tilbeiddum styrk þeirra, er við borðið sátu og lýsti hann kóngsins fangara, inn til þess hann glögglega bevísing til leiddi, hvar eða af hverjum hann hefði þennan prestsins hatt fengið. En strax sem hann greip hann höndum varð hann með öllu megnlaus, og játaði sig sekan í fyrirnefndum glæp og fordæðuverki. Síðan fjekk hann sín forþjent laun og einn herfilegan dauða.

## VII. KAP.

*Um þann skóflikkara eður skóbætara, sem stal fátækra fje úr dómkirkjunni á nótt.*

Í borginni Kaupinhafn var einn skóflikkari, Jens að nafni, sá eð hafði búðarkorn í St. Nikulás kirkjustræti, hvar inni hann daglega sína handverksiðju framdi. Svo bar til að hann dreymdi eina nótt í sínum fyrsta svefni, að sem maður nokkur kæmi til hans og spurði sig að, hverju hann vildi launa sjer, ef hann vísaði honum þann stað, hvar hann peninga öðlast kynni; því að þessi maður hafði um kvöldið með þunglegum geðsmunum sig til hvíldar lagt, vegna sinnar fátæktar og naumra búskapsefna. Maðurinn þóttist telja vanmátt sinn, þau laun út að greiða. Hinn kvað að forlíkun mundi verða þeirra á milli. Þóttist hann klæða sig og fylgja honum eftir, inn til þess þeir komu að dómkirkjunni[1]), þá vissi hann sig vera vakandi. Hann segir að þar sje gjald inni nægilegt. Hann segir að ei kunni

[1]) ɔ: Frúarkirkju.

hann því að ná, svo ei verði við vart. Hinn segir að hann með bakhluta síns líkama skuli á hurðina þrýsta, og að því gjörðu hafi hurðin opnast, og eftir hans áeggjan einn ölmusustokkinn út borið fyrir kirkjudyrnar og upplokið án harks eða háreystis. Eg minnist ógjörla summuna að dýrleika, þess smágjalds, hvað alt var í seslingum[1]), sem er fjórði partur úr fiskgildi, hver ein sú smámynt, en 300 dalir minnir mig að summan reiknaðist að vísu. Svo sagðist hann kirkju aftur læst hafa, án harks eða hljóðs. Síðan að þessu svo skeðu, kvað hann hinn horfið hefði.

Nú á meðan þetta ráns-fje var ekki öldungis eytt og uppsóað, sem hann með allra handa óhófi útsvallaði, yfirgaf hann á meðan sitt náttúrlegt handverk. Á þeim næsta sunnudegi eftir, sem þetta fordæðuverk skeð hafði, og kirkjuverjararnir skyldu sinn umgang í kirkjunni hafa eftir venjunni að bera þær töflur fram fyrir fólkið, sem á stólunum situr, hvar inn sjerhver leggur sem hver vill sjálfur, og þá þeir ölmusufjeð skyldu innleggja, fundu þeir eina örkina tæmda öllu gjaldinu. Síðan kunngjörðu þeir það prestinum, hverju hann að endaðri prjedikun yfirlýsti af prjedikunarstólnum, og þar eftir á ráðhúsinu tilskikkað, að hver sá maður, sem seldi eður betalaði í seslingum til hálfs dals gildis, skyldi rjetttækur til járna undir próf og rannsak.

Svo bar til nær sem þessi fyrnefndi glæpamann hafði að mestu því rænta fje útsvallað, þá fjell honum til geðs að tíðka sitt gamla handverk aftur að nýju. Gekk til eins skómakara að nafni J a k o b, skósólaleður að honum að kaupa; en í verðið býtti hann hálfu öðru dals gildi í seslingum. Hann ljet inntappa honum eina könnu öls, en á laun sendi til býfógetans, L a u r i t s M a g n ú s s o n a r,[2]) hver strax útsendi tvo býsveina, að grípa hann. Og nær þeir koma í stofuna heilsa þeir blíðlega og um könnu öls biðja, hvað þeim og veittist. Þeir spyrja, hver þessi maður sje, og bjóða honum samlag á ölinu, en hann kvaðst ei tefja mega. Húsbóndinn

---

[1]) smápeningur, 6 peninga gildi, þaraf nafnið »Sechsling«. RC.
[2]) bæjarfógeti í K:höfn 1615—20. RC.

segir að hann hafi af sjer keypt leður til hálfs annars dals og í seslingum alt borgað. Þá segja býsveinarnir þann mann vera kirkjuþjófinn, sem stolið hefur því helga fje og volaðra upphaldi. Senn lögðu þeir hendur á hann og hann meðkendist strax fyrir þeim þetta ódæðuverk. Síðan leiddu þeir hann fyrir býfógetann og þaðan í fangelsið, og skömmu þar eftir útleiddur og stegldur fyrir utan Vesturport.

*Nú eftirfylgir um þann þjóf sem ljet gjöra lykil að krambúðunum.*

Þar bjó í Kaupinhafn einn sá slátrari er Christján hjet, einn velríkur maður. Hann tók sjer það fyrir af djöfulsins innblæstri að komast í sem flestar krambúðir borgarinnar, og keypti að einum smið, þeim Diðrik hjet að gjöra sem þar til hlýddi. Þegar kramsveinar söknuðu margskonar vöru úr sínum krambúðum, þá bar upp þetta hver fyrir öðrum og kunngjörðu sínum herrum með lempe. Þeir taka það til bragðs, að þeir láta tvo menn liggja uppá njósn í hverri krambúð um næturtíma, og með þeim hætti varð það augljóst hver þessu valda mundi. Hann varð svo uppvístur, gripinn og í fangelsi settur með 9 þeim persónum er honum þjentu og í bland þeirra var hans kvinna, 2 dætur og 1 sonur.

Bróður einn átti hann sjer í borginni þann er Jens ferjumaður nefndist. Hann bjó í Víngarðsstræti, þar næstu dyr, sem eg lá til herbergis. Það var haldið að þessi maður mundi vera varúlfur, hverjir menn þessháttar stundum í úlfslíking bregðast, þó án eigin vilja, og hefur ættum fylgt frameftir, sem sagt er að skeð hafi fyrir óhæfilegt meðal. Þessi ferjumaður Jens, bróðir hins áður nefnda, gekk á þann veg sem von var til að kóngur mundi um reisa til Friderichsborgar, hvar eg með mörgu fólki var viðstaddur, sem var við ströndina hjá Hábrú. Þegar kóngurinn kom af slotinu fjell þessi Jens á sín knje. Kóngur spurði hver hans vild væri. Hann segir og kvaðst biðja hann um, að sinn bróðir mætti undir sverð frá hengingu náðast. Kóngur kvað honum annað nauðsynlegra vera en um það biðja,

sem væri að biðja Guð um það, að henti aldrei slík ólukka, sem hans bróðir. Samt væri hann það, sem hann væri orðinn, hvern dauðadaga sem hann fengi. Kóngur snerist við og spurði hvað mikið hann vildi til þess gefa. Hinn bauð 300 dali. Kóngur kvað svo vera skyldi og skyldi til kirkna leggjast, hvað og skeði, að hann með öllu sínu hyski, sjálfur hinn tíundi, var hálshöggvinn.

*Um skraddarans kvinnu.*

Einn skraddari Hannes að nafni, sá eð bjó upp í Klæðabúðunum, er svo kallast, átti sjer unga og dægilega kvinnu, sú er Anna hjet. Einn af soldátum hafði hana litið með girndaraugum og um sat með sínum kompánum að ná henni frá sínum ektamanni, og þessvegna skeði mikið upphlaup í borginni á einum laugardegi, með soldátum og erfiðisfólki borgaranna. Maðurinn varð það svo búið að hafa, með því hún sjálf þar til styrkti og misti hennar svo aldeilis.

Með sama móti bar til það sama haust að einn að nafni Maurus knífsmiður hlaut að missa sína ektakvinnu Bersabe, sú eð gaf og færi á sjer og fór burt með einum soldát í Þýskaland. Item einn eðalborinn mann Jurgin Dá[1]) að nafni, sá eð var aðmíráll í Vestursjónum og kaptugann Mandaus hertók undir Rússía, með hverjum eg fyrst á herskipum sigldi Anno 1616, misti með sama hætti sína eðalborna frú af einum soldát og rýmdi með hana uppí Þýskaland. En þó skrifað sje fyrir slíka gildir eigi, því einn soldát kroppar sjaldan auga út þess annars síns kompáns og stallbróðurs.

---

[1]) Jørgen Daa, aðmíráll, † 1619.

## VIII. KAP.

*Innihaldandi um mínar siglingar á herskipum um norðvestursjóinn og fleira hvað viðbar við týhúsið.*

Á því fyrsta ári, er eg kom undir kónglegt regimenti, anno 1616 var kóngsins lífskip í smíði á Bremerhólmi, sem í fyrstu kallaðist Caritas, en síðar fyrir nokkurt tilefni Patientia. Á því ári 1616 var haldinn herradagur til Opsló í Noregi, með kónginum ásamt öðrum af ráðinu. Var cancelerinn Christian Fris,[1]) hver eð í þann tíma var mjög á aldur kominn, undir eða yfir áttrætt. Og um kvöldið til Opsló, nær hann með kónginum og öðrum herrum var til borða uppsitjandi, kendi hann sig veikan orðinn og bað kónginn innilega um að hann mætti útflytjast strax til skips þess, er hann kom með frá Kaupinhafn þangað, sem var Fides, og að morgni komast á heimleið, hvað kóngurinn góðmannlega samþykti. En um nóttina nærri miðnætti andaðist hann, og strax að morgni heimleiðis fluttur. Nú sem hans frú, Mette eður Mathildur[2]) það spurði, brá henni undarlega við, og var sagt að hefði rangan grun, að öðruvísi mundi skeð hafa um hans dauða; nefnt var að hún mundi ósæta samvisku hafa til kóngsins, og varð kóngur af trúum vinum þar um viðvaraður að hann til sjós og lands sem best sig athugaði.

Á því ári 1617 um vorið ásetti kóngur sjer enn þá sem fyrri að útsigla sjálfur með sínu lífskipi Patientia. Um kvöldið var við lokið að flytja til skips hvað við þurfti, en um morguninn eftir vildi kóngur afreisa. Um nóttina kom svo mikil ógn af austri að undrast mátti, og menn hugðu hús og turnar niður hrapa mundu. Það varði nærri hálfa

---

[1]) Chr. Friis, kanslari, f. 1556 † 29. Júlí 1616.

[2]) Mette Hardenberg kona Friis kanslara á einmitt að hafa verið mikil vinkona Kristjáns konungs. Hún dó 15. Júní 1617. Sjá RC. og rit þau er þar er vitnað í.

eykt. En í þeim sama byl hrakti kóngsins lífskip uppá sandrif nokkur, er lágu fyrir utan Bremerhólm, úr flotanum 100 skipa, er þar lágu, og um koll á stjórnborðssíðuna og rann sjór inn af hverju porti, því stykkin lágu öll úti. Svo skemdist allur farkostur fólksins með kóngsins öllu meðfylgjandi. Hann sjálfur, kóngurinn, ásamt öllum honum þjenandi, sem var kapteinar, skipherrar, byssuskyttur, bátsmenn, timburmenn og hofþjenarar, sem þar daglega við voru í hálfan mánað, skipið aftur að viðrjetta, hvað og skeði með stórum erfiðismunum, Þá umbreyttist skipsins nafn, sem fyr hjet Caritas, enn með því að slík raun og reynsla það yfirfjell, ljet kóngurinn nefna það Patientia.[1])

Skömmu síðar en þetta skeði ljet kóngurinn tilbúa uppá nýtt þetta sitt skip til siglingar, að reyna þess gang, stöðugleik og ferð undir seglum, með öðru velsiglandi skipi, Spes að nafni. Nokkrum dögum fyr ljet kóngurinn það spyrjast út um landið í nálægð, að hann með þessu skipi vildi afreisa. En sem skipin skyldu frá höfnum halda, ljet kóngurinn setja sig með bát til hins skipsins. Á þessum degi var gott veður með sólskini. — Í þann tíma lá eg sjúkur í köldu og varaði 18 vikur sá sjúkdómur. — Og nær sem skipin undir þeirra seglum voru komin út fyrir Drageyri í hægri kylju, kom einn andgarður svo geysilega hart, að stórmastrið, sem var samansett af 9 trjám og var tveggja eða 3ja feðminga að þykt, hrökk í sundur[2]) og í einu út í sjó með 12 mönnum, er í mers-körfunni sátu, af hverjum einn þeirra andaðist, og kóngur mjög syrgði með tárum, og kvað hann fyrir sig sitt líf mist hafa. Hans börn ljet hann taka, þau sem vaxin voru, en þeirra móður síðan einum bátsmanni gifta. Í þriðja sinni var eg með þá kóngurinn sigldi þessu skipi ofan í Eyrarsund, og tókst þá alt vel.

Páskadaginn sjálfan, þegar öll kóngsins skip lágu á straumunum fyrir utan Bremerholm, undir sínu skarti, sem

---

[1]) þessa atviks getur konungur í dagbók sinni $^{21}/_{4}$ og $^{2}/_{6}$ 1617.
[2]) eftir dagbók konungs skeði þetta 30. Júní.

er skansklæðum umkring alla borðstokka og allar merskörfur, með sín flögg á toppum og bolsaner[1]) frá rámúlum,[2]) undir prjedikun, rak eina tunnu tvíbotnaða að skipinu Patientia, en sá maður, er bar dagvakt, brá karnatskrókum[3]) á þessa tunnu og innbyrti hana, því hann hugði þar gagnlegt nokkuð inni vera mundi. En nær hann tunnuna opnaði var þar inni höfuðlaus dauður maður liggjandi. Maðurinn var felmsfullur og úthæfði tunnunni aftur í sjó. Síðan gjörðist stór reimleiki lengi í skipinu, hvers 9 menn urðu við varir, á meðal hverra eg var einn, hvern vjer fengum yfir höfuðið, hvar yfir kóngur sig mjög aumkaði og daglega vitjaði vor sjálfur og tilskikkaði sínum matgjörðamanni oss þá heilnæmustu fæðu að bera. Þetta var í öðru sinni er eg sigldi innanborða á þessu skipi með kónginum ofan í Eyrarsund. Guð veitti oss aftur vora heilbrigði.

Þriðja sinn ljet kóngur útbúa 2 önnur skip Fides og Spes til Noregs þar sem þeir kalla Fleckerey,[4]) til að umskoðast þar fyrir umtölur nokkurra manna, hvort þar mætti ekki blokkhús byggjast, svo þau skip, sem í stormi þar inn hleypti, gæfi ríkinu toll. Því þar hleypa inn mörg skip, þegar svo viðliggur og liggja þar af sjer storminn. En kóngi leist ei það ráðlegt vera nje þeim herrum, sem voru af ráðinu og kónginum meðfylgdu, sem var: Albert Skiel ríkisins aðmíráll, sá norski canceler, sá norski statholder.[5]) Vjer fengum þangað góða byri. Þessi ríkisins aðmíráll var einatt á ræðu við kóng um ríkisins nauðsynjar og jafnan lagði til hið besta, eftir því sem hverjum viðveik, og hann sá að meðþurfti.

---

[1]) ɔ: veifur.

[2]) ɔ: rárendum.

[3]) 'karnat' er verkfæri til að draga vörur upp í skip (einskonar »talia«); karnatskrókur er þá krókur á reipisenda, sem er festur í karnat.

[4]) Eftir dagbók konungs fór hann á stað 7. maí 1617 og lenti aftir við Varberg 14. maí.

[5]) Albert Skeel (1572—1639) ríkisaðmíráll 1616—23. — Norski kanslarinn var Jens Bjelke (1580—1659), landstjórinn í Noregi (1608—1618) var þá Enevold Kruse (1554—1621). RC.

Einn morgun bar svo við, nær menn tóku sinn morgunverð, að einn af kóngsins hofjunkurum var sendur til að spyrjast fyrir um í skipinu, hvort engir Íslenskir væru innan skipsborða, hverjir, ef þar væri, skyldu án viðtafar með sjer ganga fyrir kóng, því hann svo bífalaði. Honum var andsvarað að 2 af byssuskyttunum væri íslenskir, sem var Jón Halldórsson ættaður úr Eyjafirði, og Jón Ólafsson, sem var eg. Við gengum svo með honum upp á þiljur fyrir kóng og ríkisins aðmírál Albert Skiel.

Kóngur bað mig bíða svo lengi, sem hann við hinn eldri og stærri mann talað hefði. Hann spyr hann að ætt og nafni, og með hverjum hann hefði út af landinu siglt, og fyrir hverja orsök. Jón kvað enga vera utan alleina sína girnd, sem þar til hafi stórum langað. Kóngur kvað það ei vera mundi, heldur kvaðst hyggja að hans frek elska til kvenna því valdið hafa. Síðan kallar kóngur á mig, og með sama hætti aðspyr mig að ætt og nafni og hvort eg hafi í skóla gengið, því eg sjái út til þess, að hafa lærðra manna yfirliti, og enn spyr hann mig að, með hverjum eg hjeðan siglt hefði. Eg segi með Engelskum, því eg vogaði eigi þar um að missegja. Kóngur spyr mig, hver nauðsyn mig hafi þar til dregið heldur enn með Dönskum. Eg kvað ei aðra en sjálfs míns vild þar til komið hafa. Hann spyr að minni reisu til Englands, þarveru og þaðanför, og hvernin mjer þar fallið hefði, og margs fleira þar innanlands, um byggingar og vegarlengdir þar í milli borga, trúbrögð, og margs annars, og uppá flest gaf eg kóngi svar, og meðkendi mig það alt satt segja og hafði gaman af þessu okkar samtali. Síðan mintist kóngur á Engelskra kaupskap hjer við land, og varð mjer það til svara, að hjer kæmi oftlega á vor rekaís frá Grænlandi og burt tæki veiðarfæri manna, og stæðu menn þá eftir hjálparlausir. Kóngur kvaðst þetta fyrri heyrt hafa. Albert Skiel ansaði jafnan góðu til vegna þessa lands innbyggjara, og kvaðst svo breyta mundi, og því enn framar ef hjer byggi, að kaupa sjerhvað um nauðsynjaði, reiðurum Danmerkurríkis að þakkarlausu. En þó þeir keyptu sjer veiðarfæri aftur, þá hefðu reiðararnir

þar ei síður gagn af, því sagt væri að Íslenskir fengi Dönskum matinn, en hjeldi eftir beinunum. Hann spyr mig hvort ei svo væri. En eg kvað það satt vera, að Danskir hefðu bolina, en Íslenskir höfðunum eftirhjeldu.

Margt fleira varð um þessa lands höndlan og háttalag, ríkra og fátækra talað, en eg ansaði fáu til; en svo var að merkja, að kóngur væri margs vís orðinn, hvernin hjer til gengi og spurðist fyrir um falsaða vöru Danskra, hvort satt væri, sem þeir jafnan um knurruðu, þeir eð hjer byggi, en þó kæmi enginn hjeðan með skjallega klögun þar yfir, hvað honum mjög þótti, óskandi að Ísland væri sjer svo nálægt, sem þá var Noregi. Eg segi kóngi að einn íslenskur stúdent væri þann tíma í Kaupinhafn, Þorlákur Þorkelsson að nafni, frá Hólum, sem þríslags próf hefði til sýnis. Kóngur gladdist við og bað mig að áfýsa, að hann þau fyrir sjer til sýnis ljeti, svo hann þar um eitthvað glögglegt fregna fengi. Og svo að þessu samtali í það sinn öllu enduðu, ljet kóngur kalla á sinn eigin víntappara M. Christian Skammelsson[1]) og bífalaði honum eitt 12 marka vínstaup okkur að afhenda, og að því meðteknu gafst okkur burtfararleyfi aftur þaðan.

Albert Skiel áfýsti kóng hjeðan fólk að útskrifa; kóngur kvað land þetta ei fólkríkt vera og bændur ei missa mega. Uppfrá þessu ávarpaði kóngur mig þrávalt með ljúflegu ávarpi, hvar hann sá mig.

Síðan fengum vjer suðaustanvind norður með Noregi alt til þess að vjer komum í Fleckerey; þar kom kóngur á land að umskoða hvað honum virtist og hinir aðrir herrar með honum, og svo ferðaðist hann með þeim á þann næsta prestagarð, er þar lá við höfnina, og svo út til skipanna um kvöldið, og svo aftur að morgni til heimferðar. Ei leist kóngi þar hentugt blokkhús að byggja láta.

Sá viðburður skeði á heimreisunni, að nær kóngur vildi kvöldmáltíð halda, þá vantaði alt borðsilfrið, en kóngsins

---

[1]) Christian Skammelssen var efnaður borgari og hjelt vínkjallara í Höfn. Hann dó 1626. RC.

vaktari hafði gleymt silfrið að heimta eftir miðdagsmáltíðina. Þá gjörðist mikill ókyrleiki í skipinu af þvilíku tilferli, og voru þá allir uppá þilfar kallaðir og lykill sjerhvers manns heimtur að öllum hirslum, og var eg þá sem fleiri stórlega uggandi, að hefði svo mátt ske, að nokkur óráðvandur hefði mátt koma því á veitur frómra manna. Þessi rannsökun var gjörð af prófoss og hans 4 sveinum. Einn bátsmaður Rasmus að nafni gekk til skipherrans og gaf honum heimuglega að skilja, að á sama degi, stund eftir máltíð, hefði úr fötu gegnum vatnsportið einhverju hringlandi helt verið. Það kom fyrir kóng. En sá sem gjört hafði hjet Jón og var nýlega kominn í kóngsins þjónustu, og var ættaður norðarlega úr Noregi, og eru í fyrstu kallaðir Grábeinar. Þessi maður var ljeður kóngsins matgjörðarmanni M. Christian, sá eð hafði undir sjer 11 sveina. Senn var hann fyrir kóng kallaður og með stórri hræðslu varpaði hann sjer flötum fyrir kóng og meðkendist sjer það með óvilja orðið hafa, og hann hefði þess ei gáð, því vatnið hefði gruggótt verið. Kóngur brosti við og vorkynti manninum og kvað hann fávísan og fátækan vera, og sagði hann skyldi þjóna eitt ár þar fyrir upp á hólminum. Var þar svo ei meir umtalað.

Einn sunnudag á heimleiðinni var byrleysi, og eftir prjedikun og máltíð ljet kóngur fólkið alt uppkalla á þiljur og bað það eitthvað til gamans upp að finna. Kóngur bað helst að einhverir tveir drægi kattastrjúpa, er svo kallast. En þeim leik er svo varið, að þeir bregða snæri aftur fyrir hvors hnakka og dragast svo hart á hnjám og höndum sem megna, og er með krít merki skrifað yfir um þvert þilfar, yfir hvert hvor keppist öðrum að kippa. Þessi Jón, sem silfrinu hafði úthelt, var upphvattur þenna leik að hefja, hann var stór maður og geysilega sterkur. Honum var valinn einn af fólkinu, fyrst af bátsmönnum, til leikbróðurs sá sterkasti, og síðan 4 aðrir, hverja alla hann kasklega yfirvann. En kóngur miðlaði honum við hvern mann hálfri mörk, sem er fjögra fiska gildi. Síðan var leitað meðal byssuskyttanna. Fyrst gekk af þeim í leik við hann Jón

s[álugi] Halldórsson, sem eg fyr nefndi, minn trúfasti stallbróðir. Ei vildi það duga. Síðan kom einn af byssuskyttunum, Michael að nafni, mikill maður að stærð og krafti; þessir áttu langt þjark sín í milli, þar til Michael vann, og gaf kóngur honum tvöfalt. Mikill var þeirra aðgangur, svo mönnum fanst skipið skjálfa í þeirra viðureign. Síðan urðu margir aðrir leikar framdir kóngi til skemtunar. Nokkrir ljeku það, að sækja einn smápening með munninum ofan í einn vatnsstamp, og halda sínum höndum aftur á bak. Sumir hlupu í reiða, og af toppi fóru á hnakka toppstaginn ofan eftir, og margt fleira annað.

Síðan nær meir leið á daginn sáum vjer eitt skip á vorri framleið, það skip var hollenskt, ei stríðsskip. Eg hafði 2 stykki fram á skipinu, ekki mjög stór, sem kallast hálfgóss; lóðið upp á 9 marka þyngd. Kóngur bífalaði þeim, er þau vakta ætti, að gjöra þau ferðug, hvað og gjörðist. Þá mælti kóngur: »Nú skaltu Jón ramma oss það skip þar siglir.« Nær eg stykkin með fengpúðri og slíku sem til heyrði undir sigti tilbúið hafði, þá afrjetti kóngur stykkin sjálfur, eftir sinni vild, en eg gaf fýr uppá þau. Ei vildi hann þeim mein gjöra, utan skelk. Svo voru skotin ellefu skot eftir þeim fyr en þeir strika vildu. Síðan kom skipherrann með fimta mann á borð til vor, skjálfandi og mjög hræddur, varpandi sjer fram fyrir kóng með gráti, afsakandi sig mjög, einkum það hann ei vitað hefði að kóngur sjálfur innanborðs verið hefði. Kóngur uppsló til gamans og reynslu að hann öll skotin borga skyldi, sem var hvert skot með rosenobel. Ei vildi kóngur þau þiggja í það sinn, utan ef í öðru sinni þvílíkt tráss sýndi, skyldi hann útlátum mæta. Kóngur ljet færa honum og hans mönnum 12 marka staup með Rostockaröl og mat. Ei gat hann fyrir hræðslu matar nje öls neitt. Síðan fór hann i friði aftur til síns skips.

Og nær vjer komum fyrir Varbergs slot ljet kóngur setja sig með bát til lands, með nokkrum fleirum af hofjunkum og herrum. Þar stje kóngur til vagns og hans herraleg meðfylgd og reisti svo í gegnum Halland inn í Skáney og

yfir um Eyrarsund frá Helsingborg til Helsingeyrar, og að lítillri dvöl þar entri, kom kóngur til skips aftur, og seint um kvöldið komum vjer upp fyrir Kaupinhafn, þar eð St. Önnu brú kallast. Kóngsins hofprestur að nafni M. Davíð[1]) gjörði langa oratiu og þakkargjörð með innilegu málfæri. Síðan dró kóngur til lands í sinn aldingarð, sem stóð utanborgar í þann tíma í norður frá borginni.[2]) Þar í voru allrahanda jurtir og grös. Marcus hjet jurtagarðsmeistarinn. Slot stendur í miðjum garðinum með háum turni, veglega gjörður, og ypparleg hús með gyltum og máluðum bílætum og ilmandi lykt þar inni. Í garðinum miðjum stóð kóngsins mynd úthöggvin í alebastursteini.

Að morgni komum vjer heim í borgina og var sjerhverjum af oss vel fagnað af vorum kunningjum og Guði þakkir gjörðar fyrir lukkusamlega reisu fram og heim aftur.

Um frú Mathildi sem fyr var nefnd, var sagt, nær hún spurði kóngs ásetning, að hún hafi inngengið í sitt svefnherbergi einsömul og bannað sinni þjónustumey þar inn að ganga með sjer, og hafi skömmu seinna þar inni dauð fundist.

## IX. KAP.

Fyrst nær eg kom til Kaupinhafnar 1615 var eitt opið sund á milli borgarinnar og Amakarlands, og þar yfir um var fólk ferjað á smábátum;[3]) en þar sem fólkið út í bátana stje nefndist Kífunes, af því snakki fólks, mælgi og kífan, sem þar daglega heyrast mátti. Því hver þrengdi sjer sem mest mátti út í bátana að komast, svo margt handar og

---

[1]) Hjer halda RC. að J. Ól. muni ekki nafnið, því svo hafi enginn hirðprestur eða skipsprestur heitið þá, er hjer geti verið átt við.

[2]) 1606 var byrjað að stofna til Rosenborgargarðs og 1610 að byggja höllina með því nafni. Marcus Wiblitz stóð fyrir garðinum 1606—1623. RC.

[3]) Knippelsbrú var fyrst bygð á árunum 1618—20. RC.

hnífslag varð þar tíðum útgefið, þegar harðfengnir þar hittust tíðum. — Fyrst í stað fór eg yfir um það sund og upp á Amakarland, því þar bjó einn maður, sem eg hafði erindi við, Niels Ákason að nafni, sá eð var kaupmaður við Skutilsfjarðar. pollhús við Ísafjarðardjúp.[1]) Var eg jafnan þar vel meðtekinn í hans húsi, og af honum og hans kvinnu mjög elskaður. Hvern laugardag fann eg hann í Kaupinhafn, nær eg var heima, því þá var torgdagur. Magnús Arason[2]) og Magnús Sæmundsson[3]) mínir elskulegir landsmenn (nú í Guði burtsofnaðir) voru nokkrum sinnum til samans í hans húsi með góðu yndi og eftirlæti, og einn tíma með honum í kostulegri brúðkaupsveislu. Hann lánaði mjer oftlega peninga, hverjir honum aftur rúntlega borguðust af minni s[álugu] móður og bróður, af mínum peningum, þeim er eg hjer eftirljet. 15 vætta gildi varð eftir í hans garð af því góssi er mjer hjeðan útsendist þangað.

Einn ungur maður Jaspar að nafni þjónaði þeim æruverðuga manni í Kaupinhafn Ívar Pálssyni, sá eð var borgmeistari, fyrir kaupsvein. Hann sigldi 2 ár upp á Skutilsfjörð, og átti fyrir mína móður og bróður að færa mjer til 18 vætta. En pest greip hann á öðrum degi eftir það hann heim kom frá Hamborg, því skipin í þann tíma aflossuðu þar. En með því hans handskrift var ei til sýnis eftir hann, fjekk eg þar enga leiðrjetting á, þó eg þess oftlega krefðist bæði af borgmeistaranum, og mannsins erfingjum; þeir áttu heima í landi Holsten.

Þessir voru borgmeistarar í Kaupinhafn í þann tíma er eg þar fyrst kom og dvaldist. Fyrst þeirra hinn elsti var Knútur Marcússon, 2. Ívar Pálsson, 3. Michel

---

[1]) ɔ: verslunarhúsin við „pollinn"; þar sem síðar hefur risið upp Ísafjarðarkaupstaður.

[2]) sonur Ara í Ögri, á Reykhólum síðar sýslumaður í Barðastrandarsýslu. Dó úr bólu 1635. (Esp. árb. VI. 73; sjá Sýslum. B. Benediktss. II. 89 ff).

[3]) síðar sýslum. í Barðastrandarsýslu, dó líka í bólunni 1635 (Esp. l. c.). — Um hann sjá Sýslumannaæfir Boga Benediktssonar II. 87 ff.

Vibe, 4. Pjetur Andrjesson.[1]) Þessir allir höfðu verið fátækra manna synir og um brauð biðjandi, þegar þeir fyrst komu í Kaupinhafn, en fyrir Guðs náð og vilja urðu voldugir menn, sem raun gaf vitni. Pjetur Andrjesson hafði ferðast til Jerúsalem, og var hálft ár í burtu. En tilrekstur til þeirrar ferðar var þessháttar, eftir því sem hann mjer frá sagði, að hann einn tíma um kvöldið sat í samdrykkju með 3 herramönnum og kom í með þeim þung kappmælgi um reisu til Jerúsalem. Þeir sögðu, að sú reisa fullendaðist ekki á skemmri tíma en á tveggja ára fresti, en hann því sterklega mótmælti, og kvaðst forfallalaust á einu ári skyldi fullgjöra og sagðist vilja játa alt fje sitt uppá trú sína og æru kóngi til eignar, ef ei svo fullgjörðist. Hjer um slógu þeir veð sín á milli, að þeir skyldu hver þeirra honum skyldugir um eitt þúsund dali, ef þeim brigðist; þetta fullgjörðu þeir með handsölum sín í milli. Um morguninn næstan eftir báru þeir þetta fyrir kóng. Strax var hann þangað kallaður ogámintur um inntak sinna orða, hvað hann hlaut að meðkenna, og varð svo prófors alt að standa á báðar síður. Svo varð hans kvinna með sínum 3 dætrum hús að rýma, og ekki eitt skildings virði þaðan úttaka, og varð að fá henni hús og viðværi hjá sínum góðum vinum, á meðan hans frávera yfirstóð. Svo skildist hann með miklum harmi við sína kvinnu og börn, og fór svo með greiðasta hætti, sem honum af Guði lukka til gafst, eftir því sem leið lá, fyrst suður í Róm og fjekk páfans aflátsbrjef, síðan suður til Jerúsalem, hver vegarlengd er 600 mílur frá Kaupinhafn og til Jerúsalem. Svo enti hann sína ferð lukkusamlega á hálfu ári og fjekk aftur sitt hús, hvert á meðan var aftur lukt og með þremur fjölum fyrir utan enn kröftugra tilslegið, og á hverri fjöl kóngsins innsigli sett. Þrjá hátíðaklæðnaði skenkti kóngur honum og skikkaði honum borgmeistaraembætti. Svo hlutu þessir herramenn

---

[1]) Knud Markvardsen var borgmeistari 1606—1629, Michel Vibe 1609—1624, Iver Poulsen 1615—1622, og Peter Andersen Randulf 1618—1620. Sjá O. Nielsen, Kbhvns. Hist. III.

3 að útþunga honum sitt unnið veðfje, sem var 3 þúsund dalir. Svo hjálpaði Guð honum vel og farsællega úr þeim raunum til langgæðlegs heiðurs og sæmdar, og var alla tíma í virðingum hjá kóngi og í allra manna góðu yfirlæti. Og nú að þessari frásögu endaðri skal nú víkja til annars þess viðbar.

Skömmum tíma eftir það eg var innskrifaður undir kónglegt regimenti, var mjer vakt við týhúsið tilsögð hverja níundu nótt, og svo línkindarsamlega, að eg skyldi í vakt tveggja minna stallbræðra vera, sem var Jón Halldórsson og Rasmus Hansson, og var þeim tilsagt mjer að undirvísa í einu og öðru, sem stykkjunum og týhússins höndlan við kæmi. Vaktmeistarinn hjet Hans Michelsson einn frómur mann. Við það port hjá Hábrú, þar eð eg var fyrst til herbergis hjá kóngsins stalli, var vaktin fyrst hvert kvöld uppþrekt að allri fullri tölu samansafnaðri, sem voru 24 menn, að auk vaktmeistarinn, píparinn og trumbuslagarinn, þeir eð gengu heim aftur með þeim, sem vakað höfðu í sín 2 dægur. Fólkið gengur í pörum og liðum sem í fylkingu, fyrst vaktmeistarinn undan með sinn mikla atgeir, síðan trumbuslagarinn á hægri en píparinn honum til vinstri síðu, þar næst hinir elstu og svo hver með öðrum í liðum, hafandi hver verju við sína síðu og spjót á öxlum, sem sintreyr kallast,[1]) sem er að þvílíkri myndan, sem hjer sýnist.



[1]) Teikningin í textanum er tekin úr Ögursbók: hún finst líka nokkuð öðruvísi í E og D en ekki í hinum handritunum. — Menn hefur hingað til greint á um hvað „sintreyr“, (d. „Zintrør“) hafi verið. Sjá Blom, Chr. IV's Artilleri bls. 303 og rit þau er hann nefnir. — Teikning Jóns Indíafara bendir á að þetta verkfæri hafi verið einskonar „luntastöng“. — „Luntinn“ var digurt snæri eða mjór kaðall, sem var kveikt á, og svo logandi endinn borinn að púðurholi fallbyssunnar. Til þess að brenna sig ekki á höndunum var hann stundum vafinn upp á stöng („Luntestok“) eins og sjest á myndinni á bls. 32.

Þegar að kom austur fyrir slotið, á þann veg er til týhússins liggur, þar stillir hann sína fylking, og skipast alt fólkið í einn kringlóttan hring; síðan lýtur hann í þess manns eyra, er honum stendur til vinstri handar, og segir það lausnarorð, sem hann af slotsherranum hvern dag meðtekur í hljóði og vaktinni í hljóði svo sagt verður, að enginn maður má það orð vita· utan alleinasta vaktin. Og hver sem því orði týnir, og ekki kann því að svara á miðnættinu, þegar vaktmeistarinn uppkemur með píparann og trumbuslagarann til porta týhússins vaktina að reyna, sá hefir lífinu týnt, er þá skildvakt stendur í þann tíma. Áðurnefnd orð segir hver öðrum í eyra, þar til það verður í hans hægra eyra talað. En sje svo að þetta hljóðmæli hafi einhverjum misheyrst, og komi því rangt orð að vaktmeistarans hægra eyra, þá verður að segja aftur uppá nýtt, þar til það verður rjett skilið.[1]) Síðan ganga 6 ársknektar uppá slotið að vaka á slotsplássinu en 18 upp til týhússins. Síðan ganga þeir heim, sem einn dag og nótt vakað hafa, þangað sem vaktmeistarinn bíður eftir þeim, og síðan fylgir hann þeim með sömu aðferð í fylkingu að portinu, þar sem öll vaktin samansafnast og fyr var umgetið, og þá gengur hver án orðu heim til sín.

Stundum ganga menn nær þyrstir eru í þá kjallara, sem eru við ströndina að svala sjer. — Svo bar til einn tíma, er eg var nýlega skrifaður við týhúsið vakt að halda, og eg var genginn vestur yfir brúna frá portinu af minni vakt,

---

En stundum var þessi luntastöng útbúin sem vopn, og mátti nota hana sem spjót ef á þurfti að halda; var þá luntinn dreginn upp í gegnum op á þverálmum framan á stönginni, en milli þeirra gekk svo reglulegur spjótsoddur fram. — Þetta verkfæri mun hafa verið það sem kallað var „sintreyr". Á teikning Jóns Indíafara má vel greina álmurnar og oddinn. Til samanburðar eru hjer á bls. 58 settar myndir af tveimur þesskonar verkfærum frá dögum Chr. IV. Sbr. líka myndir í W. Boeheim, Waffenkunde. Lpz. 1890, bls. 489, og Catalogo della Armeria Reale. Torino 1890, bls. 377. — Hr. Premierlieutenant Stöckel við sögulega vopnasafnið í týhúsinu í Höfn hefur bent mjer á þetta, og þakka jeg honum hjer með fyrir það.

[1]) þessi siður með lausnarorðið helst þann dag í dag í danska hernum. RC.

að einn maður og einn byssuskytter að nafni Pjetur Drageyri bauð mjer í þann kjallara sem var gagnvart brúnni og kallaðist Christínar Doktors kjallari, að drekka eitt



Sintreyrar („luntastengur") frá dögum Christiáns 4. Nú á hinu sögulega vopnasafni á týhúsinu í Kaupmannahöfn.

glas öls. Eg var lengi tregur fyrir og sagðist eg enga peninga með mjer hafa. Hann kvaðst peninga sjálfur hafa fyrir sig og mig, og bað mig sjer ekki mistreysta. Eg gekk

með honum, þó nokkuð deiglega. Kjallarasveinninn hjet Niels. Pjetur heimtir öl, inntil þess hálfs dals gildi var inntappað, og var þá liðið mjög á nótt. Pjetur sagðist ætla að ganga fyrir dyr. Eg bið hann fyrir öl og vín að borga; hann ljest vera mikill dánumaður, og spurði mig hvort eg sig efaði sem einn æruleysing. Síðan gekk Pjetur og kom aldrei inn aftur í það sinn. Þá mælti kjallarasveinninn þegar hinum dvaldist yfir mátann: »Nú er þinn stallbróðir burtvikinn, þar fyrir tel mjer gjald út fyrir öl og vín.« Eg kvaðst ekkert gjald hjá mjer hafa, þar með og líka hefði eg einskis öls af honum óskað. Hann kvað mig samt með honum drukkið hafa, og sagði mig fyr ei burtganga mega en bítalað hefði, og tók í laf míns kyrtils og bað mig honum afklæðast, en þó með hóglyndi. En svo hafði tilborið fyrir þremur dögum liðnum, að Þorlákur Þorkelsson, minn góður vinur, hafði skenkt mjer einu kostulegu refskinni íslensku, því eg hafði varið hans íslenskri vöru fyrir gjald, er honum frá Hólum hafði send verið, og fjekk eg fyrir það tvo sljetta dali, og af þeim voru 5 mörk eftir í mínum leynipoka, er eg bar næst mjer, og þar af taldi eg honum tvö sljett mörk, það er 16 fiska gildi. Hann tók mig í faðm og þakkaði mjer innilega fyrir, og lofaði eg skyldi þess gjalds fullvirði öðlast með Guðs hjálp, að sjer og mjer heilbrigðum, og þaðan af kunningjar vera, hvað og skeði að eg var honum jafnan síðan meðan hann þar þjenti, kær og velkominn, en lofaði hinn skyldi þar aldrei meir staðar nema, og ráðlagði mjer að eg forsjálega með honum og slíkum umgangast skyldi. Síðan tappaði hann pott af frönsku víni, og hann útdrukkum; gekk eg svo burt í friði heim til míns heimilis, sem að var í Víngarðsstræti hjá Jóni Halldórssyni. Hans kvinna var ættuð úr landi Holsten og ein fróm dándiskvinna.

Nú bar svo við, að um morguninn snemma næstan eftir var umslegin öll stræti með bumbunni af Marteini vorum trumbuslagara, sem oftlega viðbar, nær kóngur vildi oss nokkuð. Píparinn og prófoss, sem hjet Jurgin Kiempa fylgdist með, og í hvert sinn sem trumbuslagarinn afljet

uppá bumbuna að slá, varð hrópað af prófoss, hvað sem þá var að erinda í hvert sinn. En nú hagaðist svo til að stykki 52 er nýlega voru steypt og úthöfð af rauðgotans[1]) húsi, sem svo kallast, er stykkin steypir og tilbýr, skyldu þar nálægt á einu plássi próberast og reynd verða í kóngsins glöggri nálægð og alvarlegri aðgætni, og í metum vegið til sjerhvers stykkis. Á þessum sama morgni, er nú var sagt, var oss öllum kgl. Majest. byssuskyttum með prófossins hrópi strengilega tilsagt, að vjer skyldum uppá þá Gömlu Myntu, er svo nefnist, koma, einn og hver undir hæsta lífsstraff, þar klukkan var 6 um morguninn, sem er miður morgun, er vjer hjer svo köllum, hvað og skeði, að vjer þar komum í nefndan tíma. Kóngur var þar fyrir og strax vorum vjer munstraðir, og með nafni sjerhver upplesinn af Jurgin Hanssyni týhússins munsturskrifara. Kóngur stóð sjálfur hjá skrifaranum, að hugleiða ef nokkurn brysti. Rodgyderen, það er stykkjasteyparinn, hjet Hartvig og var þýskur;[2]) þessi nær eð kóngur upphóf að vega sjálfur í metum púðrið í einni skálinni, enn lóðið í annari, bað kónginn að vægja sjer fátækum svaramanni með voginni, að ætla ei svo mikið púður til hvers stykkis, sem til jafns væri við sjerhvert lóð, er þeir kalla kugel, því hann meinti að stykkin mundu það ei þola. En hvert það stykki, sem springur, nær það í fyrstu verður próberað, það hlýtur meistarinn aftur að nýju steypa upp á sinn eigin kostnað, og til þess verks heldur hann 5 sveina, hverjum hann stórum launar. Kóngur gaf sjer fátt að hans umræðu, en kvað meir gilda líf manna en litlir fjemunir og honum óhægra að borga en stykkið aftur ferðugt að gjöra. Hartvig bað oss alla með gráti með sjer bæn að gjöra, svo vel lukkaðist, hvað Guð veitti, svo ekki eitt stykki brast af 52, utan lítill moli hjá eins munning, og kvað kóngur jafngott vera fyrir þess sakir, og gaf meistarinn oss drykkjupeninga

---

[1]) ɔ: fallbyssusteypari, þ. Rothgieter; Christján 4. ljet byggja steypihús í Gammelmønt sem nú er.

[2]) Hann hjet Hartvig Quillichmeyer. RC.

og varð fullur fagnaðar. Að morgni skikkaði kóngur honum upp á renteríið, að taka sín laun þar fyrir, en eg minnist ei hve mikið fyrir hvert skippund af kóngi goldið verður. Þau koparstykki kosta mikið gjald, sum 400, sum 800, sum 1200, 1600 dali. Einn maður Jens Korsør að nafni, bar eld að þeim stykkjum öllum, og var svo umbúið, að hvort lá við annars síðu á trjám; undir aftur- og framparti hvers stykkis voru sívöl trje, en á milli stykkjanna voru beinir tunnustafir við fenggötin, og á þær smáfjalir var niðurdreift strikpúðri, og sá sem eld bar að stykkjunum, bar ekki eld nema að því fyrsta stykkis strikpúðri, og rann sá eldur að einu af öðru og svo til lykta. Kóngur gladdist mjög hjer við að svo vel lukkaðist, að stykkin hjeldu heilu og engum heldur slysaðist. Kóngur hjet oss lest af því öli, sem kóngsöl nefnist, og oss hjer í landi er vel kunnugt.

Nú er að víkja aftur til Pjeturs Drageyrar, er mjer á deginum fyrir bauð í kjallarann til veislu og fyr var nefnt, að um kvöldið sem eg kom úr veislunni, sagði eg mínum húsvert Jóni Halldórssyni alt hið sanna frá Pjeturs pússeríi og plögun. Þessi hans gabban og gletni barst út á meðal vorra lagsbræðra, hvar yfir þeir sig stórum grömdu og uppertu mig með miklu æði þar straks með einu steinshöggi honum að endurgjalda, hvað og skeði. Þeir skygðu á, svo kóngur skyldi ei sjá. Hann greip hníf og með miklu orgi vildi til mín; þeir gripu hann og hjeldu honum. Svo vildi hann ganga fyrir kóng og klaga mig, þeir sögðu honum skyldi það til ólukku snúast, þar hann hefði gjört slíkt skemdarstykki, og urðum við svo öldungis forlíktir. Hann lofaði mjer aldrei slíkt nje annað pússerí að gjöra, hvað hann jafnan vel enti, þó frábær maður væri til kífs og klamaríis. Allir menn undir regimentinu untu mjer hugástum.

Einn maður að nafni Marteinn, og var kallaður hinn munnsterki, hann veitti mjer einn tíma einn sting mjer óvitanlega í vinstri öxlina. En efni til þess er sem eftir fylgir, að einn maður norskur að ætt bjó í borginni Jón að nafni. Hann plagaði jafnan á sumrum í kaupferðum

vera til ýmsra landa. Konu átti hann sjer er Bóthildur hjet Þessi Marteinn og hún höfðu fyrir þremur árum missátt orðið, þá hún var stúlka og hjá frómum þjónandi. Með því að þessi maður var stundum glettinn hafði hann einn tíma með keskni gripið sinni hendi upp undir hennar klæði ofarlega, þar hún var að sauma, en hún greip skæri og stakk hann í handlegginn með. Þessu hafði Marteinn ekki gleymt nje viljað gleyma fyrir nokkrar umtölur og hennar góðmótlega viðleitni og æruboð það útlátum viðveik. Nú bar svo við sem oftar að Jón var ekki heima en þessi maður var í land kominn af einu stríðsskipinu án leyfis með hverjum hann átti út að sigla, og inngenginn í hús Jóns og hans kvinnu, klamarí þar að gjöra, og bauðst hennar auðæfi öll innanhúss að fordjarfa. Konan bauð honum 4 dala gildi til friðarstillingar. Ei vildi hann nokkurt boð hennar þýðast, og hræddi hana til öl að sækja. Nú á meðan svo við bar sat eg heima í mínu herbergi að sundurspretta mínum gömlum kyrtli til fóðurs. Þar kom einn maður Andrjes Sandvík að nafni til mín, sá eð hafði köngl. Maj. í 8 ár þjónað fyrir soldát, en var nýlega orðinn byssuskytter. Þessi bað mig að vísa sjer leið til eins af vorum selskap, sá eð var Bernet Berntsson að nafni, hvað eg gjörði, og gekk eg útaf húsinu án hnífs eða verju, því eg hugði strax inn aftur að ganga, því hjónin voru bæði útgengin, en húsið eftir mannlaust. Nær við gengum fyrir þær húsdyr er Marteinn sat inni og sýndi konunni stórt ofbeldi með stórum heitingarorðum og kúgan til ölpeninga, og nær konan sjer mig kallar hún ákaflega og biður mig í Guðs nafni að koma og gjöra hjálp, því einn af vorum selskap væri þar inni og gjörði sjer stórt ofbeldi. En með því Jón og eg vorum kunningjar, en hann nú í fjarska, hrærðist eg aumkunar yfir henni, og líka svo fyrir umtölur Andrjesar, gekk eg svo inn í þeirri meiningu að afstýra og til friðar að stilla þeirra á milli, ef ske mætti. Marteinn heilsar mjer sæmilega og býður mjer með sjer til gildis, en eg kvaðst ei þiggja vilja, utan hann við konuna áður forlíktist og friðsamlega höndlaði. Hann strax með miklu

forsi og bræði spurði hvort eg vildi hennar mál að mjer taka og forsvar gjöra. Eg svaraði ei framar en sem forlíkun tilhlýddi. Hann greip könnu fulla af borðinu, og með henni hugði mig ramma í höfuðið, og hljóp eftir kastinu. Eg veik mjer undan og hljóp honum í mót, og í einu vatt honum uppá bekkinn því hann var drukkinn, annars hefði eg ekki kannske haft orku honum í gegn, því hann var efldur maður. Hann bað mig friðar og lofaði öllu góðu, eg lofaði honum aftur vild og vináttu, og áminti hann til vareigðar, svo hann ólukku og skaða forðast mætti. Hann tók því vel í orði, og lofaði mín heilræði sem best að nýta. En nær hann liðugur gjörðist, greip hann sinn hníf, og sýndi sig í mig með honum að skaða, hverju honum varð hamlað. Síðan bauð hann mjer fyrir dyr til útafgöngu og mína æru viðlagði, um hvað eg honum ei synjast mátti. Konan býður mjer strax verju manns síns, sem var hálfkorði, og gengum svo fyrir dyr, og deildum við ei mörgum höggum okkar í milli fyr en hann fjekk í höfuðið skrámu, framanvert yfir enninu, og kvað sjer að fullu nægja, gekk strax í burt þaðan, uppá þann skans, er í kring um borgina liggur, úr vorri augsýn. En skömmu seinna kom hann mjer óvitanlega, er eg var að uppljúka dyrum þar nálægt, og stakk mig í vinstri axlarliðinn með sínum stóra hníf upp undir skaft, og hljóp svo sem harðast mátti. Einn maður af voru fólki, Jóhann Christjánsson að nafni, kallaði og hljóp eftir honum, bað hann bíða og kvað hann sem einn skelmir slíkt gjört hafa. Hinn rann sem kunni, og nær hann kom til skips aftur hlaut 9 sinnum frá skipsins rámúla í sjó að dansa, með sínu sári.[1]) Siðan gekk eg til M. Jacobs bartskera, sem bjó í Austurstræti. Hann leit þennan áverka mjög hættan vera, sakir liðamótsins, af hverju bartskerinn hjelt 3 merkur runnið hefði af liðavatni. Margir ráðlögðu mjer, að láta hans mál fyrir dóm og álit koma á týhússins rjettargangi, og að gjöra hann að óærlegum manni, hvað eg girntist ekki. Þeir kváðu mig sjerlegan vera.

---

[1]) líkl. vegna þess að hann hafði farið í land leyfislaust. RC.

Hann gekk og til sama bartskera sitt sár að umbinda láta. Síðan sendir hann tvo arkelímeistara, sem að eru constabel, uppá. týhúsinu (þeir menn eru æðri sljettum byssuskyttum, og hver einn þeirra er yfir sjerhvers skips arkelí settur, það er yfir allan þann stríðsbúning, og hafa lóð og púður með öðru þesshâttar í sínum reikningsskap) til mín að útvega sátt og forlíkun, og bauðst til það alt að halda, er eg tilskildi, en eg girntist ei meira af honum, en hann bartskerans laun hvorutveggju ríflega borgaði, hvað og skeði. En með því hann hafði þjent í sömu vist með bartskerans kvinnu fyrmeir, og margt erfiðissamt af henni tekið, naut hann þess að, og þurfti ei meir en 12 dali að gefa, 8 fyrir mig og 4 fyrir sig, og bartskerasveininum hálfan þriðja sljettadal. Frá þeim tíma kyntist eg enn meir við M. Jakob, og var eg af honum vel látinn og hans kvinnu.

Sex vikna tíma þar eftir um haustið bar svo við eitt kvöld, þá klukkan var 4 slegin, sem var vor máti heim frá týhúsinu að ganga hvert kvöld, að vjer hlupum yfir slotsplássið kapphlaup, og mikill kuldi var, því vindur bljes af landnorðri hart með frosti; og á miðju hlaupi á sljettu plássi hrökk Marteins fótur í sundur hinn hægri, og var borinn heim af 6 mönnum til síns heimilis. Hann var fyrir hálfu ári giftur, þegar svo bar við. Þennan vetur var oss fenginn kostur heim í vort herbergi. Fjekk eg Marteini allan helming míns kosts, hvað hann stórum þakkaði, og margir vel virtu og prísuðu. Oft vitjaði eg hans um veturinn í þær 13 vikur, er hann lá undir bartskerahendi, og margfaldlega bað hann mig um fyrirgefning, hvers eg honum vel af hjarta unti, sem sjálfum mjer. Þessum manni fjell svo lítt um síðir, að hann á reisu til Spanía varð einum ungum manni dægilegum að skaða um morguninn um frúkost, sá eð Jacob hjet og hafði 22 ár. Eftir stríðsrjettinum og skipslögmáli varð hann bundinn lifandi til hins dauða og útvarpaður síðan.

Á sömu reisu, en öðru skipi, varð annar maður Olafur að nafni, norskur að ætt, með raffír[1]) í hel stunginn af

[1]) ɔ: lagsverði, d. Rappier.

einum í Spanía þar innlendum. Þessi hafði um veturinn fyr slegið mig í höfuðið með krús án allra orða og kallaði mig sinn elskulegan bróður, slökti ljósið, greip krús og sló í myrkrinu rjett ofan í hvirfilinn. Mjer vildi það til lukku, að eg náði undirkefli kvenna, og í myrkrinu varði mig með því, fyrir þeim tveimur, mínum húsbónda og þessum Ólafi, hverjir gjört höfðu samtök sín í milli að lúskra mjer alvarlega fyrir engar sakir, utan húsbóndans órjettferðuga illþyngni. Barnfóstran með barnsvöggu á gólfinu hugði mig dauðan vera, en Guð gaf mjer þá lukku, að eg fjekk ekkert annað skaðræði, en sem eg fjekk í öndverðu, af þeim arga skálk Olafi, hver mjer saklausum launaði gott með illu. Af þessum tveimur mönnum fjekk eg áverka, en ekki fleirum, utan litla skinnsprettu hjá hægra auga af soldátaverju, hverri eg náði í myrkri.

Item einn tíma eitt kvöld, er eg sat í húsi þess manns, er Sveinn hjet, og þrír menn aðrir og vorum að spila, varð slegið með steini á þann fjalarhlemm, er um nætur til hlífðar við glergluggana verður uppdreginn, svo glerið fauk um vor andlit, þar vjer sátum við borðið. Vjer strax í mesta skunda gripum vor vopn, og æddum eftir þeim skara, er fyrir dyrnar gekk, sem voru herramannasveinar. Þeir hlupu undan sem mest máttu, því þeir vissu sig líflaust verk gjört hafa, og i þeim gangi, sem liggur í gegn undir þeim hvelfingi við þá þýsku kirkju,[1]) náðum vjer í eins þeirra kápu, svo hún hlaut með oss að fara, því hann hafði sín skikkjubönd uppleyst, svo sem plagast, svo þeir grípist ei nje höndlist. Þessa kápu seldum vjer fyrir 12 sljetta dali; eigi vogaði neinn eftir að klaga.

---

[1]) St. Pjeturskirkjuna.

## X. KAP.

Í þann tíma, er sá frómi dándissveinn Finnur Böðvarsson var enn á lífi í Kaupinhafn, vorum við einn tíma til gesta boðnir af einum málara að nafni Martínus. Hans kvinna hjet Elína. Það var Marteinsaftan, sem var kvöldið fyrir S. Marteinsmessu. Þessi hjón höndluðu vel og sæmilega við okkur og báðu okkur með elsku og kærleika einnin þar um nóttina af að hvílast, heldur en mjög seint á strætum að svakka til heimkynna, og kváðu þá ei síst von á drukknum mönnum. Eg vildi gjarnan þiggja þeirra boð, en við minn fróma lagsmann tjáði ei að nefna utan prófoss[1]) heim að ferðast, hvað svo hlaut að vera. Okkur varð fengin ein lítil ljóslykt í hönd með einu litlu ljósi.

En nær við til strandar vorum komnir á heimleið, þar sem kallast »Lækkerbisken« eður »Garð-kík-inn«,[2]) það er: þar sem fá má matarbita fyrir peninga, svo lítið og mikið sem einn vill, hjón þau, þar bjuggu, voru bæði þýsk — maðurinn hjet Jacob en kvinna hans Anna; bæði voru þau mæt og ágæt, en hvernig eg komst í þeirra kynning hlýtur seinna að segjast — þar nálægt þeirra húsi slokknaði okkar ljós; var þá svo myrkt, að við gátum ei sjeð hvar vegur lá með ströndinni. Finnur gekk frá lítið og vissi hann ei fyrri til, enn hann datt í eina skútu, sú eð var þilfarslaus, ofan á kjöl á millum stórra steina, er þar lágu. En Guð blessaður gaf þar sína náð til, að hann slasaðist ei, hvað sig sýndi stór dásemd að vera.

Nú er þar frá að segja, að skútumaðurinn vaknar, sem lá aftur í sinni káhyttu, og brá undarlega við, því hann

---

[1]) ɔ: fyrir hvern mun.

[2]) ɔ: Lækkerbidsken eða »Gaard Kig ind«; það var alkunnur veitingastaður á þeim tíma við Amagertorv, milli Østergade og Store Kirkestræde. — Sbr. RC. og rit þau er þar eru nefnd.

meinti okkur aðra menn vera, en eg með þeim ljúfustu góðyrðum afsakaði okkar málefni, og sagði honum ei með verri ásetningi eður aðburðum skeð hafa, en sem nú er greint, og bað eg hann ljós að kveykja, því hans [ɔ: Finns] hattur var af hans höfði fallinn. Ei vildi Finnur fyr uppstanda en hattur hans fundinn væri, og lofaði skútumanni hálfum dal, ef hattinn fyndi. Nú klæðir hann sig nauðugur og maldandi; eg stóð á bryggjunni og beið eftir að eg mætti fá minn stallbróður aftur, en í því bili kom öll skarvaktin með ströndinni gangandi með stórluktum, sverðum og spjótum, sem nýlega voru af ráðhúsinu útgengnir að passera og um æða öll stræti borgarinnar, eftir venju og skikkan um sjerhvert miðnætti, að reyna og hugleiða, hvort engir fyndust drukknir eða ósvífnir á strætunum. Nær þessi skútumaður sjer vaktina koma, kallar hann með ákefð að sú góða vakt skyldi koma með hast og hjálpa sjer, því tveir menn sjeu komnir í sína skútu og gjöri sjer stórt ónæði. Þeir skunda með mesta flýti, líkt sem nokkuð sjerlegt viðlægi, en mín þessa hans kalls afbeiðni dugði ekkert. Eg bað Finn uppstanda. Hann kvaðst þar liggja mundi, til þess hattur sinn fyndist, hver eð keyptur var fyrir 2 dögum fyrir 5 dali. Vaktmeistarinn, Söfrin Trafn, skipar sínu liði okkur að grípa og strax að fanga. Engin vopn bárum við í þann tíma, utan einn lítinn hníf, hvern eg greip og varði mig litla stund með. Einn með honum lítið skurslaðist. Hnífinn slógu þeir úr hendi mjer með sínum spjótum og gripu mig. Einn að nafni Andrjes vefari, sem verið hafði eitt ár uppá týhúsinu og þekti mig, hann greip og geymdi minn hníf. Vaktmeistarinn skipaði þeim mjer fast að halda, berja og slá, ef brytist móti. Þeir sem mjer hjeldu urðu fyrir mínum olbogaskotum hnálega, svo margir af þeim blóð uppgáfu. Síðan leita þeir Finns, míns kæra stallbróðurs, upprjettu hann og leiddu á land, því skútan bar ei hærra en bryggjur, og fundu hattinn. En sem Finnur komst á land gjörðist hann þeim þungur í fangi, og óþjálgur í gangi. Því

Margur þá að hauðri hnje
og hrökk við ekki í glímu
dregist hefði að Dönskum spje
ef dagurinn brygði grímu.

Þetta þjark varaði víst hálfan eyktartíma. Þeir leituðu við harðlega að koma okkur í kjallara, sem kallast ráðhúskjallari, þar sem fangar eru inni hafðir, en þeim veitti það ógreitt, því við settum okkur út af öllum krafti okkur að verja og mótstand gjöra. Einu sinni hafði eg svosem náð atgeirnum úr vaktmeistarans hendi í skjótu tilgripi, því hann steytti mig illa með atgeirsendanum fyrir brjóstið, en með því eg var svo hart í höndum margra umgripinn og beltaður, náði eg ei að falla, en eg fjekk gripið í skaftið, og svo kipti eg honum hart að mjer, að honum var búið við hörðu falli. Eftir það ólmaðist hann og æsti upp sinn selskap okkur að lemja. Síðan spyr hann okkur að nafni, mig fyrst og hvers lands maður eg sje, og hverjum eg þjóni. Eg segi hann hljóti svo vel honum að hneigja sem eg. Hann segir þó eg þjóni kóngi, samt muni hann ei hafa skikkað mjer svo seint á ferð að vera. Eg kvaðst engum mein gjört hafa i fyrstu, en hann ranglega með sínum selskap hafi okkur yfirfallið, hvers minst skuli verða. Síðan spyr hann Finn að nafni og hvers lands maður hann sje, eður embættis, hvað hann honum skýrlega hermdi. Hann lætur sem hann vilji ei uppgefa. En Jacob um hvern eg áður áveik, sem var með sinni kvinnu Önnu uppá loftsalnum í sinni hvílu og hafði alt tilheyrt frá því fyrsta, hann þá loksins upplýkur sínum glerglugga og kallar ofan til vaktmeistarans, og bað hann að sleppa okkur og þakka Guði að svo stæði, því ef til rjettar kæmi mundi ei betur fara fyrir honum, því hann hefði gjört okkur opinberan órjett, og segir að týhússins rjettur og slotsins mundi honum nógu skarpur verða, hann og þeirra hálærðu, vegna Finns, sem var studiosus. Hann dignaði hjer mjög við, og gaf okkur þar með lausa. Við komum síðan heim í mitt lossamenti, sem var skamt þaðan í Víngarðsstræti, hjá mínum góðum

vin og trúföstum stallbróður, Jóni Halldórssyni, og Kristínu Söfrínsdóttur, sem var ein prestsdóttir, ættuð úr landi Holsten. Jón óskaði sjer að hann hefði nálægur staðið, og mundi einhver þá hafa að velli lotið.

Svo bar til að þessi Söfrin Trafn komst síðar uppá Bremerholm, í það mikla fangelsi, og eg hefi fyr um skrifað.

Einn stúdent var í borginni meðal annara, sem í þann tíma voru eitt hundrað að tölu, sá eð Michel hjet, og kallaður Michel Norðbaggi. Söfrin Trafn og hann áttu stundum grláglettur saman, sem hann á nætur, þegar skarvaktin gekk sinn æðigang um stræti borgarinnar, (hvers fyr var getið) hafði Michel dregið í sinn flokk þau mestu fól og illmenni, er hann gat útlesið úr tölu bátsmanna og annars handverksfólks, og setti sig með þessum selskap oftlega í gegn vaktmeistaranum og hans skarvakt, en urðu þó svo búið að hafa og láta þá frítt spássera. Með því Michel var nógu ríkur hjelt hann oft veislur Söfrin og hans selskap og voru miklir kunningjar.

Finnur gekk til Michels að morgni og greindi honum alt hið glöggvasta frá vorum viðskiftum. Söfrin var sóttur og síðan eg þangað kallaður, og gjörði Michel stóra veislu í sínu herbergi. Varð svo glaumur og gaman úr öllu og gjörðust miklir kunningjar framvegis.

*Nú eftirfylgir hvernig eg komst í kynni við Jacob, sem hjelt matborð og gesthús við ströndina.*

Einn tíma er eg og einn Íslenskur að nafni Einar, ættaður úr Eyjafirði, vorum þar inngengnir litla máltíð að taka um kvöldtíð, og sátum tveir einir við borðkorn lítið, sem ofan venti að sjóarströndinni, Jacob með sínum mörgum gestum sat við háborð uppi. Einn hvatorður maður, sá eð var múrmeistari, sat þar á meðal annara, og ljest kunna að segja hegðan og háttalag fólks í mörgum löndum, á meðal hverra var Íslands innbyggjarar, sem aumlega sáu út í hans texta og óvandaðri útleggingu. En hans tilheyrendur voru auðtrúa og dáðust að hans ræðu. Hann tók

því vel og teygði ræðuna, svo mikill glaumur gjörðist þar, en grátur eigi. Eg spyr Einar að, hversu lengi hann geti slíkt liðið. Hann kvað slíkt tíðum mega heyra um Ísland talað. Eg spyr Einar að, hvort eg eigi nokkurs von, ef eg með þyrfti hjá honum. Hann kvað sá vísari vera. Eg geng svo upp að háborði; fæ eg húsbóndanum þá peninga, er fæðsluverðinu gilti. Hann meðtekur og þakkar. Eg stend svo fyrir framan mitt borðið og tala eg til þessa manns, er svo lastlega hafði þessa lands fólki tiltalað, og til ályktunar hafði sagt, að þetta fólk mætti ekki fólk heita, heldur sem svívirðilegustu kvikindi. Eg segi: »Vinur, eg heyri þú ert víða um lönd kunnugur og kant dáfallega frá mörgu að skýra, og hvað mig ei síst undrar, að þú um Íslands háttalag ert vís orðinn, eður hefir þú siglt þangað?« Hann bað Guð sig þar frá varðveita, og segir Oðinn mætti það gjöra, en hann aldrei. Í því bili ljet eg honum tvær gildar eyrnafíkjur ríða. Öllum kemur í stans. Einar hljóp út, nær hann sá hvað gjörðist. En þessi hljóp yfir borð og hugði mig strax að helfæra. Við gripumst fyrir. Nokkrir vildu áþyngja mjer, en húsbóndinn fyrirbauð öllum með okkur að skakka. Svo varð að hann komst undir og dreyrði úr nösum nokkuð, því hann fjekk mörg þur högg. Húsbóndinn strauk undan borðum og hans gestir og drógu þennan út, með rifinn kraga og blóðugar nasir, og kváðu allir honum verðugt vera. Og húsbóndinn lofaði að slíkur skálkur og orðsnápur skyldi þar aldrei framar meir inn koma, og kvað mig lofs verðan, að eg svo við hann hefði undirtekið og útreitt, af vandlæting vegna míns föðurlands. Og varð eg þar svo velkominn gestur, er mig þar að bar.

Nú er að tala um höndlan og háttalag týhússins, og hvað þar viðbar hið sjerlegasta af mörgu.

## XI. KAP.

*Innihaldandi um það hvað mjer tilfjell við þau port, er eg stóð vakt við, í gegnum hver að er einn inngangur í próvíantgarðinn; í hverjum húsum að er allur kostur, sem til kóngsins garðs er ætlaður og alls kóngsins fólks, hver hús að eru á sömu lengd, hæð og breidd við týhúsið, sem er hundrað faðmar á lengd, og eru hundrað faðmar þar á milli og ein höfn, hvar inni lágu ellefu skip af þeim smæstu kóngsins herskipum og daglega af nokkrum vöktuðust.*[1])

Nú verður svo fyrst til máls að taka, að kóngurinn setur yfir þetta sitt hús og próvíant einn mann sjerdeilis, sem nefndur verður próvíantmeistari, er í þann tíma hjet Claus Michelborg.[2]) En eftir hann liðinn kom Mattheus Davíðsson. Skrifara og sveina hafði hann undir sjer, og var það meining manna að bæði meistarinn og hans sveinar mundu, þá færi gafst, draga sjer nokkuð til drykkjupeninga af þessu góssi, hvar fyrir í tvær reisur þessi Mattheus Davíðsson varð i Bláturn innsettur og hótað líftjóni, þó náðaður yrði. Það bar og tíðum við, að vjer klöguðum yfir þeim, sakir vors kosts afdráttar, og fyrir þess sakir varð Grabov vor týjunkur að setja þangað nýja vakt frá týhúsinu, við þessi porthlið, hver eð í norðvestur lágu frá týhúsinu, eftir kónglegri befalningu, og þeir helstu þar til valdir, einkum þeir sem lesa og skrifa kunnu, og skyldu hvern dag 2 menn í senn þar vaka, svo aldrei mannlaust væri, þó annar frá gengi, og það alt uppskrifa, er þar útkom og í gegnum fluttist og hvert kvöld það registur afhenda í týhússins skrifstofu.

---

[1]) Höfnin milli týhússins og »próvíantgarðsins« var notuð enn 1864, en síðan fylt upp. RC.

[2]) Hann hjet rjettu nafni Claus Mecklenburg, † 1619. Eftirmaður hans var Mads Davidsen er var settur af ca. 1624. RC.

Svo bar við einn tíma um nónbil, að minn stallbróðir, að nafni Pjetur Snur, var burtgenginn eftir okkar kvöldverð, en í öðru lagi hagaðist svo til að einn skútumaður úr Bleking aðkominn með við til bruggarahússins og brauðbökunarhússins áttu nú í þessu út um áðurnefnt port að ganga til borgarinnar. Tveir víntapparar voru í garðinum, ungir menn, Niels Hasenbart, sá var sonur D[octor] Jacobs,[1]) er fyrir tveimur árum var afgenginn, sá eð verið hafði kóngsins lækningadoctor, en hans ágæta ektakvinna Christín eftirlifði, sú eð var vellauðug. Þessi ungi maður Niels var æskumaður mikill og vogháls, svo hans elsku móðir var þrátt um hann óttaslegin, þegar svo viðbar. Þessir tveir ungir menn, annar Lauritz að nafni, vefarasonur, báru frábært hatur ásamt til allra þeirra, er í þessu porti stóðu og vörnuðu að þar bærist nokkuð út, eftir sterkri befalningu kóngsins.

Nú er þar til máls að taka, að þessir tveir vínsveinar tóku þennan skútumann ofan í þann vínkjallara, er í garðinum var, hvar þeir daglega voru í tveggja tunnu föt það vín að inntappa, er til þeirrar fyrstu reisu að Indien var ætlað, og þá var í búningi 1618.[2]) Þennan mann gjörðu þeir víndrukkinn og fengu honum eitt trje í hendina, svo sem eitt borðstólpa efni, að reyna þar með, hvort eg gæfi honum leyfi með það út um portin að ganga eður ei, því ef eg gæfi honum með það leyfi, svo var auðgjört eftir þeirra ásetningi að klaga mig, og svo í ólukku að bringja uppá lífið. En í öðru lagi, þar sem eg hamlaði honum útgöngu með trjeð, þá höfðu þeir uppæst manninn með trjeð í tráss við mig út að ganga, og ef til handa kæmi og yrði hans hið lakara, þá hjetu þeir honum sínu liði. Þessi þeirra ásetningur útspilaðist eftir þeirra vild. Nú kemur maðurinn með trjeð og heilsar. Eg tók honum ljúflega. Eg spyr hann hvert hann ætli með trjeð. Hann kvaðst ei mjer

---

[1]) Jacob Hasenbart (1552—1607) líflæknir konungs. Sbr. Biogr. Lex. RC.

[2]) hjer er átt við hina frægu ferð Ove Giedde til Indlands.

pliktugur vera þar um reikningsskap að standa, þó kveðst hann það í burtu vilja bera. Eg segi honum, að það leyfist eigi, að það útberast megi. Hann segist lítið um það forboð hirða, því hann segist það skuli út bera mjer og öllum að þakkarlausu. Eg segi: »Kæri minn maður, komdu þjer ekki svo viljandi í ólukkuna nje heldur mjer.« Það fjekst í engan máta. Eg stóð í vegi, svo hann komst ei út. Hann reiðir svo trjeð til höggs við mig, eg ber minn sintreyr undir, og sló eg svo trjeð úr höndum honum. Hann býðst þá til að ráðast á mig; eg afeggja hann, hann skuli slíks dirfast, og segi eg honum hvað viðliggi, sem er líf hans. Hann hlýðir engum mínum fortölum. Hann sækir að mjer sem mest orkar, þar til eg gaf honum nokkur spjótshögg, þá komu þessir tveir víntapparasveinar með sína stóra bandstjaka. Varð þar mikið slark svo eg brýt á þeim tvö spjótin, sem var sintreyrinn og knefelspjótið[1]) er þar stóð, sem oss í neyð gafst leyfi til að brúka og oss með að verja. Síðan gripu þeir mig höndum þessir þrír menn og blóðguðu illa; og í þessu bili kom minn stallbróðir Pjetur Snur hlaupandi og kallandi, að þeir skyldu sleppa. Þá flúðu þeir, en eg gekk uppá slotið að hitta cancelerann og Grabov, og nær þeir litu mig blóðugan, undraði þá, og lofa að þess skuli hefnt verða. Líða svo 2 dagar þar til Grabov talar við kóng þar um. Segir kóngur að betur hefði farið að eg einhvern þeirra deytt hefði, og skyldi rjettargangur þar um haldinn verða uppá cancelii fyrir canceleranum, hvað og skeði. Cancelerinn sagði þessum Niels í hverju fári hann stæði, að hann hefði sitt líf með sínum fylgjara forbrotið. Var svo tilskikkað, að þeir báðir urðu í Bláturn innsettir, og skyldu kóngs úrskurðar bíða. Grabov vogaði ei annað en láta mig þar inn til þeirra, vegna haturs allra þeirra, er í móti voru, þeir eð hjeldu að Grabov hefði þeirri vakt í fyrstu ollað. Móðir þeirra kom og þangað með sárum harmi um nóttina og fleira af borgarfólki með

---

[1]) sintreyr sjá bls. 56, neðanmáls; knefelspjót (ɔ: Knevelspyd) var spjót með lítilli þverstöng undir blaðinu.

henni. Um morguninn vorum vjer útlátnir, og gengum svo til húsa hans móður, Christínar Doctors, hver oss blíðlega fagnaði, og gjörðist þar veisla mikil og gjörðum þann sáttmála vor á meðal, að vjer skyldum sem bræður góðmannlega kynning hafa vor á meðal. Hún gaf mjer til þriggja dala gildis. Skildist eg svo við þau með kærleika. Hún sagði mjer heimilt eitt passaglas[1]) fullt með öl, hvenær eg hjá gengi. Þremur dögum þar eftir varð útlegðarbrjef upplesið yfir Niels og hans fylgjara, af kónglegri skikkan, og úr því sá eg Niels Hasenbart aldrei meir, og lyktar hjer um framar að tala.

Tveir meistarar úr Ítalía komu til kóngsins. Einn þeirra, sem fyrri kom, steypti einn koparuxa, sem vera skyldi vatnspottur til Friderichsborgar, svo nær framandi þar kæmu af herrum annara landa, eður þeirra sendiboðar, þá skyldi þessi koparuxi vera þeirra þvottamunnlaug, af hvers munni og nösum vatn skyldi renna í þeirra hendur. Hinn annar hjet Samúel. Vjer vorum af kónginum átta útvaldir honum til liðs, um einn næturtíma að gjöra hvað hann oss skikkaði. Hann hjet oss drykkjupeningum, ef sjer vel lukkaðist. Þangað sem stykkin voru steypt hafði hann oss. Hann trakteraði oss vel með öl og mat um kvöldið. Eina leirhnyðju hafði hann með að fara. Hann ljet oss stappa þeirri smámoldu umkring þessa leirhnyðju, er vant var að hafa umkring þá forma er stykkin voru steypt í. Þetta leirform var að hæð vel sem eg, og jafnhátt því var moldin stöppuð. Þetta var vort verk um nóttina. Hann biður oss til bænar að leggjast með sjer, og biðja Guð um, að hann vilji sjer góða lukku til síns erfiðis gefa. Þetta gjörðum vjer þó með veiklegum hætti væri. En kopar eða það, sem til formsins var ætlað, var í deigluketilinn, sem var innmúraður, um kvöldið fyrir miðjan aftan í látið að smeltast og undir eldur kveyktur, og brann alla þá nótt út til miðs morguns. Um það leyti kom kóngur sjálfur ríðandi og spyr að, hversu nær að komið væri. Meistarinn kvað innan skamms koparinn smeltan vera.

---

[1]) d. Pasglas; glas með merkjum er sýndu rúmfangið.

Kóngur stje af sínum hesti og gekk inn í gothúsið og að deiglukatlinum, áhrærði með sínum staf við það smelta kopar, og hjelt til fullnægju smelt vera. Hinn kvað litla stund biðleika yrði fyr en hlaupa mætti. Kóngur hjelt þar í móti og gekk til hanans, sem við rennuna lá, sneri honum, ljet koparið úthlaupa í rennuna sem lá til formsins, gekk svo út, stje á hest og reið sinn ásettan veg til Friderichsborgar, sem liggur 4 mílur frá Kaupinhafn. En nær meistarinn sá, að það tilvegna kopar rann ekki alt í formið afsinnaðist hann stórum, gekk aftur og fram með grimmri hugarangist, óskandi sjer dauða, feldi á oss fjandskap og reiði, og kendi um voru bænræktarleysi, Þar fjellu af oss allar virðingar, veitingar og drykkjupeningar. Að því nær liðinni eykt rennur af honum þessi samviskuþungi nokkuð, svo hann skipar oss þessari mjúku mold burt frá forminu að moka, sú eð var 3 ára gömul, og síðan taka oss hamar hver í hönd að mola leirformið gjörvalt í sundur, og að því skeðu birtist oss ein jómfrú á stóli með sitt sítt krúsað og útslegið hár. Til hennar vinstri handar var einn svanur með löngum hálsi og eitt sveinbarn honum ríðandi með útslegið hár. En það kopar, sem formið ei meðtók og út var runnið til ónýtis á moldina, vantaði vinstra brjóst jómfrúarinnar og sveinbarnsins, og hlaut svo að nýju annað form að gjöra með miklu ómaki, hvar til hann hjelt 3 sveina fyrir stóra umbun og bataði sig upp aftur, hvað honum vel tókst og uppbar ýkja gjald hjá kóngi, og þetta handverk þótti hið mesta gersemi vera, bæði kóngi og innanlands og utan herrum og höfðingjum, er það litu, og stendur nú þennan dag uppá Friderichsborg.[1]) Og lyktar svo þar um framar að tala.

---

[1]) Hjer er átt við »ljónabrunninn« í Friðriksborgarhöll. »Jómfrúin« er Venus, »sveinbarnið« Amor. RC.

## XII. KAP.

*Hjer verður minst á einn ítalíanskan meistara, sem víða um heiminn ferðaðist, hver eð myndan eins slots með sjer hafði og flutti, er hann í sundur og saman ýmist skrúfaði eftir því sem undir og afreisu viðlá.*

Um sumarið í Augústí mánuði kom þar einn meistari, Michell úr Ítalía, er víða um kristin lönd ferðast hafði, sá eð hafði slotsmynd með sjer með turni frábreittum uppaf því, í hverjum að voru 18 klukkur, berandi sitt hljóð hver þeirra, sem temperaðar voru uppá discant eftir meistarans vilja og sigurverksins regering. Á sjerhverja klukku slógu tveir stálhamrar kljenir í sjerhvert sinn á meðan þeirra söngur svo fagurlega yfirstóð. Þar uppi í turninum voru dyr, hverjar svo oft upplukust af sjer sjálfum, sem sjálf stundaklukkan afljet sín fullslög að slá, eftir því sem deginum leið. Fyrir utan þær dyr sátu tveir englar, að ásýnd kyrrir á milli slaga tímaklukkunnar. En sem hún sló og dyrnar hrukku upp, þá uppspruttu þessir tveir englar, og settu hvor sína básúnu fyrir sinn munn. En í hvert sinn er svo gjörðist, sýndist sem Christur útkæmi í sinni manndómlegri líkingu, svo enginn fáfróður skyldi annars hyggja en svo vera mundi, og sýndist að hann liti til beggja handa sjer og útrjetti sínar hendur og byði öllum til sín að koma. Þetta varaði svo lengi sem klukkurnar spiluðu þau 4 vers af hverjum sálmi, er meistarinn upphóf uppá 4 stemmur, svo stór unaðarsemd var að heyra þar á. Margar af kvinnunum grjetu hjartanlega af fögnuði bæði af spilverkinu og líkamlegri fígúruásýnd Christi. En sem þau 4 vers voru enduð, veik myndin Christi svo hægt sjer inn aftur, dyrnar slógust aftur, englarnir settust niður í stólana, og þeirra básúnur strax frá munninum. En alla klukkustundina út lá alt þetta svo sem í dái. En nokkuð sýndi sig í neðra hluta slotsmyndarinnar; því strax sem himnaríkisdyrnar (er

vera áttu) aftur lukust og Christs mynd hvarf, þá upplukust dyr neðarlega á þessu sloti, og jafnskjótt kom þar út kolsvartur Kölski með krókneglur bjúgar, bjúgnefjaður, hrokkinhærður og hraklegur að líta. Það var að líta, sem hann væri að krumla með klóm og hrífa að sjer, en strax sem stundin var úti og þær efstu dyr upphrukku og Christi mynd útkom, skaust inn skolli, og lyktar svo hjer um framar að tala.

Flestalt fólk í borginni fór hans að vitja og þessa meistaralega kunst að líta, að hverju allir menn dáðust.

Það skeði einn mánudagsmorgun, að flestalt fólk af Bremerhólmi var þangað komið þetta að skoða, og fanst þar af statshaldaranum og Hólmsins aðmírál, hverjir æfareiðir voru og fyrirbuðu þessum meistara þar lengur vist og veru. Hann dvaldist þar 6 vikur í einu húsi fyrir utan Vesturport borgarinnar.

Einn lækningadoctor Henrich að nafni kom eitt sinn í borgina, hann bauðst til hvert nýtt sár að lækna í 12 tíma, sem er dægur, og hvern sting, hver í gegn stunginn væri, sem er alla útlimi.

Einn lækningadoctor Jón að nafni, fæddur í Noregi, sem víða um heim ferðast hafði, kom eitt sumar í Kaupinhafn og dvaldist þar nærri hálfan mánuð. Hann sló upp þremur tjaldbúðum á staðarins torgi, sem kallast Amagertorg og þar innum á hillum stóðu margir baukar með allrahanda dýrmæt smyrsl og læknislist við allskonar meinsemdum karlmanna, kvenna og barna. Hann hafði mörgum til hjálpar komið með sinni lækningslist, þar hann hafði um heim farið. Bæði kónga dætur, hertoga, greifa, eðalmanna, borgara og bænda, þeirra syni og þjenara af öllum innvortis og útvortis meinsemdum læknað, hverja hann hafði uppskorið og með sínum meistaradóm mjúklega á ýmsan hátt viðhöndlað, þar upp á hafði hann brjef til bevísingar af sjerhverjum með hangandi innsiglum, fyrir hvað mikið gjald hann hefði það og það mein læknað, og hversu lengi, og hvað hann hefði fyrir Guðs skuld (án gjalds) gjört við fátækar skepnur, og við hvert brjef hjekk sú meinsemd hörð, er hann af

sjerhverjum manni með list úttekið hafði. Hann bar kærlegt álit og var óstór maður og hinn ljúflegasti í umgengni og ræðu við sjerhvern meiriháttar mann og minni. Hann hjelt 5 sveina með ungum pilti. Nokkuð lítið talaði hann í sínu móðurmáli. Hann var fimtíu ára að aldri. Mig minnir að engin hans lækning mundi bregðast þar innanborgar. Eitt stykki sá eg með skyndi hann gjöra við eina konu við Hábrú um kvöldtíð, er hans um stundarsakir þar beið, sú er hafði eina vonda tönn, af hverri hún leið stórt ónæði, hörmung og neyð. Og nær hann vildi uppá slotið yfir brúna ganga, talaði þessi kvinna til hans. Hann gegndi henni auðmjúklega. Strax upplauk hann sínum smyrslastokk, reið á hennar kinnvanga, þar yfir sem þessi meinsemd var undir og gnýði fast með sínum sjálfs handarjaðri, tók eina gula pípu víða og setti hana henni tanna á milli, og skipaði henni í hana að blása hið harðasta sem orkaði, og nær hún svo gjörði, fjell sú vonda tönn úr hennar munni í gegnum pípuna án nokkrar kvalar, eður tilfinnandi verkja. Ei vildi hann nokkurn bitaling af henni þar fyrir meðtaka, utan bað hana 4 skildinga sínum smásveini að skenkja, hvað hún gjarnan gjörði.

Þeir lækningamenn sem kallast kvaksalver komu tvisvar í Kaupinhafn meðan eg þar dvaldist, þeir eð láta sinn þjenara úthrópa við ströndina, að þar sjeu þeir meistarar komnir, sem allrahanda mein lækna kunni, innan 24 stunda, og þau smyrsli fá þeir hverjum manni, með tilvísunarbrjefi, sem brúkast eiga, er þess við þurfa.

Gjöglarar, er svo kallast, komu þar stundum, sem víða um heim ferðast höfðu. Sumir gengu á trjefótum, svo þeir jafnháir húsbustum urðu. Þeir gera margar missýningar. Þeir kasta lás fyrir munn manna, svo ei mælt geta; þeir dansa á línu (en ei sá eg það), sem legið hafði af háturni dómkyrkjunnar í Kaupinhafn og á Ráðhústurninn, og á þeim línustreng höfðu þeir gengið og dansað, er lá margra faðma hæð frá jörðu, og þar uppá sýnt margar listir. — Þar komu og þeir sem sýndu comedi og æfintýrleg spil uppá historiska vísu. A meðal annars ljek þar einn þá comedíu

þegar 3 Austurvegsvitringar komu að offra barninu Jesú þær þrennar fórnir, og hafa svo búning breyttan þar til, sem efninu hlýðir, svo einn er Jósep, annar María, þriðji er barnið, og vitringarnir þrír, og spilast með veglegum hætti. Margir góðir kostir af Guði ljentir. — Og vil eg nú um sinn hjer frá víkja og til þess fleira er viðbar, frá því fyrst eg kom í Kaupinhafn og til þess eg þaðan burt veik.

## XIII. KAP.

*Innihaldandi um þá herra og gesanta sem úr öðrum löndum inndrógu í Kaupinhafn á fund vors náðuga herra og kóngs Christjáns 4., einkum sem var biskupinn af Bremen, er til þess biskupsdóms kaus og útvaldi þann þriðja son kóngs Christjáns, sem var hertug Friderich, sem nú er vor nâðugi herra kóngur yfir Danmörk og Noregi.*

Um sumarið 1618 kom biskupinn af Bremen[1]) inn í Danmörk á fund kóngs í þeirri meiningu að kjósa til biskups eftir sig Friderich, kóngsins son, hver eð var hinn yngsti af kóngsins sonum, hertug Christján og hertug Uldrich.[2]) Þessi biskup var kominn á áttræðisaldur og hafði með sjer 80 menn. Nokkrum dögum fyr enn biskup kom til Kaupinhafn kom kóngsins bróðir, hertug Uldrich[3]), á fund kóngs að fagna biskupi, ásamt kónginum, þeim ungu herrum, ríkisins ráði, og öllum Danmerkur aðli. Sá hertugi Uldrich[3])

---

[1]) Það var ekki erkibiskupinn af Bremen en Philippus Sigmundur, biskup af Verden og Osnabrück, er kom til K:hafnar 16. Maí 1618, og var þar forkunnar vel tekið, meðal annars vegna þess, að hann reyndi að koma Friðrik konungssyni að sem coadjutor í Verden. RC.

[2]) Kristján konungur átti þrjá syni skilgetna. Kristján f. 1603 (stundum kallaður Kr. V), »útvalinn prins«, † undan föður sínum 1647. — Næstur honum að aldri var Friðrik, f. 1609, er varð coadjutor í Brimum 1621, erkibiskup þar 1634 og konungur í Danmörk og Noregi 1648—1670 með nafninu Friðrik 3. Yngstur var Úlrik, fæddur 1611, myrtur í Slesíu 1633. (Sbr. Biogr. Lex.)

[3]) 1578—1624, biskup í Schwerín; hann bjó i Bützow.

var biskup í landi Pomeren, og hafði sitt aðsetur til Betsau, 4 mílur frá Rostock. — Og nær sá dagur kom, að biskup skyldi koma til Kaupinhafn á kóngsfund, þann morgun bjóst kóngur um með veglegasta hætti, hans bróðir og þeir þrír ungu herrar; og þeirra apalgráu hestar voru og prýðilega tilsettir með veglegum söðlum, með gulli og gimsteinum og perlum settir, er nokkur þúsund dali gilda mundi. Þeir höfðu yfirklæði, hver náðu frá makka á lend aftur og niður á miðlið hestanna, með veglegum hætti samin, og með gimsteinum sett og dýrmætum perlum. Beislin hestanna voru öll slegin og sett með gullperlum og gimsteinum, sem og gildi mikla summu peninga. Eina silfurfjöður (eður refelbusk),[1]) sem roðin var ofan til miðs, báru þeir á milli sinna eyrna, er skrúfuð stóð í beislinu, og stóð rjett upp.

Kóngurinn bar dýrðleg klæði af guðvefjum og hinir aðrir 4, með gullkeðjum. Miklar fjaðrir og veglegar voru umkring þeirra hatta, og náðu þeim á herðar niður. Stígvjel höfðu þeir sjer á fótum með gyltum sporum. Þeim eftirfylgir cancelerinn, með mörgum af ríkisins ráði og eðalfólki.

Tvær mílur dró kóngur út frá Kaupinhafn í móti biskupinum með ellefu fylkingar soldáta, og undir hverju merki [og] var í minstu 300, 400, 500 og 700 undir sumum. Þar með fylgdi rýtarakompagníið. Undir því var 900 manns; og undir öðru kompagníi var hálft fjórða hundrað. Vjer höfðum grænt merki af kláru silki, í því stóð gylt fýrmeisa[2]) málið. Söfrin Gedling hjet vor merkismaður, hár maður og gildur, og var mjög fimur með merkið að fara. Merkisstöngin var nær 5 álna að hæð eður 6. Pálún eður vegleg landtjöld ljet kóngur uppreisa svo sem hálfa mílu þar frá heim að borginni við, þar sem fyrst fundir urðu. Þau voru að mynd sem eitt herraslot, með turni, og skíðgarði umkring. Allur sá umbúningur var af ljerefti, og voru svo hvítljómandi að líta sem ósaurguð nýdregin drift.

---

[1]) d. regelbusk.
[2]) einskonar fallbyssa.

Kóngur beið lengi biskups, alt fram yfir miðdegi, nálægt einu heiðarkorni, er svo kallast, og ljet ýmsa af voru fólki ríða einum fráum hesti rauðum, er sagður var íslenskur, uppá þessa heiði að hugleiða, nær biskup kæmi. Hver sá sem hans fyrstur var yrði skyldi eignast klæðnað, er kóngur hjet þeim, er það hlotnaðist. Vjer vorum fimm af kóngi tileinkaðir, en einum tilfjell þessi hepni, Jens að nafni, sá eð strax gjörði bending með sínum klút, eftir því sem ráð voru fyrir gjörð. Kóngur og allir herrar, sem á hestum sátu, stigu á bak og sátu á sínum hestum. Kóngur var fremstur, hertug Uldrich og einn af ráðinu, þar næst þeir ungu herrar þrír, prinsinn, hertug Christján, hertug Friderich og hertug Uldrich, síðan canceleren og stadtholderen með herrum og aðli. Og nær biskup kom nokkuð nálægt, reið kóngur með allri sinni herralegri fylgd honum í móti. Og nær þeirra var 40 faðmar á milli orðið, stje kóngur og öll hans fylgd af sínum hestum, biskupinn í sama máta, og gekk svo hvor í móti öðrum, með ljúflegri aðferð, auðmýkt og reverentsíu, og laut hvor að öðrum, þrisvar til hægri og vinstri síðu, og í því sama var gefinn fýr yfir alt undir eins, svo í langan tíma sáu menn ekki frá sjer fyrir reyk og svælu, sem varð af þeirri miklu skothrið; 3 koparstykkjum var fyrst afhleypt nær fundust, í öðru sinni, nær þeir aftur á bak stigu, og í þriðja sinni, nær þeir heim að tjöldum fram hjá oss riðu. 24 trómetarii bljesu í sín gylt trómet. Svo gekk biskup með kóngi og öðrum herrum í pálúnið til máltíðar og stórveislu.

Á þessum degi var frábær hiti með kláru lofti. Þar mátti enginn úr sinni orðu víkja undir hæsta straff. Þann dag var eg mjög þreyttur, því eg var nýlega af köldusótt uppstaðinn. Einn maður, Michel að nafni, aumkaðist yfir mjer, hljóp úr sinni orðu, og kvaðst ei óttast hvað eftir kæmi. Þessi var einn af þeim ársknektum, sem þjentu uppá slotinu, og vakt hafði uppá slotsplássinu og í slotsportinu. Hann tók sinn stormhatt og gekk heim að skíðgarðinum og ljet fylla af því víni, sem menn kalla lútin-

drank,[1]) þar hann var við hoffólkið vel kendur, og færði mjer þangað, er eg í lið og orðu stóð. Þetta mislíkaði hans stallbróður, þeim er Þorkell hjet og var kallaður snikkari, einn ársknekt, svo þeir gripu til vopna, og urðu senn aðskildir fyr en vorir yfirmenn fengu hugleitt, þeir er umkring riðu með sín knefelspjót. Sá kapteinn, sem var fyrir vorri fylking hjet Antoníus, einn spanskur maður, aldraður og ágætur og ljet mig jafnan vel; og hann var sá fyrsti maður, sem mjer í slíku undirvísaði hvað stríðsmaneringu eður höndlan viðveik, hver það mjög í ljúfasta máta auðsýndi. Hann kunni flestallar riddaralegar listir og íþróttir, hverjar hann kendi og með mentaði þá tvo kóngsins launsyni.[2])

Í kóngsins pálúni voru 3 kórar, sem var tvær tylftir trómetara, ein instrúmentista, sem að bljesu í básúnur, skalmeyar og krúmhorn, og ein tylft söngvara. Um allan þann tíma, meðan þeirra dvöl viðhjelst í þessum landtjöldum, varaði þessi hoffragt þar inni með þrennum hætti á víxl, stundum í trómet blásið, stundum í hin önnur instrúment, stundum upphófu musicanter sína veglegu sönglist á fjögur hljóð. Þetta yfirstóð nærri eykt, og að því svo enduðu, var öllum fylkingum viðvörun gjörð, hvað vera skyldi. Þá upphófst bumbusláttur og larm um allar fylkingar, sem alls voru 13 fyrir utan borgaranna compagni, hverjir þá voru að tölu 1800, svarnir borgarar, þeir eð upphófu sína orðu og stóðu utan til við vesturhlið borgarinnar, og náði svo þeirra klofin fylking út í mörkina, eftir því sem tilhrökkva vildi, og í gegn þá fylking skyldu allir herrarnir ríða. Þessi borgaraskapur var allur veglega búinn og útstafferaður, með sínum munsturbúningi og ýmsum color og lit, með gyltum skórósum og baldýruðum silkileggböndum og gyltum snúrum á sínum silkiklæðum og gyltum hattböndum og prýðilegum fjöðrum um þeirra hatta. Ýmsir höfðu prýðileg og útsnikkuð gehengi,[3]) en aðrir silkigehengi, hvar í þeir báru sínar

---

[1]) Einskonar krydduð vínblanda.

[2]) þeir voru þá aðeins tveir Chr. Ulrik Gyldenløve og Hans Ulrik Gyldenløve. (RC.)

[3]) d. Gehæng ɔ: sverðól.

amúleraðar[1]) verjur. Þeir höfðu og glæsilegar og álitsfagrar byssur, sem og voru amúleraðar, og í þeirra stokka var víða tönn og dýrum beinum innsmelt. Og nær sem herrarnir gengu út af tjöldunum, stigu þeir upp á sína hesta. Þá var skotið yfir alt og síðan trómetað. Síðan drilluðu[2]) soldátar þar í gegn, er þeir sátu á sínum hestum og riðu síðan heim til borgarinnar, fyrst í gegnum borgaranna fylking, hverjir fýr gáfu eftir hendi alt til borgarhliða. En nær í gegnum borgarhliðin voru komnir, þá stóð þar brynjað lið borgarinnar til beggja handa og gegnum alla borgina, alt að Hábrú. Þegar þar kom, þá stóðu herramenn í amúleruðum herklæðum um allan slotsgarðinn. Svo stigu þeir af sínum hestum og gengu uppá kóngssalinn. Hófst þar stórveisla og stórhóf.

Á plássinu hófst upp mikill glaumur, þar kóngsins popelslagari sló uppá ketiltrumburnar, og þeir 24 trómetarar bljesu til borðs. Síðan básúneruðu 4 instrumentister í slotsturninum. Svo leið sá dagur til kvölds.

Um daginn eftir var uppreist eitt tjald á slotsplássinu, stórt og mikið, af einu skipssegli, því allrastærsta. Það var bikað utan og þar í var dreift mosa. Það var kallað stundum Helvíti en stundum Bjargið. Þar var spiluð ein comedí um þá óguðlegustu týranna, sem verið hafa Guðs og kristninnar óvinir. Þeim var akað í þetta víti af þeim sem var í djöfuls mynd. Í þessu bjargi var allrahanda gæði víns og vista, og urðu þessir menn, sem í þeirra myndir voru útbúnir þar heiðarlega meðteknir og trakteraðir. Vor N i c h o l a [u s] H e l v a d e r u s[3]) mátti þar og inn, þó grátandi þar til færi í hjólbörum og sendi kóngur honum 16 dala gildi í gulli. Þar varð og mikið fýrverk á einni nóttu afbrent, öllum að skaðlausu, sem biskupinum var til virðingar gjört; þess háttalag verður hjer oflangt að uppreikna. Hann

---

[1]) ɔ: á nýrri d. emaillerede, prýddar með innsmeltu útflúri.

[2]) cfr. e. drill, um hermannaæfingar.

[3]) Niels Helvad (1564—1634) var einmitt höfundur leikrits þess er hjer er getið um. Það er nú týnt. Um hann sjá Biogr. Lex.

gaf oss byssuskyttum kóngsins 500 dali, og urðum vjer þeim aftur að skila, því kóngur vildi ei að hann einn pening útgæfi í sínum löndum, hvar hann um færi. Fyrir þá peninga gaf kóngur oss 2 tylftir öls, af kóngsöli er kallast. Kóngur sýndi biskupi öll sín herlegheit, bæði innanborgar og utan, á slotinu, týhúsinu, í borginni, í sínum aldingarði, Krónborg og Friderichsborg. Og hvert hann reisti um nefnd takmörk og í vagni sitjandi þá var hertug Friderich jafnan hjá honum og í hans faðmi liggjandi, — sem er nú vor herra kóngur og þá var á sínu 15 ári.[1])

Og að hálfum mánuði liðnum ferðaðist biskup heimleiðis úr Danmörk, og skildist kóngur og hann með gleði, elsku og vináttu, og varð af kóngsins hendi og mildleika veglega með herralegum skeink útleiddur. Hertug Friderich fylgdi honum úr Kaupinhafn langt á leið sem kóngsins lönd náðu, og var fagurlegur viðskilnaður þeirra.

Eg hefi mörgu gleymt hjer inn að setja, sem viðbar á meðan biskupinn í Kaupinhafn dvöl hafði, einkum um fýrverkið, sem afbrent varð á slotsplássinu, og þá kóngurinn gjörði honum veislu á flotanum, og leit eg þá, enn ei oftar, kóng vorn vel málglaðan, en þó með allri æru, röksemd og höfðingdóm.

Einn af meðfylgjurum biskupsins, þá þeir komu af kóngsins skipaflota af Bremerhólmi í gegnum þau port, er þar liggja í borgina, var mjög drukkinn og yfirkominn af sínum selskapsbræðrum forlátinn, því þeir voru allir yfirkomnir að mestu af alúðarstórri trakteran kóngsins þjenara, sem skeði eftir hans vilja. Þenna mann tók eg liggjandi og eftir orðinn af sínum selskap, og gat eg með slitum komið honum í eitt skipherra hús, skamt frá portinu, sem eg fyr nefndi. Þau hús[2]) hafði kóngur látið byggja nýlega fyrir skipherra og hábátsmenn hvar inni þeir bjuggu frí, er þar í röðum um flatlendið stóðu.

---

[1]) Hann var aðeins 9 ára þá (f. 1609).

[2]) Hjer er ekki átt við Nýbúðir heldur við önnur hús, er voru í grend við Holmens Kirke, og konungur hafði látið byggja handa sjóforingjum og öðrum embættismönnum á flotanum. RC.

Kvínna skipherrans varð í fyrsta nokkuð við beisk, en fyrir mína góðmannlega viðleitni varð hennar viðmót hógvært og útlagði eg fyrir henni hvað viðlægi, ef ei væri aðgætt. Eg lofaði henni borgun fyrir sitt ómak. Hún bjó upp væna sæng. Ei var skipherrann heima við. Að morgni vitjaði eg þangað, og var hann ei uppstaðinn. Hann spyr kvinnuna að, hver sjer hefði hjálpað þangað. Kvinnan kvað hann ei langt burtu, sem það gjört hefði. Eg ljet mig í ljósi. Hann spyr mig að ætt og nafni. Eg ljet honum í tje slíkt eg mátti og tilhlýddi þar um. Hann prýddi þetta efni með mörgum fögrum orðum og góðum óskum mjer til handa framar en verðugt var, það mig þar um áhrærði. Hann vildi hafa mig með sjer í hóp sinna kompána hvað ei vogaði, því eg jafnlega með öðrum mínum selskapsbræðrum hlaut upp á að vakta hvað oss skikkaðist við týhúsið. Og nær við kvöddumst, hvað með vinsemd skeði, gaf hann mjer tvo dali, klút og kraga; fjekk eg húsfreyunni annan, hvers eg oftlega þar vel naut. Skipherrann, sá eð Laurus hjet, þakkaði mjer þar fyrir nær fundir urðu.

## XIV. KAP.

Að öðru sumri[1]) þar eftir bar svo við sem oftar að almennilegur herradagur var haldinn á Kaupinhafnar sloti, og eftir venjunni dró þangað Danmerkur ráð og aðall, svo þá mátti margan ypparlegan eðalmann með þeirra eðalfrúm og dætrum líta, og það hoffólk, er þeim þangað fylgir. Hver þeirra elstu hefur sinn garð, þar er þeir gista nær þá að bæri. Á meðal annara ráðsherra var Mandrup Passborg,[2])

---

[1]) Hjer skyldi maður ætla að væri átt við árið 1619, en það ár var enginn herradagur í K.höfn. vegna pestarinnar, heldur í Antvorskov. Ef til vill er átt við árið 1618, sbr. bls. 91, ath.

[2]) ɔ: Manderup Parsberg † 1625, göfugur maður; síðari kona hans var Anna Brahe (1578—1633). Sjá Biogr. Lex.

einn ypparlegur mann, og í þann tíma mjög aldraður. Hann hjelt daglega 7 sveina, 4 af þeim voru verjubærir, það er þeir báru varnir við sína vinstri síðu í gehengi, en þrír báru þær undir sínum vinstra handkrík. Hann hafði sinn herragarð í Jótlandi og mikla forljening, en sinn gistingargarð í Kaupinhafn hafði hann við Austurport borgarinnar.[1])

Svo bar við, að þeirra steikari, Hermann að nafni, einn ungur maður, krenktist einn dag er hann gekk út af Austurporti í þá bygð er þar var, svo sem víðar umhverfis borgina. Hann gekk út í dökkum búningi, en kom inn aftur í rauðum og var orðinn vitstola. Hann hljóp upp á herrasalinn eður borðstofuna, sem kallast, og sókti helst að sínum herra og hans eðallegri frú með dregna verju, en Guð gaf sína náð til, að hann engan skaða gjörði, en fyltist samt ugg og ótta, og þessvegna útsendu eina kvinnu, er þeirra línklæði hafði að vakta, og báðu hana trúlega einn öruggan og fróman mann að útvega, sem það vildi á hendur takast, að halda vakt yfir honum eina nótt eður fleiri, ef með þurfa kynni.

Þessi kona, Elísabet að nafni, gekk til míns herbergis, og með því eg var henni ei öldungis ókendur bað mig um vingjarnlegast sem kunni að ganga með sjer þangað og vaka þar eina nótt yfir þessum manni fyrir gjald og góða umbun. Þetta um síðir ljet eg eftir henni, þó lengi tregur til væri. Og nær við þar komum gekk hún til frúinnar og segist einn mann útvegað hafa. Senn gekk hún ofan af borðstofunni og fann mig með þýðlegri kveðju og bón kærlegri að halda trúlega vakt yfir sínum kæra þjenara Hermanni, og spyr mig blíðlega að ætt og nafni og hverjum eg þjóni, og að þessu öllu henni auglýstu sagði hún mig velkominn til öls og matar. Eg þakkaði henni sem best eg kunni, og segist ekki mín sjálfs ráðandi vera. Hún þakkar Guði, að eg sje kónglegri náð þjónandi, hún skuli þar út yfir hjá honum taka, þó tíu væri af hans fólki. Eg segi það hljóti að spyrjast uppá týhúsið. Hún lofar því, og spyr ennframar hver

[1]) Garður Manderup Parsbergs lá þar sem nú er Amalienborg. RC.

vor yfirmann sje. Eg segi Adolph Friderich Grabov. Hún segir: »Hann skal vera sem vjer viljum.« Svo fylgir hún mjer inn í það herbergi, sem maðurinn hvíldi inni og niðri í garðinum stóð. Þá var svefnhöfgi á hann runninu nýlega, sem hún meinti eg mundi hafa verið á miðja leið kominn, og kvað mig vel að honum sókt hafa og mjer mundi meira gott fylgja. Og með því kvöldmáltíðartími var kominn biður hún sitt hoffólk að taka mig að sjer uppá sinn borðsal og einkanlega gjöra mjer til góða. Hún setur tvo erfiðismenn að vaka á meðan yfir honum. Þessir hofmenn höfðu stórdrykkjur eftir venjunni, en eg veik mjer burt og til þessa manns, og sat hjá honum alla þá nótt einsamall, og var eg í þá bók að horfa, sem »Sá andlegi herradagur«[1]) nefndist. Eigi vaknaði hann fyr en bjartur dagur var kominn; þá vaknar hann og tekur til nokkuð að fanticera og í höfuðórum að tala. Eg geng svo til hans, og bið eg hann Guð að ákalla. Hann gegnir því að litlu og sofnar aftur nokkra stund. Síðan vaknar hann, og spyr, hvar hann sje; eg segi honum það. Eða hvort hann hafi nokkrum mein gjört? Eg segi nei. Síðan spyr hann mig að hver maður eg sje; eg segi honum slíkt er til hlýddi. Svo kemur fólk þangað; herramannsfrúin kom einnin og góðan dag með glaðværð honum og mjer bjóðandi, og fagnar yfir heilsu síns þjenara. Hún skeinkti mjer ríkisdal og Mandrup hennar herra, hver eð kærlega þökkuðu mjer fyrir mitt ómak. Alls var eg þar í tvær nætur í loflegri veiting og atlæti elskulegu, og buðu mjer sig að finna aftur nær þau þangað kæmi aftur, ef mjer og þeim svo auðnaðist. Steikarinn gaf mjer hálfs annars dals virði. Síðan hjelt eg heim aftur til míns herbergis.

Á næsta degi kom eg upp á munstring, og þar eftir spyr Grabov mig, hvar eg hafi í tvo daga verið. Eg segi honum hið ljósasta. Ekki vogaði hann þar að að finna.

Á þessu sama hausti[2]) var eg með öðrum 30 af byssuskyttum til Krónborgar skrifaður, hvar vjer dvöldumst í tvö

---

[1]) Líklega „Den himmelske Herredag“ eftir Raffn, um dómsdag. (RC.)
[2]) óvíst er hvort hjer er átt við árið 1618 eða 1619, sbr. ath. bls. 85 og 91.

ár, og eftir gömlum byssuskyttanna rjetti og fríheitum höfðum vjer þar til launa árlega 18 dali, og á hverjum mánuði höfðum vjer til vors kosts 5 sljetta dali.

Þar fjell hverri róðu eða vaktkvarteri hverja þriðju nótt að vaka uppá Krónborgarsloti, og í hverri þeirri róð var 50 manns, 10 byssuskyttur og 40 soldátar. Þessi róða eður vaktfylking skyldi öll við Rauðuport samansafnast þá klukkan sló 4 eftir miðdag, sem er stund eftir nón, og af vaktmeistaranum skarplega álitin, hvort þeir drukknir væri og rjóðir í andliti; hjelt þessi vaktmeistari að sá drukkinn væri; og ef sá maður því neitaði, ljet hann cladit[1]) taka hann heim með sjer, og var ein járnspöng þunn honum um úlfliðinn samankrókuð lauslega, án tilfinningar; uppá henni var útþrykt C4, það er Christián fjórði. Þangað flyktust bæði soldátar og byssuskyttur að drekka með honum, og hver sem svo er og kallast fangi hann drekkur frí. Þar situr hann til morguns og bíður slotsherrans og vaktmeistarans ályktunar, hvort hann skuli án straffs laus látast og aftur uppá slotið ganga á sína vakt og uppfylla sína tímatölu, sem honum bar með nótt og degi á sínum skildbekk að standa, eða uppá þann stóra og hrygghvassa trjehest að setjast, er jafnan á slotsplássinu stendur, og þar vægðarlaust sitja með járn um fætur undir hestkviðinn, er honum skuli niður þrykkja, og sterkum lás þar fyrir, og svo langan tíma sem ályktað verður.

Nú er þar aftur til að víkja er eg nú frá veik, þar öll vaktin við Rauðuport á tilsettum tíma, er fyr var greint, saman safnast í því vakthúsi, er þar stóð, biðu þess tíma er vaktin skyldi uppþrekkjast. Vaktmeistarinn, sá eð Caspar hjet, einn þýðverskur mann, sat á gaflbekknum miðjum og sinn róðumeistari honum til hvorrar handar, sem höfuðsmenn voru fyrir minni vakt. Einn þeirra hjet Hans Tobrich en annar Andrjes Muler, mjög gamall maður. Þessir

---

[1]) Cladit eða Claudit, ɔ: fangavörður, líka stundum í merkingunni fangelsi.

tveir menn voru frómir og ágætir og sem mínir elskulegir feður. Son átti Andrjes Muler i Kaupinhafn, sem var einn bartskeri og hjet M. Blasius, einn frómur maður; sá hafði 3 menn uppskorið lifandi og þeirra meinlæti úttekið og með Guði heilbrigða gjört. Á vinstri bekk sátu soldátar, en byssuskyttur á hægri.

Trumbslagarinn gekk út tvisvar, en í þriðja sinn er hann útgekk uppá trumbuna að slá gengu allir út með vaktmeistaranum í fylking, hver í sinn lið og orðu, eftir því sem í fyrstu var niður sett og hverjum pláss einkað í stöðu og gangi. Fyrst gengur vaktmeistarinn undan með sinn holbor[1]) gildan, síðan trumbslagarinn til hægri handar píparanum, síðan fremst í fylking, sem kallast caperaler í sínum lið, síðan hinir aðrir soldátar, síðan byssmeistarar eður byssuskyttur í liðum, að jafnaði sem í þeim fyrsta lið; liðir kallast breidd fylkingar en róð lengd fylkingar. Svo gengur hann með alla þá fylking yfir slotsbrúna, sú eð hvert kvöld er uppdregin og hurð er á næturnar fyrir slotsportinu, og í gegnum allan hvelfinginn, í hverjum að eru steintröppur, þær eð liggja á snið neðan á slotsmúrinn, sem liggur í kringum alt slotið, og gengur hann með þessa fylking suður fyrir slotið, þá er eitt sljett pláss, að einum útklöppuðum og velfáguðum stórum ferköntuðum steini, sá eð sljett smeltur og þjett feldur er ofan í plássið; á hann var úthöggið C4. Vaktmeistarinn, trumbslagarinn, píparinn og munsturskrifarinn gengu þangað, en soldátar og byssuskyttur gjörðu úr sinni fylkingu einn hring umkring þessa fjóra. Síðan setur vaktmeistarinn höfuðklæðið af sínu höfði, og síðan sjerhver einn, segjandi í þýsku máli: »Guð gefi yður eina góða og farsæla nótt, erlegum soldátum og byssmeisturum. Vitið að þessi vakt, sem yður er nú að höndum komin, er Guðs og vor, vil eg því sjerhvern erlegan soldát og byssmeistara ámint hafa að sjá vel fyrir sjer og sinni vakt, svo engin klögun uppá komi, og að svara til síns nafns.« — Síðan les vaktskrifarinn upp sjerhvers nafn. Cladit

---

[1]) ɔ: atgeir, d. Hellebard.

hoppar í kring og tekur hvern þann, sem drukkinn finst, heim með sjer.

Slotsmúrinn er ferkantaður; á hverju horni er rúndel,[1]) á hverjum þeim rúndel stendur einn maður með byssu og sverð við síðu, og sá fimti maður stendur fyrir utan vakthúsdyr soldátanna, svo fimm menn standa í þessum fimm stöðum í einu, en 10 umskifti verða með nótt og degi, svo það er 50 fólks, sem hverja nótt og dag á slotinu vakir. Þessi hegðan varir þar sífeldlega. Vaktmeistarinn læsir hvert kvöld portinu sjálfur, og hverja nótt er hann upp á slotinu, utan nær hann biður hópmanninn, það er slotsherrann, um leyfi þar til, að hann megi heima hvíla í sínu herbergi.

Fjórir eðlamenn velforsóktir þjóna hjer að auk uppá kastalanum Krónborg, sem kallast adelbúss eður gerunn.[2]) Þessir menn gjöra umskifti að vaka, svo hverjum ber sín nótt til þess að reyna vaktina og kringumgang að hafa á slotsmúrnum, og að handgrípa þá, sem ógætilega sína vakt standa, svo þeir þessvegna yrði gripnir af þessum rúnngöngurum, eður ef nokkrir sofandi fyndist. Nú er það í valdi þessara betrúaðra manna nær þeir svo finna einn í sinni vakt sofandi eður illa sig athugandi, svo hann þessvegna verður gripinn, að deyða hann þar strax, eður með sjer lifandi til vaktmeistarans að leiða, svo hann þá í fjötra innsetjist og að morgni líflátist, hvað títt skeður á slotum og festingum, þá ólukkan einum tilvill, og einn nýlega hent hafði litlu fyrri en eg þangað kom með mínum lagsmönnum, hverjir eftir stríðsmanering og vísu eru af fimm þeirra compagníbræðrum og bestu vinum á tilsettu plássi í hel skotnir, hverja þeir sjálfir útvelja úr heilu compagníi.

Nær vjer fyrst þar komum urðu á þriðja degi þar eftir á því úthöggna steinhúsi, er fremst á múrnum stendur og að sundinu og yfir að Helsingborg vendir, kóngl. Maj:s

---

[1]) d. Runddel, »kringlótt vígi« (Konr. Gísl.)

[2]) þ. adelbursch táknar eiginl. ungan aðalsmann, en svo voru og nefndir varðforingjar. »Gerunn« er = d. Runde, Ronde, þ. e. varðforingjar, er ganga í kring og vitja varðmanna, til að líta eftir að alt sje í reglu.

artícular fyrir oss upplesnir, og af oss eiðar teknir uppá trú og hollustu við kóng og krúnuna, hvað þrisvar skeði um þann tveggja ára tíma, eg þar dvaldist, og eiðar endurnýjaðir. Hverjum af oss voru tvö stykki fengin að vakta og hönd yfir að hafa. Mjer voru fengin tvö koparstykki, sem næst stóðu steinhúsinu, sem lysthús nefndist; þau voru þrír málfaðmar á lengd og vörpuðu lóði yfir Eyrarsund, er vóg 32 merkur. Aðrar tvær horfðu til vesturs að borginni við, er Helsingeyri nefndist, en slotið kallast Krónborg, og eru þess múrar við sjómálið upphlaðnir. Ei minnist eg múrshæðina, en víst meina eg það 15 faðma hæð vera. Það eru margir kimar niður við sjómálið, hvar inni liggja gömul og hræðilega stór stykki og gluggar stórir fyrir hverju stykki er beint liggja við skipanna sjómáli ef með þarf, kastalann að verja. Þar niðri í þessum kimum er geymt harðatorf til slotsins og vakthúsanna tveggja og höfðu soldátar eitt en vjer annað; í hvoru þeirra stóð stór kakalofn, og brann eldur í þeim nætur og daga frá því að kæla tók um haust og fram langt yfir páska.

Mikil frost komu þar annan veturinn er eg þar var, svo að Eyrarsund lagði um Þorra og fram á föstu, svo bændur af Helsingborgarlandi, sem er úr Skáney, komu á vögnum yfir Eyrarsund, sem að er vika sjávar milli Krónborgar og Helsingborgar, til torgs með allra handa vöru, æta og óæta, eftir gamallri tilskikkan, að nær svo viðbar að Eyrarsund liggur og þeir á vögnum komast mega yfir Eyrarsund, þá hafa þeir frítt torg í Helsingeyri, en ei oftar. Þetta skeði á því ári er vöndur sást á lofti (eða sú halastjarna).[1])

---

[1]) 1618 í Nóv. og Dec. sást halastjarna, sem getið er í dönskum ritum frá þeim tíma. RC.

## XV. KAP.

Á því öðru ári, er eg þjenti á Krónborgarsloti, sem var 1620,[1]) umgekk mikil pest í Danmörk, svo að í Sælandi afgekk 7000 manns, í Noreg 4000, í Jótlandi 5000. Nú er svo tilsett í kóngl. Majest. artíkulum og þar inni verður strengilega fyrirboðið þeim öllum, sem uppá slotinu þjena, að ganga í pesthús. Nú bar svo einn tíma við, að einn maður af vorum selskap, Thómas Randers að nafni, lá mjög tekinn í pest, en nokkrum af oss var kært til hans, og gengum því einn dag þrír tilsamans að hugleiða um, hvernin þessum vorum kærum vin liði, og í trausti Guðs gengum vjer inn í forstofuna, er þar svo kallast, það er inn í sjálfar bæjardyrnar, og kölluðum til kvinnunnar, er þar átti fyrir að ráða, og spurðum hvernin Thómasi liði, en hún kvað honum vera í afturbata. Vjer báðum hana vel lifa og honum fyrir oss að heilsa. Vjer gengum svo þaðan og hugðum að engir mundu þar hafa við mátt verða varir, en máltæki gamalt er það, að

»þeygi var svo þjóðin traust
að þetta ljeti orðalaust.«

Svo bar við einn tíma, að mjer fjell sú fyrsta vakt til um kvöldið, sem voru tvær klukkustundir í senn, að vaktmeistarinn Caspar sendi boð til mín, eftir það hann var búinn að læsa slotsportinu, að eg gengi af skildbekknum heim til hans, hvað þó ei plagaðist tíðum, og setti þann í staðinn í mína vakt, sem sendur var. Og nær eg kom í vort vakthús, þar var vaktmeistarinn og sátu allir yfir máltíð þar inni, því hverjum leyfð-

---

[1]) Hvert þetta ártal er rjett er óvíst, eins og sjá má af því sem á undan hefur verið sagt. — Pestin byrjaði vorið 1619 í K:höfn. og er sagt að í þeirri borg hafi látist um 7000 manna, svo tölur þær, er Jón Ólafsson tilfærir hjer, eru áreiðanlega ekki of háar.

ist að láta færa sjer mat á kvöldin úr sínu herbergi, áður en portin tilluktust. Nær eg kem býð eg gott kvöld. Hann tók mjer vel, og spyr hvort eg vilji ekki sitja og fá mjer líka mat. Eg segist það muni þiggja þegar minn tími sje þar til kominn. Hann þegir litla stund. Eg spyr hvert erindi hans sje við mig. Hann kvaðst ætla nokkuð vera mundi. Hann spyr mig hversu oft kóngl. Majest. artikular hafi verið upplesnir síðan eg þar komið hefði. — Eg kvað þrisvar að upplesnir verið hefði. — »Svo veit eg,« segir hann, »að þú munir þeirra innihald vel athugað hafa.« — Eg ljet þar fátt yfir. — »Mig minnir,« segir hann, »að þar inni fyrirbjóðist í pesthús að ganga þeim öllum, sem á slotinu þjóni.« — Þessu samsinni eg. — »Þá veit eg,« segir hann, »að þú munir þar vaktan á hafa tekið.« — »Ei veit eg annars,« segi eg. — »En eg voga að segja,« segir hann, »að þú hafir nýlega í pesthús gengið.« — Eg varðist því og harðlega neitaði. Hann spyr hvort eg dirfist sinn framburð að rengja? Eg kvaðst frjáls fyrir hverjum alt ósatt aftur að bera og sem mjer ranglega tiltalað yrði, en því neitaði eg ei, að eg hefði spurt eftir einum kóngl. Maj:ts þjenara. — Hann segir eg lygi; eg hefði víst til hans gengið og hjá honum etið og drukkið. — Eg kvað þá alla ljúga, sem ósatt segðu. — Hann spyr mig að, hvort eg dirfist að segja sig lygi mæla? — Eg segi, ekki af sjálfum sjer, því hvað hann segði, það talaði hann eftir öðrum, og bað eg hann þann mann auglýsa. — Ei vildi hann það gjöra. — Eg kvað Guð almáttugan að hitta einn og sjerhvern, þar hann vildi, af sloti eða á, því allir stæði eins naktir fyrir dauðanum, hvort hann væri innan múra eða utan, þá Guð svo vildi vera láta, að sjerhver og einn burtleiðast skyldi. — Öllum þeim þar inni voru og hans lund þektu hnykti við, bæði við mína dirfsku og hans hóglyndi við mig, og enginn maður vogaði einu orði að ansa fram í okkar ræðu. Síðan gjörðist hann hinn mildasti, drakk mjer til og sinn skerdisk með góðri fæðu afhenti. Yfir þessu undruðust menn stórlega.

Þessi vaktmeistari átti tvo unga syni. Einn þeirra var 12 en annar 13 ára að aldri. Pest greip þá báða hart, að

þeir innan tveggja daga voru burt liðnir, hverja hann mjög sorgaði, en ei síður fyltist hatri við mig, hvað hann leynilega með sjer faldi og var mjer óvitanlegt, þar hans besti vin, Hans Tobrich, minn sá annar róðumeistari og elskulegur sem faðir var mjer alla tíma, tók mig einn tíma leynilega á tal, og gjörði mjer trúlega viðvörun, og bað mig að gæta mín sem best fyrir vaktmeistaranum, því hann bæri mikla ofurþykkju til mín af þeirri ræðu, er við höfðum síðast í vaktstofunni, og það hann svo skjótt hafði mist sína 2 syni eftir okkar viðræðu, og meinti mig einn spámann vera. Hann biður mig engan þetta vita láta, hverju eg honum trúlofa. Hann segir helst muni hann mig umsitja nær tunglþrot væri á minni skildvakt.

Eitt sunnudagskvöld bar svo við, að hann lætur bera uppá kastalann 18 potta af Rostockarbjór, sem er besta öl þar ytra, sem hann var aldrei vanur að gjöra. Nú bar svo við, að mjer og tveimur öðrum af mínu liði bar vakt á þeim litla rúndel þessa nótt, en mjer fyrst um kvöldið með soldátum, nær vaktmeistarinn upphóf sína öldrykkju í vaktstofn byssuskyttanna. Og eftir því sem hvert tveggjamarkastaup um gekk inni sendi hann mjer það út. Baltsar Lynbeck hjet sá maður, er til mín ölið útbar, og með hverju staupi gjörði hann mjer bróðurlega viðvörun, að eg skyldi mín fyrir vaktmeistaranum sem best gæta. Eg segi, eigi skuli hann formerkja mjer nokkra viðvörun gjörða af neinum, með því eg hafni hans góðvild, heldur skuli eg ókotmannlega við taka, svo hann síður merkja skuli, að eg hans ásetning í neinu viti eður hugleiði.

Svo líður á kvöld og yfir dagsetur, og svo var myrkt, að ei sá eg ofan á mínar hendur. Nú bað eg Guð almáttugan að styrkja mig mínum öllum óvinum á móti, svo eg fengi það að líta, sem mjer lægi mest makt á. Eigi vildi hann bera sinn lyklahring úr vaktstofunni í það sinn, svo mjög var hann viðleitandi að koma mjer i ólukku og mínu lífi umsát að gjöra.

Um síðir varð eg hans var, með því slotskirkjan var

nærri um miðdiki[1]) slotsins, og var hvítara en slotið annarsstaðar fjekk eg hann fyrir Guðs náð deildan við slotsmúrs birtuna, svo eg var fullviss, að maður vera mundi. Eigi gaf eg mig strax upp, fyr en hann kom hið nálegasta mjer sem verða mátti, hvað eg með guðlegri hjálp gjörði með ásetningi og vilja, því að eg vissi það vel, að honum mundi þykja veiður í höndum, og hugsa um gott til krásar. Og nær hann var svo nálægt kominn, sem eg hugði með spjótinu eg mundi til hans seilast mega, þá gaf eg svo mikið hljóð af mjer sem hæst og ógnunarmest eg orkaði, af hverju hann frábærlega skelfdist, svo hann hrökk langt tilbaka og sagði til sín kjökrandi, að hann væri gerunn, eður sá umkring gengi. Eg bað hann afvíkja. Sú hin fimta vakt, sem stóð fyrir vakthúsdyrum soldátanna kvað mig í það sinn sjer líf með Guði gefið hafa, af því hann fjekk svo gjörla mitt kall að heyra. Þar gekk vaktmeistarinn inn til hvíldar eftir venjunni.

Um morguninn kemur vaktmeistarinn inn í vora vaktstofu. Eg bauð honum góðan dag. Hann tók mjer varla. Hann spyr mig að, hvort eg hafi ásett mjer að æra sig í gærkvöldi, eða vitstola verið. — Eg kvað hvorki vera. — Hann segir, enginn hafi sjer slíkan skelk gjört, og sagðist lengi hans minnugur vera. — Eg bað hann ráða, en svo hann skildi mig tíðkaði eg gamalt málstæki, að sá byði sitt hár, sem annars reytti, og gekk eg svo út. — Hann segir að mjer burtgengnum við Hans Tobrich, að ei muni sig gilda við mig ilt að eiga. Hans Tobrich segir honum það litla gustuk vera við mig framandi og einstaka mann kíf að byrja án sakar, því hvorki sje líf nje dauði í minni hendi.

Um kvöldið, nær eg gekk af slotinu og í gegnum Rauðuport og upp eftir steinstrætinu, í hverju inni var kóngl. Maj:s tollari Christian Davíðsson[2]) og margt annara vildarmanna, og eg hugði til herbergis ganga, þá úr einum

---

[1]) gamalt ísl. orð, = miðbik.

[2]) Hann varð síðar borgarstjóri í Helsingjaeyri og dó um 1659. RC.

vínkjallara var kallað til mín, að eg þangað kæmi. Eg þekti hljóð vaktmeistarans. Lengi vogaði eg ekki inn að ganga fyr en Hans Tobrich bað mig koma. Þar drukkum við til þess á vakt var hringt, og drukkum við okkur þar til sátta. Ljet hann mig síðan í meinleysi á meðan eg þar dvaldist og allir soldátar.

## XVI. KAP.

Hópmann Krónborgar slots hjet Thómas Nold[1]) og var af líflenskum aðli; hann var mjer jafnan góður, hans frú og hennar systir jómfrú Sesselja, hverjar oftlega spurðu mig hjeðan úr landi, hvað þær ljetu sjer þrátt að gamni verða. Þáði eg þar marga góða máltíð og máldrykkju. Stundum þverskar eg þar brennivið með sög og fleiri af mínum samlagsbræðrum, einkum minn stallbróðir Hans Matthson Lund, sem lengi hafði munsturskrifari verið, og Baltsar Lynbeck. Vjer vorum allir í einni róðu og untumst vel.

Þar var einn af soldátunum, sem hjet Sveinn skánski; við hann kom eg tvisvar í klamarí. Í fyrra sinni bar okkur til undir settri vakt heima í borginni, næsta húsi við vaktmeistara, urðum vjer báðir settir í cladit, en um morguninn upp á þann gamla trjehest, á hverjum hann hafði þrátt setið fyrir klamaríis sakir, en eg fyr aldrei. Þá kom slotsherrann, Thómas Nold, og skikkaði vaktmeistaranum að gefa mig lausan, og segir honum hinn nyti mín, annars skyldi hann þar setið hafa til kvölds. — Í öðru sinni bauð hann mjer fyrir Rauðuport í einvígi. Vaktmeistarinn kom þar og Hans

---

[1]) Thomas Nold af Maglø var aðalsmaður frá Kúrlandi; hann varð foringi setuliðsins í Krónborgarkastala 1615, og giftist þá um haustið Margrjeti Gjedde. Síðar varð hann forstöðumaður týhússins í K:höfn. Hann var hinn mesti merkismaður. Helstu æfiatriði hans eru rakin í Blom, Chr. IV's Artilleri, bls. 28—30.

Tobrich, hann dregur sína verju og segir, að sá, sem miður dugi, hann skuli hann berja, því við gjörum þetta sem fleiri uppá brúk og gikkerí, og lofar, að hann skuli annanhvorn okkar svo útþvo, að aðrir skuli sig þar í spegli skoða. Þá hugsaði eg, að ei skyldi hið betra eftir liggja og urðu með okkur hvorki löng nje mörg vopnaviðskifti fyr en Sveinn fjekk skeinu litla á kinnbeinið, og var það undir lagt, að hver sem annan fyr blóðgað fengi skyldi unnið hafa. Nú var þessi maður mjög hár og stór vexti. Vaktmeistarinn sló hann illa með sinni flatri verju og skammaði hann út. Sveinn kom aldrei úr því í klamarí, þar til Guð tók hann í burt þremur árum síðar, og varð lengi hlje á útafgöngum og einvígum þar eftir fyrir utan Rauðuport.

Ein ekkja var í Helsingeyri, Katrín Lolliks[1]) að nafni; hún átti 3 börn; tveir hennar piltar gengu í skóla. Þessi kona girntist mig til hjúskaps, en eg hafði þar engan hug til eða vilja, einkum hennar barna vegna. Eitt kvöld kom einn ókendur maður í hennar hús, og ljest vera mikill og mjög forsóktur víða um lönd. Þegar hann hafði þar litla stund drukkið upphóf hann bónorð til hennar. Ei vildi hún honum þar nokkru til svara, fyr en fann mig um kvöldið; spyr hún strax ráða, er eg heim kom af slotinu. Og sem eg leit þennan mann brá mjer illa við. Hann girntist mig til drykkju við sig, hverju eg mótstóð. Eg bað konuna einslega að segja honum af og girnast ei slíkan mann, sem hún engin deili til vissi; hverju hún strax varð samsinnandi. Hann veik þaðan strax. Á vikufresti spurðist hver maður hann var, bæði þjófur og morðingi, og náðist upp í Sindingahjeraði,[2]) hvar hann varð mannsbani. Nær þetta spurðist þakkaði konan mjer innilega, að eg fjekk þessu hamlað, því allir gátu þess til, að hann mundi allri hennar eigu rænt

---

[1]) Tilgáta útg.; sbr. orðamuninn.

[2]) Í Danmörku er ekki til neitt hjerað með því nafni, en tvær sóknir á Jótlandi heita svo; í Ögursbók stendur „Sníðinga-heraði“ og er hjerað með því nafni heldur ekki til, en til er herragarður á Sjálandi er heitir Snedinge.

hafa, en hennar morðingi orðið, svo sem tíðum til borið hefur, líka í Danmörk sem annarsstaðar.

Einn af soldátunum, kallaður Ríki Jacob, var þar minn einn hinn besti vinur. Eitt kvöld bar svo við, er eg gekk frá honum til míns heimkynnis, að einn ríkur borgarason mætir mjer drukkinn, dregur sína verju til mín, og býðst að höggva mig. Eg dró aftur á mót mína verju, og góðmannlega bað hann að koma hvorki mjer nje sjer í ólukku. Hann bað mig eg skyldi verja mig, ef eg þjenti kónginum fyrir einn erlegan mann heldur en óerlegan. Svo urðu leikslok með okkur að hann rann með ben til bæjar. Þessi maður hafði lengi forsókt sig utanlands, og girntist að verða týmeistari. Hann gekk fyrir kóng að sýna sitt meistarastykki, sem var, að hann bauðst til um miðnættistíð að hæfa með stykki uppsett mál í niðmyrkri, hver merkisskífa var upp sett úti í skógi góða vegarlengd þaðan sem stykkið stóð á einni sljettri bryggju, hvað honum vel tókst að nokkru leyti; en fyrir öfundarsakir nokkurra, sem þar til embættis komast vildu og drjúgari urðu, hindraðist hann þar frá. Fyrir þess sakir varð hann oss gramur, sem upp á slotinu þjentum.

Um veturinn á föstu Anno 1620[1]) dró vor náðugi herra kóngur yfir Eyrarsund með nokkur þúsund fólks allsháttaðra embætta upp í Halland til Halmstaðar í móts við kóng Gústaf, kónginn af Svíaríki, hvar þeir gjörðu sáttmál með sjer, sem vara skyldi, og varð öllum sterklega fyrirboðið undir Danmerkurkrónu nokkuð vondslegt Svenskum að tiltala, hvorki almennilega nje leynilega, í ræðu nje kvæðum. Mikill hugur var mjer og mínum stallbróður Hans skrifara í þá herraferð að fara, og komumst vjer fjórir ofan á bryggju, að ferjunni, sem yfir sundið fór, er junkur Grabov oss með valdi þar til skikkaði, en í því bili er vjer skyldum í ferjuna stíga kom hópmanninn, Thómas Nold, og tók oss með skörpum

---

[1]) Það var í Febrúarlok 1619. Sbr. Slange, Chr. IV's Hist. Líklega er það orðum aukið að „nokkur þúsund“ hafi verið í fylgd konungs.

orðum við Grabov, og urðum svo lúðrandi til heimkynna að hverfa. Meðan þeirra fundur og samvist varaði og yfirstóð fjell drifsnjór í mittisstað á Helsingeyrar strætum og lá í hálfa aðra viku. Síðan leysti ís og snjóa. Og nær kóngur var á sinni heimferð með sinni herralegri fylgd og skyldi flytjast yfir Eyrarsund, þá voru á floti meir en hálft annað hundrað ferjur þann dag, sem var nálægt pálmasunnudegi. Nú bar svo við á þeim degi, að mikill ís var í reki, og fóru allar ferjur og flutningar undan kóngi, vestur yfir sundið til Kaupinhafnar og Helsingeyrar, en á einni ferju fór kóngur síðast, og á þeirri eykt stóð eg mína skildvakt. Í þann tíma var frú Christín[1]) upp á Krónborgarsloti með stórri umhyggju og athugasemi, og kallaði drjúgum ofan til mín þar eg stóð, og bað mig að kalla til sín, nær eg sæi kóngsins ferju koma í sundið austan yfir, hvað ei skeði fyr en síðla dags. Og nær hann kom á miðja vegu gjörðist stormviðri hvast af suðaustri og ein mikil ísspöng kom rekandi úr Austursjónum í veg fyrir kónginn, svo ei varð fyrir komist, hvorki með segli nje árum, því ofurmikill straumur gekk í sundinu, og rak þá svo með spönginni í stórviðrinu, sem mjög vaxandi í hönd fór, hálfa aðra viku sjóar, ofan fyrir Koparmyllu,[2]) sú eð stendur í vest-norð-vestur frá Krónborg, og þar komst kóngur til lands með naumheitum, fyrir Guðs náð, og varð gegnvotur, en hleypti í miklum landnyrðingsvindi með grimmum frostkulda. Á meðan kóngur var í þessum háska bar frú Christín sig mjög hryggilega, og bað mig að biðja Guð fyrir honum, að honum vel lukkast mætti. Strax sendi hún vagn með fjórum hestum á móti kónginum; var kóngur þá mjög frosinn og kaldur nær hann kom heim á slotið. Ei vildi hann í trómet blásið væri nje stykkjum affýrt.

Hálfum mánuði fyr kom eitt skip hollenskt frá Spanía

---

[1]) Frú Christín Munk, som konungur hafði gengið að eiga 23. Aug. 1615.

[2]) Hammermölle veð Hellebæk á norðurströnd Sjálands. Þar var stofnuð koparmylla um 1600, þar er nú „Hellebæk Fabriker“.

með margskonar vöru og dýrmæt aldini. Í þann tíma lá ís langt út í Eyrarsund, og varð inn vakað meir en viku sjávar af þeim, sem ekkert handverk höfðu, og inn fyrir borgina. Margt fólk gekk fram á ísinn að skoða skipið og að kaupa aldini og epli. Skipherra þess skips var mikið stórmenni svo enginn þóttist svo stóran sjeð hafa.

Fyrir páskana kom mikil sigling í sundið, bæði úr Austursjónum, sem út af sundinu vildu fara, og önnur skip, sem komin voru víða að, bæði úr Hollandi, Englandi, Skotlandi og Noregi, sem komast vildu upp að Svíaríki, Dansken,[1]) Stralsund, Rostock, Lýbeck og víðar annarsstaðar. Þessi skip voru að tölu 637, og lágu þar um páskana. Á þriðja dag páska gafst þeim leyfi að tolla hjá Christian Davíðssyni, kóngsins tollmeistara. Og með því að margir voru, sem tolla áttu og gjarnan vildu á leið komast urðu stórþrengsli í tollbúðarforstofunni og áflog og um síðir skemdir. Varð þessvegna sent upp á slotið eftir tveimur soldátum og tveimur byssuskyttum, sem varna skyldu fleirum inngöngu í senn en einum, og var eg einn af þeim fjórum, er þangað sendust. Vjer fengum mikla drykkjupeninga, því hver skipherra gaf oss fjóra danska skildinga.

Tvær kirkjur voru í þann tíma í Helsingeyri, og kallaðist önnur danska kirkja. Sóknarherrann hjet M. Hans Krús.[2]) Slotskirkjan var að auki, og hjet vor prestur M. Augustinus; hann gjörði þýska prjedikun; hann var aldraður maður og ágætur. Undir hverja prjedikun var slotsbrúin uppdregin, sem var hurð fyrir slotsportinu, og kæmi nokkur síðar, en portið var uppdregið, hlaut þar að standa eður heim aftur ganga. En nær prjedikun var enduð vorum vjer soldátar og byssuskyttur munstraðir og upplesnir, og hver sem þá var ei til staðar að svara til síns nafns var strax uppleitaður af cladit og uppá hestinn[3]) settur.

---

[1]) ɔ: Danzig, á pólsku Gdansk.

[2]) Hans Kruse, prestur við Ólafskirkjuna 1617, † 1625 og Augustinus Sand, prestur við Maríukirkju og hallarprestur í Krónborg, (1567-1649). RC.

[3]) ɔ: trjehestinn.

Þar var sú stærsta klukka á Krónborgar slotsturni, sem kölluð var Grjónklukka[1]), sem keypt var einn tíma ei fyrir meir af einni ekkju í Landskrónu í óári en fyrir fulla af grjónum. Þessari klukku var hringt á hverri stórhátíð um miðjan morgun í þrjár reisur, og hver sem af byssuskyttum og soldátum ei var kominn upp að Rauðuportum nær þeim var upplokið og henni hringt í þriðja sinni, skyldi setjast í cladit og þar vera um alla hátíð, og á fjórða degi uppá hestinn koma, utan sjerdeilis náð til kæmi. Síðan var skotið þremur stærstu koparstykkjum, sem voru á slotsmúrnum, sem kölluðust nótslöngur,[2]) og af því slagi voru ei fleiri en fjórar þar, en fimm í Kaupinhafn, hverra eg hefi fyr getið, tveimur þeim, sem horfðu að borginni og annari þeirri, sem eg hafði hönd yfir, er stóð hjá lysthúsinu.[3])

Nær skipin sigldu um fyrir Krónborg í þverviðri var sú stóra flagg með rauðum lit uppsett á lysthúsið, hvert merki var til þess, að þeir máttu láta sín segl í toppi standa að ósekju. Læt og svo hjer við blífa um Krónborg að tala að þessu sinni.

## XVII. KAP.

Síðan varð eg með mínum lagsbræðrum kallaður frá Krónborg og upp til Kaupinhafnar, hvað oss var öllum í móti, um vorið eftir páska. Varð oss þar vel fagnað af góðu kunningjafólki.

---

[1]) Hjer er það að athuga, að á þeim tíma eiga, samkvæmt því er aðrir segja, tvær klukkur að hafa verið í hallarturninum á Krónborg, og báðar steyptar í Höfn 1577. RC. og rit þau er þeir nefna.

[2]) „Slöngur“ voru á þeim tímum kallaðar langar fallbyssur, sem voru hlaðnar með 2—20 punda kúlum. Nótslöngur (d. Nothslanger) voru þær stærstu kallaðar; ein þesskáttar fallbyssa var t. d. 25 fet á lengd og var hlaðin 16 punda járnkúlu. Sjá Blom, Chr. IV.s artilleri. bls. 156—158.

[3]) Þar sem nú er kallað „Flagbatteriet“. RC.

Og vil eg nú þar frá segja, er fyrst eg fór í siglingar uppá köngl. Maj:ts og ríkisins vegna, sem var næsta ár eftir það eg kom undir regimentið 1616, og eftir það þau tvö köngl. Maj:ts stríðsskip höfðu náð einum mektugum og nafnfrægum fríbýt að nafni Mandaus[1]) undir Rússía, og hefst frásögn þar um á þann hátt sem eftir fylgir.

Og með því að köngl. Maj:ts siðvenja var sú árlega stríðsskip á Danmerkur strauma að útsenda öllum erlegum siglingamönnum til frelsis og forsvars, sem brjeflegt leyfi höfðu um straumana að sigla og með sína vöru reistu frá einu landi til annars, hver passbrjef útgáfust í Danmörk, Hollandi, Englandi og víðar annarsstaðar, þar sem köngl. Maj:t hafði sína factores, með ríkisins signeti undir, — þá nær skrifaðist 1615, á því ári, er eg hjeðan með Engelskum burt sigldi og áður er nefnt, sendi köngur út tvö skip, sem var Victor og Juppiter í norðvestursjóinn að Noregi og Rússía. Og nær sem þeir komu við land í Noregi spurðu þeir til ræningjaskips, sem var áðurnefndur Mandaus, hver eð kominn var nýlega frá Færeyjum, og hafði nú landgang gjört og fjenaði rænt sjer til kosts í Fleckerey skömmu fyr en þeir þar komu. Og nær sá danski aðmíráll Jurgin Dá, sem var uppá Victor, spurði til þessa mektuga ræningjaskips tók hann enga dvöl nje forsóman sjer fyrir, heldur strax með Juppiter þaðan úr höfnum hjeldu, og gjörðu þeim stríða eftirför sem mest máttu. Og hvar þeir komu við land eður í hafnir norður með Noregi spurðu þeir til þeirra, að þeir hefðu þar nýlega komið og frásiglt hefði. Og nær köngsmenn komu til Kielden[2]) í Rússía spurðu þeir þar til þeirra að þeir hefðu þar tvær nætur legið og voru þaðan fyrir þremur nóttum afsigldir norðaustur fyrir Rússland, sem kallast Hvítahafið. Strax ljet aðmíráll blása til burtfarar þaðan úr höfnum. Voru svo akkeri uppundin og seglum útslegið.

---

[1]) Skýrsla Jørgen Daaes um þessa atburði er enn til í ríkisskjalasafninu og ber henni saman við frásögu Jóns Indíafara í öllum aðalatriðum.

[2]) Kildin, dálítil ey í Norðuríshafinu. Malmis, sem nefnt er rjett á eftir, er ekki ey, en gamalt nafn á bænum Kola.

Ein ey lá þaðan fjórar mílur afsíðis þeirri leið, er Malmis nefnist; þangað sendi aðmíráll það minna skipið, er Juppiter hjet, að hugleiða ef þeir þangað komnir væru, hvað þeir ei sjer ásett höfðu þangað að fara, heldur sem fyr segir ásettu sjer í Hvítahafinu að liggja fyrir því hollenska skipi, er þeir fulla von um höfðu, að koma mundi í gegnum Veigat[1]) og um þann veg ferðast frá Indien, sem er óvenju vegur, og ei hafa nema 3 skip í gegnum komist. Og gefst þar um tíð nú að sinni ei framar að skrifa, heldur þar frá skýrum að aðmíráll kemur í Hvítahafið og fá að líta kaptein Mandaus undir seglum. Og með því að gott byrleiði gafst neyttu þeir þess næsta vel, og haga nú sínum seglvoðum sem best við vindi er þeir kunna, slá vatni í stórsegl og draga bonet[2]) þar undir og hljesegl við jaðra, að stækka þar með sína seglflaka. Nær hinir litu þessara svo harða eftirför gjörðu þeir slíkt hið sama. Samt vanst kóngsmönnum þá upp að draga um síðir, svo þeir með skotum fengu náð til þeirra. Ránsmenn skutu aftur í móti, en ei þó svo að Dönskum til skaða kæmi. Öll þau lóð, hverjum Danskir í gegn skutu þeirra hinna skip, ljet Mandaus sjer sýna og í káhyttu bera til að skoða þeirra stærð. Einn danskan pilt höfðu þeir fyrir káhyttuvaktara, hvern Mandaus aðspurði, hvort hann meinti þá Dönsku, sína landsmenn, stærri stykki innihafa. Þessi piltur sagðist vel þeirra venju þekkja, að þeir smærstu stykkjum plöguðu fyrst at skjóta, en hinum þeim stærri síðar á eftir; því pilturinn vildi þá gjarnan í helju. Þessu trúði Mandaus, bar sig því aldrei á móti, heldur hjelt harðast undan er mátti, alt til þess þeir komu að þeim Sjö Eylöndum[3]) í Hvítahafinu; þá

---

[1]) Vaigatsundið, sem nú er vanal. kallað Kariska sundið, liggur milli Novaja Semlja og eyjarinnar Vaigatsj, inn í Kariska hafið. — Á þeim tímum gengu sagnir um það að einstöku skipum hefði tekist að sigla þá leið og norður með Asíu og alla leið suður til Indlands, það var þó rangt, og einsog kunnugt er var Nordenskjöld sá er fyrstur manna gerði það á „Vega".

[2]) bonet, d. boned, sv., fr. og e. bonnet, einskonar hljesegl sem var aukið neðan undir seglin.

[3]) ɔ: Sem Ostrovov, smáeyjar í Íshafinu.

kom Juppiter, og á því var sá kaptugi, sem hjet Einvold Stygge.[1]) Og með því að það skip sigldi frábærlega vel komst það í veg fyrir þá.

Ránsmenn höfðu öll ráð í frammi; þeir köstuðu utan mörgum silki- og flauelspökkum, svo þeir, sem eftir sigldu skyldu þar við tefjast þá að innbyrða, hvað af þeim danska aðmírál fyrirboðið var að inntakast skyldi. Og með því Juppiter komst í veg fyrir þá urðu þeir að hleypa sínu skipi uppá grynningar. Samt vildu þeir sig ei gefa að heldur, og ljetu þeir ei síður sitt blóðmerki aftur á sínum skipsrúndel. Sá danski aðmíráll sendi til hans tvo menn, sem var sinn eiginn þjenara Martein og einn annan að nafni Gottskálk, sá eð var byssuskytta, með nokkur brjefsorð. Mandaus tók þá vel, og ljet traktera þá hið besta með öl og fæðslu, og þess vegna varð heldur dvalsamt, hvað aðmírál stórum mislíkaði, svo lá við þar fyrir undir straff að koma, hvað þó afplánaðist, af því að þeirra sjálfræði sýndist hafa verið í annara valdi. Mandaus sendi og honum fáein brjefsorð og 2 menn, sem þar um hljóðuðu, að hann að svo búnu ei sig gæfi honum í vald; þessvegna bauð honum trássugt út á mörkina til orustu. En með því aðmíráll vissi sig að hafa ótamið stríðsfólk og ekki marga þá innanborðs, sem byssu kynni artuglega að skjóta, þessvegna brá honum í fyrstu lítt við þennan boðskap, en vogaði þó ei fyrir sitt líf þessu að neita.

Síðan drógu þeir af skipinu með bumbum og trómetanna skörpum blæstri út í mörkina, hvar þeir hvorutveggja fylktu sínu liði, og stóðu svo til orustu búnir nær kall kæmi. En með því að hefndartími Mandaus nálægðist og hans stallbræðra fjell honum til sinnis, með því hann vissi sig skiplausan í framandi stað, sem víða var af skotum lamað og larað, og nú stóð á einu sandrifi fast og óbifanlegt, að gefa sig fanginn; kallar því með hárri raust til aðmíráls og spyr hann að góðmannlega, hvort hann væri í góðri gúnst hjá

---

[1]) ɔ: Enevold Stygge; † eftir 1622. (Lind, Chr. IV. og hans Mænd, bls. 191).

sínum herra og kóngi. Hinn kvað það satt vera. Hann spyr enn framar, hvort hann treysti sjer vel til at útvega grið og líf sjer og sínum kaptuga og skipherra. Aðmíráll játar því glaðlega, og segir að sinn herra muni aldrei slíkan mann aflífa láta, hverju hann stöðuglega trúði, og gekk svo og gafst þeim danska aðmirál á vald, hvað þeim Dönsku varð til sigurs og lukku, en hinum, yfir hverjum hefndin hrópaði, til falls og bana. Gekk Mandaus þar strax frá öllum sínum rangfengnum auð, og með fimta mann gaf sig til Danskra, sem var hann sjálfur, kapteinn Bra,[1]) hans skipherra, hans stýrimaður, Jacob að nafni, sá eð var frómur og ráðvandur maður, og varð ei samþykkur þeirra ránskap, og var sjer óvitanlega í þeirra selskap kominn, því hann í fyrstu hugði þá rjettferðuga siglingamenn vera, nær hann rjeðst hjá þeim, og sá danski piltur hlaut grið með stýrimanni. Danskir tóku svo alla hina og lífljetu, með þeim hætti, er þeir sjálfir kusu, sem var, að þeir voru allir á háls skornir, líka sem þeir fyr öðrum gjört höfðu, og í sjó söktir tveir og tveir tilsamans, og við eitt byssukamar[2]) bundið, svo þeir því fljótara til grunns sykki. Danskir gengu svo að öllum þeirra auð og innfluttu í sín skip, sem voru 8 kistur fullar af silfurmynt allrahanda, hverjar svo þungar voru, að fjórir menn gengu undir þeirri minstu nær heim kom, sem hafðar voru á einni tíð uppá slotið í Kaupinhafn, en sú níunda kistan var full af klárri gullmynt, og undir gengu tíu menn nær hún var heim uppá slotið höfð, og vissi enginn svo ríkt skip fyrir Kaupinhafn fyr komið hafa. Þessara ránsmanna skip uppbrendu svo Danskir þar í sama stað að lyktum.

Síðan hjeldu þeir heim að heilu og höldnu og gáfu Guði dýrðina, og þremur dögum þar eftir urðu þessir þrír

---

[1]) Í skýrslu Jørgen Daaes nefnir hann auk fyrirliðans sjálfs Mandaus (Mendoza) kaptein hans Walther Bhrae (sic), og skipherrann Linnertt; hann kallar Jón Indiafari Rúbentzius hjer á eftir.

[2]) einskonar járnhylki, sem var notað sem botnstykki undir púðrið við bakhleðslufallbyssur á þeim tímum. Lýsing á því finst i Blom, Chr. IV.s Art. bls. 113—115.

til gálgans útleiddir, sem gjörður var fyrir utan Austurport, nær þeir voru heim komnir, sem var kapteinn Mandaus, kapteinn Bra og skipherrann Rúbentzius, en stýrimanni og þeim danska pilti var líf gefið. Þá gullkeðju, sem Mandaus bar þrílagða, skenkti hann aðmírál Jurgin Dá, og mintist við fyr en rjettaðist, og sagði hann skyldi þess að njóta, það hann hefði sig unnið erlega. Og nær þeir voru úthafðir til rjettarstaðarins leiddust þeir þrír, og gengu berhöfðaðir með söng og glaðværð. Mandaus sagðist þakka Guði fyrir það, að hann mætti nú sína maklega hefnd hjer úttaka, vonandi Guðs náðar, fyrirgefningar syndanna og eilífs lífs alleina fyrir Jesúm Christum. Ein ný vippa var þeim gjörð með svoddan formi, sem sig hjer til sýnis lætur.[1])

Ei minnist eg betur en þeir sakramentið áður fyr meðtæki en þeir útleiddir voru, eftir því sem mjer af hjáverandi frómu fólki var frá skýrt, nær eg kom til Kaupinhafnar um haustið, hvað nýlega var skeð 1615, og hengu þá fyrst eg kom þar heilir og óskaddaðir í sínum silkiklæðum, með gullsnúrum og gyltum rósum í skónum; þetta alt þeirra ysta skart eignaðist meistarinn, sem þá rjettaði, inn til þeirra nærklæða. Og lýkur hjer svo máli Mandaus og hans ránskap, sem yfirstóð í 15 ár, og hans lukkuleysi, sigurtöpun og sorgarlegu útför og endalyktan að lokum, hvað öllum óguðlegum sje til viðvörunar, áminningar og afturhvarfs frá syndsamlegu og óguðlegu athæfi.

## XVIII. KAP.

Og nær hans fimm bræður þetta fregna fengu gramdist þeim þvílíkt, og ólmuðust í geði næsta mjög (sem fyr var nefnt), og hjetu stórhefndum þeim dönsku, og bjó kóngur vor árlega út mörg skip í hernað þeim í mót, ef ske mætti þeir eitthvert sinn við risi. Nú að næsta ári eftir þetta svo

---

[1]) Myndin af gálganum er tekin úr handritinu Lbs. 617, 4°.

skeð um vorið eftir páska seint í Aprilismánuði 1616 ljet kóngur 6 væn orlogsskip útbúa í hernað, þessum eða öðrum ríkisins óvinum og ránsmönnum í móti, sem rjettferðugum siglingamönnum og kaupförum fyndist á straumunum til tálmunar á lífi eða góssi.

Í þann tíma bar svo við á því sumri, að kóngur hjelt herradag í Opsló í Noregi. Í þann tíma skeði afgangur Christian Fris um nóttina, þá hann frá kóngsborðinu var hafður út í það mektuga orlogsskip Fides, sá eð var canceler, meir en áttræður að aldri, hvar um eg fyr áminst hefi.

Nú svo eg komi til rjettilegs efnis aftur og þeirrar frásögu er eg í upphafi þessa kapítula upphóf að segja þar frá, að eg með mínum einka stallbróður Jóni Halldórssyni var skrifaður í fyrsta sinn til útreisu á kóngl. Maj:ts orlogsskipum uppá ríkisins gagn og besta, — þá í Guðs nafni, með bæn og blessan útsigldum vjer frá Kaupinhafn um miðdegi eins fimtudags annaðhvort í Apríli eður fyrst í Maí, hvað eg ei gjörla kann að minnast, og um kvöldið komum vjer fyrir Helsingeyri, þar Krónborgarslot liggur við Eyrarsund, og að næsta morgni þar eftir hjeldum vjer þaðan út af Eyrarsundi á millum tveggja landa í norðvestur og liggur Sælland[1]) alt að Skaga vestan til, en Skáney og Halland að austan, og sú vegarlengd út af Eyrarsundi alt út fyrir Jótlandsskaga eru sagðar 24 vikur sjávar. Síðan hjeldum vjer norður með Noregi, þar til vjer komum í Fleckerey, þar spurðum vjer að ræningjaskip komið hefði, þeir tekið hefðu eitt litið skipkorn undir Noregs síðu, og sett þar inn 10 af sínu fólki, en deyddu hina, svo nær sem 3 menn. Fyrirliði þeirra manna hjet Laurits Magnússon, norskur að ætt; hann var stýrimaður þessa skips og mjög vitur maður, frábær og sjerdeilis í mörgu, sá eð oft hafði í stórhrukkur komið bæði til sjós og lands, og alla

[1]) Svo í hdr.; auðvitað er átt við Jótland, einsog sjá má á því sem eftir fer.

sína æfisögu framþuldi hann mjer, á meðan saman vorum, hver eð ófögur var í mörgu að heyra.

Þessir engelskir ránsmenn voru sendir af bræðrum Mandai rán og morð að fremja undir Danmörk og Noregi. Þeir fermdu þetta litla skip með allrahanda sína ránsvöru af klæðum og öðru margskonar og hjeldu svo þaðan úr höfnum, norður með Noregi upp á sinn gamlan ránsskap.

Nú er að segja frá Laurits Magnússyni, hvað hann eftir þeirra burtför þaðan úr höfnum aðhefst, sem bífalað var með þeim þar eftirskildu þeirra með skipinu að bíða þar. Einn dag biður hann um tvo menn sjer með bátnum til lands að fylgja, og sína tvo menn, er með honum herteknir voru og daglega ljetust viljuglega þeim þjóna, og ljest vilja í bygðir fara, sem mannfátt væri og ræna þar fje sjer til kosts. Þeir verða gjarnan honum þar um samþykkir. Og nær þeir til lands komu fann Laurits Magnússon bændur, sem þar nálægast höfninni bjuggu, við hverja hann gjörði með fastmælum trygg samtök þessa ránsmenn að deyða, hvað þeim vel tókst, á einum morgni snemma, og var á þann hátt að farið, að Laurits Magnússon sendi þá í land sauðfje saman að reka, en bændur skyldu í leyndum liggja, en hans sjálfs menn tveir skyldu nálægir bátnum vera og strax frá landi til skips róa. Senn komu meir en 20 bændur, þeir eð fyrir bending og tilsett teikn á skipinu voru þar nálægt sjónum í hilming komnir, og þessa ránsmenn alla til heljar færðu. Síðan komu bændur út og lögðu skipinu inn í traustari höfn. Laurits Magnússon betalaði bændum sitt ómak, og var þetta svo nýlega skeð nær vjer þar komum frá Kaupinhafn. Þetta skip sendi vor aðmíráll Jurgin Dá heim til Danmerkur til köngl. Majest.

Yfirvöld aðmírálsskipsins Victors voru þessi:[1]) fyrst er nefnd-

---

[1]) Um þessa ferð sjá Lind: Chr. IV og hans Mænd bls. 172. Að því er snertir foringjana, er Holg. Rosenkranz kunnur af veru sinni á Íslandi; æfi hans má lesa í Biogr. Lex. — Það sem hægt er að finna um hina foringjana er tínt til í ofanskráðu riti Linds og vísast þeim þangað er vilja um slíkt forvitnast.

ur aðmíráll Jurgin Dá, þar næst Holgeir Rosenkranz, sem var kapteinn, sem seinna varð höfuðsmaður, og einn svenskur eðalmann, Lauritz Brems að nafni, sá eð gengið hafði vorum náðuga herra kóngi á hendur með kvinnu og börnum í því nýaflokna svenska stríði 1613; skipherrann hjet Pjetur Nielsson, prestur vor H[erra] Knútur, arkelímeistarinn Rasmus Winter, hans mæti Jens Laurzon, sá eð var einn víðförull og forsóktur maður í önnur lönd, og einn gamall stríðsmann. Á aðmírálsskipi var 130 fólks með byssuskyttum, sem voru 24. Tveir eðlaknapar voru þar í bland, mjög forsóktir menn, þeir eð seinna urðu kóngl. Majts. dravantar. Sá eini var aðmiráls systurson, Jens Brandt að nafni, hins annars nafn man eg ei.[1])

Víkjum nú þar til, sem vjer úr Fleckerey fórum og með þessum 6 skipum sigldum norður með Noregi víða, í hafnir og úr, eftir nefndum ránsmönnum að leita og fundum ekki; allvíða spurðum vjer til þeirra, og einnin þá vjer í Rússía komum í því útveri, er Rússar og Finnar róa, 52 fiskibátar, er Kielden nefnist, og á þeim er þriðjungur af Finnum, og hafa 3 menn yfir sjer til lögsagnar. Á þeim vegi liggur Varðey, á hverri stendur mektugt slot með sjálfgerðum múrum af hömrum, er þar umkring liggja orðentlega, á hverjum að liggja stór stykki til varnar, því sú ey liggur langt frá landi ofan undan Finnmörkinni. Þar uppá er einn herramaður jafnan, sem slotið hefir í forljening og lögsagnari er Finnanna, og í þann tíma, sem vjer þar komum í þessari ferð stjórnaði þar sá herramaður, sem Hannes hjet, af skotskri ætt,[2]) sá er skenktur var fyrmeir vorum náðuga kóngi, Christiáni 4., með einu kostulegu skipi er Rauða Leon nefndist, frá Englandi í hans krýning, og var því

---

[1]) Það er ekki hægt að sanna að J. Brandt hafi verið í ætt við Jørgen Daae. RC.

[2]) Hann hjet rjettu nafni John Cunningham (i Danmörku vanalega kallaður Hans Köning) og var skotskur aðalsmaður. Að því er Lind segir var hann með í ferð þessari og var fyrirliði á skipinu „Gabriel", en 1619 fjekk hann Vardøhus að ljeni. Um hann sjá Lind, Chr. IV. Mænd, bls. 166 og Biogr. Lex.

Hans Konungur nefndur; hann var sjerlegur maður og mjög undarlegur, einkum drukkinn. Eitt sinn setti kóngur hann í Eyrarsund með eitt sitt orlogsskip, sem kallaðist Svarti Riddari, að liggja í vegi fyrir þeim, sem austarlega sigldu í gegnum sundið og eigi vildu tolla, og náði á einu sumri 5 skipum, er send voru til Kaupinhafnar, hafandi allskonar vöru inni, sem voru aftur laus gefin fyrir sjerdeilis náð kóngsins og lítillátlega umbeiðni þeirra yfirmanna, á meðal hverra var einn gamall skotskur maður, sá eð grátandi með knjefalli bað kóng um náð og lausn á skipinu, hvað og skeði hans aldurdóms vegna og það hann betran hjet. Að liðnu þessu ári setti kóngur hann til slotsherra í þetta Varðeyjarslot, því kóngur treysti honum vel yfir Finnum að herskja og ei mundi þeirra galdraillræði vel líða, því einatt gengu sagnir frá þeim um slíka fordæðu, og flestir af þeim slotsherrum, sem þar hafði verið, höfðu ekki dirfst þvílíka að rjetta láta, en þessi ljet á hverju ári heilhóp á eldinn kasta, hvers vegna hann varð kóngl. Majest. þess kærari; en svo lengi, sem eg tilvissi, varð honum ekkert grand að gjörð sinni.

Nú sem vjer þar komum með þessi 6 stríðsskip, sem var Victor, Juppiter, Einhyrningurinn, Mjólkurpíkan, Lýbski Davíð og Leopardus,[1]) meðtók hann oss vel. Og í það sinn dvöldum vjer þar ei lengur en eina nótt, og hjeldum vjer svo þaðan undir Rússía til Kielden, hvar um eg lítið fyr talaði. Þar dvöldum vjer tvær nætur, og hjeldum vjer svo þaðan og norðaustur fyrir Rússía í Hvítahafið, alt austur að þeim Sjö Eylöndum; þar er hafið litt sem mjólk, og er í fyrstu mjög undarlegt að líta, meðan maður því ei til lengdar vanist hefur. Nær hálfan mánuð dvöldustum vjer þar burt frá Kielden eftir þessum ránsmönnum að leita, en fundum þá þó eigi.

Í Kielden dvöldum vjer 6 daga. Á þeim þriðja degi kom til vor stríðshöfðinginn frá Malmis, sem undir sjer

[1]) Lind, bls. 172 nefnir ekki „Mjólkurpíkuna", en setur í staðinn skipið „Gabriel".

hafði 300 soldáta. Þessi maður var tíguglega búinn og bar yst fata fótsíðan silkikyrtil, annar þar undir náði á miðjan kálfa, hinn þriðji til hnjes, með gullsnúrum. Og strax honum uppgengnum, þremur stykkjum affýrðum og kveðjum orðnum, afdró hann sinn ysta kyrtil og gekk svo til káhyttu með vorum yfirvöldum með stórri kurteisi, auðmýkt og glaðværð. Á meðan það stáss yfirstóð stóðu fjórir trómetarar aftur á, er bljesu í sín trómet. Hans 12 soldátar urðu í bátnum eftir, er hann með kom, alt til kvölds. Aðmíráll sendi eftir þeim öðrum kapteinum hinna skipanna, og voru þeir menn af aðli allir nema einn, Pjetur Nielsson að nafni; þeir voru 11 tilsamans í þeim heila flota. Þessi rýski stríðshöfðingi var sjerdeilis ljúfur, glaður, rífur af gulli og lítillátur við hvern mann, bæði yfirsetta og undirgefna. Rýskt gjald hafði hann mikið, þó smátt væri, í sekk litlum, er hann bar í sínum vasa, er dengar[1]) nefnast, og er klárt silfur; það er fiskgildi kostar; þessu án tölu útdreifði oss byssuskyttum við hvert skot með þremur stykkjum og þeim fjórum trómeturum, þeir er básúnur, krúmhorn og skalmeyar bljesu og uppá lúth ljeku, þessi sín fjögur hljóðfæri tempruðu þeir uppá fjögur hljóð með meistarlegri list. Þessi glaðværð varaði lengi dags; voru þar minni drukkin, bæði kóngsins og grótfurstans[2]) til Moscovia, sá eð er yfirhöfðingi alls Rýsslands og nefnist *tzar velicoikness*,[3]) hvað útlegst kóngur og stórhöfðingi, — einnin alls kónglegs húss og Danmerkurríkis ráðs minningarskálir, sem og Rýsslands tignarmanna. Síðan nær að kvöldi leið og aðmíráll með sínum tilhjálpandi selskap hafði hann eftir efnum trakterað, og hann auðsýndi sig búinn til burtferðar gaf hann sínum 12 soldátum leyfi á skipið til uppgöngu, en fyr ekki, og við engum mat nje öli vildu þeir taka fyr en síðast af oss, er þeim af sínum herra leyfi gafst þar til, en sjálfir höfðu þeir fæðslu nóglega,

---

[1]) denga, gamall rússn. silfurpeningur, nú löngu úr gildi; hjerumbil 5 aurar í nútíðarpeningum.

[2]) ɔ: stórfurstans, afbakað úr hollensku.

[3]) ɔ: rússn. tsar í vjelikiknjaz.

hverja þeir tvisvar þann dag til sín tóku. Áður fyr en þeim leyfðist upp á skipið að koma, gengu vor yfirvöld öll út á þilfar og settust í stóla, aðmíráll í miðið, kaptein Holgeir honum til hægri en lutenant Lauritz Brems til vinstri handar; herramenn stóðu umhverfis, og þar umkring vort fólk með múskittum, en höfðinginn sjálfur gekk þar fyrir innan með sinn regimentiskvarða eður staf. Síðan gengu þessir 12 menn, hver með sverð við vinstri síðu, en fyrst settu þeir sínar byssur í röð við skipsborðstokk á stjórn, og gengu svo inn í þennan endilangan mannhring, 3 í hverjum lið, og svo aftur eftir, þar til þeir komu fyrir knje þessara áðurnefndra vorra yfirvalda, berandi á málaðri fjöl hver þeirra einn vænan lax flattan, ferskan og svo samanlagðan, sem lifandi og ótilgjörður væri, og hver þeirra þriggja fyrir hinum þremur sig með kurteisu knjefalli auðmýkjandi og hver sinn lax offrandi með stórri reverentsíu, síðan með kurteisi uppstandandi og með lotningu burtgangandi, síðan sínar byssur með list takandi og affýrandi. Sömu aðferð höfðu hinir 9, er og í þremur liðum komu. Og að þessu svo loknu veittust þeim gjafir með virðing yfirvaldanna og víns ádrykkju. Þar með kvöddu þeir, og lutu hverjum sem hæfði og gengu svo fyrir borð í bátinn, steyttu sínar byssur, hverjar allar voru amúleraðar og málfaðmur á lengd. Og áður en höfðinginn burt veik bauð hann vorum aðmírál heim til sín með 24 menn til veislu, hverju hann játaði ef leiði fjelli. Síðan eftir kveðjur þrotnar og blessan yfir skip og menn gekk hann með hýrri lund og ásjónu fyrir borð. Var þá þremur stykkjum á hverju skipi affýrt en 9 á aðmírálsskipinu. Þrisvar veifuðu þeir í augsjón og sínum byssum affýrðu.

Tveimur dögum síðar en svo gjörðist, sem nú var greint, gaf aðmíráll sig með vorum skipbát til ferðar með nokkrum hinna skipanna yfirvöldum, og hlutum vjer fyrir veðurs móthlaup aftur að snúa og naumast með harðfengi náðum slysalaust heim til vorra skipa aftur.

*Um Rýssland stuttlega greint sem eftirfylgir þeim til fróðleiks er ei þar um vita.*

Rýssland, sem og líka kallast Moscovia, það er mjög stórt umgripið land með miklum skógum, með mýrum, eyðimörkum, svo og líka með mörgum og stórum veiðivötnum og fögrum stórmóðum. Það er 500 mílur á lengd og 350 mílur á breidd. Það er eitt vænt ávaxtarland, með rúg, hveiti, bygg og villivöru. Þar er margslags skinn dýrmæt af villidýrum. Það grensar á norðursíðu til Norðurhafsins og Nova Zemla, en á austursíðu til Kaspiska hafsins og til Stóru Tartaría, en á syðri síðu til Chrim og Podolien, en á suðvestursíðu til Littav, á vestursíðu til Líflands og á norðvestursíðu til Svíaríkis og Kúrlands. Einn hluti Rýsslands liggur í Evropa, en annar þess hluti í Asía. Í Evropa liggur Moscovia og önnur lönd með fleirum öðrum landspörtum; í Asía hafa Rýskir mörg lönd, bæði tartarisk og önnur fleiri, sem ýmislegt villufólk hefur sína bygð, sem er 21, og liggja langt í landnorður þaðan. Yfir öllum þessum löndum ræður einn herra og stjórnari, sá er á rýsku kallast tzar og velicoikness, það útlegst kóngur og stórhöfðingi, og gjörir og lætur hver sem hann vill. Yfir þeirri andlegu stjettinni er einn patriarki, og hefir nokkra yfirbiskupa og biskupa, presta og múka undir sjer; á meðal múkanna eru margir, sem ekki kunna að lesa nje skrifa. Þeir hafa þá grísku religion, halda messur, biðja, lesa og syngja alt uppá þeirra eigið móðurmál, sem kallast það slavoniska tungumál. Í Rússía eru margir stórir staðir og vænir, en húsin eru flestöll af trje og timbri gjörð. Moscov er einn stór staður og alls landsins höfuðborg, og þar með aðrar 40 stórborgir, og aðrar margar fleiri, af hverjum eg engar hjer nefni.

Undir Rýsslandi útí víðum sjó liggur eitt eyland, sem kallast Solofci, þar á stendur eitt ríkt klaustur.[1])

[1]) Hjer er átt við Solovetzki-eyjuna í Hvítahafinu.

Af þessum löndum flytst í önnur lönd hör, hampur, vax. tólk, elgsdýrshúðir og aðrar húðir, sobelskinn, marðarskinn, felfrosskinn, refsskinn, úlfsskinn, luxgufur,[1]) bever, hermelin og önnur gráskinnavara, þar með rúg, lax, harður og saltaður fiskur, lýsi og önnur vara.

Það mikla flóð Volga uppsprettur í miðju Rýsslandi, og útdreifir sjer í margar áttir, þar til það rennur í það Kaspiska haf, við hvert að standa saltbjörgin, hvar að er svo mikið salt, að það nægðist öllum kristindóminum, ef það annars vel við lægi og haglega sem til hlýddi. Nú skal hjermeð enda um Rýssland að tala um sinn. Um þeirra átrúnað er mjer ei kunnugt, utan hvað eg heyrt hefi sagt að þeir tilbiðji Heilaga Þrenning og engan af heilögum utan St. Nicolaum, sem fyrst skal boðið hafa þeim kristilega trú. Sagt er að þeir vegi öll lík til grafar, yngra manns og eldra, á skálum, og er líkið lagt á aðra skál en trjebílætið á aðra, sem gjört er eftir sjerhvers manns aldri; ef trjebílætið reynist þyngra en líkið, er sagt þeir haldi þann mann sáluhólpinn orðinn, en vegist líkið þyngra þá fordæmdan.

## XIX. KAP.

Nær vjer höfðum dvalist í Kielden 6 daga lysti oss þaðan að reisa á vora heimleið. Þá tveimur dögum fyr keypti aðmiráll, kaptuginn og lutinant uppá von allan eins dags fisk, sem aflaðist á 52 þeirra báta, hvar af þeir fengu þrefaldan ábata. Minn góði lagsmann Jón Halldórsson og eg gjörðum allan þann fisk til, sem lutinant við kom,

---

[1]) Svo stendur í bestu handritunum; hjer er auðvitað átt við gaupuskinn (lux = d. los), eitt hdr. (C) hefur luxhúfur, en það er víst tilgáta skrifarans.

sá eð var svenskur, og gaf hverjum okkar ríxdal og vínflösku af besta víni meðan erfiðið yfirstóð.

Það finskt og rýskt verfólk þar nærri á morgna, áður en það hreyfir sínum skipum eður veiðarfærum ganga til þess stóra krossmarks, sem stendur á eyrinni við höfnina skamt frá þeirra búðum, bygð og híbýlum, og framfalla og tilbiðja fyrir því. Það fólk etur harðan kost með salti, og brennivín drekka þeir sem vatn, og í einum drykk 2 eða 3 merkur. Þar um ei meir.

Síðan hjeldum vjer þaðan úr höfnum og aftur á vora heimleið og komum til Varðeyjarslots, sem Hans Konungur var slotsherra, sá oss glaðlega meðtók.

Einn morgun bar svo við um þann tíma vjer þar dvöldum, að vjer fórum til lands með vorn bát útskipaðan með fólk, og skyldu bátsmenn vatn sækja, en þar í bland voru byssuskyttur, kokk og kjallarasveinn, undirskipherrann og aðmírálsins systurson Jens Brandt, og var það vort erindi til lands að sækja vor línföt undan þvotti. Nú bar svo við, að bátsmenn höfðu gleymt ambara, það er austurkeri, en stormur af landsuðri hljóp á, en vegur frá landi til skipa var vel hálf vika sjávar. Flestir af oss voru nokkuð drukknir. Og nær hvassviðrið vaxandi fór dreif sjór yfir, en ei varð ausið. Báturinn var mjög hlaðinn, því 52 tunnur voru innanborðs, þar til bátinn kæfði og fylti; þó sökk hann ei, heldur marði, en ei varð hjálpað af aðmírálsskipinu, en dálítið bátkorn stóð á þiljum, og treystu menn því ei út í stjórsjó, enda var þar ekkert rið undir sakir smærðar, þó menn vogað hefði. En þeir í hinum skipunum, hver eð lágu til djúps við oss, fengu ei sjeð hvað að gekk, af því vort skip faldi oss þeirra sjónar. En af því bendingar, veif og stórhróp gjörðust af voru skipi fengu þeir um síðir oss hjálp gjörða. Fimm menn mistum vjer alls með vorum kokk, sá eð 3 dögum síðar andaðist. Jens Brandt og eg sátum fram á bátnum, og varð okkur því fyrst hjálpað. Einn dag lágum við, sumir engan, en nokkrir viku og þaðan af minna.

Tveimur dögum síðar burthjeldum vjer þaðan og komum undir Finnmörk og Hálogaland. Víða lágu þar snjóar ekki

allir uppleystir, og var það um Jónsmessuleyti er vjer þar komum. Finnar komu á sínum bátum út til vor einn sunnudagsmorgun, áður en tekið var til predikunar með sínum kvinnum og börnum, og biðu þar svo nær til kvölds. Þeir hafa mest sín dagleg klæði af loðnum elgsdýrshúðum, sem kostulega er tilreitt, og vendu því hinu loðna útá, og eru þeirra börn undir þessum skinnabúnaði og þeirra kvinnur heldur rjóðlituð og vel til fansa. Fisk seldu þeir oss fyrir klæði handa sínum kvinnum. Eg og minn lagsmann seldum þeim 12 stikur klæðis af tollbúðarklæði, rauður var helmingurinn en annar blár. Viðvik þeirra er það að þeir kalla hvern mann frænda, sem við þá eru í ræðu. Þeirra kvinnur bera gull og silfur mikið í sínum eyrum, ennisspengur og kúríelssteina-úlfliðabönd[1]; þessum fátækari bera látún, kopar og fagurt tin í sínum eyrum af kvinnunum. Þetta fólk er flestalt fult af fjölkyngi, sem rykti af fer víða, og ei gjörist þörf hjer að innsetja nje framar að skrifa, og er þriggja handa Finnar nefndir, Sjófinnar, Lappfinnar og Fjallfinnar. Kristnir látast þeir vera, og nokkrir af þeim ganga til sakramentis; börn sín hafa þeir til norskra presta undir skírn, þó sum ei fyr en árgömul. Þeir eru þjóðsmiðir upp á trje og járn; skútur, ferjur og báta smíða þeir ávalt og önnur fleiri amboð og þarfindi. Í Noregi til fjalla og líka við sjó búa Finnar allvíða. Ei leyfist þeim lengur í hverjum stað að búa en 10 ár; þá setja þeir, (en þó með leyfi), sína bygð í skóginum, þar sem er þykk mörk og væn, hverja þeir uppryðja til nefndra þarfinda og þar sínar bygðir setja og svo dvöl hafa í greind 10 ár; taka þá Norskir þeirra pláss og bólstað að þeim burtfluttum. Þeir elska mjög lýsi, smjör og allskonar fitu úr öllum kindum, hvert þeir drekka sem öl til máltíðar, og þetta lýsi gefa þeir sínum óljettum konum á tíma síns barnburðar.

---

[1]) kúríelssteinar = kórallar.

## XX. KAP.

Þaðan hjeldum vjer og undir það fjall sem kallast Norðcaput[1]), það er einn núpur eður barði vestan til og útvestan við Finnmörkina og Hálogaland. Og nær vjer þar vorum á siglingu einn morgun snemma sáust úr merskörfum 5 stór skip. Þessi skip sigldu austur að Rússía í móti oss, hver vjer meintum ófriðarskip vera mundu, hvað þó ei svo reyndist. Voru öll rúm, þau eð bundin undir þilfari voru, strax niður skorin og með öllum klæðum ofan í skip með mesta hast látin, portum úthrundið, stykkin tilsett, púður í belgi látið, helming fólks við sigling settur og annar helmingur við stríðshöndlan að fara með byssur (sem vjer köllum luntabyssur), hvar til margur óþjálgur og lítt taminn var, brennivín í áttungum upp tekið og fólkinu gefið, merkjum offrað. Aðmíráll hefur sitt merki eður stórflaug á stóratoppi, viceaðmíráll á fortopp, en skotvanacter[2]) á sínum meisantopp, en hin skipin fram á bogspjóti, er þeir kalla beofenblind eður gickmers[3]), í móti þeirri reglu eður orðu leyfist engum að gjöra undir lífsstraff. Síðan var skipið Einhyrningur upp í móti vindi sent í veg fyrir þau, því það sigldi best af vorum skipum, og svo undan vindi; sigldi hvert þeirra til vor, en síðast þeirra aðmíráll, hver eð innihafði 4 trómeter, er listilega bljesu. Við þá sem fyrst komu töluðum vjer og spurðum hverjir eða hvaðan væri. Þeir kváðust frá Hamborg sigldir, austur að Rýsslandi, þar eð kallast Archanchel[4]) með kaupskap. Aðmíráll bað þá til vor á skip koma og sinn pass eður sjóleiðabrjef að auglýsa, er innihjelt um siglingaleyfi á Danmerkur straumum, hverju þeir og

---

[1]) Nordkap, Knöskanes?

[2]) afbökun af hollensku orði Schout bij nacht, d. schoutbynakt, nú = Kontreadmiral, sem gengur næst viceaðmirál í tign.

[3]) svo mun hafa verið nefnd þá lítil flaggstöng á bugspjóti.

[4]) o: Archangelsk.

hinir trássuglega neituðu fyr en sinn aðmíráll kæmi. Ei vildu þeir sín merssegl lægja, en rjeðu seglum í vind og ljetu voðir kala. Nú sem þeirra aðmíráll kom talaði vor aðmíráll til hans glögt og snjalt, og bauð til vor á borð strax kæmi með sitt leiðibrjef, hverju hann hátt afneitaði, og bauð oss vorn bát að útsetja og kvaðst oss jafngóður. Nær vor aðmíráll það heyrði, hver að stóð við meisenmastrið með sitt slagsverð, af greip sinn hatt og fleygði sjer undir fætur, kallaði hárri röddu og sagði upp á þýsku: »Wer bi sein!« það útlegst »hver við sitt!« Og nær þeir sáu svo fólkið tvístrast hver til síns verks og heyrðu alarm á bumbuna slegið, senn hljóp þeirra aðmíráll aftur á með hvítan líndúk, hverjum hann upphjelt, hrópandi með hárri röddu: »pes, pes, pes!«[1]), það útlegst friðarhróp, en aðrir hjuggu þeirra bát lausan, útsettu og allra þeirra 5 skipa yfirvöld með sínum aðmírál oss um borð komu, lutu og leituðu friðar, og í sáttarbætur gáfu 12 tunnur með gott Hamborgaröl, eina tunnu smjörs, eina tunnu fulla af ostum, tvær tunnur af saltaðri síld. Varð þeim svo til kvölds veisla og stórveiting gjörð, og það hreindýr, sem vjer með oss innan skipsborða frá Finnmörk höfðum var þeim í skenk afselt, og með skotum og trómetanna hljóði og kveðjum varð vor skilnaður.

Öðrum degi þessum síðar varð ráðstefna og þing haldið á aðmírálsskipinu og varð þar stór samkoma alls flotans yfirvalda, og gjörðist sú ályktan, að vjer skyldum hingað til Íslands halda eftir kóngl. mandati og skikkan Íslenskum aðstoð að gjöra móti öllum áherjandi óvinum, einkum Spönskum, sem von var á hingað í þann tíma eftir manna hyggju í hefndarleit fyrir sakir þeirra Spönsku, er hjer voru slegnir 1615, hverja hefnd vor himneski herra og almáttugur elsku faðir hindrast ljet, lof sje hans dýrðarfulla nafni fyrir alla sína velgjörninga. Amen.

Þvínæst hjeldum vjer undan Norðcaput á þá leið, sem hingað venti, og fengum góða og hæga byri, og vorum á

---

[1]) Líkl. hefur verið kallað á frönsku „paix“! ɔ: „frið!“

leið hjer í milli 3 vikur, og hittum vjer fyrst land undir Húsavík. Sigldum vjer úr miðsmorguns stað hingað. Hjeldu menn, að ei mundi sú leið sigld hafa verið í 300 ár. Austan til við Húsavík lá oss við töpun á einu skeri, hver skerjaklasi að langt frá landi er, um kvöldið meðan corum og kvöldsöngur yfirstóð. En svo bar við lukkusamlega, að í þann tíma, en ei oftar, að aðmíráll gekk úti um þiljur, og varð mjög seint var skersins, af því beint á horfði og skipsborð á skygndi, en vjer eftir skikkaninni sigldum fyrir öðrum hinum skipunum. Og með því skipið hljóp í krók nokkurn til djúps með óvilja þess sem stýrði á meðan hann umventi stundaglasinu gat aðmíráll litið boðann, er kominn var undir skipsborðið að mestu, og með háu hljóði kallaði til þess er stýrði enn meir til djúps skipinu að halda. Við hans kall spratt hver maður úr sínum sess, og svo rann skipið nálægt boðanum við stjórnborðssíðu að kasta mátti af borðstokk hverju einn vildi ofan á skerið. Síðan varð bending gjörð með skyndi hinum er eftir sigldu. Þetta var eitt af óteljandi dásemdarverkum Drottins þess almáttuga. Eftir það varð almennileg þakkargjörð á skipinu haldin. Síðan sigldum vjer austur fyrir land, og hingað undir Eyjafjöll. Þar kom sterkt stormviðri af norðvestri, hvert eð yfirstóð meir en hálfan mánuð, og varð hverjum degi harðara og meintu menn að gjörningaveður vera mundi, því þeir hjer á landi mundu þessi vor 6 skip ófriðar og hefndarskip ætla, svo sem og margar vonir til stóðu og fyr var umgetið. Aðmíráll hafði ásett sjer flotanum að halda inn á Hafnarfjörð hefði lukka tilgefist og svo uppá alþing ferðast, og skyldum við stallbræður Jón Halldórsson og eg með honum þangað ferðast. Helmingur skipanna skyldi liggja á meðan á Hafnarfirði, en hinn helmingur skyldi hingað á djúpið halda, um Spanska að forvitnast hvort hjer komnir væru eður ei. Þetta áform hindraðist, því mótviðri tröðkuðu, og urðum því fyrir kost og mun hjeðan frá að halda til Færeyja, og var það um kvöldtíma, að við hjeldum undan Eyjafjöllum er peningur var heim rekinn til að nytjast, og á öðru kvöldi vorum vjer undir Færeyjum, hvað þó er vel

70 mílur, og rann þó skipið ei meir en fyrir einu stórsegli, því fokkunnar naut ei, af því vindur lá jafnan í bæði skaut, en svo var stórsjór mikill, að ei varð komist lengra fram en á miðjar þiljur, og oft kastaði sjó yfir topp með bogspjóti sínu. Tvö skip vor náðu ekki Færeyjum og vissu ekki af sjer fyr en undir Líðandisnes í Noregi komnir voru, hvað á þremur dögum rann hjeðan frá landi; meintu þessa hvorir af oss og þeim umkomna vera.

Í Færeyjum dvöldum vjer heilan hálfan mánuð, og lágum vjer fyrir innan Þórshöfn, sem er kaupstaðurinn, og skipið liggur á einum firði, sem nefnist Calaman.[1]) Út með sjó þar inni bjó lögmaðurinn Michael í Lambhaga, hvers gestir að vjer nokkrir af aðmírálsskipinu með sjálfum aðmírál og 4 fjögurra skipa kaptugum vorum í tvær nætur, og var oss þar veglega veitt af margskonar fæðslu og margháttuð ölskyn, sem var mjöður með þrennu móti, vín margháttað, Hamborgaröl, lýbiskt öl, Rostockaröl, Þrándheimsöl, Kaupinhafnaröl með tvennu móti, engelskt öl með þrennu móti, sem var all, strangbýr[2]) og skipsöl. Þar var gleði höfð á margan hátt með hljóðfærum margskonar og uppá færeyska vísu dans og hringbrot með söng og kvæðum. Líka drukkum vjer með aðmírál hjá einni ekkju, sú eð var móðir Jóns Olafssonar færeyiska,[3]) er vjer 14 vetra þaðan með oss út fluttum til Danmerkur, og komst í herraþjónustu, og fjekk hjer 5 jarðir í 3 ár til forljeningar í Álftafirði.

Á því skipi Einhyrningurinn bar það til að stýrimaður skipsins var hengdur í bogspjóti, ei fyrir þjófnað, heldur fyrir annað slæmt stykki, að hann fyrir leti sakir í þessum nefndum stormi frá Íslandi gjörði sína þörf í brauðrúminu (með leyfi að tala), og var af þeim færeysku bændum greftr-

---

[1]) Svo stendur í bestu hdr.; líkl. er átt við Kaldbaksfjörð nokkru fyrir norðan Þórshöfn; síðan hafa skipin siglt til Austureyar, þar sem Michael bjó í Lambhaga. Um hann sjá N. Andersen, Færøerne 1600—1709. Khöfn 1895. bls. 192.

[2]) ɔ: ale og strongbeer.

[3]) Sjá um hann Sýslumannaæfir Boga Benediktssonar II,84 og III,115 og athugasemd Hannesar Þorsteinssonar við síðari staðinn.

aður, en þó með leyfi aðmíráls, hvað þó með nauðgan skeði. Síðan var annar tekinn með miklum fortölum og í hans embætti innsettur, og á þinginu, sem á Einhyrningsskipinu var haldið, með hárri röddu af aðmírálnum öllum strengilega tilsagt öll lýti og lesti að varast, bæði leynt og ljóst, til máls og gjörða, og að hver stundaði sitt kall og embætti með guðhræðslu og góðri athugan, svo enginn annars feldi yfir sig nje aðra í þeirra samför Guðs óblíðu og þungt straff. Allir játuðu með Guðs fulltingi sem best að gegna.

Nær vjer komum í Færeyjar voru á voru aðmírálsskipi 22 menn sjúkir af skyrbjúg; voru okkur stallbræðrum þeir til skifta bífalaðir á landi þá að hygla með ferskri fæðu, víni og mjólk, svo enginn þeirra þar andaðist, utan einn, sá eð var norskur, Þórður að nafni. Þessir allir voru í einni stofu, á einum bóndagarði hjá þeim manni er Ólafur hjet, og var góður smiður uppá allrahanda járnsmíði. Sá maður var ágætur við mig Hann hafði lært sitt handverk til Þrándheims. Hann átti tvær engelskar bjórtunnur af strangbýr fyrst eg þar kom, og hjelt hann þeim helst fyrir mig. Eina íslenska bók gaf eg honum en seldi aðra prentaða, sem var »Ódauðleiki sálarinnar« og »Enchiridion«;[1]) þær las hann skýrlega, þvi litið skildi vort mál og þeirra, og svo var um aðra siðvenju í mörgu, um skyrgjörð, flautir, ósaltaða fæðu, eldhangið kjöt og barinn fisk, einnin klæðabúnaður kvennfólksins, skautafaldar, köst og kasthempa, skólag og skikkan önnur. En nú er þar komin dönsk vísa, bæði í kirkjum og utan, með eiginlegu dönsku tungumáli. Karlmannabúningur var þar áður mótlíka og hjer, nema hversdagslega voru margir bændur þar og vinnumenn á albrókum, og þar á ofan á treyjum af færeysku vaðmáli, með loðnum skó á fótum, á ristum og vörpum, mótlíka og Finnar og Kúrlenskir.

---

[1]) Enchiridion var prentuð á Hólum 1600, og var samansett af Guðbrandi biskupi eftir ritum eftir D. Chytræus og M. Chemnitius. Hin bókin, Kristileg undirvísun um ódauðleika sálarinnar, var prentuð á s. stað 1601 (Fiske, Bibl. Not., VI. 6).

Í Færeyjum sögðu þeir mjer væri 15 kirkjusóknir, einn prófastur en enginn biskup. Eyjarnar eru 7 stórar en 10 smáar, og á þessum öllum voru í þann tíma 300 bændur, og sendi aðmíráll þeim öllum strengileg boð, að þeir kæmi til sín og fyndi sig, hver einn þeirra taki sauð með sjer, fólkinu á skipunum til forfrískunar, hvað þeir og ljúflega gjörðu allir hver um sig, og þar á ofan tóku þeir með sjer ferska mjólk og osta, hverjum bændum aðmíráll skifti á meðal þeirra fjögra skipanna. Varð svo fjóra daga gestaboð haldið á þessum fjórum skipum eftir aðmírálsins ljúflegri tilsögn og befalningu, svo eyjanna innbyggjurum gjörðist aftur æra og velgjörð af hans hendi. Þess fyrsta dags gestaboð byrjaðist á aðmírálsskipinu Victor á sjerdeilis góðum veðurdegi, og voru borð á þiljum uppslegin, og sæti umsett; við þessi borð sat aðmíráll og öll skipanna yfirvöld, og varð þrisvar til borðs blásið, síðan eftir borðblessan til matar og drykkjar tekið, minni drukkin, 600 stykkjum á þeim degi affýrað og í trómet blásið þess á milli. Peningur þeirra varð í landi við stykkjanna hvelt hljóð hlaupsa og felmsfullur. Nær þessir bændur gerðust ölvaðir sýndu þeir allrahanda skemtan með aðmíráls leyfi uppá þeirra vísu. Eins skeði á hinum skipunum og var aðmíráll þangað boðinn og önnur vor yfirvöld. Og á þeim öðrum degi var gestaboð haldið á Juppiter með sömu aðferð, og 700 skot affýrð, á þriðja degi var gestaboð haldið á Davíð og 800 skot gjörð, á fjórða degi á Einhyrningnum og 900 skot affýrð, og í það sinn fjekk einn maður skaða á sína vinstri hönd fyrir stykki, sá eð hjet Leon Frijs, og misti tvo fingur og lá lengi í sárum. Á þeim sama degi varð ein kona á landi mjög skelkuð af því að svo bar við, að hún um kvöldtíma var að nytja kú sína, og kom eitt fallbyssulóð við kýrhælinn í þúfuna; kýrin brá við og varð linhlaupa og spilti mjólkinni, en konan í óviti lá þar lengi eftir. Og þetta kvöld var eg á landi að gefa gaum að þeim sjúku, og einn fínn maður með mjer, hverjum eg var svo sem nokkurn veginn á hendur falinn, mjer að undirvísa í mínu embætti, sá eð Gottske hjet og lengi hafði herrafólki þjónað, og var artugur maður

í mörgu, en til sjóar óhentugur sakir sjóveikleika, í hverjum var þunglega oft plágaður, og varð eg þrátt honum að þjóna sem minn faðir verið hefði; hjer fyrir varð eg honum kær sem sonur. Og nær einn yngri og óvitugri er á þessum skipum öðrum til samvinnu fenginn, þeim eldri og vitugri, og þau stykki afgreidd, sem skulu vakta uppá sitt líf, að þar ei komist vatn inn, svo alt sje í fullu lagi nær við þarf, og að ei verði fyrir neins athugaleysi eður forsóman hindran eða vansemd í nokkrum parti eður ólukka megi afhljótast, þeir verða nefndir hinna eldri handlangarar eður aðrjettendur, þvílíkur einn var eg þessa manns. — Nú skal segja frá því, að þessi nefnd kvinna kom til okkar með miklum gráti og felmtran. Við hugguðum hana sem best við kunnum, og til góða gjörðum með því fyrir hendi var, svo hún komst aftur til sinna fyrri burða. Við ráðlögðum henni að uppgrafa lóðið úr þúfunni, og að morgni fá sjer einn mann með bát og láta hann róa sig út til aðmírálskipsins, nær við værum út þangað komnir, og skyldi lóðið sýna; svo skyldum við láta aðmírál vita hvernin alt slíkt væri skeð, svo fengi hún ríxdal fyrir lóðið, og það meira sem til vildi. Svo skeði að við til skipsins komnir vorum, og nær konan kom kunngjörði eg aðmírál alt sem gjörst hafði í greindu efni. Kvinnan varð uppköllnuð fyrir aðmírál og tók lóðið með og sýndi honum; hann fjekk henni strax ríxdal, og gaf henni gamla en þó góða skyrtu, mikið brauð og af fleski og kjöti, og bífalaði öllum innan skipsborða henni til góða að vera, hvað og skeði, svo hún fjekk meir en til hundraðs með því sem kapteinn á Einhyrningsskipinu og hans fólk gjörði henni til góða, frá hverjum þetta lóð var komið. Hún bað mjer góðs hvar hún leit mig á landi.

Að hálfum mánuði liðnum hjeldum vjer þaðan og heim til Danmerkur að öllu slysalausu. Og nær vjer komum að St. Önnu brú sáum vjer eitt kóngsins orlogsskip sigla geyst eftir oss með niðurstroknu merki á stórtopp, hvað oss mjög felmtraða gjörði, því vjer vorn kóng annaðhvort sjúkan eða látinn hugðum. Þetta skip var Fides, eitt með þeim helstu

kóngsins orlogsskipum, og höfðu inni cancelerans lík, hver eð til Opsló var í þann tíma nýlega afgenginn, og eg hefi fyr umtalað.

## XXI. KAP.

Og nær vjer svo heim komum varð sjerhverjum af oss vel fagnað eftir því sem hver átti sjer vini til, og höfðum vjer þá úti verið 22 vikur.

Um veturinn eftir hafði eg vakt við kóngl. Maj:st hertýgjahús með mínum besta stallbróður Jóni Halldórssyni og öðrum frómum mönnum er vinir gjörðust, og gekk alt í þann tíma meinlauslega til fyrir öllum undir regimentinu, bæði mjer og öðrum, lof og dýrð sje Guði.

Að næsta vori eftir, 1617 útsendi kóngur vor fjögur skip í hernað, og það sumar urðum vjer við enga ránsmenn varir. Og nær vjer aftur heim komum fór kóngur að reyna skip sitt hið nýja Patientia, og vjer með honum, og í þeim mikla stormi fjell um koll þar á grynninginum, hvert að fyr hjet Caritas, og fyr er um getið.

Á öðru vori eftir komu 24 menn úr Búskaia[1] 1618, sem liggur á milli Frankaríkis og Spanía, inn í Kaupinhafn á fund vors kóngs Christiáns 4, eftir hans loflegri umbeiðni, til hvalveiðar. Og um veturinn fyrir ljet kóngurinn tvö skip tilreiða, sem var Einhyrningurinn og Lampinn,[2] sem fara skyldu í gegnum Veigat á þessu vori, en vjer með tvö skip til Grænlands, og nefnist Spisberg.[3] Um veturinn var viðleitað með faguryrðum af vorum yfirvöldum við

---

[1]) Baskar, er þá voru oft nefndir Buskaier á dönsku, voru dugandi hvalveiðamenn, og oft fengnir til Danmerkur í þeim erindum.

[2]) Þetta skip hjet rjettu nafni „Lamprenen".

[3]) Þá var alment haldið að Spitzbergen væri áframhald af Grænlandi, eða stundum að það væri sama landið. J. Ind. á við Spitzbergen.

týhúsið við oss, hverjir fara vildu að Veigati. Sumir fengust með fagurgala, sumir ei. Eg var einn tíma kallaður í skrifhús þar yfirvöldin sátu öll saman komin, og bauð týjunkurinn mjer, ef eg vildi þessa ferð reisa, skyldi eg fá mánaðarpeninga og góð laun, því í þann tíma var eg í gunst Adolphs Grabov mjög vel. Eg andsvaraði þeim og bað um respit til morguns, hvar með þeir nægðust. Að morgni og að yfirstaðinni almennilegri munstring var eg í skrifstofuna kallaður, og þá enn að nýju aðspurður, hvað mjer nú í geð fjelli um áðurnefnt efni, hverju eg afneitaði með öllu, því um nóttina í svefni var mjer sú reisa bönnuð, og síðan varð sá maður í minn stað fenginn er Rasmus Rúss hjet, sá eð var constabelsmæti, og mjer var tilsagt það sama embætti, hefði eg annars því játsa orðið, og sjálfur constabel hjet Niels Skoster, einn kostulegur maður. Kaptuginn hjet Jens Munck,[1]) ein aðalpersóna, og voru þau bræðrabörn, kóngsins gemahl frú Christín. Hann var sjerdeilis vitur maður einkum í himinsins hlaupi og stjörnulist eður stýrimannsskap; var hann svo yfirsagnari hinn æðsti beggja skipanna, Einhyrnings og Lampans, á hver að ágætt fólk valdist Og um vorið 1618[2]) hjeldu þessi 2 skip undir eins með oss frá Kaupinhafn og tvö skip borgaranna, svo vjer vorum 6 í ferð, og áttu þau sömu tvö skip þeirra sömu leið sem vjer að ferðast uppá hvalveiði, og höfðu þessi vor 4 hvalveiðarskip hvert fyrir sig 11 Búskaiska inni og 10 hvalabáta, er þeir kalla zelupa,[3]) það er sjóhleypur; hver þeirra var í 4 parta sundur og saman skrúfaður, og á reisunni svo í pörtum á sjerdeilis stað í skipinu látnir afsíðis. Síðan gaf oss góða byri út af Eyrarsundi, og hjeldum vjer svo samför norður með Noregi undir Norðcaput í Norðlandi

---

[1]) síðar frægur af þessari ferð sinni, er hans reit um bók Navigatio septentrionalis. Aðeins 2 af mönnum hans komust lífs aftur með honum.

[2]) á að vera 1619. Jens Munk getur ekki um að hann hafi orðið hinum samferða. RC.

[3]) líkl. afbökun af hollensku orði: zeelooper.

norður af Noregi, sem fyr Bjarmaland og Hálogaland kallaðist og nálægast liggur við Finnmörkina. Þar skildum vjer við Jens Munck, og báðum hvorir vel fyrir öðrum; minnir mig að Jens Munck hjeldi í norð-norð-vestur, en vjer í land-norð-norð-austur. Vjer fengum mjög góð byrleiði þangað í hálfan mánuð, og nær vjer fengum Grænland að sjá, sem er geysilega fjallahátt land, og komum undir þess vest-suðvesturs-hluta, urðum vjer glaðir við.

Nú er þar frá að segja að á þessu ári gekk mikil pest í allri Danmörk, svo að í sjálfri Danmörk afgekk 7000 fólks, sem eg hefi fyrri nokkuð áhrært, og þess slags sjúkdómur var nú kominn í vort aðmírálsskip, sem að kallaðist Hector. Vor aðmíráll hjet Henrich Vind,[1]) einn mikilsháttar herramaður, sá eð var bróðir Jurgin Vinds, sem hingað sendist ásamt Friderich Frijs útaf cancellíinu einn tíma.[2]) Henrich's lutenant var og einn eðlamann að nafni Magnús Krabbe[3]); hann krenktist í pest og andaðist um það bil vjer hjeldum norður fyrir landið, og keypti aðmíráll að öllu skipsins innihafandi fólki hans líki til lands að koma, eftir gamallri skipsvenju, hvað treglega veittist, því strax hljóp á suðaustanveður mikið, svo oss lá við töpun, og mistum stórmersstöngina yfir borð. Þessi mikli stormur sleit oss frá hinum skipunum, svo vjer mistum þeirra í heila viku og komumst úr öllu landsigti, þar til allir gjörðu áheit og Guð gaf oss sína náð til að vjer komum til lands aftur, þar sem nefndist á hollensku Thómas Smiðs Bæ, 5 mílur norðvestur betur en þar sem vjer ætluðum oss höfn að hafa, þar inni á einum löngum firði. Í þessari Thómas Smiðs höfn lágu 3 mektug engelsk stríðsskip, er þar voru og komin til hvalveiða, 4 hollensk og tvö skip frá Kaupinhafn, sem í vorri

---

[1]) Um hann sjá Lind, bls. 208—213.

[2]) til að rannsaka embættisrekstur Herluf Daae's 1618. J. V. var hetja mikil og hinns mesti merkismaður, sjá Biogr. Lex. og Lind, bls. 46—49.

[3]) RC leiðrjetta hjer frásögu Lind's (bls. 215) um ætterni þessa manns; sbr. dönsku þýðinguna bls. 153.

ferð þangað fóru og fyr var nefnt; þeirra yfirvöld voru Bernet Berns og Niels Honning.[1])

Nú víkjum þar til máls aftur er vjer komum inn í nefnt fjarðarmynni, sem þau þrjú mektugu engelsku stríðsskip lágu fyrir innan nærri viku sjóvar, en ei vissum vjer nú hvað leið um vora fjelaga, áðurnefnd 3 skip, hvort þeir mundu vera lífs eður liðnir. Nær þessi 3 engelsku skip heyrðu vor skot útsendu þeir frá aðmírálsskipinu útskipaðan bát af völdu fólki og sinn lutenant, að hugleiða hvaða menn vjer værum; urðu þeir af oss vel meðteknir til matar og drykkjar. Aðmíráll fjekk það útvegað af þeirra lutenant að fjórir menn skyldu um nóttina gröfina taka, svo um morguninn væri búin, og gaf hann þeim eitt rosenobel[2]) fyrir það þeirra erfiði. Um morguninn eftir, mjög tímanlega, kom sami engelski bátur og inntók vor yfirvöld og líkið, að hverju gjörðar voru tvær kistur, ein af eik, önnur af furu, en vjer skyldum róa á eftir með vorn bát, sem var útskipaður af völdu skipsfólki, og þar að auk vor constabel Niels Damsgaard, góður og gamall maður, með 4 af oss byssuskyttum. Á veginum fundum vjer dauðan rostung, hvers tennur að eru silfurvægar, en á þeim engelska bátnum drápu þeir annan, og varð skenktur vorum aðmírál. Og nær þeir komu skipunum nálægt með líkið var 3 stykkjum af hverju þeirra skipi afhleypt til virðingar. En á vorum bát höfðum vjer 3 smá koparstykki, sem falkónur[3]) nefnast, og tilsett var að affýrast skyldi nær líkpredikun hefði enda og líkið í sína gröf væri komið. Og nær svo ske skyldi gjörði aðmíráll mjer bending með sínum handdúk. En á meðan predikunin yfirstóð hugði eg þann umbúning stykkjanna og þann byssubekk, sem lá yfir um þveran bátinn framan, og fann eg strax veiklega umbúið, og tók eg því allar þóttur úr bátnum, sem lausar voru, og lagði eg þær með endilangri borðsúð,

---

[1]) Um Niels Honning sjá Lind, bls. 242; hann var sendur til Íslands með Holg. Rosenkrans 1628 og 1629.

[2]) svo nefndist þá enskur gullpeningur sem gilti 6 sh. 8 pence.

[3]) Svo nefndust einskonar smáfallbyssur.

svo eg fengi mjer afturkastað ef svo byðist, hvað mjer til góðs kom, því nær eg gaf fýr uppá fyrsta stykkið kom losun á, en með hinu öðru gjörðist með skyndi alt laust og snaraðist aftur í bátinn svo mjer lá við bana, en með því eg fjekk mjer kastað aftur í bátinn og einkum fyrir Guðs fulltingi, þá slapp eg án skaða í það sinn. Og nær eg kom á land þar sem þeir voru yfir gröfinni samansafnaðir og sungu þeir síðasta vers líksálmsins, og að uppsettu sjerhvers höfuðklæði spyr aðmíráll mig að því þriðja stykkinu úr Danmerkur lausn.[1]) Eg gjörði afbötun eftir tilgengnum atvikum, hvað honum ei nægjast kunni, heldur með stórmensku og grimmri reiði útdró sitt sverð, er hann i gullbaldýruðu gehengi bar sjer við síðu, og auðsýndi sig að vilja mig til dauða strax höggva, en eg rann honum og hans höggi undan það hraðast eg mátti. En í því hann meinti mig til dauðs að höggva rasaði hann í snjógryfju, því snjór og klaki lá þvínæst yfir öllu, svo hans hattur af fjell svo sjálfum lá við falli, en þeir engelsku kapteinar gripu hann og til friðs stiltu og kváðu slíkt þrátt við bera. Ei vildi hann gegna orðnu tilfelli. Síðan varð á skipi hverju þeirra engelsku þremur stykkjum afhleypt. Constabel minn, arkelímeistari Niels Damsgaard, sampíndist mínum hörmum, gekk til strandar að hugleiða, og fann svo alt í sannleika sem eg frá hermt hafði. Síðan varð aðmíráll gestboðinn af þeim enska aðmírál, hvað hann með nauðgan þáði, sakir meðbúandi haturs, ekki nú til mín, heldur til vorra beggja timburmanna, hverra verk honum virtist ótrútt, og hefði leitt eftir sig minkun í mannsstað, einnin vera orsök til hefði okkur ólukka og slys tilfallið. Engelskir trakteruðu hann og oss í besta máta og með hljóðfærum og trómetanna blæstri á veiting víns öls og matar stórum við juku. Svo var aðmíráll beisklundaður í það sinn, að hann forbauð okkur uppá það enska aðmírálsskip að koma. Samt veittist oss allrahanda gott af þeirra hendi.

---

[1]) „Danmarks Løsen" (ɔ: Danmerkur kveðja), voru 3 skot.

Nú er þar um að tala að nær vjer höfðum við skipin litla stund dvalið þá kom kaptuginn, er Gabriel Krús[1]) hjet, af því öðru danska stríðsskipinu, er í storminum með þeim tveimur borgaraskipum hafði oss frá drifið, og varð vel fagnað og trakteraður í besta máta, alt svo lengi að aðmíráll geðjaðist þar að vera. En sakir þungra geðsmuna vildi hann þar ei lengri dvöl hafa. Og í vorri burtför affýrðu þeir 30 stykkjum og í trómet blásið og skildust þeir svo hvorir við aðra í góðum kærleika. Gabriel Krús fór í bát til vor, og á leiðinni út til skipanna, er út í fjarðarmynninu lágu, barst áðurgreint efni í mál hvernin alt væri tilgengið, og þykir Gabriel honum heldur mikið hafa um orðið, og kvað mig verðugan vera nokkurs góðvilja fyrir slíkt háskasamlegt tilræði og það með í mannsstað fyrir sakleysi. Aðmíráll gekk því ekki freklega í gegn, en heitstrengdi þó þeim aumu timburmönnum stóru straffi að endurgjalda. Og nær sem vjer til skips komum bífalaði aðmíráll að þessir báðir timburmenn skyldu fram í galíón í járn setjast til næsta morguns, og þá á settu þingi skyldi greint efni til skoðunar koma og þvílíkt straff dæmast sem mönnum virtist þeir maklegir vera, annaðhvort undir kjöl þrisvar dragast eður þeim níu sinnum frá stórseglsránni að hleypa í sjó. En að morgni bar svo við að Gabriel kapt. kom árla að afplána þvílíkt til vors skips hjá aðmírál, hvað honum tókst að þeir í það sinn ljetist lausir, en skyldu þó nær þingað væri sinn rjett standa, hvað alt þó niðurhjaðnaði og upp þaðan var aldrei áminst.

---

[1]) Þetta er rangminni höf., það var ekki hinn merkilegi sjóliðshöfðingi Gabriel Kruse (Lind, bls. 177—181) heldur Enevold Kruse; um hann sjá Lind, bls. 175—176.

## XXII. KAP.

Síðan hjeldum við þaðan og austur með landi, alt þar til vjer komum að þeirri höfn, þar sem það eitt engelska skipið lá fyrir og hvar vjer skyldum höfn hafa fyrir þessi tvö kóngsskip á meðan vjer þar við land dvöl höfðum. Strax sendu þeir sinn bát út í hafnarmynnið mót oss, og meðtóku oss blíðlega með skotum og blæstri.

Þar í landi stóðu stór hús, sem Engelskir höfðu fyrir nokkrum árum uppbyggja látið, í hverju einu þeirra að einn engelskur maður var ár umkring einsamall, og kom fyrir kappmælgi hans og eins annars, þeir eð þar um þráttuðu, að einn sagðist geta þar beðið og verið til þess að skip aftur kæmi, með Guðs fulltingi, en annar talaði því harðlega á móti, og slógu veði með sjer til hundrað dala, og skyldi kaptuganum af þeirra launum afgreiðast. Þeir skildu eftir hjá honum alla nauðsynliga hluti, sem var matur, vín, öl, eldiviður, 3 byssur og púður nægilegt, sverð, vatn, salt og hvað meir honum þjenti, item biblíu, sálmabók, bænabók. Nótt og dag ljet hann ljós brenna og hafði sína sæng við eldstóna, hver eð var á miðju húsgólfinu. Hann var stundum að lesa, stundum að syngja, stundum að spila uppá sína fíólu, er hann og hjá sjer hafði, stundum var hann að smíða hæltrje i svarta skó, af hverjum hann gjörði fúlla altunnu. Svo var þar grimt frost um veturinn, að alt hvað frá eldi horfði fraus, þó nálægt lægi. Svo varðveitti Guð hann dásamlega að hann ekkert skaðaði, og bíhjelt sinni heilbrigði alt til þess um vorið í Júlímánuði, er skip komu þangað frá Englandi. Og nær þeir á land gengu og upp til hússins, hvar hann var inni, þá heyrðu þeir hann syngjandi þar inni vera það kvæði, er hann ort hafði um veturinn með 100 versum með fögrum tón. Hjá húsinu fundu þeir þrjá hvítabirni dauða, er hann hafði skotið gegn-

um þá glugga, sem á húsinu voru, en með hlemmum innan fyrir dregið Þeir meintu hann dauðan, og nær þeir í fyrstu heyrðu hans hljóð urðu þeir skelfdir. Síðan urðu þeir honum fegnir mjög og hann þeim í sama máta. Svo vann hann alt það veðfje með þeirri vogan, og nær hann kom fram í England varð hann sem engill meðtekinn, ef segjast mætti, og stórgjafir af mörgu herrafólki gefnar. Og voru tvö ár liðin frá því þetta skeði þar til eg þar kom með mínum lagsbræðrum, og lyktar hjer um framar að tala.

Þar spurðum vjer til borgaraskipanna, að þau voru komin á þá höfn, er þau skyldu lag hafa, 4 mílur þaðan, hvar og Engelskir og Hollenskir höfðu sitt skipalag, vesen og umgengni, og fyr er umtalað.

Síðan ljet aðmiráll seglbúðir á land setja, handa því fólki, er hvalbræðsluna skyldi stunda, og var þeim þangað fenginn vikukostur í hvert sinn. Og nær vjer á land komum meðtóku þeir oss vel, og með mat og öli plöguðu í góðan máta eftir föngum, hvað og einnin í sama lagi þeir Engelsku gjörðu. Ekki var á annað að stíga, nær vjer á land gengum, en blájökla og skaðsamt eggjagrjót, en grasstrá eður þesskonar sást þar ekki, en þó ala sig þar fullvel hreindýr og birnir, af hverjum hreindýrum vjer náðum 22, og var eg oftlega i því verkslarki með aðmirál [sjálfum mjög] þreyttur, hvar fyrir hann hjet mjer stórum launum, hver ei þó sáust. Þessi hreindýr ganga 3 í tunnu, en sum $3^1/_2$, sum $2^1/_2$; þau hafa sína fitu mesta á sínum lendum, sem er læfðar og þverhandarþykt; þau hafa horn mótlíka og einn hjörtur og þvílíkt til fráleika; þau hafa klaufir sem naut og húð í sama máta, og eru grá að lit; mosi er þeirra fæða og eins líka bjarndýranna, hver þó eru frábærlega feit og stór. Önnur dýr sjást þar ekki utan melrakkar og eru flestir hvítir. Einn þeirra ásettum vjer oss til Danmerkur að flytja, þó ei tækist sakir melrakkaódauns, hver geymd var í tunnu, með hverri henni varð útfleygt. Fuglar voru þar ei aðrir en æðifugl, már, svartbakur og brimmár; már flýgur manni í hendur, en með því að þeir eru ónýtir sakir megurðar og þeirra fiður illa lyktandi akta menn þá eigi. Már er þar í háfjöllum

uppi og næst því ei hans egg. Eitt æðifuglssker lá þaðan tvær vikur sjávar, hvar hann varp eggjum; þangað fórum vjer með bát og lá það sker í landnorður frá vorri höfn, og fengum vjer þar eggjatunnu, en nær matgjörast skyldi var alt ónýtt, *því kominn var sá tími að fuglinn skyldi* útleiða. Fiskur var þar enginn, svo vjer yrðum við varir, utan marhnútur.

Landið er með háum fjöllum og flestöll hulin með jöklum frá ofanverðum brúnum niður til sjávar. Sól skín þar nótt sem dag alt fram í Augusti mánuð. Alt frá dagmálum og fram yfir miðmunda heyrast skriður og dynkir frábærlegir á hverjum degi nær sjerhvers fjalls jökull fyrir sólarinnar verkan losast og framspringur og í sjóinn fellur; svo mikið ryk kemur þar af með ýmislegum farfa fyrir mannlegri sjón, að sólin um heila stund sjest glögglega eigi. Þeir jöklar frjósa úr því ferska vatni, sem er þar ofan á fjöllunum, og er það sá drífandi hafís, er hingað til Íslands kemur.

Lítinn veg frá oss í suðurátt lá eitt svelgi mikið inn í miklum jöklum, hvert menn kölluðu Víti; það var mjög ógnarlegt og skelfilegt tilsýndar, í hvert sinn, nær vjer þangað litum, og hvað fljótandi þar framhjá dreif hvarf þar inn. Á því fyrirfarandi ári er vjer þar vorum bar svo við að Engelskir höfðu náð einum sljettbak og með þremur bátum voru að róa hann, en landstraumur fjell uppá; þá bar svo meir og meir að þessu svelgi, svo þeir gátu ei við gjört, en þeirra leið lá þar fram um, þar til þeir með bátum og hval í svelgið með hast inndrógust og hurfu, svo að ei meir sáust. Þetta sögðu Engelskir oss til að varast, og fleira annað.

Nú víkjum þar til, að strax sem vjer vorum á land komnir og höfðum búðir sett fóru Buskaier til hvalveiðar með þrjá báta og 6 menn á hverjum þeirra, voru þrír danskir þar í bland á hverjum. Var þeim vikukostur útfenginn, og lágu við tjald á útnesjum þeim er til hafs venda. Á hverjum bát eru fjórir til róðurs, einn við stýri og harpónerinn fram á hinn sjötti, hann tekur mest kaup, og fá þeir 100 dali fyrir hvern hval, er þeir veiða. Svo náðu þeir fjórum hvölum til kóngsskipanna tveggja, og úr þeim

bræddust tvennar 80 lestir og hvert þar af tók sinn helming skipanna. Einn maður, sá ellefti af Buskaier, var jafnan heima, hvers embætti var að spika hvalina, ei við aðmírálsskipið heldur við hitt skipið, sem var Juppiter, hvað honum ljett veitti. — Þeirra túlkur hjet Jón og var til móðernis engelskur að ætt; hann kvaðst kunna 16 tungumál með því litla, sem hann kvaðst kunna í íslensku tungumáli, hafði hann fyr meir siglt hingað þá hann var 14 ára að aldri með þeim mönnum, er komu einu ári eftir Píning á Arnarfjörð, og voru fjórir af þeim sendir til sýslumannsins sál. Ara Magnússonar, sem sat að Ögri við Ísafjarðardjúp, og var eg þá 9 vetra er þeir komu til Svarthamars við Álftafjörð, þar mín móðir var og bróðir Halldór, einn sunnudagsmorgun, og þeirra fyrirliði hjet Davíð. Og nær hjer varð af honum áminst kannaðist eg við þetta alt áðurgreint og varð eg því umfram aðra af mínu kompanii honum kær og í þessari hans vingan bleif til skilnaður, og hinir hans lagsbræður tóku sjer lag eftir honum og gjörðu mjer ásamt honum jafnan til góða af víni, brauði og kryddum, er þeir nóglegt með sjer höfðu. Einnin staðfestist okkar vinátta ei síst þar af, sem skeði í þann tið sem vjer fyrst landið litum, því svo bar við, að með því að vjer í hálfan mánuð höfðum ekki eitt sinn haft viðtal við nokkurt hinna skipanna þar fyrir lysti aðmírál að finna Gabriel Krús, kaptugann á hinu kóngsskipinu sjer til skemtunar, eftir því á þeim degi leiði tilgafst, og ljet kalla á túlkinn, áðurnefndan Jón, og spurði hvort hann og hans stallbræður langaði ekki til að sjá og finna sína landsmenn, hverju hann játaði, og sex af þeirra liði gjörðu sig strax með einn þeirra zelup ferðuga með aðmírál og hans þjenara til hins skipsins, hvar aðmíráll og þessir urðu í góðan máta meðteknir og plagaðir. Og nær þeir höfðu þar litla stund dvalist og voru teknir til hálfdrukknir að verða þá bar svo við, að þeir sem voru upp á þiljum litu einn mikinn síldreka, er þeir kalla tröllhval. Og strax sem þessir hvalamenn það heyrðu, og með því strengur með lagjárni lá niðurhringaður í bátnum nýr 300 faðma langur, urðu þeir sem óðir og hlupu í bát

og lögðu sjer róður eftir hvalnum og í einu sendu þetta járn í hvalinn, en af því þeir voru of nálægt honum og fyrir sjálfra þeirra athugaleysi og í því sem þeir járnuðu hann sló hann upp sínum sporði undir bátinn, svo hann lyftist langt frá sjó í loft upp, svo allur botn undan honum mölvaðist, en menn allir hrutu alla vega út um sjó úr honum. Og með því allir þeir voru syndir tapaðist enginn þeirra, því þeim varð strax hjálpað af skipfólki hins skipsins, þeir eð hjuggu sinn bát undan festum og fluttu þá til vors skips, því þeir voru ragir að lita aðmírál, af því þeir vissu sig hafa gjört í móti kóngsins skipsartíkulum, þarmeð og líka átti aðmíráll í bátnum nýja síðhempu sú eð gilti 32 dali. En það vildi þeim til lukku að ei fórst af strengnum utan 5 faðmar, *því fyr skarst en meira útrynni á því járni er út* stóð fram á. Jón túlkur lætur kalla á mig og kvað sjer stórt slys tilfallið hafa, og bað mig sjer að kunngjöra heimuglega hvað aðmíráll til segði og góð orð til leggja, og segja honum vissa borgun hjá sjer fyrir það sem farist hefði, hvað eg og gjörði þá aðmíráll kom, og var hann hinn reiðasti í það sinn. Eg gjörði mikið af þeirra hrygð fyrir sína ávirðing, og að þeir hefði við komist; hann kvað til þings koma skyldi. Skömmu seinna skipaði hann þeim varmt vín að færa. Eg hermdi Jóni með mjúkasta hætti orð aðmírals. Svo lyktaði þetta, að til þings barst það aldrei og enga borgun af þeim heimti.

## XXIII KAP.

Einn sunnudagsmorgun var aðmírállinn Henrich Vind gestboðinn af Hollenskum þeim, er lágu þar sem borgaraskipin höfðu hafnir og 3 skip engelsk, og þar eftir predíkun haldna var uppslegið miklu gestaboði. En um nónbil kom einn hvítabjörn heim rennandi að búðum, sá eð var mikill vexti og ógnarlegur tilsýndar, og enginn af öllu því fólki

þóttist slíkan fyr sjeð hafa; hann var bleikur að lit og rauðkinnóttur. Þar spratt hver úr sínu sæti að elta björninn með byssum og vopnum. Hann gaf ei færi á sjer, en rann til strandar hið hvatasta og á sjó, og beit speldi úr þeim bát, er hann varð á unninn, hvern Buskaier gripu og æddu eftir honum, og björninn með harpónajárni á streng járnuðu og yfirunnu, hver feldur vorum aðmírál var skenktur. Síðan um kvöldið ferðuðumst vjer þaðan næsta vel plagaðir.

Þegar fyrst sem vjer komum þar í landið stóð til stríðs með Engelskum og Hollenskum fyrir sakir kífs og ágreinings um þetta Grænland, hverjir það fyrst fundið hefðu, en vor aðmíráll stilti það klamarí með ljúflegri meðalgöngu þeirra á milli, en lýsti landið undir Danmerkur krónu, og varð svo alt í góðri forlíkun. Það liggur í landnorður hjeðan hálft annað hundrað mílur, og þar sem vjer lágum venti í norðaustur. Viðarreki er þar mikill, hvaraf vjer tókum til margs efniviðar sem við þurfti. Eigi verður landið kannað sakir jökla til lands og íssins margfaldlegleika til sjávarins. Það sje nú þar um sagt að svo stöddu.

Nú vil jeg með fáum orðum minnast á missátt vorra yfirvalda, sem var aðmírálsins Henrichs Vinds og Gabriels Krús, sá eð var kapteinn á því öðru kóngsskipinu, og kom til af litlu efni. Einu sunnudag bar svo við að Gabriel Krús gjörði gestaboð og hugði sjer að bjóða þar til aðmírál og þeim engelska kaptein, sem var á því skipi, er lá oss samjafnt innanhafnar; þessvegna ljet árla prýða skipið með venjulegu skipsskarti, og ljet sína flaug upp á stórtopp, hvað ei bar utan aðmírál og er stórum viðlagt í kóngsins artíkulum. Þessvegna reiddist aðmíráll stórlega og þáði ei boðið, og varð stór missátt þeirra á milli nokkra stund, svo þá einn dró til lands fór annar frá. Ein tíma bar svo við að aðmíráll fór til lands og eg óverðugur var einnin ásamt mínum fleirum cameratis í ferðinni með. Dirfðist eg að tala til aðmíráls nær hann var á land genginn og tala um þetta efni, og sagði eg það liti illa út ef þeir gæfi sig svo til heimferðar óforlíktir, bæði vor á meðal og framandi, en ei allra síst er þeir kæmi heim á kóngs og annara góðra vina fund. Hann

þyktist nokkuð við og spurði mig hvort eg þættist vera góður til að forsvara hans tráss og lögbrot, sem hann í móti kóngsins mandat og befalningu gjört hefði. Eg sagðist það afneita, heldur það í góðri meiningu nefnt hafa, og eg heyrði Engelska daglega þar um tala. Hann sljákkaðist nokkuð og sagði ef sá engelski kapteinn vildi þar góðan þátt í eiga þá mundi hann til friðs stillast. Eg spyr hvort eg mætti þess leita. Hann kvað já, og svo gekk eg þaðan til hans. Senn gjörði hann sig reiðubúinn og fór svo og fann aðmírál og forlíkti þá þar strax og ljet sína menn sækja Gabriel Krús og kom svo öllu í gott lag. Hjer af varð eg í stórvirðingu hjá þeim öllum.

Nú sem vjer höfðum þar verið í 11 vikur fýsti oss þaðan að halda í Guðs nafni bæði vegna frosts og snjóa, því vjer urðum stundum tvisvar á dag akkerum að ljetta og undir seglum aftur og fram að ráfa eftir straumanna háttalagi og ísdrifsins aðþrengingu. Gjörðu svo öll skipanna yfirvöld orðentlega samþykkt sín á milli með brjefum nær þeir skyldu úr höfnum losa. Og á hverjum degi mánaðarins Augusti voru þar þá svo mikil frost allareiðu að strax eftir nón er frosið tveggja fingra þykt við sjómál skipsins þó sól skíni. Fyrst vjer þar komum skein sól nótt sem dag, sem var í Júní og Júlímánuði. Þá síðustu nótt vjer þar vorum kom svo mikill snjór, að eg á minni síðustu vakt, er mjer bar, stóð yfir hnje á þiljum. Og um morguninn snemma klæddist aðmíráll og fjekk varla grilt til mín úr káhyttudyrum, og kendi þá mjög í brjósti um mig og sókti vínflösku af rínsku brennivíni og fjekk mjer að drekka svo mikið sem vildi. Og á þeim sama degi hjeldum vjer 15 skip út af þessu fjarðarmynni, en í því miðju var eitt blindrif á hverju vort skip þrisvar sinnum svo hart steytti að vel flestir þeir, sem stóðu fjellu um koll, og varð þá mikill skelkur á hverjum manni innan skipsborðs. Strax gengu margir af þeim skynsömustu með skriðljós að hugleiða hvort skipið mundi nokkuð lestst hafa og gátu ei fundið, hvaraf menn glöddust og sögðu Guði þakkir. Svo hjeldum vjer hindrunarlaust lengi vorum skipum í samsigling heimleiðis, þar til vjer komum undir

Noregi; höfðum vjer þá siglt úr norðaustri hjeðan hálft annað hundrað mílur og hjeldum vjer austan um Ísland, en fyr en vjer komum undir Noregi skildu skipin að í einum ógnastormi og vor borgaraskip, er tekið höfðu 5 hvali, og skikkað var með sitt tran til Hollands að sigla.

## XXIV. KAP.

Nú sem vjer komum undir Líðandisnes í Noregi með því öðru kóngsskipi og hin öll skipin voru oss við skilin og svo nálægt landi, að vjer máttum til hafna hleypa hefði oss annars svo litist, og það var einn þriðjudagsmorgun árla, þá á hljóp hastarlega svo mikill suðaustanstormur að stórundrum gegndi og varla var skiphelt, og það yfirstóð í fimm nætur og daga, og allan þann tíma ljetum vjer án segla svo drífa í norðvesturhaf, og ei sáum vjer út fyrir skipsborð fyrir samsævi og sjóvargrefti, hvað yfir máta tók, og vora galíón mistum vjer, sú eð með stórum bílætum var öll forgylt. Eitt sinn sáum vjer hjá oss fara eitt hollenskt skip, þeir eð höfðu mist sitt stóramastur. Og nær sem þessi ógn var sem hörðust bar oss það til rauna, að vor pumpa varð blind, og svo hart tillukt að hún dró ekkert vatn, þar til hálf fjórða alin var orðin dýpt vatns í voru skipi, og var tekið til að hafa út í stömpum, hvað ómögulegt reyndist, því enginn gat notið sinna fóta eður nokkra sinna aðburða. Þá gekk aðmíráll út í káhyttudyrnar grátandi sem eitt barn, og fyrir sig kallaði mig, og bað mig í Guðs nafni nokkur góð ráð útgefa til lífs og hjálpar. Eg sagðist ei önnur vita en pumpuna upp að draga, hvað honum leitst ómögulegt í slíkri ógn. Eg geng svo ofan í skip, en þó með hans ráði, til túlksins J ó n s, og segi eg aðmíráls orð til, að hann biðji ham um sitt lið og hans landsmanna og góð ráð pumpunni að ná, og alla þá hjálp gjöra, er til lífs og liðs þjena kunni,

hvar til eg og lagði mín orð með klappandi hendi; hvar til hann með sínum mönnum sig strax reiðubúinn gjörði ásamt skipsfólkinu, og varð hún svo uppdregin og með krossköðlum stöðvuð; var hún þá full af smágrjóti nær hún náðist og var margborað blý látið og neglt undir hennar neðri hluta, svo alt komst í gott lag aftur. Aðmíráll lofaði mjer nýjum klæðnaði, hvern eg fjekk þó ekki, nje nokkuð fjemætt úr hans hendi, utan jafnan ljúflegt tiltal hvar hann sá mig og hitti.

Um sunnadagsmorguninn sáum vjer Hjaltland, og hafði oss rekið 80 vikur sjávar, og ei vissum vjer hvað um hið annað skipfólk leið, hvort þeir voru lífs eður ei. En svo var fyrir þeim langt komið, að hver þeirra hafði gefið sig frá þessari veröldu og öldungis til Guðs og stór heit gjört, og hver þeirra til fátækra offrað peningum, þeir eð innlögðust í börs, sem fátækrapeningar plöguðust inn að leggjast og siðvenja er á hverju kóngsskipi, að hver gefur þar í hvern sunnudag sem góðvild og geðsmuni þar til hefur og svo mikið, sem sjálfan lystir. Með sama hætti skeði innan skipsborða hjá oss. Á sunnudaginn snerist vindur til norðvesturs og lagðist þá góður byr í bæði skaut, en stór háski var í slíkum sjó í móti rjett að halda á meðan hann lægðist ekki; og liðu 4 dagar fyr en Noregur náðist, náðum vjer þar landi er Fleckefjörður heitir, og var meir en helmingur vors fólks sjúkt og kvillað af skyrbjúg og margslags tilviljan annara; af 16 byssuskyttum voru engir á felli, utan fjórir menn, sem var arkelímeistarinn Niels Damsgarður, Jóhann Jern, Jacob Nielsson og eg, hvað þó var eftir hrumara hætti, því vjer gátum varla hrært oss fyrir skyrbjúgsbólgu og hafði eg flestar tennur lausar í höfði sem fleiri, og brúkaði eg hveitisalt og tóbaksösku og margir síðan eftir mjer; gnýði eg fyrst með hveitisalti alt tannholdið, svo mikið blóð af rann, og síðan með tóbaksösku, hvað hart er að líða.

Í greindri höfn lágum vjer 4 eða 5 daga. Og fyrst nær vjer þar komum gjörðum við staðföst ráð okkar á milli, bartskerinn og eg, á næsta morgni að kreika og reisa eitt-

hvað langt, þar til við bygðir einhversstaðar uppi hefðum, hvar með við og einnin hugðum okkur lækninga leita, ef verða mætti nær limir þreyttust og ef svitna kynnum, hvað og skeði. Og nær um miðdagstíð komum vjer úr einum dal, sá eð lá undir lítilli fjallshlíð, og var allur fögrum grösum og blómstrum vaxinn, að einum bóndagarði. Þar brann eldur miðdagsfæðslu í eldaskála. Ein stúlka leit okkur í fyrstu og varð frábærlega hrædd, svo hún kollhljóp sig, og sagði bónda hvað um væri. Senn kom hann að hitta okkur með spjót í hendi, því hann vissi ei hverjir voru. En sem hann það spurði tók hann okkur í besta máta með öli og fæðslu, mjólk og ferskum fiski; brauð gáfum við aftur og tvo klúta. Hann spurði okkur margs og við hann svo aftur, svo að vort samtal til kvölds varaði, og skildum við hann með góðum kærleika að entri fylgd. Vorum við þá nótt á ferð og komum til vors skips árla morguns og hugðu menn okkur liðna vera.

Að liðnum 5 dögum hjeldum við þaðan og heimleiðis með góðu byrleiði. Einn dag í góðum byr bar svo við, að einn af þeim Buskai, sem jafnan var glettinn og gangmikill við vort fólk, sem ei síst skeði af hatursrót hans og annara pápiskra til þeirra lúthersku, og að mjer óvitandi lagði fót fyrir fætur mjer til mikils falls. Og nær eg aftur með skyndi upp spratt greip eg hann í reiði og setti hann ofan í einn stóran vatnsketil, og gaf eg honum svo tvær eyrnafíkjur öllum viðstöddum ásjáandi og skildist eg svo við hann. Senn hljóp hann svo orðinn upp fyrir aðmírál og forklagaði mig. Var eg og þangað jafnskjótt kallaður og aðspurður harðlega hvað þar um sannast væri, hvers eg ei synjaðist. Aðmíráll sagðist meina mjer þann artíkula kunnugan, að enginn þá menn að saklausu til vonds áhræra skyldi, hverju eg ei neitaði.[1]) Varð hann þar við mjög bystur og bað mig strax í fangelsi setja. Eg leiddi mitt mál svo í ljós með öllum vexti fyrir honum, að öllu fólkinu samankomnu,

---

[1]) Samkvæmt „skipsartíkulunum“ átti að kjöldraga þrisvar hvern þann, er annan lysti pústur eður hnefahögg innan skipsborða. RC.

hvar um allir mjer vitni báru að eg satt fram bæri. Síðan snerist alt hans klögumál honum á hendur til falls og óbata, þó án straffs, en samt fjekk hann áminning en eg þökk og virðing, og gjörðist kært síðan okkar á milli.

Síðan komum vjer með lukku og blessan heim í Kaupinhafn; höfðum vjer þá úti verið í 17 vikur, og mist 15 menn; var hitt skipið þá fyrir nokkrum tíma heimkomið. Um haustið eftir fór eg með fleirum öðrum til Krónborgar, þar að þjóna, og fyr er umgetið.

## XXV KAP.

Og nær eg þar kom um hausttíma varð mjer skipuð vakt í kóngsins skipaflota um veturinn eftir, á hverjum mjer kom raun til handa af sjerlegu tilfelli, er svo skeði, að nær þeir 4 dánumenn hjeðan frá Íslandi út til Danmerkur fóru, sem var Jón Magnússon, Henrik Gíslason, Þorsteinn Magnússon og Daði Jónsson,[1]) bar svo við, að eg varð af þeim blíðlega beðinn og tilkvaddur hjá mínum yfirmanni Adolph Friderich Grabov lítillátlega umgangast, að hann ljeti þá vita, (en þó í hljóði) nær kóngl. Maj. væri einn upp á Kaupinhafnar sloti, svo þeir mætti því heldur við kóng í góðu tómi um þessa lands gagn í leyndum ræða, svo reiðararnir þar ei af vissu, og hjetu honum góðvild ígjen; hverju

---

[1]) Um þessa nafntoguðu sendiför sjá Espólíns Árb. VI. 8. sq. Fjórir Íslendingar fóru til að kvarta yfir einokunartaxtanum, þeir Jón Magnússon eldri, sýslumaður á Reykhólum (sjá B. Ben. Sýsl. II, 652—658), Hinrik Gíslason, sýslumaður í Kjósarsýslu og síðar í Borgarfjarðarsýslu sjá B. B. Sýslum. III, 435—439, Daði Árnason Oddsonar (ekki Daði Jónsson eins og Jón Ind. segir), sbr. B. Ben. II, 649, hann dó í Khöfn þann vetur, og loks hinn ágæti fræðimaður Þorsteinn Magnússon sýslumaður Skaftfellinga og klausturhaldari í Þykkvabæjarklaustri † 1656, lögfróðasti Íslendingur á sínum tíma. Eins og kunnugt er varð árangurinn enginn.

hann í fyrstu þunglega gegndi, kvað mig færa sjer vandræði á hendur og líf sitt við liggja, ef þeir fengi það að vita, og sagðist það að mjer eiga ef öðruvísi en vel tilgengi. Um síðir gjörði hann lofan hjer um, þó hann vissi sjer það ei vel tilstanda að gjöra nein samtök við framandi í gegn sinni landsþjóð, en afneitaði þar annað með að hafa en nú var nefnt, og bað að þeir í sama herbergi ljeti sig finna strax boð kæmi. En með því þeim var þungbært þar lengi sitt lossamenti hafa er þeir voru fyrst inn lagðir, sakir kosts og öls dýrleika, sem var í þeim gamla hofmeistaragarði við ströndina, og hver máltíð gilti hálfan ríxdal, þar fyrir leituðu þeir við sjer annað herbergi að umgangast, hvað og skeði. En sem þeim frá Grabov boð komu til þessa herbergis, þá voru þeir þaðan í burt fluttir í hin önnur, sem junkursins þjenari ei af vissi; kom hann því svo búinn til síns herra, hvar af hann gramdist, og fjekk hatur til mín, og hugsaði þess á mjer að hefna nær sem eg í nokkru brotlegur fyndist, því hann reiknaði sig af mjer gabbaðan vera.

Nú bar svo við einn sunnudag að eg fylgdi einum brúðguma til kirkju og frá og var litla stund dags með öðrum góðum mönnum við hans veiting, af því um kvöldið mjer bar vakt fyrir annan að hafa í kóngsins skipaflota, og vogaði eg því ei lengur að dvelja. Þessvegna gekk eg strax til míns lossamentis, hvert eð var hjá einni frómri ekkju, Birgitta að nafni, og með því norðaustanvindur bljes hart í þann tíma, svo ei heyrðist nær stundaklukkan sló, gekk eg því heldur fyr en hæfði upp að Hólmsins portum, hvar jafnan herskipavaktin samansafnaðist. Og nær sem klukkan sló 4 slög upphóf þeirra vaktmeistari í gegnum þessi port með vaktina að fara uppá Bremerhólm og út á ísinn, hvar hann gaf þeim sitt lausnarorð og þar við þá skildist. Nú bar svo við að eg fann þá frómu menn fyr en eg gekk til portsins sem vaktin skyldi viðmætast, og lofuðu þangað koma fyr en vaktin uppþrekt yrði, því aðmírállinn yfir Bremerhólmi hefði leyft sjer þangað, og fengu mjer einn pilt, sem

var Hákon Þorsteinsson,[1]) er í þann tíma var með föður sínum Þorsteini Magnússyni, sem í þann tíma hjelt Þykkvabæjarklaustur, og bað hann mig að láta hann með mjer þangað fylgjast og þeirra hjá mjer bíða, hvað og skeði, að pilturinn með mjer fylgdist, en þeir fyrir nokkra hindran komu ei þangað í það sinn. Nú sem hann og eg komum að þessum nefndum portum voru þar í þann tíma engir af vaktinni komnir. Þá segir Pjetur Róð, sá eð var fyrirliði þeirra þriggja manna, er þar daglega höfðu dagvakt, og settir voru til glöggrar athugunar, að ekkert af Hólminum ólöglega í burt færðist þar í gegnum, að eg komi of snemma. Eg kvaðst til klukkunnar ei heyrt hafa. Skömmu síðar komu tveir af vaktinni, Jóhann Járn og Jacob Nýkauping, og með því veðrið bljes bæði hart og kalt lokkuðu þeir mig upp í eitt skipherrahús, sem nálægt var portinu, og ei lengra frá en sem eitt örskot, og skyldum vjer þar staðar nema og gust af oss taka þangað til tíminn kæmi, hvar til mig stórum áhvatti Hákon, og ei sist fyrir hans ósk eg ljet mjer þar til koma. Þar báðu þeir skipherrakonuna að láta heita oss einn pott öls til hita. En á meðan það yfirstóð var vaktin burt farin, því vjer sakir storms fengum ei heyrt til bumbunnar, sem eg þó ljet þessa tvo menn til skiftis þar upp á vakta. Og nær eg það heyrði, hleyp eg með þeim af stað, en það þeir urðu litlu einu fljótari en eg olli því pilturinn, er mjer hjelt og vildi ei við mig skilja, því hann var í þann tíma bæði ungur og ókunnugur. Og nær vjer komum að portunum stóð vor prófoss þar með vorar byssur í hendi sjer, og án alls mótmælis fjekk hann þeim sínar byssur, svo þeir án viðtafar í burtu hlupu, og náðu þeir vaktinni fyr en vaktmeistarinn við þá skildi, en eg stóð í fári við prófoss, og vildi hafa án allrar vægðar mig upp til týhúss, í fjötur og fangelsi þar inn setja, með því honum fyrir nokkrum tíma liðnum var þar um af Grabov ströng regla út gefin og heimuglega bent, að í hvert

---

[1]) Hann varð síðar klausturhaldari í Þykkvabæ eftir föður sinn. Espól. VII, 26.

sinn sem svo til falla kynni það eg mig í miklu eða litlu forsæi, þá skyldi hann mig grípa, og slíka aðferð hafa, sem nú var nefnt, til hvers haturs engin orsök önnur finnast kunni en sem sagt er.

Fáum dögum fyr en þetta viðbar mætti eg Adolph Grabov á einu stræti, og vildi þá ei taka mínu ávarpi, hvað aldrei fyr hafði viðborið, og kvaðst skyldi fá mjer annað að starfa en samfylgi með Íslenskum að hafa eður með þeim öðrum dár að gjöra. Hans þjenari Baltzar Lynbeck, sem eftir honum gekk, bað mig vakta mig fyrir junkur í hljóðmælum. Þangað til hafði eg aldrei hans móðyrðum mætt, því hann hjelt mig ei þann sísta, sem undir kóngl. regimenti var mjer samjafnt þjónandi, einkum af yngismönnum, og sendi mig oft með sín heimugleg erindi, bæði upp á Kaupinhafnar slot til slotsherrans og hans frúr og víðar annarsstaðar.

Nú sem prófoss stóð fast á því að vilja ei slippa minni byssu og ei var neinn kostur annar á ferðum fyrir nokkur mín auðmýktarorð eða mútur, þá svarar Pjetur Róð prófossinum: »Því breytir þú svo illa við þennan mann og vilt svo skinbarlega koma honum í ólukku og dauða?“ Hann gramdist mjög hans orðum og bauð honum að þegja. Síðan tekur hann mína byssu og setur fyrir brjóst mjer svo harðmannlega, að eg hrökk í múrinn og hrófnaði á kinninni, svo nær eg leit þar af dreyrði varð eg reiður mjög, og greip til minnar verju, en þó hóflega, svo af balinu útrann nærri því handarbreidd. Þar hjelt hann eg hefði dregið hana til sín, hvað þó er líflaust verk fyrir þeim eð gjörir, því hann ber kóngs regimenti[1]) við síðuna, og hver sem honum misþyrmir þess sök og sekt rís svo hátt sem við kóng hefði gjört verið; en minn ásetningur var ekki sá sverð til hans að draga, heldur sagði eg svo, ef hann bæri ei kónglegt regimenti við sína síðu og við værum ekki á því plássi sem við vorum, þá skyldi hann mig ekki forgefins slegið hafa.

---

[1]) „Regimentið“ var skrautbúinn sproti um hálfa aðra alin á lengd, er prófossinn bar sem embættismerki.

Þetta fororð kom mjer síðar til góðs nær eg stóð upp á þeim stranga týhúsrjetti og fyrir skörpu lögmáli. Þá mælti Söfren prófoss: »Nú skaltu fylgja mjer uppá týhúsið,« og fjekk mjer kóngsins regimenti í hönd, svo sem plagaðist eftir venjunni, og enginn má neita við sinn háls, og gjörði eg reverentíu fyrir því, hvað mig ogsvo til góðs vegar leiddi. En Hákon varð af mjer slitinn, og bað eg Pjetur Róð um hann trúlega, að koma honum til síns föðurs, hvað hann og dygðarlega gjörði.

Svo gekk eg með prófoss upp til týhússins, þar sem vaktin var samankomin, og einn af týhússins yfirvöldum var og uppgenginn, Pjetur Falk[1]) að nafni, minn góður vin. Og nær sem hann mig leit og vaktmennirnir hnykti þeim við og aumkuðu mig hjartanlega, með því prófoss gjörði svo mikið af minni misgjörð, fyrst kvað hann mig drukkinn uppá vaktina komið hafa, þar næst vaktina forsómað, í þriðja lagi sverð til sín dregið.[2]) Eg aftur á móti lýsti hans ákæru til mín ranga í öllum þessum þremur punktum, sem var fyrst að eg væri drukkinn, og öllum leitst ósatt vera; þar til lýsti eg ofríki honum á hendur, sem mig hefði hindrað mína vakt að halda, og eg skaut mínu máli til aðmíráls álita og Hólmsins laga rjettar; og í þriðja lagi sýndi eg honum að eg bæri sverð við síðu, en ei til hans dregið hefði. Síðan lagði hann hendur á mig í týhúsgarðinum og bauð mjer að fylgja sjer í Brockenhús, sem allir fangar voru fyrst innsettir og í járnum læstir. Eg sleit mig úr hans höndum, og kvað eg ei fyrir hans harðýðgi það gjöra heldur fyrir minn eigin vilja ef mjer svo litist. Hann bauð þá vaktinni allri að grípa mig, hverjum eg fyrirbauð hendur á mig að leggja. Pjetur Falk gekk til mín blíðlega, og mig sjer í fang tók og bað mig fyrir sína skuld til friðs að vera og mig til fanga taka láta, lofaði hann mjer aftur sínu liðsyrði, hvað hann og vel enti.

Sat eg og svo í Brockenhúsi frá sunnudagsaftni til þriðjudags, þvínær til hádegis, þvert á móti kóngl. Maj:s

---

[1]) Um hann sjá ath. RC. og Blom, Chr. IV's Art., bls. 23.

[2]) Við þessu öllu lá dauðahegning.

artíkulum, því prófoss ber tvisvar á hverju dægri sjerhvers fanga að vitja. Og nær hann kemur fylgist með honum minn sjerdeilis góður vinur Sr Þorlákur Þorkelsson sá eð var sonur Þorkels Gamlasonar, Hólastiftis ráðsmanns, og mín húsmóðir. Þau báru mjer vín og fæðslu margskonar, hvert eg hafði þó varla lyst að meðtaka. Grjetu þau bæði yfir mjer og mínum raunum sárlega, hvers eg bað þau hafna, því eg treysti Drotni og huggaðist við meinlítið málefni, hvernin sem ganga kynni. Eg gjörði prófoss stórar ávítur fyrir vanvaktan sinnar kallanar og embættis er sig svo mjög haturlega auglýst hafði, á vanrækt við mig kóngsins fanga, hvern hann hafði þó ranglega inn sett. Hann kveðst mjer skyldi drjúgur verða, hvartil eg honum andsvaraði að eg setti beggja okkar mál í Guðs hendur. Þau bæði gengu í burt grátandi með prófoss.

Nærri miðmunda var eg kallaður í skrifstofuna þar sem yfirvöldin voru til samans komin, og þar skyldi okkar mál í fyrsta sinn til greina og álita koma. Og nær eg var þar innkallaður sátu þar 5 týhússins yfirvöld, sem var Adolph Friderich Grabov, týmeistarinn Christofor Sveink, Pjetur Falk, Henrik Butzmand og Hans Búss[1]) og 12 arkelímeistarar. Prófossinn stóð og eg. Grabov spyr hann, hvort hann standi staðfastur við sitt klögumál yfir mjer sem áður er nefnt — hinn kvað það satt vera — og hvort hann þar til hafi vísa votta, hverju hann og játaði. Eg bað það eg mætti vita hverjar þær sakir helst væri, en hann framtaldi skjótlega, hverju eg neitaði. En Grabov tók sinn hatt af og kvaðst hann ei fyrir mitt líf vilja gefa ef svo reyndist sem prófoss segði. Eg kvað það langt um meir kostað hefði. Engum stökk orð utan þessum tveimur, en margir feldu tár fyrir mig. Grabov bauð prófoss að

[1]) Um alla þessa menn er getið í Blom, Chr. IV's Art. 23—27; merkastur þeirra er Christoffer Schwenke (Svenke), sem var mesti dugnaðarmaður, barðist af mikilli hreysti við Lutter am Barenberg og fjekk þar stór sár. Hans Búss (Bútz) segir Blom að hafi fallið í Kalmarstríðinu, en annaðhvort er það rangt, eða þetta er annar maður með sama nafni. Sjá líka ath. RC. og ritin er þar eru nefnd.

taka nokkra af vaktinni með sjer og fylgja mjer upp á slotið, og þar mig inn í fangelsi setja sem kóngsins líffangarar plöguðust að innsetjast. Eg bað þá gjöra svo mikið sem gæti, en lengra kynnu þeir ei komast en Guð leyfa vildi.

Síðan gekk eg út grátandi með prófoss og fjórum af vaktinni. Gekk eg upp á Kaupinhafnarslot, en turnvaktarinn hjet Niels og var mjer kunnugur mjög, og með stórri nauðgan og grátandi tárum ljet mig ofan síga í Bláturn í mjóum línstreng. Var þar svo til háttað niðri að þar var eitt fjalágólf eða sem einn mikill pallur, en umkring fordjúp ræsi, sem ofan liggja í vatnsgröf þá, sem slotið umhverfis liggur, í hverja liggja allar rennur af slotinu. En þessi Bláturn er skaptur sem eitt egg innan, svo öllum mönnum er ómögulegt með náttúrlegum hætti eður manns krafti á burt þaðan að komast, en þó 3 menn hafi þaðan sloppið, hvað skeð hafði fyrir djöfulleg meðöl. Þar inni sat eg án járna eður fjötra aldeilis í fullan mánuð. Og enn þó kóngur kæmi tvisvar upp á slotið í þeim mánuði Martii, þá var hann leyndur að eg í Bláturn innsettur væri, alleina þessvegna að eg kónginum óvitandi skyldi, fyrir hans hatursemi til mín, frá lífinu dæmast. En þá fyrstu nótt, er eg þar inn settist, dreymdi mig þvílíkan draum sem eftirfylgir, að mjer þótti þessi Adolph Friderich Grabov sitja upp á einum pallbita með dregið sverð, og til höggs reitt vera mjer á háls, en eg þóttist á hinni fremri pallslánni standa með beru höfði og bljúgu hjartalagi, en þó með góðri samvisku og von til Guðs náðar, góðgirndar og miskunar um mína velferð og sáluhjálp fyrir Jesúm Christum. En nær mjer þótti hann sjer til höggs herða svo að öldungis gilda skyldi sá eg svo sem einn barnungan prestsmann, skrýddan síðum messuslopp mjög hreinum og hvítum, og halda á fögru leiftrandi sverði í sinni hægri hendi, og það hastarlega til höggs reiða að hans höfði, en sinni vinstri greip í hægri handlegg Grabov, sem hann hjelt sverðinu með hendinni, og fyrirbjóða honum mig að slá með sverðinu, en ef ei svo vildi skyldi hann síns sverðs skarpleika mæta verða. Lengi var fyr en mjer þótti hann vilja afláta, en þó kom svo um

síðir að mjer þótti hann verða sverðinu í slíðrir stinga. Síðan eftir hans skikkan þóttist eg glaður uppstanda og í þeirri glaðværð vaknaði eg skyndilega. Þar fyrir allan þann tíma, er eg sat í Bláturn inniluktur, var eg jafnan þar eftir með góðum huga og geði.

Á hverjum degi þessa mánaðartíma gengu daglega til mín upp á slotið þeir 3 frómu heiðursmenn, Jón Magnússon, Henrik Gíslason og Þorsteinn Magnússon, sem eg fyr nefnt hefi, mjer til huggunar, og með mjer jafnan samhörmuðu. En af því þeir fundu mig í hvert sinn heldur með gleði en fáleik nokkrum, hváryfir þeir sig næsta mjög forundruðu, eyddist og þverraði mjög þeirra hrygð, er þeir fyrir mig þunglega báru, og daglega ljetu peninga á víxl í millum strengsþáttanna, hvar eð knýttur var í það stampkorn er daglega til mín ofan seig með könnur og diska, er mín matmóðir daglega mjer þangað færði fulla matar og öls, og fleira fólk í borginni, sem mjer góðs árnuðu og untu, því eg fyrir sjerdeilis Guðs náð var heldur vel kyntur en hitt hjá mörgu góðu fólki innan borgar og utan; einnin ljós og annað fleira sem mig um nauðsynjaði; þar með og líka var mjer sent frá slotsherranum Keye Rantzov[1]) með hverjum tveim dægrum einn saltfiskur, brauðhnoða, bjórkanna og eitt stórt ljós, eftir skyldu við fangaða menn og gamallri laganna venju og tilskikkan. Hvorki var þar á nóttu nje degi myrkt. Eg ljet hverja nótt 5 ljós brenna í senn, en á daginn eitt, og aldrei var eg þar mannlaus utan eina nótt. Voru þar margir innsettir fyrir litlar sakir, bæði þeirra, sem voru þar innanlands og komnir voru bæði úr Jótlandi og Noregi og öðrum smærri umliggjandi löndum og hjeröðum. Einn maður, Jurgin að nafni, kominn úr Jótlandi, sá eð þjónað hafði lengstum herrafólki og nú var kominn í óvild síns herra, hann sat fulla viku í Bláturni, og hann gjörði mjer fulla skemtun með mörgum frásögum hvað í Jótlandi hafði merkilegast tilborið í bland eðla og óeðla karlmanna

---

[1]) Cai Rantzau af Rantzausholm (1591—1623). Um hann sjá Biogr. Lex.

og kvenna. Þessi kom uppá Bremerhólm í það fjölmenna og stóra fangelsi, sem fyr er umgetið, og var ályktað eftir vexti hans máls í 3 ár þar inniluktur vera skyldi, með því hans mál ekki framar með nýjum glæpum ykist, annars skyldi hans mál aftur að nýju trakterast, svo sem og hinna annara og eftir upphæð ályktast til lengri tíma. En vaktarinn var mjer svo elskulegur og eftirlátur og bað mig kveðja sig til í hvern stað eg hann senda vildi, og hjet mjer gjarnan það framkvæmast skyldi, er eg vildi umganga og útrjetta láta.

## XXVI. KAP.

Á það er nú að minnast hvað þeir frómu menn aðhöfðust nær þeir heyrðu hvað gilda skyldi, að þeir einn dag gengu til borgmeistaranna og yppurstu manna innanborgar og fengu þá til að ganga upp á týhúsið og gjöra alvarlega bæn fyrir mjer hjá yfirvöldum týhússins, og ef þeir fengi því ei orkað þeirra á meðal að eg laus yrði, kváðust þeir vilja mjer frelsi og lausn fá og útvega innan skamms hjá kónglegri tign. En er Grabov það heyrði og leit þá hina yppurstu í ráðast, sló hann uppá annan hátt efni sinnar meiningar, og sagði ei svo hart gilda skyldi, það væri gjört öðrum til viðvörunar og mína djörfung þar með að lægja, og leiddi þá af með góðyrðum og mildri ræðu svo ei skyldi fyrir kóng koma. Síðan gengu þeir heim í sín hús með gleði treystandi hans góðmælum.

Að mánuði liðnum gengu þessir þrír frómu heiðursmenn upp á slotið til mín eftir venju einn kvöldtíma að kunngjöra mjer hvað þeir heyrt hefðu að á morgni næstum skyldi upp á týhúsinu þing setjast og rjettargangur haldast um mitt málefni, biðjandi Guð með grátandi tárum að gefa mjer sigur og blessan, og að gjöra míns máls góða endalyktan

og kváðust mín vitja skyldu að morgni, ef Guð náð til gæfi og skildust svo við mig í það sinn. Nú hafði svo til fallið, að einn bóndi af nálægstu landsbygð, sem lá undir slotið, að nafni Lauritz var í Bláturn innsettur fyrir litla ávirðing, sem var þessháttar að honum skikkaðist á þriðjudag til slotsins nauðsynja eitt viðarhlass þangað að færa, en forsómaði og miðvikudaginn næstan eftir kom og var innsettur. Og með því þessi maður hafði áður sagt mjer sína drauma spurðí eg hann um morguninn hvað hann ætlaði um mína þessa dags velgengni, hvort hann hygði mig dæmast til lausnar eða lífláts, eða hvort eg mundi í Bláturn inn aftur settur verða. Maðurinn andsvaraði og sagði, að víst kæmi eg í Bláturn aftur, en ei líflјetist, heldur væri mjer lengra líf ætlað af Guði, því sig hefði dreymt um nóttina, að honum þótti eg standa í einum húsdyrum í borginni en hann ganga um strætið og eg kalla á hann og bjóða honum til mín og til góða gjöra, hvað og sannlega svo skeði.

Að morgni snemma nær klukkan var sex komu þessir 3 dánumenn upp í turninn og fjórir kaupmenn með þeim, sem var Hans Holst og Boye Lauritzson, kaupmenn[1]) hjeðan úr höfnum, item kaupmaðurinn af Akureyri, Hans Thorkelsson og kaupmaðurinn af Hofsós, Jost Losekyl, frómur og gamall og guðhræddur maður, og einnin mín matmóðir Birgitta Lauritzdóttir, sú eð bar mjer hrein klæði og fæðslu og flösku víns, hverju eg hafnaði að mestu. Þessir frómu menn aumkuðust yfir mjer stórlega, en eg bað þá ei hryggjast, því eg treysti Guði, hvað sem hann ljeti mjer tilfalla líf eður dauða, og þar með vissi eg mitt málefni vera ekki í slæmasta máta fyrir mannlegu áliti, en fyrir mínum Guði vissi eg mig margsekan vera, treystandi þó fullkomlega hans ilmandi náð í míns Jesú trúfasta endurlausnara lífkröftuga nafni, hvar fyrir eg gekk frímóðugur undir Guðs vilja og hvað sem uppá fjelli, og til þessa bað eg þá mína vitnismenn vera hingað til minna náunga.

---

[1]) þeirra Hans Holst, Joost Lossekull og Hans Therkelsen finst getið víða í Kjøbenhavns Diplomatarium. Sjá registrið þar.

Skömmu síðar kom prófoss með fjóra menn vopnaða af vaktinni frá týhússportinu, er þar daga og nætur varðhald höfðu, að sækja mig; svo fylgdust þessir þrír dánumenn, og þeir fjórir kaupmenn með uppá týhúsið, er fyrir bón höfðu orðlof fengið þangað að ganga uppá rjettarganginn að sjá og heyra. Og nær vjer komum að portinu tóku mínir sambræður fagnandi við mjer, en þó grátlega margur mig aumkaði, og leiddu mig í það vakthús, er við portið stóð innanvert í garðinum, í hverju vaktin hafði sitt venjulegt athvarf og umgengni. Þar inni brann kolaeldur í einni járnpönnu mjög víðri gamallri og þar til gjörðri, og þar við kolaglæður vermdi eg mig, þangað til prófoss sókti mig og hafði mig inn fyrir rjettinn.

Fyrst sátu þar innan vjebanda þau 5 yfirvöld, sem drotnuðu yfir kóngsins hertýgjahúsi og öllum byssuskyttum, sem þjónuðu undir því stranga kóngl. Maj:ts regímenti sem var 3½ hundrað fólks og fyr hefur nefnt verið. Af þessum 5 var Grabov ein aðalpersóna, þarnæst Christofor Sveink, týmeistarinn, síðan nokkuð minniháttar yfirvöld, Pjetur Falk, Henrich Hansson og Hans Búss. Sá eiginlegi týhússkrifari hjet Gottfred,[1]) ungur vænn og dægilegur maður. Þessi elskaði mig mjög, og vildi þennan dag ekki upp á týhúsið ganga, en kveðst sjúkdóm fengið hafa um nóttina fyrir; þetta skildi Grabov og kvað uppgerða sótt vera og lofaði að minnast skyldi, og úr því greri aldrei um heilt með þeim, þar til Gottfred fjekk vinsamlegt burtfararleyfi aldeilis. Nú bar svo við, að einn af byssuskyttunum að nafni Hans Mattheusson Lundur var tekinn í hans stað á þessum degi til skrifara. Þessi var og minn góður vinur, og í þau tvö ár, er eg var uppá Krónborg minn stallbróðir, og tilforna verið munsturskrifari og þjónað herrafólki. Þessum var skikkað af Grabov að uppskrifa allan málsvöxtinn okkar prófossins á millum og mín frá fyrsta til síðasta. Þessum þremur dánumönnum og fjórum kaup-

---

[1]) Gottfred Mikkelsen týhússkrifari 1618 til hjerumbil 1626. Um hann sjá Lind, bls 349.

mönnum var pláss tilskikkað að standa utan vjebanda og fólksins samansafnanar.

Og nær eg stje inn fyrir vjeböndin þá bað alt fólkið er í kring stóð með hárri raust að Guð vildi styrkja mig og góðan framgang veita mínu máli. Síðan varð skrifaranum bífalað að upplesa hvað hann hafði eftir prófossins fyrirsögn uppteiknað. Og nær hann svo las meðkendi eg ósannindi í mörgu fram koma, og fyrirbauð eg honum neitt ósatt uppá mig að skrifa. Hann afsakaði sig stórlega og bað mig sjer til góða að virða, þó hann yrði svo að skrifa sem sjer væri fyrirsagt. Grabov bað mig ei þar um sýsla, því hann kvaðst vita að prófoss mundi sönn rök færa og finna uppá sinn framburð og kærumál yfir mjer, hvar til hann skikkaði honum sín vitni að leiða og sinn framburð þar með kröftugri gjöra, hvað og skeði, að tveir menn af þeim fjórum, sem stóðu í Hólmsportinu daglega vakt og fyr var nefnt, hverra formann að hjet Pjetur Róð, einn frómur mann, sá eð kallaðist inn fyrir rjettinn, og annar að nafni Christofor skraddari. Þessir voru yfirstaddir okkar prófossins viðureign. Þessum tveimur var til eiðs haldið, með svo feldu inntaki, að þeir skyldu það eitt í dag um okkar viðureign bera, sem þeir sannast vissi og þeir vildu bíkendir verða fyrir Guði og mönnum, og til ályktunar sverja þeir bókareið. Síðan greindi Pjetur Róð og hinn annár hið rjettasta frá fyrsta til síðsta hvað við portin hafði við borið, svo að þessi þeirra vitnisburður var prófossins framburði gagnstæður.

Þar gjörðist mikill larmur í týhúsinu, því alt fólkið upphóf að lofa Guð fyrir mitt betra málefni en prófoss með minnilegri áklögun og haturlegum áaustri. Mínir frómu landsmenn þrír og þeir fjórir kaupmenn glöddust og hjervið hjartanlega. Síðan bað Grabov að gefa hljóð allan lýðinn; varð það lengi fyr en hljótt varð yfiralt. Óvart kom honum það að prófoss framburður mundi bregðast, en með því að svo skeði upphugsar hann ráð með hverju hann skuli kollkasta mjer. Og nær hljóð gafst útheimti hann 12 manna dóm af 6 arkelímeisturum, sem og kallast constabel, og 6

ársknektum eður landsknektum, þeir 6 menn þjónuðu uppá Kaupinhafnar sloti og hjeldu daglega vakt og á nætur bæði á slotsportinu og á slotsplássinu. Þessir tólf voru fyrst útkallaðir til þessa máls skoðunar og í dómssæti settir fullkomlegan dóm að uppsegja eftir artíkulanna hljóðan og á hvern veg sem málið rekjast kynni.

Þá stóð junkur Grabov upp af sínu sæti og kvaðst dóms krefjast yfir þeim mönnum, sem drukknir kæmi uppá sína vakt og hana þarmeð forsómuðu. Þá svaraði eg, að mjer hefði ei slíkt enn nú á hendur borist með sanngjarnlegu prófi, en eg lýsti undir heyrn allra þarverandi mig frá vaktinni með valdi og ofríki í það sinn hindraðan vera af prófossins eiginlegri hatursemi og þeirra annara, sem hann þar til styrkt og uppæst hefði, hverja Guð best sjálfur þekki. Þessi mín grátleg orð ljet Grabov sjer mislíka og bað mig munni halda. Týmeistarinn Christofor Sveink talaði ekki eitt einasta orð, heldur setti hönd við kinn sjer og bljes þungum anda.

Síðan gengu nefndir tólf menn utan vjebanda að forhöndla og traktera undir dóms aðkvæði þvílíkt málefni, er Grabov dóms á beiddist, og að því svo hugleiddu eftir artíkulanna hljóðan gengu þeir aftur innan vjebanda, og einn sá fyrir þeim var hjet Andrjes Holst, einn gamall maður, sá eð var hinn þrettándi þeirra tólf dómsmanna, þessi ljet í ljósi hvað þeim hefði ásamt komið eftir artíkulanna útvísan og forlagi junkursins Grabov, eftir hverju dómsatkvæði hann næsta langaði, sem var þessháttar, að þeir hefðu dæmt höfuð frá hálsi.

Allir menn í einu hljóði kváðu slíkt strangan úrskurð vera. Grabov ljet sem sjer stórum ægði, en þó af fláttskap meir en frómu geði. Í þetta sinn var mikill larmur í týhúsinu. Einn minn besti vin að nafni Jóhann Christiansson skaut til einu orði nær Grabov ljetst af klókskap spyrja að minni sakargift og svarað varð eg hefði drukkinn uppá vaktina komið og vaktina forsómað, því lagði Jóhann þetta til segjandi: »Og hann kom ekki að fylgja trumbunni í gegnum portin.« — Þá leit eg til hans og sagði:

»Nú brast ekki nema þitt tillag.« — Strax gekk hann burt og vildi gjarnan ei talað hafa, og þess oftlega síðan iðraðist og kvaðst óhugsað mælt hafa.

Nú sem málsklið fólksins sefaði svaraði eg þeim, sem dómsatkvæðið uppsagði að þeir skyldu sinn dóm hljóta að ábyrgjast og fyrir Guði reikningsskap afstanda verða. Grabov kvað mig þar litlu um varða. Þá svaraði sá frómi heiðursmann (góðrar minningar) Jón Magnússon og kvað sjer þætti þessi dómur harðla strangur vera, með því mjer hefði ekki borist sannar sakir á hendur, og sagðist hafa lesið garðsrjett og keisaralegan rjett, þarmeð dönsk og íslensk lög, og kvaðst ei betur vita en eg fullan rjett ætti að þeim sem mig röngu máli borið hefði, og á röngum framburði væri fallinn, og með svörnum vitnum þar útí augljós orðinn, Þá uppstóð Grabov með miklum móð og reiði við Jón Magnússon, og sagðist til þess eins hafa leyft honum og hans fylgjurum að ganga upp á týhúsrjettinn að styrkja lögmálið og hugleiða kóngl. mandater, artíkula og skikkanir, en ekki að mótmæla eður tröðkun gjöra. Hjer við blygðaðist Jón og hinir hans meðfylgjendur, sem von var í ókunnugum stað og dýrum, og kváðust ei annað mæla skyldu, en hvað tilheyrilegt og rjettvíst væri og sjer sómdi. Síðan bífalaði Grabov prófossinum Söfren Nibe að taka 4 menn vopnaða af vaktinni og að fylgja mjer uppá slotið aftur og í Bláturn innsetja, því mit mál dæmdist til kóngsins náðar og ónáðar, því þeir sögðust ekki kunna að leggja fullkomlegan dauðaúrskurð á mitt málefni, og ekki því dómsatkvæði samþykkir verða, sem Andrjes hafði fyrir utan þeirra viðurvist yfirvöldunum og öllum þar nærstöddum innan vjebanda upphátt framborið og uppsagt. Þá grjetu margir í týhúsinu og mínir frómu og elskulegu landsmenn með hinum sínum fylgjurum. Týmeistarinn Christofor Sveink talaði ekki eitt orð heldur grjet nær eg var á burt leiddur úr týhúsinu.

Eg gekk með góðri samvisku þaðan og kvaddi svo alla í einni summu með gráti. Og nær eg kom uppá slotið grjet Niels, turnvaktarinn yfir mjer, og bað mig ei sjer misvirða þó hann mig aftur í turninn innsetti. Eg bað hann ei

þarum fást og þakkaði eg honum fyrir kristilegt og bróðurlegt kært viðmót. Svo fann eg Lauritz bónda samt í turninum ófrelstan í það sinn, og kvað sinn draum að nokkru auglýstan vera, hvað eg sannaði, og segi til þyngri og hættari hluta horfa muni, en hann mótstóð þá meining, og kvað hitt sannast mundi án alls efa það eg lausn fengi og lífi hjeldi, og sagðist ætla, að enn meir mundi yfir mig flóa og lengra líf af Guði tilskikkað og fyrirhugað vera.

## XXVII. KAP.

Nú bar svo við þremur dögum síðar en þetta greint tilfjell að junkur Grabov ljet samankalla sína áðurnefnda 12 dómsmenn til að undirskrifa sinn dóm og innsigla, og taldi sjer góða von að dauðadómur fullkomlegur mundi skrifaður og innsiglaður verða, hverju þeir 6 ársknektar, er uppá slotinu þjentu, harðlega í gegn stóðu, neitandi því að mig til dauða dæmt hefðu, hvar af jókst kæla og óeining þeirra á milli, því þeir afneituðu með öllu þann dóm að dæma, samþykkja nje undirskrifa, að eg líf forbrotið hefði, og á því stóðu þeir fastlega. Adolph Grabov kvaðst skyldi nefna aðra 6 menn í þeirra stað af týhúsinu þeim til tráss, þeir eð skyldu mig líflausan dæma þó þeir vildu ekki Þeir kváðu honum það innan handar vera fyrir sjer, og gengu með bræði í burt úr skrifstofunni. En nær Adolph formerkti og sá þeirra einþykki, og leit þá óyfirvinnanlega sendi hann boð eftir þeim. Og nær þeir komu gjörðist sú samþykt þeirra á milli, að setjast skyldi alt málið inn fyrir kóng, og hvað hann ályktaði skyldi fullkomlega gilda. Svo hlaut alt prófossins haturlegt aðfylgi og atferð einnin þar jafnframt að innsetjast, þó Grabov því lengi mótstöðu veitti, og með þeim hætti varð dómurinn samsettur, undirskrifaður og sendur kónginum til Friderichs-

borgar, því einkum slotsins ársknektar ljetu sjer ei annað *líka en málefnið og röng áklögun prófossins fyrir rjetti og* dómi kæmi alt uppritað fyrir kóng.

Einn að nafni Michel af árskneklum, sem bjó í Víngarðsstræti, einn skraddari að handverki, minn góður og gamall kunningi, hvers eg áður hefi getið í þeim stað nær biskup af Bremen í Danmörk innkom, þessi gekk uppá slotið til mín seint um kvöld þess sama dags er þessi þráttan skeði í millum Grabov og hans kompána, og færði mjer þangað flösku af rínsku brennivíni, og sagði þá alla historíu í gegn, og hann gramdist yfir Grabovs harðýðgi, sem og bæði þeir helstu í borginni og mínir stallbræður, er undir regimentinu þjentu, með sjálfum yfirvöldunum týhússins, svo að allir forundruðu sig yfir hans þverlyndi, harðýðgi og hatursemi til mín. Síðan gekk Michel heim til síns herbergis gjörandi bæn og blessan yfir mjer.

Að þremur dögum liðnum snemma morguns kom frá týhúsinu upp í turninn til mín einn frómur maður og minn sjerdeilis góður vin Marteinn Holst að nafni,[1]) sem jafnlega við mig ljek sem móðir við sitt barn. Sá hafði verið hjer þrjá vetur eftirlegumaður fyrir norðan land, og á Eyrarbakka 1 ár. Þessi kvaðst sendur af týhúsinu með dóminn á kóngsfund til Friderichsborgar, og bað hann mig nú að biðjast fyrir til Guðs að sín reisa mætti vel lukkast, hvers eg af hjarta óskaði að ske mætti. Síðan kvaddi hann mig grátandi, steig á vagn, er stóð fyrir slotsportinu, og fór svo til Friderichsborgar.

Kóngur meðtók og yfirleit dóminn, og að öllu svo hugleiddu spyr kóngur að, hver þessi Jón væri, hvort sá eldri eður yngri þetta sje, en Marteinn sagði þann yngri vera. Kóngur mælti að sjer virtist prófossinn hafa meiri sök, og sagði Jón skyldi laus látast, »því ei vaxa,« sagði

---

[1]) Hans er getið í Kbh. Dipl. árið 1620 sem prófoss og öltappara; hann hefur, einsog sjá má á þessari frásögn, ekki veri orðinn prófoss þegar málið var fyrir, en orðið það rjett á eftir, þegar Söfren Nibe var settur af.

kóngur, »höfuð á kálstöngum á meðal vor.« Kóngur kvaðst þekkja mig vel, og eg hefði tvisvar með sjer innan skipsborða verið; þar með væri enginn Íslenskur nú utan eg undir regimentinu. En eitt járn skyldi eg bera til þess hann sjálfur kæmi, en prófoss skyldi afsettur verða.

Síðan tók Marteinn leyfi og kvaddi kóng virðuglega; ferðaðist svo hið greiðasta til Kaupinhafnar. Og næsta morgun eftir snemmindis kom Marteinn upp í Bláturn til mín, hrópandi ofan til mín spyrjandi hvort eg svæfi eða vekti. Síðan heilsaði mjer mjúklega. Sagðist eg þá nótt lítið eða ekkert sofið hafa, og spurði hann tíðinda. Hann ljet sem fátt vissi nýtt að segja, utan við ættum nú að skilja, og mjer tilsegðist af kónginum að segja veröldinni góðar nætur. Hjer við tók eg til að hryggjast. En strax sem hann það heyrði umskifti hann orði í munni og kvað sína gamanræðu verið hafa, og girnst að tilreyna hvernin mjer við yrði, og bað mig einkanlega sjer til góða að halda, þó hann af okkar kunningsskap svo gjört hefði; kvaðst nú fagna yfir minni lausn framar en sagt gæti og bað Guð sjer lofaðan gefa, að sjer veitst hefði þá gleðifregn mjer að færa.

Síðan kom prófoss með sína fjóra vopnaða stríðsmenn af varðhaldsmönnum týhússins að sækja mig. Og nær eg kom uppá týhúsið fögnuðu mínir sambræður minni þarkomu. Síðan varð eg í skrifstofuna kallaður, hvar inni sátu öll týhússins yfirvöld og 12 arkelímeistarar, og báðu mig allir velkominn vera, utan Adolph Grabov, hver eð hóf orð á þann veg: »Nú ertu, Jón Ólafsson, aftur hingað kominn með lífi, hvað eg ætlaði síst verða mundi.« — Eg svaraði: »Guð er mönnum meiri.« — Þá svaraði Grabov: »Samt hefir kóngurinn gefið mjer vald til að láta þig bera eitt járn þangað til hann kemur, en ef eg hefði mátt um ráða, skyldir þú hafa komið í það stóra fangelsi á Bremerhólmi, eftir því að þú hjelst lífinu.« — Þá svaraði eg: »Hver er sú mín verðskuldan við yður að eg skuli slíkri heift og hatri mæta? En tíðum hafa þau orð sannast, að sá öðrum gröf græfi án stórsaka hafi sjálfur í slysast.« — Hann spyr hvort eg óski sjer ófara? — Eg segi það ei vera, þó eg

gömlum orðskvið offri, en eitt sje það eg sannast viti og sjái í þessu efni, og eg meini hann muni ei reiðst geta, að eg eigi meir Guðs náð og kóngsins að þakka og eigna í minni lífgjöf, heldur en hans góðum ásetningi, viðleitni og orkan. Þá brosaði týmeistarinn Christofor Sveink. Grabov segir lítt sje minn móður lægður enn að svo gjörðu. — Týmeistarinn kvað svo búið nægja, stóð upp hastarlega og gekk út.

Síðan befalaði Grabov prófossinum að fylgja mjer uppá Hólminn til m[eistara] Andrjes,[1]) sá eð var kóngsins forsmiður, og skikkaði honum að festa um háls mjer einn járnhring á utanverðum klæðum, sem við fleiri gjört var, og uppúr honum við hnakkann var ein þunn járnbugða, í hverri að svo stór klukka hjekk, sem stórhentur maður hendi sjer hylja mátti. Og nær meistari Andrjes þennan boðskap fjekk og eg stóð frammi fyrir honum í hans stofu á Bremerhólmi, — sú var næsta prýðileg og velluktandi — gramdist hann stórlega Grabov og hans hvatskeytlegri orðsending, og kvað hann mætti vera sjer út um annan böðul eður hentugri svein en sig, því hann vildi ei fyrir Grabov til vinna sjer að baka neins manns óþokka að þarflausu. En af því eg óttaðist Grabov mjög og hans heiftarlegt tilræði, því eg vissi ei hver verða kynni, þá bað eg M. Andrjes innilega, að svo mætti ske sem Grabov hafði um mælt, og eg þess heldur með góðu en illu minnast og aldrei þar fyrir á honum nokkra misþykkju hafa, og svo fyrir mína bón ljet hann sig þar til neyða, og gaf mjer góðan víndrykk af sinni krús fyr en eg burtgekk. Líka gjörði hann prófoss fortölur fyrir tilefni okkar viðskifta, og var mjer í mörgu meðmæltur. Síðan gengum vjer þaðan og á veginum að portunum mættum vjer aðmírál yfir Bremerhólmi Steini Vilhjálmssyni,[2]) og sjer hverju skarti

---

[1]) Anders Bentsvinger var yfirsmiður á Hólminum 1591—1625. Sjá um hann Lind, bls. 359.

[2]) Sten Villumsen Rosenvinge, var yfirmaður Hólmsins 1613—1630. Um hann sjá Lind, bls. 73, og Biogr. Lex.

eg er með prýddur og brosar við, ekki yfir minni vansemd, heldur yfir Grabov og hans hatri við mig, og segist merkja Adolphs litla elsku til mín, og segir Grabov skammar maklegan fyrir það, að hann hafi ranglega seilst til sín og inn í sitt embætti, í því að hann hafi dæmt um það mál við týhúsið, sem sjer hafi tilheyrt á Bremerhólmi um að dæma, að sækja og svo kvitt að gefa, og hefði jeg sent sjer skilvís boð þá skyldi hann mig strax liðugan gjört hafa, og lofaði að Grabov skyldi eiga fullkomlegt lagaávarp hjá sjer þar fyrir áður en alt um þryti, og segir að Grabov eigi ekki neitt með þá sem kóngsins flota vakta skyldi, og þar sem Grabov hefði án kóngs befalningar það járn upp á mig setja látið sagðist hann strax skyldi láta burttaka. Síðan skildum vjer og gekk hann upp á Hólminn en vjer upp á týhúsið.

Grabov þóttist eiga happi að hrósa að honum gafst makt svo við mig höndla, og forbauð mjer út af týhússins portum að ganga fyr en kóngur kæmi, og var mjer þá af honum tilskikkað uppá einum hvelfing eður háum steinsal einmana næturstað að hafa, og voru mín sængurklæði þangað höfð. Grabov skikkaði mjer klukkunni jafnlega að hringja, annars hjet hann mjer meiri harmkvælum, en týmeistarinn og hinir þrír, er mjer jafnan góðs untu, sögðu mjer í hljóði að eg það ei gjöra skyldi, heldur hitt, honum til tráss og móðs klukkuna með hamp tilstappa, hvað og skeði, svo hann oftlega þaraf fyltist heift og bræði, en af því allir hjeldu með mjer skeytti eg honum að litlu, og þess lengur sem leið þess djarfari gjörðist eg honum í gegn bæði í orðum og atvikum, svo hann um síðir þreytti nokkra aðfinni við mig á loft að bera.

Þeim járnsmið, sem þjenti upp á týhúsinu að smíða allrahanda er við þurfti, var eg fenginn til erfiðis, hverjum eg vel þóknaðist og minn góður vin gjörðist. Var eg nærri í mánuð uppá týhúsinu, svo að mig minnir, að þessi mín rauna og fangelsisdægur, er eg í þremur stöðum úthjelt, reiknuðust 9 eða 10 vikna tími alls og alls. Oft bar það við í þann mánuð, er eg á týhúsinu var inniluktur, að frómt

fólk af mínum kunningjum sendi tvisvar og þrisvar í hverri viku mjer uppheittan mat vel tilreiddan, þar með vín og öl með sínum þjónustusveinum og meyjum. Þessi kærleiksverk og kristilega náungasemi var ekki sístur sá frómi mann Söfren Villatsson skraddari bæði með vilja og verki að auglýsa þann tíma sem endrarnær; sá mátti reiknast faðir allra Íslenskra þeirra er höfðu veru og vist innan Kaupinhafnar porta, og hans góðmannlega leituðu, hvers nafn og minning ekki ætti af mjer gleymt verða, svo lengi sem eg fyrir náð Drottins hjer í veröld til endist.

## XXVIII. KAP.

Og nær eg í þrjár nætur hafði uppá týhúsinu um þennan tíma míns fangelsis verið þá kom þar einn turnsmiðsmeistarasveinn að nafni Zacharias, skertur nokkuð að viti, uppá týhúsið, að hverjum bífalað varð varðhaldsmönnum týhússins trúlega að gæta. Þessi maður var gæddur mjög með andlegri og veraldlegri visku og skörpum skilningi. Hans meistari bjó í Helsingeyri. Svo hafði skeð fyrir liðnum tíma að kóngurinn hafði sent honum boð, og á blað uppritað eitt mjög fábreytt turnsmíði, á þann hátt þar sem þúsund manns upp gengi í turninn skyldi ekki sjást nema einn í senn uppstíga. Þar með hafði kóngur ásett tíma nær ferðugur og búinn skyldi. Þetta kóngsins uppáfundið og tilsagt smíði fjell þessum turnsmið harðla þungt, og fjekk fáleika svo glögglega merkja mátti. Einn dag í heimuglegum stað finnur hann þennan áðurnefnda Zacharias, sinn meistarasvein, og biður hann um aðstoð og góð ráð, svo hann verði ei sneyptur fyrir vansemdar sakir, ef svo til fjelli, sem hann þóktist glögglega fyrir sjá, ef sjer legðist ekki hjálp og góð ráð af hans hendi, en bað hann þó dult með fara, og hjet honum án síns daglegs verðkaups góðum launum að gjörning framkvæmdum. Zacharias upphóf

að viðleita og speculera uppá greint smíði, svo að verkið vel til gekk og til lykta fram leiddist, svo að kóngi vel geðjaðist, hvað meistarinn alt sjer og sinni ment tillagði. En að nokkrum tíma liðnum kveiktist rómur í borginni þessháttar að Zacharias hans þjenari mundi meistaranum hafa drjúgari orðið í greindu smíði, hvaraf hann fjekk hatur til þjenarans, og meinti hann vera orsök til þvílíks ryktis, hvað þó ei sannaðist. Skömmu seinna fann Zacharias missmíði á högum sínum og hjelt hann það að hann hefði sjer með göldrum það gjöra látið, en með því mönnum leitst hans orð af brjáluðu sinni og þau komu ekki fyrir yfirvöldin, þar fyrir talaðist þar ei framar um af hans hendi. Var það í hálft ár hann bar þennan veikleika og batnaði vel síðan. Þessi maður var einn frómur maður og guðhræddur eftir mínu veiklegu áliti, og merkja mátti millum áhlaupa og þungra freistingahríða. Þessum skikkaðist rúmstaður á þeim hvelfing eður steinsal, sem eg hvíldist, og var við höfnina og fyrsta innhlaupið, í hverri að lágu 11 af þeim smæstu kóngsins stríðsskipum, á hverjum vakt var haldin nætur og daga, sem þau hvern vetur þar inni lágu. Zacharias hafði bækur hjá sjer í hverjum hann daglega las þess á milli hann freistaðist, en í mestu áhlaupum fleygði hann þeim af hendi og bar til hann guðlastaði, hvers hann seinna sárlega iðraðist. Í hans stóru árásum máttu engir hann snerta utan eg alleina, svo eg tók hann þrátt með mestri hörku og dirfsku nauðugan í mitt fang og bar hann til rúms, og lagði mig svo flatan yfir hann með góðum fortölum og hörku aðfylgi. Stundum sló hann mig og hrækti í mína ásjónu, hvað eg leið með þolinmæði, utan hvað eg með hastyrðum og andlegri vandlætingu fyrir Guðs anda upplýsingu kastaði þrátt djöflinum fyrir nasir sína andlega skömm og vanvirðu æfinlega og ofbjóðlega harðýðgi, er hann ljeti í ljósi við Guðs börn, þegar Guð svo leyfði. Oft þakkaði hann Guði og mjer með grátandi tárum og bað mig auðmjúklega fyrirgefningar. Canceleranum og slotsherranum hafði hann fyr en þar kom með þunglegum orðum grimmlega tiltalað. Síðan kom Guð með sitt hjálpræði

honum til liðs og góða, svo að hann komst til þess embættis er hans meistari skömmu síðar frá deyði, og varð eiginmaður hans kvinnu, og lýkur því máli á þann veg sem nú er greint.

Nú er þar til máls að víkja að í Aprílismánuði sem var eftir páska að kóng Christián kom með veglegu föruneyti upp á Kaupinhafnar slot og samdægris til týhússins, hvar um þangað boðskapur barst fyr en skeði. Týmeistarinn kom í smiðjuna mjer þetta að undirvísa af góðmensku sinni, og segir eg skuli nú í dag láta mína klukku hringja í kóngsins nálægð, og ráðleggur mjer að eg skuli mig auðmjúkan auðsýna og til kóngsins djarflega tala, en þó með allra mesta auðmýktarhætti. Hann lofar hið mildasta tilleggja ef nálægt stæði.

Nú rennur rakki kóngs eftir venju undan honum hvert sem kóngur ásetti sjer að ganga, svo hann varð oft þægileg viðvörun mörgum, svo að kóngur kom ei óvarlega tíðast. Eitt hús innan múra stóð við smiðjuhúsið, sem nefndist verkstaður. Þeir sem voru nefndir kóngsins fýrverparar,[1]) sem voru ungir menn af byssuskyttunum, þeir þjónuðu þar inni uppá fýrverkið, er eg fyr um talað hefi. Þangað plagaði kóngur ávalt að ganga nær hann kom til týhússins, svo sem nú og einnin viðbar. Með honum gekk prinsinn s[álugi] og hinir tveir hans synir, hertug Friderich og hertug Uldrich, þar með cancelerinn Jacob Ulfeld[2]) og slotsherrann Keye Rantzau með þeim fleirum þjónustusveinum og hofjunkum er með fylgdust.

Og nær kóngurinn af dyrunum inn stje stóð eg við belginn að blása, og í því af ljet er hann gekk nær. Þá segir kóngur: »Hver hefir þig Jón svo prýtt og tilsett?« — Þá fjell eg niður á mitt annað hnje og bað kónginn náðugan

---

[1]) á dönsku Fyrværper eða Fyrværker; þeir voru næstir fyrir ofan byssuskyttur í fallbyssuliðinu, og urðu menn að standast próf til þess að komast í þá tign; sbr. Blom, Chr. IV.s Art. bls. 22.

[2]) Jacob Ulfeldt (1567—1630) varð ríkiskanslari 1609. Um hann sjá Biogr. Lex.

álíta yfir mjer fátækum og framandi. — Hann gekk svo fram betur að smiðnum, og horfði á hann það hann var að smíða. Og með því kóngur þagði gjörðu og slíkt hið sama allir hans meðfylgjarar. Nú stóð Grabov á bak til við kóng og hugsaði hann skyldi nú nálægt til andsvara ef með þyrfti. Þá lítur kóngur til Adolphs og segir: »Er það Jón, sem vaktina hefir forsómað?« Grabov svarar strax já. — Eg svaraði: „Náðugi herra! Eg bið yðar kónglega Majestat náðuglega að virðast að heyra mitt eitt orð.« — Kóngur svarar: »Svo tala hvað þú mátt með æru gjöra.« — Eg lýsi prófossins hatur og ofríki í það sinn við mig framkomið hafa, hvar með eg hindraðist mína vakt að standa, og þar með hans ranga ákæru fyrir dómi. — Grabov svarar: »Haltu þínum munni!« — Kóngur þagnaði við um stund, og allir þeir umkring stóðu. Síðan leit kóngur mjög hastarlega til Grabov og sagði: »Láttu hann verða lausan af sínu járni og fangelsi nú rjett strax, svo hann sje frí!« — Síðan segir hann til mín: »Sjá þig vel umkring framvegis, kæri Jón!« Eg bað grátandi Guð honum umbuna með tímanlegri og eilífri blessan. Kóngur sagði til Jacobs Ulfelds og hinna er þar umkring stóðu: »Þessi er einn Íslendingur, einn fallegur ungur maður, og hefir verið í tvær reisur innan skipsborða með oss, og þóknaðist oss vel hans umgengni, og eru hjer nú ekki fleiri undir regimentinu en hann einn. — En sá prófoss skal afsetjast, og bæri að hafa skömm í þökk.« — Fyrirbauð honum að bera stjórnarsprotann framar meir. Grabov vogaði ekki eitt orð að tala.

Kóngur skipaði smiðnum, sá eð hjet Hans Vestfoling, að taka járnið af mjer, hvar honum varð mikið fyrir að ná því með þjöl, því þar var hnoðinn nagli í þar sem hálsbryggjan var samanlukt. Kóngur gekk í verkstaðinn, þar sem fýrverkið inni handtjeraðist. Og nær hann gekk fram um aftur spurði hann hvort smiðurinn væri ekki búinn. En hinn kvað mikið að gjört vera. Kóngur skipaði honum hraða sjer og enga dvöl á gjöra.

Kóngur gekk burt og út í forgarð týhússins, og gekk að skoða eina bómu tveggja eða þriggja feðminga þykkva,

er hann hafði til hafnarþröskulds þar við týhúsið gjöra látið, er svo var stór og þung að hundrað menn höfðu nóg af, ef úr stað hræra skyldu. En svo var henni háttað að einn maður gat við hana vel ráðið nær hún skyldi fram á sjóinn af landi rennast, sem gjört var hvert kvöld, að henni var yfir um höfnina af landi skotið, og var gjört með einni vindu, og eins var hafnar-vængjahurðinni með sama hætti aftur lukt hvert kvöld.

Nú sem kóngur var að skoða þessa bómu þá kemur týmeistarinn hvatlega og með grimmri reiði í smiðjuna gangandi og útdregur sitt sverð, er við hans síðu hjekk, og segist skuli smiðinn heilahöggva, ef hann ekki með fljótasta og kostgæfilegasta hætti sem fyrst mig af járninu losi, og bölvaði með reiðasta hætti junkur Grabov fyrir þrásamlegt hatur og ilskufult umsátur í gegn mjer, hvað hann nú auðsýni úti, þar hann sje nú að klaga mig fyrir kónglegri tign, að eg sje sjer of stórbrotinn, og bað kónginn að hann mætti fá því ráðið að halda mjer undir þvingan eitt hálft ár uppá týhúsinu, en sagði kóngur hefði engu tilansað.

Síðan varð eg laus af mínu fangelsi. Þá skipaði týmeistarinn mjer að ganga strax burt af týhúsinu, og heim í mitt herbergi, sem var upp í Austurstræti, og ekki í fullar 6 vikur aftur koma. Hann kvaðst skyldi það forsvara Eg þakkaði honum auðmjúklega fyrir sína kærlega og kristilega meðaumkan og góðar tillögur. Síðan kvaddi eg smiðinn og þakkaði honum fyrir alt vel gjört, og hann grjet sem barn, og kvaðst engan slíkan mundi fá af öllum, er sjer af byssuskyttum skikkaðir yrðu.

Svo gekk eg til portsins og vildi út ganga. Satt var það, að vaktarinn og alt fólkið gladdist yfir minni lausn og frelsan, en samt bar svo til, að nær eg vildi út ganga varð mjer því hamlað, því þeir sögðu sjer það af Grabov fyrirboðið vera, og báðu mig sjer það fyrirgefa. Eg setti mig niður á vaktbekkinn og grjet beisklega, og hugsaði eg þá til Davíðs og Sáls. — Í því kom týmeistarinn hvatlega gangandi, og þangað sem eg sat, og spyr hvað því valdi að eg

þar sitji og gráti. Eg segi sem til gekk. Hann þrífur karsklega til mín og skipar mjer út að ganga, og segir ef nokkur sje svo djarfur að vilji mjer hamla út að ganga skuli hann þar til dauðs höggva með sínu eigin sverði, á hverju hann hjelt dregnu sjer í hendi. Síðan gekk eg frjáls fyrir hverjum manni í burt þaðan. En mikið fúss varð síðan að mjer burtgengnum með Grabov og týmeistaranum, svo týmeistarinn bauð honum til einvígis, en Grabov þorði það ekki, því týmeistarinn var hinn besti einvígismaður, og til margra lista og íþrótta lagaður. Og nær eg kom í borgina fögnuðu mjer allir mínir kunningjar og landsmenn.

## XXIX. KAP.

*Hjer talast með styttsta hætti hvernin skömmum tíma síðar en þetta áðurgreint við bar að um ventist lukkan fyrir Grabov, sem tíðum þá hendir, er öðrum gröf grafa, en svo að glöggvara skiljist þá hlýtur allan tilrekstur að greina, sem að málinu hnígur, er svo byrjast sem eftir fylgir.*

Einn af vorum samþjónum upp á týhúsinu Söfren Andrjesson að nafni, sá eð var mjög á aldur kominn og einn frómur og kyrlátur maður, hafandi góða formegan mörgum af oss til framar, átti sjer eina fríða miðaldra kvinnu Mettu eða Matthildi að nafni, og við henni tvo syni, Rasmus og Andrjes, þeir eð siglt höfðu að Spania, fallegir ungir menn. Þessi Metta var vel kynt, bæði hjá herrafólki, borgurum og bændum, og ljetst læknisdóm með fara, sem var þeir sem höfðu móðsótt, mældi þá með bandi, signingum og pári svo þeim batnaði; item við kveisu og köldu ljetst ráð kunna, og þáði peninga fyrir af bændum;

item ljetst kunna ráð við óþerrum og þáði peninga, hvar fyrir klögun kom af hendi bænda að fyrir slíkt gigleri og fagurmæli hefði gint peninga af mörgum. Þetta spyrst uppá Kaupinhafnarslot, og lætur slotsherrans frú senda eftir henni að hún fyndi sig, með slotsherrans ráði, og lætst segja henni í einmælum að hún hafi mist eina silfurkönnu, og biður hana því til leiðar koma, að hún fengi að vita hver hana tekið hefði, og gaf henni vín að drekka og hjet stórum launum að öllu framkvæmdu. En þó hún lengi undan færðist var fyrir vináttu og skenkinga sakir að hún lofaði henni á næsta morgni aftur að koma og nokkra úrlausn gjöra hennar ósk. Nú kom hún að morgni, og segir frúnni, að hún megi leita að könnunni hjá sinni þjónustupíku, sem hún nafnnefndi. En slotsherrann stóð fyrir framan herbergisdyrnar er þær voru inni, og varð hún þar handtekin og í fangelsi sett hjá slúttaranum, það er sá sem innilykur og út sjer hvern fanga, bæði þá sem sitja í ráðhúskjallara og heima hjá honum sjálfum, upp á lífs eður lima straff. Oftlega varð hún sett upp á pínubekkinn uppá ráðhúsinu og vildi aldrei neitt annað meðkenna en sem greint er, og kvað það sæmra að pína þær og písla sem með eitri fyrirfæri mönnum sínum eður sínum ektamanni. En þeir eftirleituðu af kappi. En hún upphóf á þann hátt, að kona ein í Stærra Ferjustræti, Anna kvinna Pjeturs Holstis, hefði beðið sig vinsamlega að kaupa sjer þá eitran sem nægðist einum til líftjóns, því Grabov hefði sig innilega beðið áður en hann hefði ferðast heiman, að fyrirfara manni sínum, sá eð var mjög aldraður maður og hjet Pjetur Holst.[1]) Hann hafði verið kóng Friderichs og kóng Christiáns kaptugi, frómur maður og guðhræddur og góður í áliti, og nær hann gekk út af húsinu að spátsera til góðra vina eður til strandar

---

[1]) Peter Asmussen Vejle eða Holst; um hann sjá Lind, bls. 138—139. Hann dó 15. Nóv. 1620. Þá var Cai Rantzau ekki lengur slotsherra, heldur Chr. Friis kanslari (frá 6. Júní 1620); kona hans var Barbara Wittrup. RC.

að skemta sjer þá gekk hann við tapar[1]), svo sem borgmeistarar og aðrir embættismenn plöguðu að gjöra. Kóng Friderich hafði tileinkað honum hundrað dali árlega til uppheldis alla hans lífstíð, hvað honum heim fluttist í nautum og sauðum og svínum og öðru þessháttar hvert haust fyrir hans húsdyr. Þessum sínum fróma ektamanni hafði hún tilreitt einn sængurstað upp á lofti síns húss fyrir mörgum árum. Í þessu sama húsi hafði Grabov haft herbergi í 10 ár fyr en nú svo við bar.

Nú víkur þangað aftur sem áðurnefnd Metta offrar þessu máli fyrir borgmeisturum og ráðsherrum staðarins, að Anna hafi sig hjer um beðið og heitið sjer stórlaunum þar fyrir og bruggaði fyrir sig svo nægði, því hún þyrði ekki annað, því hann hefði afneitað sjer elsku, yndi og kærleika utan svo fjelli að hann væri í burt nær heim aftur kæmi, sem þá var burtreistur í land Holsten til foreldra sinna, og hafði með vilja svo til ætlað, að hann skyldi eí þá heima vera nær svo skeði. Hún kvaðst bruggan til slíks afneitað hafa, en sagðist þó hafa breisk orðið fyrir hennar langgæðan bænastað að kaupa fyrir hana þvílíka eitran, er nefndum manni hefði til lífláts orðið, en hefði honum hvorki bruggað nje borið. Þetta var uppskrifað en ei uppborið, heldur leynt til þess Grabov kom heim. En þessi Metta var líflátin upp á Gamaltorg, er svo kallast, fyrir austan ráðhúsið, á venjulegu plássi til aftöku.

Nú er þar frá að segja, að um kvöld það, sem Grabov var kominn heim, þá var vaktmeistarinn Söfren Trafn með allri skarvaktinni 32 mönnum, þangað sendur, nær alt fólk var í svefn komið, og börðu þar að dyrum. Grabov átti sjer vini marga, og sögðu honum þá heim kom hver kvittur á var kominn, þó hljótt gengi í borginni, hvar fyrir hann mætti sjer vara taka. Nú klæddist Grabov með

---

[1]) Próf. Björn M. Ólsen hefur bent mjer á að þetta muni vera sama og enska orðið *taper*, kerti, og er þá líkl. hjer átt við einskonar blys (vaxblys?). Í dönsku er til „Tabersvend", blysberi (Kalkars Ordbog over det ældre d. Sprog).

hast og gengur til anddyra, og spyr hverjir á knýi. En vaktmeistarinn segir að góðir vinir á knýi, hverja Grabov biður um nótt heim ganga, en nær dagur sje megi þeir aftur koma. Vaktmeistarinn hótar hurðbroti, ef ei væri upplokið. Grabov biður um frest meðan ljós kveikist, og gengur nú í stofu, tendrar ljós, og með hast stingur henni í stóra kistu, lýkur og lætur klæðispjanka yfir til hylmingar. Nú gengur hann til dyra, og spyr þá við hvern þeir erindi eigi. Vaktmeistarinn segir þeir eigi erindi við þá konu er hjer búi. Grabov segir hún hafi um kvöldið út gengið til góðra vina, en viti þó ei hvert. Hinn biður hann samt upp ljúka, sem hann og gjörði. Og nær að þeim inngengnum og um stofur og loft athugað höfðu og eftir leitað og ei fundið hótuðust þeir við alt upp að brjóta, kistur og skríni, skápa og hvað annað, sem í vegi stæði og grunsemd gæfi um hylming konunnar, en Grabov með góðyrðum aftraði þeim það að gjöra og gaf stikpeninga, og varð hönd að rjetta um ábyrgð og borgun í konunni til næsta morguns. Síðan gengu þeir þaðan, og að morgni næstum sendust Grabov boð af borgmeisturum, að hann án dvalar kæmi uppá ráðhúsið. Og nær svo skeði sögðu þeir honum best að gjöra sín handsöl laus um borgun hans húsmóður Önnu, sem manni sínum hefði með eitran fyrirfarið, og sögðust meina svo máli og efnum varið að sjálfur hann mundi fullnóg hafa að umsýsla sína sjálfs nauðsyn fyr en lokið væri því efni, hvar við honum brá næsta þunglega. En nær og á meðan þetta þeirra samtal yfir stóð voru tveir menn sendir frómir og erlegir frá borgmeisturum með járn fóta og handa til Önnu, hana þar í að setja og varðhald á henni að hafa. Og nær þeir komu í hennar hús og hún lá í sínum klæðum í sinni sæng, og hún varð vör við járnin brá henni lítt við, og spyr hvað þau járn skyldu merkja. En þeir segja alt sem komið var. Hún segir að ei þurfi slíks við, því Grabov sje sinn borgunarmaður. En þeir sögðu því öllu upp brugðið. Og nær sem hún það heyrði greip hún í sinn vasa og tók þar upp af tvo silfurbúna hnífa, sem Grabov átti, og með öðrum þeirra gegnstakk hún sig nálægt

hjartanu og kastaði til dyra með ósk þeirri, að hann og stæði í hans hjarta. Strax óskaði hún prestsins. Svo kom M. Nikulás sóknarherra til St. Nikuláskirkju til hennar,[1]) og játaði fyrir honum sinn þunga misgjörning, að hún í 9 ár hefði flekkað sinn ektaskap í vondri sambúð með Grabov, tvö börn aflað, en forsómað löglegar samvistir með sínum ektamanni, til hvers misgjörnings að hún lýsti Grabov fyrst og fult tilefni vera, og þar til hans vond áeggjan, áður en heiman hefði farið, að gefa manni sínum inn forgift til fullkomlegs liftjóns, hvarúti hún væri fundin sönn að sök, og hún hefði fengið fóstru sinna barna þann eiturdrykk í venjulegri könnu upp að bera, sem plagast hvert kvöld honum til nætursvölunar. Og með því hana með gráti svo mjög angraði hennar misgjörð og girntist huggun af Guðs orði þá í sinni dauðans neyð af prestinum, þá ljet hann henni það í tje með heilagri aflausn og sakramentismeðtekningu, og dó síðan. En fóstran varð í fangelsi innsett og varð lífið að missa, þó hún byði þar upp á sinn eið, að hún hefði þar ei afvitað að honum með þeim hefði eitran borist. Lík þessarar kvinnu, Pjetur Holstis Önnu stóð ógreftrað fyrir ofan jörð í 13 vikur, og var haft út á Nýkirkjugarð, sem var fyrir utan Norðurport staðarins, og stóð þar í tveimur kistum á líkbörum undir einu skúri. Margur lá fram á hennar kistu, svo eg sem fleiri, og drukkum þar við margan pott öls á sunnudögum, nær vjer þangað spátseruðum. En það hennar lík svo lengi ógreftrað stóð fyrir ofan jörð skeði fyrir þesskonar orsakir sem hjer eftir segist.

---

[1]) Af því enginn prestur við St. Nikuláskirkjuna heitir svo á þeim tímum, geta RC til að það hafi verið Niels Mikkelsen Aalborg (1562—1645) prestur við Hólmskirkjuna 1617—1639.

## XXX. KAP.

Og nær sem þetta skelfilega verk var yfirstaðið, að þessi Anna hafði sig sjálf aflífað og áður lýsti Grabov sjer jafnsekan í þvílíkum glæp vera sem fyr er getið, jafnskjótt spratt þessi sögn fyrir kóng og var Grabov strax fyrir kóng kallaður og skyldi senn í Bláturn setjast. En í þann tíma voru í Kaupinhafn margar aðalpersónur nýlega aðkomnar, til hverra hann sendi hastarlega, og fyrir þeirra bænastað fjekk þá náð, að 12 menn, 6 af aðli og 6 borgarar, skyldu ganga í borgun fyrir hann, að hann ei umhlypist til þess að herradagur var upp á Kaupinhafnarsloti nærri miðju sumri haldinn. Kóngur vildi strax hann rjetta láta, og kvað þó hundrað líf hefði að öllum tortímt hefði, og þessvegna skyldi hennar lík ei fyrri greftrast en hans lík með hennar í sömu gröf kæmi, og ei meintu menn annað en svo mundi tilfalla. En nær herradagur var haldinn þá báðu allir fyrir og um Barabbam eður Grabov, að hann laus gæfist, af þeim danska aðli, er svo frekt í því efni gengu á kóng, að hann varð þvert sinni vild í móti láta svo vera sem þeir með sínum frúm og dætrum um báðu, svo Grabov laus gjörðist, hvers máls ábyrgð hann lagði þeim á hendur og herðar fyrir Guði. En fyrir það hennar lík varð grafið kom hennar bróðir úr landi Holsten, sá eð Marteinn hjet, og gaf út 300 dali að hennar líkami mætti grafast innangarðs í kristinna manna reit, og fjekk ekki nema til hálfs.

Fimm menn mistu sitt líf fyrir þeirra glæps sakir; fyrst ein fróm vefarakvinna, sem hjet Elísabet í sama stræti, er fyrst af öllum gaf sig upp um þeirra samanlifnað, og sagðist ugga fyrir þungu straffi þeirra, er þar inni bjuggu vegna þessara tveggja persóna, Grabovs og Önnu, er svo athugalaust lifðu í sínum skelfilegum glæp og vondri breytni við þann fróma og gamla mann Pjetur Holst, er nærðist

af þeirra diskaleifum. Þetta hnjóð og konunnar umtal og vandlætingarorð spurðist til Grabovs herbergis, og keyptu tvö drengmenni til að gjöra skelfing konunni, þeir eð stóðu undir hennar húss vindaugum, og um kvöldið, sem hún settist til borðs hjá manni sínum, þá gáfu þeir upp svo grimdarleg hljóð sem flögð eður skrímsl verið hefði. En komið var nálægt hennar barnburðartíma, og nær hún þessi hljóð heyrði fjell hún strax dauð niður. Þessir drengir flúðu. — Sá annar er sitt líf ljet var sá frómi gamli mann. — 3. var Anna hans kvinna, er sig sjálf lífljet. — Sú fjórða var Metta, sem hálshöggvin var fyrir það hún eitranina í krambúðinni keypti. — Sú fimta var sú einfalda og fróma fóstra, er drykkinn upp bar til mannsins sængur, sú eð og Anna hjet, ein dægileg persóna, yfir hverja öll borgin nálega sig aumkvaði sárlega, og veit eg hún var kölluð fjórum sinnum fyrir rjettinn, og stóð það yfir í hálft ár fyr en varð rjettuð, hver að vottaði sitt sakleysi til Drottins. Lýkur hjer um framar að tala, utan Grabov hjelt samt lífinu og varð enn settur yfir byssuskytturnar, þó þeim ei vel líkaði, en þó með því skilyrði, að hann friðsamlega við hvern mann höndlaði, en ef öðruvísi reyndist skyldi annað pláss því óhentugra fá.

Og liðu nú svo stundir fram þar til kóngur lætur oss tilsegja með prófoss, sá eð var Marteinn Holst og í hins stað var nýlega kominn, á einum sunnudegi að vjer allir byssuskyttur skyldum að næsta morgni komnir vera til eins slots upp í landinu er lá 2 mílur frá Kaupinhafn er Ifstrup[1]) hjet, nær klukkan var 6, það er miður morgun hjá oss, og urðum vjer um nóttina á ferð að vera flestir af oss. Henrich hjet sá maður, er eg með fylgdist um nóttina, og komum við á þann veg, er lá til Friderichsborgar. Þeim vegi er svo varið, hver eð kallast kóngsvegur,[2]) að hann er upphlaðinn sem stjett og svo hár sem vel vaxinn maður víðast

---

[1]) Ibstruphöll; þar heitir nú Jægersborg. RC.

[2]) Á kóngsvegum mátti þá aðeins ferðast konungur sjálfur og þeir sem hann leyfði.

og enn hærri í sumum stöðum, og er með portum víða. Um nóttina skein nokkuð tunglið stundum, svo okkur varð það til liðs. Á þessum vegi fundum við eyk nokkra, er bændum tilheyrði; hana voguðum við að taka, beisluðum og henni á bak stigum og höfðum gott lið af henni mest af veginum. Ekki fórum við um almenningsveg, því við þorðum ekki, heldur tókum við það til ráðs að lyfta henni uppá kóngsveginn, hvað okkur vel tókst, en þó með stórum erfiðismunum. Og nær við voguðum ei lengur ljetum við hana síga ofan af þessum kóngsvegi aftur á sljettlendið, og komumst svo án slysa. Og um morguninn, nær kóngur sjálfur munstraði, vorum við og allir aðrir þar komnir, utan einn brast, sá eð Malcus hjet, og var einn bartskeri að embætti, annar bartskeri var og undir regimentinu, sá eð Pjetur hjet. Þessi Malcus kom skamt eftir það að fólk alt var upplesið. Ekki talaði kóngur um það, en strax sem þessi Malcus kom skipaði Grabov strax inn í fangelsi að setja. Og nær miðdagur kom gengum vjer allir fyrir kóng og báðum hann lausan, hvað oss veittist strax, og brást kóngur ókunnugur við, að hann var í fangelsi kominn, og gaf þá skuld uppá Grabov.

En sú iðja, sem vjer þar höfðum fyrir kóng og oss hjet launum fyrir var svo, að þar fyrir sunnan Ifstrups slot var eitt kringlótt vatn, í hverju hafði skógur vaxið, hvern kóngur hafði upphöggva látið, og á sama sumri allar rætur þess skógs uppsaga látið niðri jafnt grunni vatnsins, og það fengið af sjö hógþýskum[1]) mönnum, er þesskonar list lært höfðu, og þessar skógarrætur, er þá allar frá grunni lausar voru, áttum vjer í þessu vatni að höndla, uppdraga og í einn köst koma, hvar og til kóngurinn sjálfur styrkti einnin, nær á land kom. Og eitt sinn í þá þrjá daga er vjer vorum til Ifstrup bar svo við, að kóngur kastaði hnyðjurótum uppá köstinn, einni eftir aðra, að Grabov stóð á bak til við kóng með sitt sverð við síðu, hvers klót og hjölt að forgylt var, og með sína glófa gullbaldýraða. Og nær kóngur

---

[1]) ɔ: háþýskum, sbr. þýska orðið hochdeutsch.

leit við sá hann Grabov standa svo drambsamlega sjer til baka, en svo brá kóngi við, að vjer meintum hefði hann ei sitt sverð frá sjer lagt eður sinn regimentisstaf í hendi haft, mundi Grabov þess vís hafa orðið, að hann á bak til við kóng stóð svo rembilega og slíkt óbljúgt hjarta hafandi, að hann gat sjeð kónglega tign sig svo mjög lítillækka og sig til erfiðis gefandi verða. En samt varð Grabov svo skelkaður við þau orð, er kóngur reiðuglega til hans sagði, að hann með mesta hast greip af sjer sitt sverð og tók til verksins, og hjelt því fram svo lengi að kóngur var persónulega viðstaddur. Ei ógladdi oss þá kóngur talaði til hans, og spurði hann að, hvort hann væri ekki of djarfur, þar hann sæi alla í fullu erfiði standa og sig einnin, en dirfðist með drambsamri hegðan sem einn hundur þar iðjulaus standa.

Einn tíma í frávist kóngs segir Grabov til mín, eg og eitt hundrað af mínum landsmönnum, hann vildi þeir væri sjer undirgefnir til þvílíks verks, og hann eftir vild sinni mætti yfir þeim herskja og drotna. Þá ansaði eg brosandi og segi samt þjóti í þeim skjá, en ekki sagðist eg ósk hans svo mjög afvirða, að með því nokkuð framgengi eftir minni ósk og vild, að það hundrað, sem hann um bæði, væri allir sem Grettir sterki og Ormur Stórólfsson eður slíkir fleiri. Þá brosaði alt compagniið, en hann andvarpandi í burt fór.

Það þriðja og síðasta kvöld sem vjer þar vorum vildi Grabov að vjer skyldum lengur áfram á iðju halda en við týhúsið var gömul venja og jafnlega plagaðist, sem var stund eftir nón. En vjer skeyttum því ei, klæddum oss og gengum fyrir kóng og sögðum sem til bar. Grabov var strax fyrir kóng kallaður og mátti þá enn heyra kóng byrstlega til sín tala og harðinda hótan. Síðan þakkaði kóngur oss bæði hlýðni og starf og gaf oss 12 tunnur öls af því öli, er kallist kóngsöl. Síðan ferðuðumst vjer heim um kvöldið, og komu fæstir á næsta degi til týhússins.

Einn dag bar svo við um veturinn að eg með öðrum 6 völdustu mínum ungum leikbræðrum tókum oss til að for-

sóma og komum ei uppá munstring til týhússins og gjörðum oss samlag til veislu á meðal. Banckeyt[1]) hófum vjer upp við austurskaut borgarinnar í kostulegu húsi, hjeldum og meintum að vjer mundum þar dulist og hulist geta. En þegar liðið var vel miðdagstíð svo sást prófoss að garði ganga af þeim er svo við sátu í gegnum glervindaugu hússins. Flestir blygðuðust. Nú sat eg fyrir borðsenda, og átti eg að vera selskapsins ofursti, og segi þeir skuli enga blygðun á sjer merkja láta. Nær hann nú inngengur segi eg hann velkominn; hann þá það gjarnan og ljet ei neitt á sjer merkja, utan gjörði sjer gaman við mig eftir venjunni og vorir spilmenn spiluðu uppá sín hljóðfæri. Síðan segir Marteinn prófoss að ei muni sjer nje oss tjá þar lengur sitja, og munum vjer hljóta sjer til týhússins að fylgja. Vjer tókum því vel og báðum hann tillaga góðra. En nær vjer þar komum vorum vjer allir settir á ísnum í sinn járnbolt hver vor, og 12 leðurfötur uppá hvern vorn af undirprófossinum Steingarð. Þetta straff tókum vjer út fyrir utan vatnsportið í þeirri höfn sem liggur milli týhússins og províanthússins, sem hvert um sig er hundrað faðma langt. Ei vildi Marteinn oss písla eður neitt þar um segja er vjer aðhöfðumst, heldur kvaðst hvern á sínu heimili hitt hafa í voru fullu nauðsynjastarfi. En Lauritz var fimur til þess, sem var undirprófoss, og þeir kölluðu lambssteik, því á milli vor og hans var lítil vinátta, svo hann einatt af oss átti um kúlur að kemba, sem gamalt orð greinir. Og nær hann hafði oss alla með sögðum hætti afleyst þá segist hann fyrirbjóða öllum af vorum compagnii að forskona eður oss vægð að veita hvorki með þurrum klæðum eður öðru þesskonar, og það eftir Grabovs tilskikkun. Eg segi og nokkrir að einatt beri hann oss gleðifrjettir, og mörg og mæt spottyrði hlaut hann þá sem endrarnær að inndrekka, með því grunt var á hinu góða með oss, því þessi maður var oss mjög óhollur, og bar vorar ávirðingar á hræsibrekkur oftlega, sem hann mátti þó þrátt án vera, því í valdi meðal-

[1]) d. Banket, veislu.

göngumannsins er mikið, því hann kann að bæta sem vel vil gjöra, hinn kann og spilla og miklu illu til leiðar koma, sem það ástundar og dagleg dæmi útvísa. Nú var sá siður, sem fyr var nefnt, að skipherrar vöktu á víxl á daginn sem á næturnar, á þeim skipum, er í höfninni lágu hinu megin við próvíanthúsið. Þaðan kom gangandi á ísnum einn sá skipherra er Pjetur hjet, hver eð var höybátsmaður á því skipi er kallaðist St. Pjetur, og eg frá Englandi með kom. Hann gengur þar að er eg sat í járnboltinum á öðrum fæti og svellstorkinn, en þó ei minnst votur næst mjer, og heilsar oss, og kvaðst hafa þekt mig, og tekur nú dýraskinnshúfu af höfði sjer og minn hatt af höfði mjer og setur hana upp á mitt höfuð og segir mjer heimila vera til þess eg sjer aftur færi. Eg kvað hann mikið voga í mót undirprófossins forboði. Hann kvaðst lítið um hann hirða, því hann væri ekki yfir sig boðinn. Og að honum nýlega burtgengnum kom Lauritz með grimmlegu viðmóti, og spyr, hver svo djarfur væri, að gjörði slíkt á móti yfirvaldsins forboði. Eg uppá dár bað hann nú vægðarsaman vera. Þeir segja honum gabb gjört og gekk svo í burt. En skömmum tíma síðar ljet hann oss lausa úr járnum eftir yfirvaldsins tilskikkan.

Þennan vetur hafði eg vakt við týhúsið, og hafði eg í þann tíma mitt herbergi og lossamenti hjá einni herrajómfrú, hver aldrei hafði gift verið, sú eð var fróm og guðhrædd og hjelt hús fyrir sjálfa sig í Vagnmannstræti. Aldrei hafði hún fyr nokkurn mann til herbergis haldið. Hún var elskuleg og hirðsiðavönd, svo sem herrafólk er til vanið. Hún hjet Christín Svala.[1]) Hún hafði tvisvar fyrir göldrum orðið, og í hvert sinn beinbrot liðið á sama fæti. Hennar systir ein bjó í borginni sú eð Armgordt hjet og gift þar einum kaptuga kóngs er Stephanus hjet; hann var ríkur maður og bjó í miklu húsi, og undir því hafði hann

[1]) Christine Svale var dóttir landsdómara á Fjóni Verner Bertelsen Svale; systir hennar Ermegaard var gift Steffen Sørensen kapteini. RC.

víns og ölskjallara, hvar inni eg hafði fritt sæti og öl án keypis hvern sunnudag. Þessi systkin sagði hún mjer (auk annars margs fleira) að verið hefði með sjer 18 alls að tölu, og því af góssi sjerhverju lítið hlotnast. En af hverju það svo hryggilega við bar að henni svo tvisvar til beinbrots slysaðist sagði hún mjer að skeð hefði að sjer hefði misunt verið af annari jómfrú þess herramanns að njóta sem húri var trúlofuð, og það tvær reisur með sama hætti. Engum án hennar leyfis mátti eg þar innfylgja, og aldrei talaði hún óstutt orð til mín í það hálft annað ár, sem eg þar til herbergis dvöl hafði, utan eitt sinn, er svo við bar, að hún hafði gleymt að læsa í skápnum einni bók, er þær systur áttu og þeim var til erfða fallin, er kallaðist Henrichs Smiðs bók,[1]) og voru á uppteiknaðir allskyns sjúkdómshættir og kvillar, sem manneskjunni í heiminum kynni ýmislega til að falla, karlmönnum og kvennmönnum, og læknisdóm til sjerhvers. Þessa bók vildi hún að enginn yfirliti, en mjer varð það á, að eg var tekinn til að lesa í henni, nær hún kom í stofuna. Þá ljet hún mig kenna á sjer, og sagði þar inni hæfði engum óbljúgum skálk að lesa, og hnýtti þar við mörgu og mörgu um karlmanns og einkum kvennmanns eðli og háttalag. Og nær hún hafði hjer um langa oratiu framþulið, þá snýr hún um blaði sinnar ræðu, og segist mig engan skálk meina nje ætla vera muni, svo hún það hefði mátt merkja, eða af mínu framferði þurft sig stórum að hneyxla, frá því eg komið hefði í hennar herbergi, og bað mig síðan um fyrirgefning og leyfði mjer að lesa í henni nær systir hennar ei af vissi, og úr henni skrifaði eg 5 eða 6 arkir, og voru í káhyttu innbornar síðar, nær eg fjekk þann skaða er eg ber til andláts.

Nú vík eg frá Christínu Svölu um sinn, og þar til að kóngur um vorið ljet 6 skip þau sjerdeilis stærstu til siglingar útbúa, með hverjum hann sjálfur reisti ásamt þeim þremur ungu herrum, canceleranum, statshaldaranum

---

[1]) Hefur verið eitthvert lækningarit eftir hinn fræga lærdómsmann Henrik Smith († 1563), líklega safnritið ‚H. S.'s Lægebog'. Um höf. sjá Biogr. Lex.

og öllu Danmerkur ráði til Björgvin í Noregi, hvar herradagur haldast skyldi Anno 1621.[1]) En nær vjer á leið komum undir Noreg, þá mætti oss það skip, sem fylgt hafði á leið því skipi, sem hjet St. Lauritz en öðru nafni Vaturhundur; það skip var sent að Austindien til þess kastala, sem danskir menn höfðu þar gjöra látið, sem Dansborg nefndist, og síðar skal gjör umtalast, ef Guð mig til endast lætur. Og úr því vorum vjer með sjö skip í flota, og fengum vjer góðan byr, þangað til vjer norður komum að því sundi, er sker sig upp í gegnum landið til Björgvinsborgar, sem eru 12 vikur sjóvar. En flestöll skip fara ekki það sund sakir stillviðra, heldur hafmegin, þó meiri vegarlengd sje. En kóngur rjeð það af að uppsigla þetta sund, og virtist stýrimönnum djarflega tilráðið sakir byrleysis, er á þeirri leið brátt til fellur, og fordýpi, svo ei verður atkerum varpað.

Kóngsins lífskip í þann tíma hjet Patientia, sem var mjög stórt og prýðilegt herskip. Hún hafði 72 fallstykki innanborðs[2]) og öll af kopar. Þetta skip bar mikla gylling á sínum fremri og eftri hluta með tvöföldu gallerí og með gyltum pílárum, það er skipsins umgangur utanborðs úr káhyttu, hvar inni yfirvöldin standa og drekka hver öðrum til nær samskipa siglt verður. Annað herskip, sem þar næst gekk hinu fyrra var St. Anna, eitt mikið skip með 56 stykkjum, einnin forgylt til beggja stafna og með úthöggnum bílætum til beggja hliða með ýmislegum color, sem Patientia

[1]) Það var árið 1622. Eftir dagbók Christiáns konungs 4 fór hann á stað frá Krónborg 18. Júlí. Í flotanum voru skipin „Patientia“, „St. Anna“, „Ridderen“ (ɔ: „Den sorte Rytter“), „Justitia“ og „Raphael.“ — Á leiðinni mættu þeir „Nældebladet“, sem Jens Munk var skipstjóri á, og slóst það í förina með. — Jón Indiafara hefur hjer líkl. mismint um nöfn sumra skipanna. — Sbr. athugasemd RC. við þennan stað (dönsku þýð., I. bls. 225) og rit þau sem þar eru nefnd. — Á öðrum stað eru nefnd í förinni auk fjögurra fyrstu skipanna „Fides“, „Nældebladet“, „Lindormen“ og „Dragen“. Sbr. Lind, bls. 8, og ritin, sem þar eru tilgreind.

[2]) Það má telja víst að fallbyssurnar hafa ekki verið svo margar á skipunum sem hjer er sagt. RC.

og eins þau æðstu stríðsskipin. Hið þriðja herskipið var Justitia, eitt mikið skip með 50 stykkjum og sama prýðibúningi sem hin önnur og áður eru greind. Á þessu herskipi var eg fyrir byssuskytter þjónandi. Minn kaptugi hjet Christofer Boye,[1]) einn maður af engelskri ætt til faðernis en af norskri ætt til móðernis, og nú í þann tíma hafði gjört reisu til Austindien, og um vorið fyrir var þaðan heim aftur kominn. Skipherrann hjet Pjetur Hansson, minn arkelímeistari eður constabel hjet Niels Dreyer, einn stórhugaður maður en mjer þó góður; með honum vorum vjer byssuskyttur 25. Það fjórða skip var Spes,[2]) eitt ágætt herskip með vel 40 stykkjum, og var prýðilega tilsett að öllu. Hið fimta herskip var Fides, sjerdeilis vænt gangskip og lystilegt tilsýndar. Hið sjötta herskip var sá Svarti Riddari, mikið og vænt herskip með eins stykkjum, öll af kopar. Hið sjöunda skipið, sem í ferð kom til vor og fyr var um getið, á hverju var kaptuginn sá velreyndi Jens Munck, sem vel fyrir tveimur árum var frá Veigat heim aftur kominn, var sá Lýbski Davíð, og með mörgum stykkjum, eitt mikið gangskip. Þessi öll sjö skip voru prýðilega munsteruð, stafferuð og tilsett og hvert með sinni stórflag, bolsaner og skartklæðum alt um kring við borðstokka á hvers skips bæði borð. Á kóngsins sjálfs herskipi voru 12 trompeter, en á hinum tveimur þeim stærstu 4 á hverju, en á hinum þrír hverju. Með kónginum og hans skipi voru þeir þrír ungu herrar, cancelerinn, statholderen og Danmerkur ráð, utan sá góði og gamli mann Gabriel Krús, hann var upp á St. Önnu, en á voru skipi voru meðfluttir 48 dravantar kóngsins og 12 kóngsins instrumentistar

---

[1]) RC. geta þess til að hann sje sá Chr. Hansen (Boye), sem Lind nefnir bls. 223, er var skipstjóri í Indiaförinni 1618—1622, og er það mjög líklegt. (D. þýð II. bls. 13).

[2]) Tilg. útg. fyrir Fides í hdr., sbr. orðamuninn. Til var þá danskt herskip er svo hjet. Það er ólíklegt að J. Ind. hafi skrifað Fides sem nafn á 2 skipum, svona hvort á eftir öðru, en líkl. hefur það skip sem hjer er átt við verið annaðhvort „Dragen“, „Lindormen“, eða „Raphael“. Sbr. athugas. v. bls. 176.

og musikantar. Þessir tveir hópar hvorir fyrir sig höfðu stórt herbergi innan skipsborðs. Ei minnist eg tölu sjerhvers skipsfólks. Og eftir kristilegum plagsið var á hverju skipi haldinn corum eða morgunsöngur með bæn og blessan hvern morgun og eins kvöldsöngur á kvöld, og á miðvikudögum var haldinn predikun og nær sem miðdags eður kvöldmáltíð skyldi haldast var slegið uppá ketiltrumburnar og í trómet blásið, og blása fjórir í senn. Þetta sje fullnægja hjer um.

## XXXI. KAP.

Það fyrsta kvöld sem vjer komum upp í þetta sund og bæir stóðu til beggja handa lögðumst vjer fyrir atkerum. Skip kóngsins lá lengst fram í flotanum, og svo hvert skip eftir því sem til var skikkað í rjettri orðu. Svo bar við að vor kapteinn dró frá voru skipi með litlum bát, er hverju skipi fylgir, og til þess skips, er einn af ráðinu með fylgdi, sem var Gabriel Krús, er hjet St. Anna. En nær hann aftur heim kom varð stórt upphlaup á skipi voru með kaptuga vorum og öllum kóngsins dravöntum, svo að kaptuginn bauð þeim á land og í einvígi, hverjum sem voga vildi, en þeir aftur á móti voru ólmir og óviðráðanlegir, svo þar áhorfðist að mannslög verða mundi hefði ei Gabriel Krús þangað komið og stilt til friðar með þeim og þaggaði kóngsins dravanta, og varð að lofa þeim hálfri lest af Rostockaröli.

Vjer vorum 3 daga um þetta sund fyr en vjer komum upp til Björgvin. Vjer höfðum stórt gaman af því bygðafólki, sem var á þeirri leið á bæði borð við oss, sem voru á sínum ökrum og að sinni annari iðju, er við lá. En nær vjer komum upp að því kennileiti, er Back van Ra

nefnist,[1]) fyrir þessu kennileiti var sú skipvenja og gömul sjólög, að hverjir sem þar höfðu ei fyr komið nje hjá farið skyldi frá stóru seglrá í sjóinn hleypt verða, utan sig frelsi með drykkjupeningi. Sem kóngur fjekk þetta að vita þá mýkti hann þetta lögmál með þeim hætti að hann gaf eitt 12 marka vínstaup í hvern 4 manna skutul, og kvaðst þekkja svo fólk sitt að því mundi koma betur að vökna innan heldur en utan. Svo niður lagðist þetta sjóstraff í það sinn fyrir kóngsins mildleika sakir.

Nærri miðmunda komum við upp til Björgvinsborgar á einum fimtudegi í Augusto, og varð skotið 9 stykkjum á kóngsskipinu en 6 stykkjum á St. Önnu, en 3 á hverju hinna, en af slotinu varð með mörgum stykkjum svarað, og á hverju skipi trómetað. Og nær sem kóngur dró til lands varð jafnmörgum stykkjum afhleypt og á ketiltrumburnar slegið. Í þriðja tíma er kóngur á slotið inn gekk stóðu allir borgarar og kaupmenn og húsbændur á Garpabryggjunni[2]) með sínum vopnum og herbúningi, og með sama hætti á skipunum og slotinu skotið og trómetað. Þar voru og komnir allir norskir herramenn, bæði canceler, sem var Jens Bjelke, og sá norski statholder[3]) með öðrum aðalpersónum.

Á öðrum degi þar eftir byrjaðist herradagurinn og hjelst til eftirkomandi þriðjudags, en hver mál þar framkomu minnist eg ekki, utan þau tvö, sem var mál M[eist.] Andrjesar, er biskup var fyrir tveimur árum orðinn til Þrándheims,[4]) og fyr verið hafði sóknarherra til St. Nikuláskirkju í Kaupinhafn, og eg þar fyrst af honum aflausn og sacramentum

---

[1]) Hjer er átt við Bókn, litla ey fyrir norðan Fanafjörð, sem hollenskir og þýskir sjóferðamenn á þeim tímum kölluðu Buk van Raa, til aðgreiningar frá Buk van See (Bókn við Stafangur). Sjá Yngvar Nielsen, Rejsehaandbog over Norge, 9. Udg. Chria 1899, bls 206.

[2]) „Garpar“ voru þýskir kaupmenn í Björgvin nefndir áður á tíðum.

[3]) Landstjóri í Noregi var þá Jens Juel (1580—1634). Um hann sjá Biogr. Lex.

[4]) Hann varð biskup þar 1618.

meðtók; það mál var gruggótt og hnje að legorði kvenna með vafningi miklum, og varð í það sinn afsettur sinni biskupstign, — en við lá að þyngra til fjelli, hefði aðallinn ekki fyrir hann beðið, er þrátt hafði í Kaupinhafn að hans embættisgjörð staðið — og varð aftur skikkað prestlegt embætti og kall í Noregi; — en hitt annað mál, sem þar frambarst og um gjörðist, var það mál, sem Henning Henningsson frambar og klagaði uppá síns föðurs saklaust líflát, og eg hef fyr umgetið, og fjekk 1200 dali.[1])

Svo var tilskikkað í hvert hús, sem vjer inn gengum skyldi oss virðing og veisla gjörast hvað og skeði. — Björgvinsborgar stræti er með stóru fjallgrjóti brúlögð, og hallar öllu ofan í móti, svo hvorki vatn nje saur á þeim staðar nemur, en í votviðrum er þar mjög stöðuvant. Fjórar eða fimm kirkjur voru þar í þann tíma með dómkirkjunni, og á þeim sunnudegi vjer þar vorum var mikið við haft með organs slætti og öðru prýðilegu, sem til heiðurs og æru hlýddi. Garparnir höfðu tilreitt kóngi 3 daga veislu, en af því dögg var hvern dag þá heila viku, er vjer þar dvöldumst, þáði kóngur ei þeirra boð, en í þess stað skenktu þeir kónginum einu veglegu credentskeri fullu af rosenobelum.

Á öðrum fimtudegi en vjer þar komum dró kóngur til síns skips[2]) nær alt fólk á öllum skipum sat að máltíð, og varð þar samstundis á ketiltrumbur slegið og í lúðra og trómet blásið, og með einum bát fylgdi það boð til allra skipanna, að enginn maður, hvers embættis sem var, skyldi

[1]) Fyrra málið er alkunnugt; skáldið Anders Arreboe (1587—1637), sem var biskup í Þrándheimi, var ákærður fyrir ósæmilega hegðun í stöðu sinni (hann hafði tekið þátt í dans í brúðkaupsveislu (o. s. frv.) og dæmdur frá biskupsembætti; hann varð síðar prestur í Vordingborg á Sjálandi. — Um síðara málið segist Jón Indiafari hafa getið fyr, en það er misminni hjá honum. Það mun líka misminni um nafn sækjanda. Samkvæmt óútgefinni dómabók herradagsins 1622 í Ríkisskjalasafni Dana á Henning Nielsen, sonur Niels Henningsens þar í máli út af því að faðir hans var tekinn af lífi án dóms og laga. Brjef um aftökuna eru í Norske Rigs-Registranter, IV. bls. 668, 711—712, 739.

[2]) Konungur kom til Björgvin 25. Júlí, daginn eftir byrjaði herradagurinn, og konungur fór þaðan aftur 2. Ágúst. Sjá Danske Saml. II. Række 3. Bd. 371.

dirfast til lands að fara eður neitt sitt að útheimta. Og strax voru atkeri uppdregin og seglum út slegið, og voru 18 bátar af Garpabryggjunni sendir til að útróa kóngsskipið, 12 St. Önnu, en 9 hvert hinna. Þá brosaði kóngur, og kvað lausakonur í Björgvin ættu sjer ekki að vanþakka, því þær hefði nú fengið næst sjer í dag til minningar að hann hefði eitt sinn þangað komið.

Margt gersemi mátti hjá Görpum sjá og fá, bæði bátar og sveinar Garpanna voru prýðilega tilsettir, og þeir fylgdu oss á veg viku sjóar. Og að lyktum ljet kóngur þá heiðarlega traktera, og með það skildumst vjer að.

Sigldum vjer svo þaðan gott byrleiði í rúmum sjó, alt þangað til vjer komum fram undan Varbergs sloti í Hallandi, kom lítið kul af landsuðri oss í móti; í móti kvöldi sneri vindurinn sjer til vesturs, sem var þverviðri þegar upp í sundið er siglt, því hann stóð af Jótlandsskaga, Lessey og Anholt. Nú sigldi kóngur undan og svo öll hin skipin á eftir, en vjer síðast næst St. Önnu, því þau bæði skip voru mjög þung og stór og lítt löguð til gangs. Og fyr en kvölda tók og dimma mjög sáum vjer eitt fjall uppdragast á Skáneylandi, sem kallast Bordon,[1]) og frá því fjalli eður núp er 4 vikur sjóvar til Krónborgar; ofan fyrir það fjall hratt Haraldur kóngur Heming Áslákssyni forðum. Síðan gjörðist veður mjög görðótt og vildi kaptuginn Christofor Boye[2]) láta undir nóttina mersusegl inntaka, en stórsegl standa láta, en skipherrann Pjetur vildi það ei samþykkur verða, hvar af kíf jókst þeirra á milli. En með því að skipherranum framar tilheyrðu ráð mektugri yfir skipssiglingunni en kaptuganum, þar fyrir hlaut svo að vera, að stórsegl skyldu inntakast en mersusegl standa. Og nær 22 menn

[1]) Hjer sjest á því sem eftir fer að það hlýtur að vera átt við Kullen; hvernig á nafninu Bordon stendur get jeg ekki sagt. — Jón Indíafari blandar saman sögunni um Harald harðráða og Heming Áslákssou við dönsku sögnina om skíðahlaup Pálnatóka niður af Kullen. (Saxo, v. Grundtvig. 4. Udg. Kbh. 1886, bls. 428.)

[2]) „kapteinninn“ eða „kaptuginn“ hafði æðstu herstjórn á skipinu, en „skipherrann“ rjeði siglingum, og voru auðvitað vanir sjómensku, en það þurftu kaptugarnir ekki að vera, þó þeir auðvitað oft væru það.

voru komnir uppá stórrána að inntaka stórseglin þá stóð eg mjög nærri stórmastrinu, og í því kom mikill garður af vestri, svo brestur stór kom í stórmastrið, og einn maður að nafni Pjetur Nielsson, sá eð verið hafði í 9 ár soldát en nýlega gjörst byssuskytta, þessi maður greip til mín með orku, því hann var hið mesta karlmenni, og bað mig í Guðs nafni að forða mjer, því mastrið eftir því sem sjer sýnst hefði þá garðurinn kom væri sem brostið, en eg hjelt slíkt ómögulegt vera. En rjett í því sama kom mikill garður, svo mastrið hrökk þar rjett í sundur er eg fyr stóð við það, og með öllum mönnum sem uppá ránni lágu seglið að inntaka. Svo fór það fyrir borð í einum byl, stórmastrið með nýju segli, stórstöng og bramstöng með tveimur nýjum seglum, rá og reiða, og flagstöng er þar uppi stóð á stórtoppi með flag og forgyltum knappi. Þetta alt varð með beittum öxum burt að höggvast svo trjen ei moluðu skípsborðið. Af þessum 22 mönnum drukknuðu 7 menn, af hverjum 5 voru brúðgumar. Þessum varð ei hjálpað með nokkru móti þó sumir þar um sárlega bæði. Sá nefndi maður Pjetur Nielsson og eg reyndum til með stórri mannhættu einum manni að bjarga, sá eð Michel hjet og fastur var við brot mastursins, og nær við höfðum náð í hans hendur urðum við aftur að sleppa honum nær undir reið, og svo marðist hann millum borðsins og mastursins til dauða. Hefði Pjetur ei til mín gripið fyrir Guðs anda áeggjan, svo hefði mastrið mig til dauðs slegið, svo það var eitt af öðrum óteljandi Guðs dásemdarverkum, sem hann mjer auðsýnt hefir á tíma minnar æfi af sinni föðurlegri hjartans elsku og náð, hans nafn veri lofað og blessað að eilífu. Þá var grátur og gangur mikill innan skipsborðs. Síðan varð tveimur þeim allra stærstu atkerum útvarpað og 300 faðmar útgefnir með hvoru, og vorum vjer fyrir því hættasta plássi á Hallandi komnir. Svo kom kaptuginn ofan til vor og skipaði oss öllum til sængur að leggjast með bæn og ákalli til Drottins, en þremur mönnum befalaði hann vakt að halda, en þó hver einn um sinn, og virtist öllum við bana búið.

Þá lagðist margur grátandi niður til hvíldar. Eg svaf vel alla þá nótt til morguns, og vaknaði eg þar við að blásið var til morgunsöngs, og sagt var Guði þakkir að gott veður var orðið. Og eftir söng haldinn var gefið brennivín hverjum manni og lofað 6 tunnum af besta öli ef vjer hertum oss atkerin upp að vinda og legðum ei til heima um skipherrans forsjónarleysi og það kaptuginn fjekk ei ráðið.

Hinn öll 6 skipin komust klakklaust heim í Eyrarsund um kvöldið nær staðarins[1]) vakthringing yfirstóð. Senn dró kóngur til lands og hvíldi á Krónborgarsloti um nóttina. Nærri miðdegi komum vjer heim i Eyrarsund, og var kóngur þá í burt reistur, og kominn á þann veg, sem lá til Friderichsborgar. Og nær vjer komum fyrir Kaupinhafn varð á hverju skipi 3 stykkjum afhleypt, utan kóngsskipinu 9 afhleypt. A næsta degi eftir ferðaðist kaptuginn til Friderichsborgar á fund kóngs, að tjá honum þau vandræði, er til fjellu fyrir oss, og leitaði kóngur mjög eftir tilefni, og ágreindi að þau eyðast skyldu, en það dvínaði svo niður að ei til laga lagðist.

## XXXII. KAP.

Eftir þetta fjell ekkert til sjerlegra um þetta haust, en að tilbúa það annað skip, sem að Indíum skyldi útsendast, sem að nefndist Christiánshöfn, og það skip, sem að öðru ári skyldi þangað sendast, sem hjet Perla, sú var bygð í Hollandi af klárri furu, og var uppá 700 lestir og Christiánshöfn uppá 180 lestir. Perlunnar stýri tómt án járna nýlega höggvið gátum vjer nauðugt borið 60 menn.

---

[1]) Helsingjaeyrar.

Nú er fyrst um að tala að með því að Grabov hjelt sömu á um harðýðgi sitt hið gamla, svo oss leiddist undir hans jústits að vera, — þar voru nokkrir ungir menn undir regimentinu, sem mig áhvöttu að rýma með sjer til Svíaríkis undir þess svenska kóngs, sem var s[álugi] Gustavus, regimenti að gefa mig sjer ásamt, en eg bað Guð mjer þvílíkum glæp að forða, svo eg hvorki bryti minn sáluhjálpareið eða skildi mig við mína æru og gott rykti, eða gjörði hrelling mínum frændum og góðum vinum en fögnuð fjandmönnum, — kjöri eg heldur að líða með öðrum hvað sem uppá kynni að falla. En með því sú indíaniska reisa viðlá og vjer áttum 5 ár uppá nýtt að þjóna áður en orðlof gæfist, þá fjell mjer það til sinnis sem og fleirum af mínum kompánum að gefa mig uppá þá reisu í Guðs náðar trausti ennnú í öðru sinni, eftir því mjer tókst ei í því fyrra, nær þau skip í fyrsta sinn að Austindíum útsendust,[1]) og ljet eg mig svo þar til innskrifa í Guðs trausti af kóngsins aðmírál uppá Bremerhólmi Steini Vilhjálmssyni. Og nær eg þar inn kom fyrir hann þá spyr hann mig að sem fleiri hvort eg kynni kompásinn, eður hversu lengi eg hefði þjónað kónglegri náð. — Eg segi honum vart 7 ár og mínar sjóferðir. Fyrst gerði eg honum gilda grein á um kompásinn og um hvað fleira hann mig að frjetti. Síðan bauðst mjer við hann að accordera um mín mánaðarlaun, hvað treglega tilgekk, en varð þó um síðir 12 gyllini hvern mánuð, sem eru 6 vættar dalir, quaderante dalir, er þeir svo kalla, og lofaði á reisunni skyldi forbetrast, hvað þó ei fyr skeði en eg kom í Indien, þó ei meir en með einu gyllini, svo eg úr því hafði 13 hvern mánuð, sem er 6 vættir. Sagði hann eg langrar þjónustu að nyti, því aðrir fengi ekki nema 9 eða 10. En hver sá byssskytter, sem til Indien reisir, má við tvöfaldri iðju búast, bysssskytters og bátmanns, bæði hátt og lágt og við skipsstjórn. Síðan að mínu nafni skrifuðu fjekk hann mjer ríxdal uppá höndina,

[1]) Indíaför Ove Gjedde, 1618—1622.

svo sem plagast, og bað mig orð með æru halda. Og áður en eg útgekk drakk hann mjer til af sinni krús, og óskaði mjer lukku með haldinni reisu. Síðan gengu hinir hver eftir annan inn til hans, hver einn um sinn. Ámæli fjekk eg stórt af góðum vinum. Eg ljet sem eg heyrði ekki.

Einn dag sem eg stóð í húsdyrum míns lossamentis gekk einn ungur maður dægilegur á strætinu, sá eð kvaddi mig blíðlega og bað mig leyfa sjer hús á meðan hann drykki eina könnu öls, hvað eg með bæn útvegað fjekk hjá minni húsmóður Christínu Svölu. Og nær hann var inngenginn og til sætis setstur vitnaðist að maður þessi var spekingur og einn forvitringur mikill, hver eð oss framtaldi margt skeð og óskeð, bæði hvað mína húsmóðir og eina kvennsvift, sem þar var til herbergis, sem barn átt hafði við þeim manni, er hún giftast átti, og hana leynilega á einum næturtíma forljet, svo og líka fýsti mig einnin að reyna hans viturleik, og sagði hann mjer það eg mundi í stóra neyð koma í þeirri ferð, en þó mundi Guð mig frelsa svo eg ei lífið misti, en samt mundi eg þess minnugur verða á meðan mjer líf entist; og konur tvær mundi eg í sjálfs föðurlandi eignast, og engin börn við þeirri hinni fyrri, en tvö eða þrjú við þeirri hinni seinni. Hann talaði mjer í mörgu vel til, og líka ljet hann minn löst í ljósi, hvern í sínum punkt, og kvað Guð mjer fast í hönd halda, hvað mjer staðfastlega víst reynst hefur. Friderich kvaðst hann heita, þó eg meinti það ei vera mundi. Hann bað vel fyrir oss, einkum fyrir mjer, því hann sagði sig angra marga mína tilviljan, er mjer þó fyrir lægi. Síðan gekk hann með kveðju næsta siðsamlega út þaðan. Slíkan mann hefi eg aldrei sjeð áður nje síðan. Þetta greint efni skeði 2 dögum fyr en vjer til Indía úr Kaupinhafn afsigldum.

Og skal svo í styttsta máta hjer um útgreint vera í þessum fyrri parti kversins hvernin um mína æfi til þessa tíma til gengið hefir, en í öðrum parti skal talast um ferðalag mitt til Indíalands, og á þeirri tíð hið sjerlegasta til

bar, til þess eg aftur fyrir Guðs náð heim kom í Danmörk þó með styttra hætti, en þó fyrst um þá fyrstu reisu, sem skeði til Indíalands, til hverrar eg var skrifaður, og minn gamli vin Jón Halldórsson, frá hverri reisu eg sem fleiri varð haldinn í það sinn fyrir Guðs vilja og kóngsins alvarlega tilskikkan.

*Hjer endar þann fyrri part.*






1. Slottet. 2. Raadhuset. 3. W. Frue Kirke. 4. S. Petri K. 5. Universit: 6. H. Giæstes K. 7. Rosenborg. 8. S. Nicol: K. 9. Gam: Öster Port. 10 Reberbane
11. Bremerholm. 12. Slots-Pladsen. 13. Töy-Huset. 14. Löngangs Broen.

I. Haas sc.

**Kaupmannahöfn 1618.**

(Eftir mynd í E. Pontoppidan's Origines Hafnienses. 1760.)

## ANNAR PARTUR ÞESSARA FRÁSAGNA,

### INNIHALDANDI UM MÍNA SIGLING AÐ AUSTINDIEN OG ÞAÐ FLEIRA ÞAR AÐ HNÍGUR.

---

### I. KAP.

*Í fyrstu verður til máls að taka af hverju tilefni að vor sálugi kóng Christián 4., loflegrar minningar, fjekk girnd og þóknan til að senda þau 5 skip út til Indíalands, er sendust (að mig minnir) Anno 1618 í Október mánuði, er sem eftirfylgir.*

Í Asía, í þeim þriðjungi þeirrar gömlu veraldar í India extra Gangem, er eitt stórt og mjög frjóvsamt eyland, er Ceylon nefnist. Þar inni eru 9 kónga ríki, sem öll eru einum herra undirgefin. Höfuðstaðurinn sá æðsti, hvar þess lands stjórnari hefir sitt aðsetur, nefnist upp á þeirra mál Colmucki[1]. Svo bar við að um þann tíma, sem skrifaðist 1616, þjenti þessum stórherra og landstjórnara, sá eð nefndist keisari, einn kristinn maður, hollenskur að ætt.[2]) Við

---

[1]) Máske er það borgin Colombo, sem Jón Ólafsson nefnir svo, en „keisarinn", sem hann svo nefnir, var konungur í Kandy, og hafði aðsetur sitt í borg þeirri er svo nefnist.

[2]) Hann hjet Marcelis de Boshouwer. — Keisari í Ceylon var þá Senerata (nefndur Ceneradt Adassin, í Schlegel: Saml. z. Dän. Geschichte, I. 3, 166—170, I, 2, 62, og víðar). Þessi bók Schlegels er enn aðalrit um eldri sögu dönsku nýlendanna. — Nýtt rit um það efni er Kay Larsen: De dansk-ostindiske Koloniers Historie I. Trankebar. Kbh. 1907.

þennan mann ráðgaðist hann einn tíma, hvað hann skyldi til ráðs taka við þá portogalisku menn, er hann fyrir nokkrum liðnum tíma hafði ljeð þar landvist í landi sjer nálægt, að brúka þar kaupskap, svo sem þeir plaga víðar að gjöra um öll Indíalönd, og spurðist fyrir, hvort hann vissi ei neinn þann kóng í Norðurálfunni, er þá kynni eður vildi þaðan úr landi á burt rýma, því hann kvað þá sjer ofbjóðlega orðna, af því þeir hefðu sig til neytt með sínu ofríki þeim skatt að gjalda í sjálfs síns landi, og gjört þar 3 kostulegar borgir í tráss sinni konunglegri tign og forboði, og þær styrkt með stykkjum, vopnum, verjum og mektugu stríðsfólki, og þessvegna kæmi ei sínum riktugheitum fram, og hlyti svo með þungri samvisku þeirra ofbeldi og ókjör að sekkja. Hvar til þessi hollenski maður honum andsvaraði og sagðist engan æðri vita en þann loflega kóng af Danmörk, kóng Christián, því hann hvorki í önnur lönd sinni sigling hjeldi, þar með líka væri hann til höfðingsdóms og hernaðar mjög hneigður. Þessum var tiltrúað að afreisa og burt þaðan hingað í Norðurlöndin að ferðast með þessa heiðna kóngs brjefleg og vel ítrekuð erindi. Kom hann fyrst í Holland og tilbauð í fyrstu landsins stjórnurum slíkt og þvílíkt er kóngs brjef innihjelt, sem var að útrýma áðurnefnda portogaliska menn af Ceylon, en lofar þeim aftur þeirra plássi, bygð og höndlan, sjer að öllu án ofbjóðs, þvingunar eða skattgildis. En með því að höfðu nóg að starfa þeir í Hollandi með sínar víða utanlandshöndlanir, og þessu keisarans af Ceylon örlegu tilboði því höfnuðu, þá strax dró hann til Danmerkur á fund vors náðuga herra og kóngs, kóngs Christiáns 4, auglýsandi honum fyrir túlkan og meðalgöngu þess ceylonska kóngs brjefs innihald, vilja og meining, hverju vor sálugi herra og kóngur ljúflega og vel gegndi[1]), og með Danmerkur ráðs samþykki ljet kóngur sitt brjef útganga um alt sitt ríki, að hverjir í karllegg

---

[1]) Í Danmörku hafði árið 1616 verið stofnað fjelag til að reka verslun á Indlandi, og 30. Mars 1618 gerði Boshouwer í nafni Ceylonskeisara samning við Danakonung.

eður kvennlegg sínu fje voga vildu, svo miklu eða litlu sem þeim geðjaðist, til þessarar reisu, skyldi í tje látast og innan handar vera.

Við slíku boði kóngs tóku margar persónur karla og kvenna næsta vel, svo þar urðu til þessarar fyrstu indíansku reisu margir reiðarar, er sitt gjald ljúflega framlögðu, jafnvel þær meyjar, sem línsauma á höndum höfðu. Sumir lögðu til 60, 70, 80, 100, 200, 300, 400, 1000, 2000 dali og skyldi ei reikningsskapur fyr haldast en 12 ár væri umliðin. Og til nefndrar reisu voru 5 skip útbúin með greiðasta hætti og göfugri tilreiðingu. Og að auki alls skipsfólks voru útsendir 300 soldátar. Enn ofursti eður sá æðsti general yfir þeim flota hjet Eirík Grubbe[1]), hver eð sinn herragarð og alt fastagóss burtseldi fyr en aldeilis afreisti. Og ein eðla jómfrú, sú eð trygð og ást við hann tengt hafði, gaf sig út með honum að afferðast, en þó í fyrstunni með sjerlegum hætti, að hún hafði sig umklætt í sveinslegan búning. En með því skipin lágu byrvana fyrir Krónborg í hálfan mánuð, þá bar svo við einn tíma, að bátsmenn urðu þess varir, og það strax auglýstu, og lá þeim við í fár að falla. En með því þau svo mjög höfðu í elsku og kærleik sig hvort öðru samtengt, og vildu sig ei aðskilja láta, urðu þau samanvígð í erlegan hjúskap, hver eðla kvennpersóna af barnburði ljet sitt líf á reisunni.

Skipanna nöfn voru þessi: fyrst Christián, 2. Christiánshöfn, 3. Kaupinhafn, 4. Davíð, 5. Jaktin[2]), hverrar nafn eg

---

[1]) Þetta er rangminni höf., því fyrirliðinn var Ove Gjedde. Dagbók hans um ferðina og samningana við höfðingjana á Ceylon og Indlandi er prentuð í áðurgreindu riti Schlegels. Erik Grubbe (1597—1631) giftist í Nóv. 1618 í Helsingjaeyri Ingibjörgu Hansdóttur Gere, er hafði einsog hjer segir komist út á flotann til hans á karlmannsfötum. Hún dó af barnsförum á leiðinni, 22. Júlí 1619 og barnið rjett á eftir. Er þess getið til, að Grubbe hafi orðið hálfsturlaður út af missi hennar.

[2]) Skipin voru: herskipin „Elefanten“ og „David“, og verslunarskipin „Christian“ og „Kjøbenhavn“, og ljettiskúta, hollensk „Flöjte“, þau lögðu á stað 29. Nóv. 1618. — Jaktin „Öresund“ með Rollant Crappe var sigld á undan.

minnist ekki, og með henni fór Rollant Crappe[1]) fyrir kaupmann, sem 7 sinnum hafði reist til Indíalands áður fyrri og varð það hans 8. ferð, er nú greinist. Þessi varð síðar meir general.

Þessi ceylonska kóngs sendiboði var nefndur almennilega ambassedör[2]). Hann var mjög ríkilátur, drambsamur og stoltur; hann hafði einn prest með sjer, hver illa útleit, og hans hár var mikið og svart og náði í beltisstað á honum, og einn svein, er þeim var báðum þjónandi. Til þessa ambassedörs var eg einn tíma af Grabov skikkaður nokkuð að útrjetta, fyrir hvers herbergisdyrum eg hlaut víst eykt að standa; en þó eg þrisvar upp á dyrnar klappaði og sveinninn upplyki, komst eg ei fyr inn en hann sjálfur tilskikkaði. Hann var í bók stórri að lesa, sem í sniðum og á spjöldum forgylt var. Og nær eg inn gekk fyrir hann, laut eg honum, og spurði fyrst hver eg væri eður hvers þjenari, og síðan í þriðja lagi að mínu erindi við sig, hvert eg honum skjótt tjáði upp á junkursins vegna, sem var að hann bað hann að gjöra sjer ómak upp á týhúsið til að skoða og útvelja þau stykki af kopar, er hann girnti að með færi til Indien, hvar til hann Grabov boðskap trássugt gegndi og andæpti, en sagðist þó mundi koma, ef sjer sjálfum vel lynti, nær klukkan slægi eitt eftir miðdag; og fyr en hann gaf mjer leyfi til burtgöngu, ljet hann skenkja mjer á eitt silfurstaup akvavíti, það er sjerdeilis vel smakkaði, og gekk eg svo í burt að því meðteknu, með þakklæti, kveðju og reverentsíu. Eftir miðdag gekk hann með sínum presti og þjenara upp til týhússins, og fyrir honum urðu portin uppslegin sem fyrir kóngi sjálfum eða stórherrum. En þessu öllu gegndi hann með spotti; nær týhússins yfirvöld sig fyrir honum auðmýktu, reigðist hann við og ljet því næst sitt höfuðklæði standa. Og sem hann kom þar sem stykkin voru í garðinn útsett í röð, sló hann með sínum staf og

---

[1]) Rollant Crappe var hollenskur að ætt, og var sá maður er Danir áttu mest að þakka indversku nýlendurnar. Hann var herraður af Danakonungi 1635 og nefndi sig síðan Crappé. Hann dó um 1645.

[2]) fr. ambassadeur, d. ambassadør, ísl. sendiherra.

með krít á þau mark setti, og síðan drambsamlega í burt gekk; síðan fjekk hann slæman umlestur, og lýkur hjer framar um að tala nú að sinni.

En nær byssuskyttur skyldu munstrast og takast frá týhúsinu, þeir eð sig viljulega höfðu til þeirrar reisu skrifa látið, á meðal hverra eg stóð einnin skrifaður í sama registur, þá var kóngur þar sjálfur nálægur, og leyfði þeim hann vildi þá reisu að fara, sem voru þeir, eð nýlega voru undir regímentið komnir, og voru margslags handverks, en hinir, sem reyndir voru og lengi höfðu þjónað, þeir urðu fyrir kost og mun eftir heima að verða. En þó eg sem fleiri hefðum þar miklu til kostað og þar um kóng auðmjúklega bæði, að eg mætti meðfara, vildi það ei gilda, og afneitaði mjer því að því sinni, en sagði eg kynni enn nú snemma nóg koma til þeirrar ferðar, hvað og víst skeði. Kóngur ámælti stórum Grabov fyrir það, að hann hefði það besta fólk útskrifa látið frá týhúsinu.

Einn frómur íslenskur maður, að nafni Halldór Árnason[1]), hafði sammælst með mjer til þeirrar reisu, og höfðum okkur staðfast stallbræðralag samtengt og bundið, og það eg varð svo frá honum slitinn fjell mjer þunglega, og honum í sama máta. Hann fór út með því skipi Christián, og á því skipi fjekk eg honum góðan stallbróður útvegað, en hann varð eigi langlífur, eftir því sem eg síðar spurði, að hann andast hefði á þessari síðu Tyrkiríisins. Og nær hans bróðir Jón Árnason fór utan í eftirspurn síns bróður til Danmerkur, fjekk hann hans afgang að spyrja, en ekki einn pening eftir hann, því reiðararnir kváðu hann ekki neins fjár aflað hafa, því hann fyr andast hefði en tveggja mánaða laun hefðu verið upp int, er hann meðtók af þeirra hendi samjafnt öllum öðrum, er til þeirrar reisu útfóru, fyr en heiman hjeldu.

Til þeirrar reisu gaf sig margur stoltur sveinn, jafnvel

---

[1]) Hann var sonur Árna Narfasonar á Narfeyri; sjá Bogi Benediktsson, Sýslumannaæfir II, bls. 72. Um bróður hans, Jón silfursmið, er getið s. st. bls. 71.

ungir eðlamenn, þar með 4 kvennsviftir, sem giftust fyrri, því engin ógift mátti til þeirrar reisu inntakast. Og tvær af þeim á reisunni ljetu sitt líf af barnburði, ein eðla, önnur óeðla.

## II. KAP.

Og er þeir sleptu Noregi, komu þeir með góðu byrleiði til Englands og til Vigt[1]). Í Englandi tóku þeir eina fríða og fallega kvennsvift, sú eð Temperentzía hjet. Sú giftist strax þeirra bókhaldara eður yfirskrifara, sá eð Hieronymus hjet, einn frómur og ágætur mann.

Síðan sigldu þeir frá Englandi í gegnum þann spanska sjó, sem svo kallast, og fengu góða byri, og suður yfir Tyrkiríið og í Bláland, þar sem kallast Caput De Ferda[2]), það er eitt örnefni siglingamanna; það liggur í Afríka. Þar nálægt náðu þeir einu skipi, sem hjet »Patientia« og á voru ránsmenn,[3]) og það skip höfðu þeir með sjer til Indíen og einn ungur piltur af því fólki kom síðar heim með þeim til Danmerkur, sá eð Demant hjet. Þar fóru þeir víða á land að fá sjer ferskan mat sínum sjúku til viðhressingar, á hverju stór magt liggur, þeim er slíkar langferðir þreyta. Í einum stað, sem kallast Anabon[4]), gengu þeir á land hið sama að útrjetta, að fá sjer ferska fæðu, hvað þeim tókst þó eigi, því landsmenn þóktust ei vita hvaðan úr heimi komnir væri. En skipmenn ljetu á sjer merkja, að þeir mundu eftir gömlum sjómanna og stríðsmanna vana hljóta að leggja

---

[1]) ɔ: Wight, ey fyrir sunnan England.

[2]) ɔ: Cabo Verde, Grænhöfði, á vesturströnd Afríku.

[3]) Bardaginn stóð 19. Febrúar. Danir unnu tvö skip „Prisens Jagt“ og „den gyldne Löve“, er síðar var nefnt „Patientia“ (Ove Gjedde hjá Schlegel, I, 2, bls. 65 ff.)

[4]) Eyjan Annobon liggur í Guineaflóanum, en bardagi sá, er sagt er frá hjer á eftir, var ekki þar, heldur í Portudal í Senegambíu. Sama rit bls. 71.

djarfa hönd á svo mikið, sem þeir meðnægjast kynni, ef þeir fengi ei fyrir fult verð keypt nje afhöndlað. En landsmenn athuguðu orð þeirra og lögðu í minni. Síðan fóru þeir til skipa sinna og sváfu af þá nótt, er eftir kom, og voru íhugunarlausir um landsmanna aðgjörðir. Og á næsta morgni drógu skipmenn til lands af aðmírálsskipinu og höfðu með sjer marga soldáta, og nær þeir á land komu, var af yfirvöldum soldátum með bátsmönnum befalað að aftýgjast sínum vopnum og fylla þau tóm föt af vatni, er þeir með sjer tekið höfðu. Og nær svo gjörðist, eftir þeirra tilskikkan, þó nauðugir til færi, og þegar þeir voru í þessari sinni iðju sem best og þeirra vopn lágu afsíðis, þá vissu þeir ei fyr til, en landsmenn með bogum, sverðum og spjótum úr þremur áttum af landi til þá yfirfjellu, svo þá sáu þeir sjer hvergi fært að flýja utan í sjóinn, en bátur þeirra flaut langt nokkuð frá landi við drag-atkeri festur, og gátu fæstir sínum vopnum náð, en í þeim flótta urðu 15 menn af þeim slegnir, en hinir til báts að kafa og margir af þeim særðir,[1]) svo að í einum manni, Jens Piper að nafni, hengu 18 pílur fastar, nær hann til skips út komst, hverjar að bartskerinn hlaut út að skera, sem í holdi og sinum fast innlæstar stóðu, hvar af hann kvaðst mikla raun liðið hafa og þar eftir lengi legið hafa í sárum, undir bartskerans hendi, þar til hann varð heill sinna sára; hverjar hans 18 örbenjar eg handfór og áleit glögglega. En nær hann sagðist í fyrstu undan á landi flúið hafa og í sjóinn hlaupið, sagðist hann þá ekki hafa kunnað í bátinn að grípa, vegna tilgrips þeirra tveggja svörtu manna, er honum eftirför harðlega veittu, hverjir eftir honum og í sjóinn hlupu og til grunns niður færðu og hugðu í helju færa, hvað hann sagði víst mundi skeð hafa, ef Guð hefði sjer ei liðsint og það hann gat náð tveimur sínum tígilhnífum, með hverjum hann kvaðst þeim banað hafa. Og með því hann var nokkuð syndur, gat

---

[1]) Af Dönum særðust 10 manns, en 31 fjellu eða voru handteknir; 11 af þeim handteknu fengu þó frelsi síðar. Sjá áðurgr. rit s. st. bls. 71.

hann um síðir bátnum náð, sem þar var nokkuð undan landi kominn, og fengu honum svo inn náð með slitrum.

Að morgni fóru þeir aftur til lands og hugðu sín á landsmönnum að hefna og höfðu mikinn viðurbúning með. En með því þeir sáu þá engan mann, en voguðu ei þeim heimsókn að gjöra, því landsher verður löngum drjúgur, fengu þeir ekkert afrekað, og eftir því þeir sáu sjer ei ábata þar lengur að dvelja, hjeldu þeir fram til skips og á næsta degi aftur á burt þaðan. Og litlu síðar komu þeir þar að landi á öðrum stað, er Caput de Leo[1]) nefnist; þar fengu þeir nokkra björg sínum til hressingar, þeim eð eftir lifðu, en marga höfðu þeir mist af sínu fólki, því það varð sollmikið og því sjúkdómshætt á þeirra skipum, vegna þess mikla mannfjölda, er þeir heiman höfðu.

Nú síðan langt var komið á þeirra leið, upphóf sá leiði ambassedör keisarans af Ceylon að vilja forfalsa þeirra caas[2]) og rjetta siglingarstefnu, og vildi annan veg horfa láta heldur en til Ceylon og tilsett var. En sem stýrimenn hugleiddu hvað á ferðum var af hans hendi, settu þeir sig örðuga ásamt yfirvöldunum honum í gegn og ljetu sjer mikið um verða, eftir því svo mikið viðlá. Og sem hann leit sitt falskt áform ei gilda mega og engan framgang öðlast, gekk hann í sitt afdeilt skipsherbergi, byrlaði sjer eiturdrykk og með honum fyrirfór hann sjálfum sjer. En með því þeir sáu hans prest illa útlíta og [vissu] ei nema eitthvað hefndarráð uppdiktað fengi, með því þeirra sveinn hafði þeim litla ávísun gjört, þá hengdu þeir hann fram í skipsins bugspjóti, og eru þeir nú því úr sögunni,[3])

---

[1]) líklega = Cap Lopez, sem Mads Rasmussen, samferðamaður höf. frá Indlandi, kallar Caput de Lo Consalvie, í ferðabók sinni.

[2]) = fr. cours, d. Kaas, Kurs ɔ: siglingarstefnu. Það er til í þessu efni, að Boshouwer reyndi til að fara sína leið með sitt skip vegna þess að þeim Ove Gjedde kom afarilla saman, Boshouwer var dramblátur, en Gjedde harður og refsingasamur. Það tókst þó eigi og Gjedde skifti um forustu á skipinu. (Schlegel.)

[3]) Boshouwer og sonur hans dóu úr farsótt(?) á ferðinni, í Október 1619. Skip það „Davíð“, er þeir voru á, varð viðskila við hin skipin og kom til Ceylon á undan Ove Gjedde, sem þá fyrst, er hann kom,

## III. KAP.

Nú sem þeir komu að Ceylon með sín 5 skip, en sína jakt höfðu fyrir litlu frá sjer sent. En Rollant Crappe var gegnkunnug öll Indíen og voru honum því leiðir þar víðast kunnugar, þó fyr en skildu lofuðu þeir hans að vitja, ef heilbrigði hjeldu, nær sín erindi hefðu að nokkru leyti útrjett.

Tökum nú þar fyrst til máls, er þeir fella sín segl og renna akkerum til grunna fyrir Ceylon. Strax býr nefndur Eirík Grubbe[1]) sig á keisarans fund, og varð af honum í fyrstu vel meðtekinn, og fyrir túlk og meðalgöngumann tjeði keisaranum sitt erindi, er hann meðfór af hendi kóngsins af Danmörk og lagði stórt upp sína útrjetting, er á þeim Portogalisku skyldi sjen og framkvæmd verða, hver hans og hinna annara slagorð og brúkmælgi ei lágu lengi niðri, fyr en þau bárust til eyrna þeim portogalisku höfð-

---

frjetti lát þeirra. — Það kom í ljós, að Boshouwer hafði farið langtum lengra en hann hafði heimild til í samningum við Dani; var því nýr samningur gerður við keisarann og fengu Danir rjett til að reisa kastala í Trinconomali, en ekkert varð úr því, sumpart vegna þess, að Dani skorti fólk og fje og voru sundurþykkir, og líka vegna þess, að keisarinn gat lítið hjálpað þeim, því Portúgalsmenn höfðu krept svo að honum. (Schlegel.)]

[1]) Auðvitað var það Ove Gjedde sem var aðalmaður í samningunum, en er þeim var lokið, skildi hann Eirík Grubbe eftir til að annast kastalabygginguna, sem ekkert varð úr, en fór sjálfur að hitta Crappe í Tandsjúr. — Er hann kom aftur, fann hann alt í óstandi, skipið „Christian“ sokkið, annað skip rænt af skipsfólkinu, sem hafði gert uppreisn, og engan kastala bygðan. Hann sendi þá Grubbe með brjef til keisarans; átti hann að vera 8 daga í burtu, en svo liðu 3 vikur, að hann kom ekki. Fór Ove Gjedde þá heim aftur til Danmerkur, en ljet eftir brjef og peninga handa Grubbe, ef hann kæmi aftur. E. Grubbe mun hafa verið veikur. Hann var enn á Ceylon, þegar Jón Ólafsson kom þangað, en hefir svo rjett á eftir farið til Danmerkur, og 1623 farið aftur til Indlands, því Mads Rasmussen prestur, sem var á skipinu „Perlen“ og hefur skrifað um þá ferð, getur þess, að E. Gr. hafi farið í land á Ceylon. — Hann mun svo hafa dvalið á Indlandi til dauðadags (1631).

ingjum. En á meðan Eirík Grubbe dvaldist hjá þeim ceylonska keisara, þá kom eitt ógnarlegt stórviðri upp á þau dönsku skip, svo að þeirra aðmírálsskip Christián, að mig minnir það væri, sem forgekk, hvar inni alt gjaldið geymdist, sem þau öll skip skyldi forsorga til hvers sem með þyrfti, en hinum 4 grandaði að engu, á meðal hverra var það franska skip Patientia. Síðan stóðu þeir eftir hjálparlausir og allir þeirra soldátar urðu að gefa sig í vald sinna óvina, svo þeir víða útdreifðust um þau pláss og staði, er portogaliskir menn brúkuðu sína kauphöndlan, og viðbreytt sem herleitt fólk. En sem Eirík Grubbe kom aftur frá keisaranum, varð hann ráðlaus og gat síður en enga vörn veitt, hvorki sjer nje öðrum, en þó soldátar krefðist gjalds og fæðslu. Síðan dró hann enn að nýju á fund þess ceylonska herra og forlofaði sig innan þriggja vikna, upp á sinn háls, en þeir biðu hans í 12 vikur, og kom ei, og með þvílíkri vansemd passaði hann af sjer bæði líf og æru, og hefir svo síðan þar dvalist með sínum þjenara, og þar ráfað sem villur sauður í skógum og eyðimörkum, og hefir lifað á villudýraveiði og því sem kóngur honum liðsinti, þó leynilega, fyrir sakir harðýðis portogaliskra manna, er grimma heift til báru. En á þeim tíma, sem að skipa von var frá Danmörk, ljet hann sinn svein þar upp á vakta, og honum til tærings og fata, einkum nokkrar skyrtur, ljetu þeir við hann úr hendi rakna En aldrei vogaði hann sjálfur þá persónulega að finna, en ef hann hefði til þeirra komið og á vald kóngs sig gefið, hefðu þeir hann víst meðtekið upp á sinn kastala í Indíen, en ei til Danmerkur heimflutt, og lýkur svo hjer með framar um hann að tala.

Og víkur nú þar til máls, sem þessi 5 skip hjeldu frá Ceylon að uppleita sína jakt, sem fyr var um getið og Rollant Crappe var kaupmaður á[1]). Í fyrstu nær þeir

---

[1]) Ove Gjedde fór frá Ceylon að hitta Rollant Crappe, sem hafði lent í bardaga við Portúgalsmenn og misst skipið, en sloppið með 12 menn til konungsins í Tandsjúr og byrjað að semja við hann, og hafði konungur látið af hendi við Crappe bæinn Tranquebar, við sjó

voru Ceylon hjá farnir og sigldu í austnorður, til þess er þeir komu undir Cost van Carmandel[1]), hvar sá danski kastali stendur, sem kallast Dansborg. Þar spurðu þeir, að vel mílu frá því plássi, sem nú þessi kastali stendur, að þá hafði þar fyrst að landi borið með þessa jakt. En einn kastali er þar nálægt fyrir á landi, sem nefndist Nicopotan[2]), og portogaliskir menn höfðu vald yfir. Þeir af kastalanum sendu 4 skip út að tilreyna hverjir að væri þessir aðkomandi menn, og nær þeir sögðu þeim hið sanna hjer um, að þeir frá Danmerkur kóngi væri út sendir, þá vildu hinir þeim ei til sagna treysta og tóku þá sterku hertaki. Þar landhleyptu þeir sinni jakt, svo hún forgekk að mestu, en menn fleyttu sjer á fjölum til lands og hjálpuðu svo lífi sínu. Síðan urðu þeir gripnir og handteknir og þeirra gjörvalt góss flutt til þessa fyrnefnda kastala; og öllu því fólki, sem var á nefndri jakt, varð eftir hernaðar vísu um þeirra pláss á kauptorgið víða útdreift þar í Indien, en 4 af skipsins yfirmönnum, sem var kaptuginn og skipherrann, sá ypparsti kaupmann og honum minni háttar, og constabel Søfren Knappstop, hver eð mjer þessa historíu enn gjör framtaldi, en eg fæ tíð til að innsetja, urðu kónginum til Travanzour[3]) sendir og fangaðir þangað fluttir, og urðu þar svo í athugun og hóglegu varðhaldi svo lengi hafðir, að þessi skip komu við landið Carmandel, og spurðu eftir hvar jaktin og hennar fólk væri niður komið. Og nær þeir slíkt spurðu sem skeð var, með öllum atvikum, og með allra styttsta hætti hefir hjer fyrir framan sagt verið, þá án dvalar tóku sig saman öll yfirvöld skipanna, hver eð lágu einni mílu

---

fram. Þegar Gjedde kom, varð talsvert þjark út úr þessum samningum, en svo fór þó að um síðir gekk saman með þeim. Sigldi Gjedde svo til Ceylon aftur og þaðan til Danmerkur, en Crappe varð eftir. (Schlegel.)

[1]) ɔ: Coromandelströndin.

[2]) nú ɔ: Negapatam.

[3]) Svo nefnir Jón Ólafsson altaf landið Tandsjúr (Tanjore) og borgina með sama nafni, og má ekki blanda því saman við ríkið Travancore á vesturströndinni á Dekan. — Tandsjúr var þá sjálfstætt ríki, þó ekki væri það voldugt á við sum önnur indversk ríki.

neðar að súðri við en þar sem nú kastalinn stendur, er Carical[1]) nefnist, og er einn sjóstaður, hvar inni að fiskarar búa og seinna skal umtalast, ef tíð og tími af Guði tilgefast mætti. Svo fóru þessir dönsku herrar með sínu prýðilegu föruneyti frá Carical, er þeir fyrst landgang gjörðu af sínum skipum, og upp til Travanzour, hvar sá indíanski kóngur var ráðandi og fyrir sitjandi, og sú vegarlengd upp þaðan voru 12 mílur rúmmæltar. Og nær kóngurinn spurði þeirra tilkomu, ljet hann sínar hallir tilreiða og með prýðilegasta hætti port og stræti fága og fallega alt til setja. Þessi kóngsins borg, Travanzour er stór, og góð vegarlengd umkring hana, með 11 portum, hvert inn af öðru, og í hverju hliði voru 2 fílar, er þeir Indíanar nefna elefanta, og 2 varðmenn, er þeim stjórna til hvers sem þurfa þykir. Og nær þeir voru í gegnum þessi 11 porthlið komnir, og allir þeir helstu af þeim voru bornir á palakínum[2]), það eru sængur með það slag sem þessi fígúra  og eru flestar af fílsbeinum, en hinar af dýrum viðum, og eru 12 menn til ætlaðir hvern einn að bera, en ei bera utan 4 í senn og gjöra 3 umskifti. Þá ljet kóngur sitt stríðsfólk, sem þar kallast taliaris,[3]) standa alt frá borgarhliðum á einu stræti með sverð við síðu og spjót í hendi, og alt upp að kóngsins sal og palats. Síðan sendi kóngur sína herra að meðtaka og fylgja þeim inn i kóngshöllina. En sá túlkur, sem þeim var skikkaður, gekk á milli kóngs og þeirra, sá eð með stórri reverentsíu bar hvorra orð frá og til annara, svo sem ræðan atvikaðist þeirra á milli. Strax voru þeir 5 menn með kaptugans þjenara liðugir gjörðir, þegar í fyrstu sem þeirra þangaðkoma spurðist, þá sannaði kóngur þeirra öll orð rjettvísleg, er kóngur af þeim heyrt hafði um þeirra ferðalag

---

[1]) bær á Coromandelströndinni; þann bæ eiga Frakkar nú.

[2]) portug. palanquin af indversku (palí) orði palangki ɔ: burðarstóll, algengur á þeim slóðum, bera 4 menn þann er í honum situr. Myndin er tekin eftir hdr. Lbs. 723, 4o.

[3]) taliar, af tamíl-orðinu talaiyāri, varðmaður.

og hvað annað og prísaði þeirra sannsögu næsta mjög. Svo gjörði kóngur þeim hálfsmánaðar veiting með mesta sóma og aumkaðist stórum yfir þeirra slyslegum tilfellum, sýnandi þeim öll sín herlegheit, klenodí og gersemar, og stundum með kóngi voru úti á leikvelli og þar sýndar allra handa listir, íþróttir og spil, sem þar í landi tíðkast, sumt eftir fornum plagsið, að þrælar glímdu og um annarshvors þeirra líf gilda skyldi, hver öðrum yfirsterkari yrði og komið gæti á fangahelluna og á því eggstáli banað, er hana yfir um þvert stendur; einnin tamdir fílar glímdu upp á enda og stóðu á afturfótum, og þar upp á horfa þótti að vera stór skemtan.

Alt sitt gull, silfur og gimsteina sýndi hann þeim sjálfur, hans son og dóttir, með sjerlegri auðmýkt og lítillæti. Í móðunni, sem flaut við gaflmúrinn hans svefnherbergis, voru hans dýrmætir gimsteinar varðveittir með sjerlegum umbúningi, og urðu svo sem af öðrum brunni í gulllegum fötum uppdregnir og þeim fyrir sjónir lagðir, hver með sinni art og nafni, hverra nöfn eg ei glögt minnist, utan hvað almennilegast vera kann, svo sem er smaragð, túrkos, demant, rúbín, zaphír og christallus með þrennu móti, og kattauga.

Og á meðal annara orða aumkaðist kóngur yfir þeirra slyslegu reisu og hugsaði að Danmerkur kóngur mundi því síður oftar til reyna láta, eftir því að svo í fyrstu báglega fallið hafði, þangað að senda. En þó af stórri meðaumkan sagðist hann vilja til reyna og láta þeim 3000 dali uppá Danmerkur kóngs vegna í tje, og með þeim að kaupa fragt til eins skipsins, svo þeir ekki aldeilis tómhentir heim kæmi, en þó með því fororði, að hann reiðuglega aftur svo mikið gjald uppbæri, eða aðra nytsama vöru að jöfnum dýrleika af þeirra hendi. Í annan máta vildi þessi heiðni kóngur gjöra sáttmála við Danmerkur konung, að hvert ár kæmi skip frá Danmörk til hans þangað og með þá hluti, er hann helst girnti, sem væri silfur og blý, undir hvern sáttmála þeir ljúflega gengu, í trausti Danmerkur kóngs, og með því móti lofaði sá heiðni kóngur fullri fragt aftur til hans skipa af indíanskri vöru, sem vera skyldi pipar, gimsteinar, og

allra handa vefnaður úr gulli, silfri, kopar, blýant, silki með bómull, sem er caton, item farfi, sem kallast indigó, og gjörður er úr nokkurs grass ösku, og er dýrmætur, og margslags annars, sem gleymst hefir.

Í þriðja máta, upp á greinda sáttmálsgjörð, ljenti sá heiðni kóngur vorum kóngi eitt fagurt og sljett pláss við sjóinn, eina mílu að landsuðri frá þeim litla sjóstað Carical, er eg fyr umgat, er þau dönsku skip lögðu fyrst fyrir, hvaðan þeir dönsku herrar drógu upp til Travanzour. Við þetta fagra pláss lá fallegt staðarkorn að nafni Trangobarich[1]), sá eð frá kastalanum liggur eitt örskot burt nú í dag, og leyfði þar í greindu takmarki þennan kastala að byggja og uppreisa láta, sá eð er 300 faðmar 12-ræðir vel mæltir um kring, og með fjórum turnum, sínum á hverri múrsins hyrning og [kvortjel eður] rúndel, og einn stór turn, sem upp af þeirri nýju kirkju innan múra síðar gjörðist.

Í fjórða máta lofaði sá heiðni kóngur að tilskikka og útvelja af sínu eigin landsfólki múrmeistara og 500 menn til erfiðis, þar til nefndur kastali fullgjörður væri, en Danskir skyldu þeim laun gjalda sjálfir, og skyldi kastalinn gjörast eftir danskri fyrirsögn. Í þessu landi eru þeir bestu múrmeistarar og fróðustu.

Í fimta máta skikkaði þessi kóngur svo til, að öll mál, sem í borginni tilfjelli, skyldi upp á kastalanum dæmast, og allur borgarinnar rjettur skyldi þangað leggjast.

Í sjötta máta gaf kóngur og tilskikkaði alla þá tolla til sjóar og lands, sem staðarins rjettugheit framast útheimti.

Í sjöunda máta tilskildi sá heiðni kóngur, að sú öll nefnd vara, sem frá Danmörk kæmi frá kóngi og compagnii, að sjer og síns ríkis tilskikkuðum skyldi fyrst bjóðast, unnast og seljast; þar í mót lofaði hann að kóngs skip frá Danmörk skyldi fá nægilega fragt þar við land í hvert sinn þau að bæri, af allri tilgreindri vöru, hver vera kynni.

Í áttunda máta tilskildi sá indíanski kóngur, að alt indíaniskt landsfólk skyldi hafa frið og alla rósemd fyrir

---

[1]) ɔ: Tranquebar, á tamíl Tarangampādi, á íslensku: „Báruborg“.

dönsku fólki, hvar þeir hittist eður til samans staddir yrði. En ef slíkt brygðist, svo að Danskir annaðhvort slægi eður deyddi Indíana þess lands, skyldi allra Danskra útlegð gilda, og þeirra alt góss upptækt verða.

Í níunda máta tilskildi kóngur hinn indíanski, að Danskir skyldu engum nautum þar slátra, það fyrirbauð hann þeim sterklega, svo framt þeir vildu lífi og landsvist halda, en þess slátraða kjöts, sem þeir frá Danmörk með kæmi, skyldi þeim til fæðslu leyfast, en annað alt kjöt leyfðist þeim til munns að leggja, svo vel dýra sem fugla.

Í tíunda máta tilskildi kóngur og Dönskum sterklega forbauð að ganga í þeirra pagógur[1]), kirkjur eða skurðgoðahús, en ef að hjer í móti sig forbryti einn eða fleiri, skyldi líf og útlegð gilda.

Undir þessa og aðra smærri punkta og aðgreind skilyrði lögðu sig ljúflega þeir dönsku menn. Og í 11. og síðasta máta að gjöra honum styrk, ef með þyrfti í nokkru í móti öðrum þar nálægum heiðingjum, ef því svo haglega viðkæmi án stórlegs baga, tjóns eður skaða. Og að öllu þessu svo samþyktu, handsöluðu og undirskrifuðu, þá sendi sá indíanski kóngur sína letraða kveðju á gullpappír kónginum af Síam, 600 mílur þaðan, með einu dönsku skipi, er Kaupinhafn nefndist, sem var upp á 300 lestir, og bað hann einkanlega að forsorga þetta skip sem skjótast af þeim landsgæðum í landinu væri, og það einvirðuglega sinnar bænar vegna, lofandi honum sinni þóknan og meðþurfandi bíkvæmni ígjen; hverju hann vel gegndi, svo skip þetta náði fullri fragt. Og þessi síamski kóngur bauð kónginum í Danmörk slík kjör og kosti, sem honum best veitast mætti af sjer og sínum lands undirgefnum, hvað landsvist og ærlegri kaupmannshöndlan viðviki á hans landi og ríki. Og til bevísingar þar um, að honum slíkt alvarlegt og geðfelt væri, þá tók hann 7 menn af þessu skipi Kaupinhafn og ljeði þeim hús og landsvist og gjörði þeim aðstoð í því sem þeir helst meðþurftu, og setti sterkt friðarlögmál yfir þeim á meðal sinna undirgefinna. Þetta land Síam er eitt

[1]) ɔ: hof, d. Pagode, portúg. pagoda, líkl. af persn. orði but-kadah, goðahús.

mektugt land; þar inni eru 8 kóngsríki, einkum Síam og 7 önnur. Í því kóngsríki Pegú er Ternasseri[1]. Þar nálægt urðu þessir 7 menn danskir eftir, sem hjer voru nefndir. Þetta kóngsríki Pegú hefur undir sjer meir en 6 kóngsríki. Og frá þeim danska kastala Dansborg og til Ternasseri eru 600 mílur.[2]

## IV. KAP.

Nú [v]ík eg þar aftur til máls, þar sem sá indíanski kóngur leiddi þessa dönsku yfirmenn sæmdarlega af sínum kónglega stað með gjöfum og skenkingum, og meðtóku kónglegt skrif af hans hendi til vors kóngs, hvert orðað var með vingjarnlegasta hætti, til staðfestu uppá alt áðurnefnt. Síðan drógu þeir til Trangobarich, þar sem kastalinn í þann tíð skyldi formast, og kóngur hjelt öll sín orð við þá, er hann heitið hafði, bæði um múrmeistara og um erfiðisfólk, tígulbrennara, kalkslagara og timburhöggvara, og um hvað annað er viðþurfti, svo og skyldi seljast í kastalann allskyns vara og matvæli af sjó og landi.

Svo var á þessum kastala sett strangt lögmál og artíkular eftir kristilegri venju og loflegri hermannavísu í sjerhverjum punkt, svo sem seinna skal heyrast nokkuð áhrært verða. Einnin fóru þeir 5 menn aftur í sinn selskap, er fyr voru til Travanzour[3] í varðhaldi hafðir, af þeirri jakt, sem Portogaliskir þvinguðu til landhlaups, skaða og skipbrots með sínum skipum, er komu frá Nicopotan[4], suðvestan til við Carical, sem var Rollant Crappe, skipherrann og constabel, trómetarinn, og þeirra þjenari. Síðan lögðu þeir

---

[1] ɔ: Tenasserim.

[2] Um einstök atriði í samningnum við Tandsjúr vísast til áðurgreindra rita, Schlegel, Saml. I, 2, bls. 29—118, I, 4, bls. 131—193 og Kay Larsen, De Dansk-ostindiske Koloniers Historie I, bls. 167—169. Samningurinn er dagsettur 16. Nóv. 1620.

[3] ɔ: Tandsjúr.

[4] Negapatam.

sínum skipum þar fyrir sem kastalinn formaðist og fram undan þeirri borginni, er honum rjett nálægt stendur, Trangobarich. Svo upphjuggu þeir sitt franska hertekna skip til þeirra smáhúsa, er á kastalanum innan múra uppbygðust, kastalafólkinu til svefnherbergja. Yfir þennan kastala var settur rector, Christofor Malari[1]) að nafni, einn frómur og ágætur maður, fæddur í Hollandi. Þessi var settur yfir alla kaupmenn, skrifara, assistenter, og vöru danska og indíanska, og alt hvað til hnje kastalans smíði og erfiðislauna útgreiðslu. Annar maður var yfir soldáta og stríðsfólkið settur, sá eð hjet Henrich Hess[2]), barnfæddur og af ríkisfólki kominn í Helsingeyri, líka svo einn frómur mann.

Soldátum og byssuskyttum var skift á kastalanum í þrjá parta eður vaktfylkingar og orður, og skyldi hver um sig halda vakt og orðentlegri vörn yfir kastalanum 24 klukkustundir, það er dag og nótt eftir venjulegri vísu í öllum kristnum löndum. Embættisnafn þessa Henrichs var gubiner eður gubernator[3]), það er hershöfðingi. Hann hafði einn mann sjer hið næsta, sem var hans lutinant, Christofor Hansson að nafni og einn vaktmeistara, Claus að nafni. Á meðal þeirra 3 raða soldátanna voru 3 aðalpersónur, þeir eð voru corporalis, og hver þeirra einn var í sinni orðu eður vakt og hver þeirra var fyrsti maður í fremsta lið fylkingar. Cladit var þar og einnin, sá eð innsetur og útlætur þá, sem fangast og brotlegir kunna að verða. Og nær sem þetta var nú alt niðursett eftir höfðinglegri og gamalli hermannavísu, og hver vissi sjer eftir sínu embætti orðentlega að hegða, löguðu skipmenn sig til heimferðar með þau tvö skip, Christiánshöfn og Davíð. — Hvernin þeim fórst á sinni heimleið minnist eg ei glögt nje

[1]) Christopher van der Mohlen (v. d. Möllen, Milner, Møller) var hollenskur að ætt en gekk 1621 í þjónustu Dana. Orðið „rector" er hjer notað í merkingunni yfirkaupmaður eða kaupstjóri.

[2]) Henrik Hess var af góðum ættum í Helsingjaeyri. Um hann sjá Schlegel, Saml. I. passim og Lind, Chr. IV og hans Mænd bls. 242.

[3]) ɔ: fr. gouverneur, d. Guvernør, lat. gubernator, stýrimaður, stjórnari, jarl.

greinilega frá að skýra, utan slysalaust að eg meina. Einn ungan svein uppfóstruðu 2 menn á öðruhvorju því skipi frá móðurlífi, hvers móðir að honum nýlega fæddum burt sofnaði. Og um vorið, nær þeir voru nýlega heim komnir[1]), á einum sunnudegi í söfnuði margs fólks við ströndina í Kaupinhafn, leit eg þennan svein, er þá var 4 ára gamall, sá eð var vænn og vel til reika á silkiklæðum búinn og silfurbelti um lífið og strútfuglsfjaðrir kringum sinn hatt; af hverri vaktan og uppfóstri þessa sveins að þessir 2 menn fengu stórt lof og ærurykti Og með því að slíkt var virt eitt dýrðlegt dásemdarverk þess allra hæsta og mildasta Guðs (sem og verðugt var), og þessi sveinn var bæði föðurlaus og móðurlaus, gafst honum mikið gjald á þeim degi í borginni, svo sem tíðar skeði, og [er] þeir komu og leiddu hann sín á milli, var þeim og honum stór æra og virðing auðsýnd, og með víni og öli af frómu og frægu fólki elskulega ávarpaðir.

Nú er að víkja þangað fram aftur í efnið, er þessi 2 skip komu fyrst í Noreg, þar sem nefnist Fleckerey, þar kom einn fiskari senn til skips róandi; þeir tóku honum vel, og með því þeim var stór forvitni að vita, hvernin tilgengi í Kaupinhafn, spyr kaptuginn Christophor Boye hann innvirðuglega frjetta í káhyttu; hinn segir ótæpt, eftir því sem hann heyrt hafði. Og á meðal annars sagði hann, að ein kaptugakvinna hafi fallerast látið og með þeim manni í hórdóm fallið, er Jens hjeti. Hinn spyr eftir nafni konunnar og hennar bónda. En hann greinir hið skýrasta. Svo var þessi maður óforsjáll, að hann spurði ei kaptugann að nafni. En með því þetta var kaptugans kvinna, er svo breytt hafði (hvar til hann meinti hana aldrei tælast mega), brá honum svo undarlega við, að hann með sínum rappír hugði þennan fávísa mann í gegn renna, hefði engin hindran gjörst af þeim er nálægt stóðu. Síðan lagðist hann með miklum harmi til rekkju, og nærðist með mjög lítilli fæðslu, þar til hann kom til Kaupinhafnar; var hún þá

[1]) Þeir komu til Danmerkur aftur í marsmánuði 1622.

komin inn í Jótland til sinna foreldra. En sá svikari, er hana fyrst með drykkjuskap og síðan í nefndan glæp tælt hafði, og hans gjaldi öllu, góssi og klæðum burtsvallað, var og burt flúinn og utanlands farinn, fyrir hvern þó af kónglegri tign var sterklega skrifað í allar áttir. En þessum kaptuga Christophor Boga[1]) gafst leyfi af kónglegri náð sig að kvonga hverri kvennpersónu er hann girntist, hvort sem hún eðla eða óeðla væri, því hann var einn sjerdeilis maður til allra hluta. Og sem hann í annað sinn gjörði reisu að Aust-Indien og gæfi Guð honum lukku aftur að heimkomast, lofaði kóngur að gjöra hann að eðalmanni, hvað honum ei hjer lukkaðist, sem síðar skal nefnt verða, ef Guð vill leyfa.

Skal nú ei framar hjer um langyrða, en víkja til þess er eg áður frá veik, þar sem eg var innskrifaður í registur þeirra manna, sem til Indía voru taxteraðir, og var hverjum af oss tveggja mánaða peningar útí hönd afgreiddir fyr en afreistum. En einum degi fyr en eg fór til skips, flutti eg mína eruverðugu og elskulegu húsmóður, Christínu Svölu, til síns mágs, kaptuga Stephâns og frú Armgort, hennar kæru systir, hvar hún að þriggja vikna fresti þar eftir af Guði náðuglega hjeðan burtkallaðist til eilífs lífs, hvar um eg í Christo er fulltrúa, því sú kvennpersóna var stök og að mínu áliti ráðvönd og guðhrædd, og befalaði eg hana Guði og hún mig. Og svo skildist eg við þetta hús með blíðlæti og kærri kveðju.

---

[1]) Jón Indíafari hefur skilið nafnið Boye sem íslenska nafnið Bogi og beygir það þannig, enda er framburður hjerumbil eins, í handritunum er nafnháttur orðsins ritaður ýmislega, oftast „Bogie“; eg hef haldið danska rithættinum í nafnfalli, en þar sem Jón Indíafari, einsog hjer, beygir orðið á íslensku, hef eg ekki viljað breyta því..

## V. KAP.

*Hvers innihald er um mína burtför frá Kaupinhafn uppá þá indíanisku reisu.*

Nú sem sú tíð nálgaðist, að vjer skyldum oss upp á þá austindíanisku reisu gefa, þá 3 dögum áður en svo skeði, vorum vjer með trómetum og bumbuslætti uppá compagníið kallaðir, hvar vor náðugi herra kóngur með mörgum eðalpersónum, item borgmeisturum og þeim æðstu innanborgar var fyrir kominn, og var þá hver maður með nafni af vorum munsturskrifara upplesinn, þar næst artíkular kóngl. Majest. upplesnir, í þriðja lagi inntak vors hollustueiðs með hárri röddu fyrir oss upplesið, og síðan vjer með upprjettum fingrum þremur sórum vorn hollustueið kóngi vorum og því austindíaniska compagníi, hver einn með hárri röddu, og að því öllu svo enduðu þakkaði kóngur oss, sín og compagníisins vegna, áminnandi oss alla til guðlegs lífernis, sannarlegrar hollustu og erlegrar siðsemdar og mannlegra aðburða í framandi stöðum, sjálfum Guði til lofs og dýrðar, Danmerkur ríki með loflegum stjórnendum og innbyggjurum til sóma og æruryktis langgæðlega, en sjerhverjum af oss til æfinlegs, góðs og frómlegs mannorðs og æfihrósunar, svo vjer hvorki kristnum nje ókristnum gæfum hneyxli til Guðs nafns löstunar eður oss af þeim til vondrar umræðu. Síðan gjörði kóngur, að enduðum þessum sermón og föðurlegri áminningu, blessan yfir oss til sjóar og lands, heim sem heiman, með sínu beru höfði, og til elskulegra orða og góðra óska sögðu allir Amen. Og síðan gafst oss sjerhverjum leyfi til burtgöngu og búnings á vora reisu, og áður en vjer burtfórum, kvaddi hver sína kunningja, og báðu oss allir vel fara og með góðri lukku, blessan og hamingju heim aftur að koma, fyrir Guðs náðar fulltingi, fylgd og aðstoð. Og fyr en vjer í bátinn stigum, sem við staðarbryggjuna lá bundinn, drukkum vjer vorrar velferðar og burtfarar minning, óskandi öllum ásamt oss, yfirsettum og undirgefnum, innan

borðs sem utan, er eftir stæðu, sem þeim er færi, lukku og blessunar af Guði til lífs og sálar, með lukku aftur að finnast, eftir Guðs góðri þóknan. Og þar með í Jesú nafni stigum vjer af bryggjum á vorn bát og margir af oss grátandi, en sumir með danslátum og hljóðfæraslætti, hlæjandi. Og nær sem vjer fórum út eftir móðunni, bar það við, að tveir menn á einni viðarskútu mættu oss, hverja vjer báðum margar reisur að leggja til síðu eður kyrru fyrir að halda, hverju þeir ei skeyttu, heldur með drambyrðum og ofsalátum strikuðu og reru oss í mót, hvatast eð máttu. En nær eð vor bátur og þeirra skúta mættust á hörðu striki og hvort öðru hjá runnu, þá með því að þeirra atkeri hjekk útbyrðis, en eg sat aftur í næst hábátsmanni, hver eð stýrði, utarlega á borðstokkinum, sem plagast, og gætti ekki að, því við vorum í meinlausri samræðu, þá snart atkerið mig á bak til í buxurnar og nam í gegn og mig burt þaðan eg sat. Og með skyndi gjörði eg mig lausan, og hljóp upp á skútuþilfarið og gaf þessum öðrum skútumanni 2 skjamba, og burt strax í vorn bát, hver að kominn var undir skipsborðið, og þóttist enginn fljótari atburð sjeð hafa, af þeim þar samankomnum. En hefðu buxurnar bilað og eg í sjóinn fallið, sögðu menn mitt hið síðasta mundi orðið hafa, hvað engum verið hefði frekari sakarþungi en þeirra tveggja skútumanna, er svo vondir og magntrássugir voru. En svo mæltist vorum höfuðbátsmanni, Jóst að nafni[1]), að vissulega mundi mjer einhver hætta að höndum berast, fyr en leið vorri lokið væri. En það teikn hefði Guð þó á mjer sýnt, að ei væri gleymandi, og ljóst merki með sjer bæri, að eg mundi víst frá þeim háska komast, þó mjer klakksárt yrði. Þessi maður var óbernskur, settur og spakmenni hið mesta, af Hollandi og var kvongaður frómri kvinnu, sú eð og sat þar gegnt mjer, er þetta við bar.

Og að næsta dags morgni uppundum vjer vor atkeri og í Jesú nafni útslogum vorum seglum; síðan var hringt og til morgunsaungs blásið og bænar, er corum kallast.

---

[1]) Hann hjet fullu nafni Jóst Hermansen.

Og sigldum vjer svo frá St. Önnu brú, sem er fjórðungur vegs frá Kaupinhafn[1]) og í norðvestur ofan þá leið, sem liggur að Eyrarsundi. En sem við vorum komnir að Skógshöfði[2]), er svo kallast, og viku sjóar er frá borginni, hljóp á það stríðasta norðvestanveður, sem vjer köllum vestanútnyrðing, sem verða mátti. Nú þótti oss mikið aftur að snúa og reyndum vjer til lengi dags, því vort skip Christiánshöfn var hið ágætasta gangskip eitt fyrir sig, sem verða mátti. Kaptuginn var Christophor Boye[3]), hvers

---

[1]) Skipið lagði af stað frá Höfn 8. Október 1622. St. Önnu brú nefndist þá mjór tangi, sem gekk út í höfnina frá þeim stað, þar sem nú er Friðriksspítali (í Amaliegade). Bering Lisberg: Kjøbenhavn i gamle Dage, bls. 195.

[2]) ɔ: Skovshoved.

[3]) Í Ríkisskjalasafninu í Khöfn. eru til reikningar yfir það, sem greitt var af konungsfje til að gera út skipið. Meðal þessara reikninga er skrá yfir peninga, er hafa verið útborgaðir skipmönnum, dags. 3. Okt. 1622 og undirskrifuð af Símoni Jóhansen, yfirkaupmanni. Ýmsir af þeim, sem Jón Indíafari nefnir sem skipverja, finnast ekki á skránni, um aðra er vafasamt, því stundum sleppir skráin ættarnöfnum, og stundum gerir Jón það. Þess ber að gæta, að Jón Indíafari reit þetta í ellí sinni, og því er ekki óeðlilegt að hann hafi mismint um einstaka nafn, og líka þess, að skráin segist vera yfir þá skipverja, sem höfðu fengið tveggja mánaða laun útgreidd; það er því ekki alveg víst að allir skipverjar sjeu þar taldir, þó það í sjálfu sjer sje líklegra, og komi heim við orð Jóns sjálfs hjer á undan, þar sem hann einmitt nefnir þessa launagreiðslu. Chr. Boye er þar nefndur „Capitain og Schipper Christoffer Hannssen“. Jón Indíafari er kallaður „Joen Oelsen Issefjord“, og á það líklega að merkja: „frá Ísafirði“. Annarstaðar í reikningunum er hann kallaður „Joenn Oelssen Isslender“. Af öðrum, sem hjer eru nefndir, finnast á skránni: Niels Olsen [Dreyer?] konstabel, Hermann [Rygaardsen] Søderward, sem líklega hefur verið „konstabelsmat“. Þá byssuskytturnar Bernt Andersen frá Engelholm, og Niels Petersen Fris, stýrimaðurinn Claus [Dirichsen]; bartskerinn Henrich Bartholomeus (ritað Bertelmeus á skránni), og aðstoðarmaður hans Hans Naunesen(?) [Sønderborg]; Simon Johansen yfirkaupmaður, og undirkaupmennirnir, Daniel Lammers, Peitter Henrichsen [Stot], Niels Gerdtsen. Jan Jansen frá Alkmar, seglgjörðarmaður, er talinn með bátsmönnum, þ. e. óbreyttum sjómönnum. Þá er presturinn Chr. Jensen frá Skelskör. Prófossinn er nefndur Gunder Börgesen, kokkurinn, Anders Søffrensen, brytar Lauritz Pedersen og Peder Mortensen.

eg fyr getið hefi. Skipherrann hjet Pjetur Andrjesson; minn constabel hjet Niels Dreyer, en byssuskyttur voru þessar: Andrjes Ólafsson, Bernt Andrjesson, sá eð gjörðist minn kammerat og trúr elskulegur stallbróðir á reisunni, item Niels Frís, Niels Skoster, Pjetur Alchmar, Pjetur Koning; ei minnist eg nöfn hinna. Buteler eður skipsbryti var einn frómur maður, að nafni Pjetur Franzson, hans mæti var Andrjes Nielsson. Kokkurinn hjet Andrjes Hansson, hans mæti Christian Hansson. Skipmann hjet Claus, það er sá sem ræður framskipinu öllu, og því að enginn hengi neitt utan skipsborðs af þvættum, og hefir vald það af sníða ef ei er aðgjört. — Vor æðri bartskeri hjet meistari Henrich, fæddur í landi Holsten, einn frábær og góður maður, minn sjerdeilis elskulegur vinur, en hans stallbróðir hjet M. Hans Sunderborg. Constabelsmæti hjet Hermann Rýgarðsson, minn hinn allratrúasti og elskulegasti trygðavin, og hafði verið hjer á landi eftirlegumaður. Kaupmenn voru þessir 3, fyrst Símon Jóhansson, Pjetur Stot og Daníel Lammers, sá var hinum yngri og hafði á sínu 13. ári út siglt strætið Magellianum[1]), í gegnum jarðríkið. Assistenter voru og 3, sá frómi Niels Gertzson, einn mjög aldraður maður, og hans stjúpson, Andrjes Michelsson og Niels Jensson. Þetta alt voru mætir menn. Seglmakarinn hjet Jans Jansson. En vor elskulegi prestur hjet Herra Christian, einn ungur, mætur og ágætur maður, mjer jafnan frábær og eftirlátur. Og nú með því að hjer eru nefndir allir skipsins embættismenn, utan prófoss hefi eg gleymt, hver eð Niels Lauritzson hjet, og skipsins stærð, sem var uppá 180 lestir, þá skal víkja þar aftur til máls, sem sá mikli norðvestanstormur sig meir og meir forjók oss í móti, og þreyttum vjer þversigling svo lengi sem færi gafst, og þar til vjer urðum öll segl inn að taka, og vorum vjer þá komnir inn undir Landskrónu í austur, og þar urðum vjer atkerum að hleypa, tveimur þeim stærstu, og lágum

---

[1]) Magellans-sundið.

vjer þar eftirkomandi nótt í miklum stórsjó og áhorfandi háska, svo vissum ei nær oss mundi uppslíta þá og þá. Og þá var heldur dauði en líf fyrir sjónum vísari. Mann einn höfðum vjer innan skipsborðs, sem ei var af voru liði, og meintu skipmenn, að lítil heill mundi af standa. Maðurinn var Adolph Friderich Grabov. Og með því hann var einn af þessu Austindiska compagnii, þá ljetst hann vilja oss hjer með virðing veita, að fylgja oss á veg til Krónborgar við Eyrarsund. Nú að næsta morgni hjer eftir gjörðist gott veður hvað af hverju; og nær vjer gáfum oss til verka, að uppvinda vor atkeri, þá forgekk atkerisstrengurinn annars þeirra, af því það var fast í grunni, og urðum svo það þar eftir að skilja. Og strax kom af landsuðri gott byrleiði í Eyrarsund og fyrir Krónborgar sloti lágum vjer þá eftirkomandi nótt af. En um morguninn, fyr en vjer gáfum oss undir segl, var Grabov í land fluttur, en fyr en hann stje fyrir borð, varð alt fólk á þilfar uppkallað, eftir Adolphs óskan. Og nær vjer ásamt öllum yfirvöldunum svo stóðum, hefur Grabov upp sína ræðu á þann veg: að hann segist vilja alla ámint hafa til dáða og dugnaðar, og þarmeð afli sjer hver einn gæfu og góðs ryktis. En á meðal annara orða segist hann nokkru gleymt hafa, að með því að þar væri einn maður af kóngsins byssuskyttum innanborðs, Jón Ólafsson að nafni, hver eð fyr meir hefði sjer kær verið, en svo hefði þó tilborið, að um nokkra tíma hefði missáttir orðið, og með því við ættum nú að skilja, þá væri sjer það helst geðfelt orðið, að við mættum sáttir skiljast, svo að við, hvar fundir yrðu, hjer eður í öðru lífi, mættum góðir vinir finnast, hvar upp á hann tildrakk mjer heila tveggja marka silfurkönnu af Rostockarbjór og handsöluðum hjer um og gjörði mjer einvirðuglega föðurlega áminning með góðum óskum, og með sama hætti óskaði hann skipi og fólki allrar góðrar lukku af Guði. Og þar með varð vor skilnaður, og hefi eg hann ei síðan litið.

## VI. KAP.

En svo fljótt sem vor skipsbátur kom frá landi aftur, urðu atkeri uppdregin og seglum útslegið, og svo í Jesú Christi nafni hjeldum vjer út af Eyrarsundi í norðvestur undir Skáney og Halland. Á þeirri annari nótt þar eftir dó vor stýrimaður, Pjetur að nafni, og hjeldum vjer af gjörningum og göldrum gjörst hafa, og varð honum útbyrðis í sjó varpað. Hjeldum vjer svo að Noregi, og með því vindur bljes í 5 daga af suðvestri, oss rjett í móti, þá dvöldumst vjer í Fleckerey á meðan og bjuggum það til, sem oss ábrast, bæði steyptum smálóð upp á margt slag, og fleira annað hvers með þurftum. Þar inni í höfn þessari lágu 82 skip, víða aðkomin, er þar í stormi innhleypt höfðu, eftir því sem plagast, þegar svo við þarf. Og á þeim 6. degi kom um nóttina vindur af suðaustri, svo hvert skip tók til að losa sitt atkeri úr grunni, og að svo gjörðu útslógu sínum seglum, og hjeldu öll vestur yfir haf, að Englandi, Spanía, Frankaríki, Hollandi, Hamborg og Þýskalandi; enn þó vjer þeim ei seinna til verks tækjum, urðu öll skip oss fljótari úr höfnum, fyrir þess sakir að vort atkeri var steinfast að finna í grunni. Þótti oss enn nú í raun rekast ætla, þar sem vjer á fyrsta eða öðrum degi vorrar heimanferðar mistum vort eitt hið besta atkeri, og tók til svo sem í ljós leiða, að mótlæti tæki til í vöxt að fara; þetta skeður þrátt af holdlegu vanmætti og skammsýni, sem næsta lítt kann sjer í meðlæti og mótlæti að skikka, að grillur slíkar ganga ótæpt í leikinn. En sem vjer hugðum helst það, að vort atkeri mundi eftirskilið verða, og margir af oss til vorum hreldir og grátandi, þá í því hrökk og losaðist vort atkeri úr grunni. Þá skeði, sem oft ber við, að skamt verður milli gráts og gleði. Síðan, að losuðum og útslegnum seglum, hjeldum vjer úr höfnum þaðan, með blásandi byr til hafs. Og nær vjer vorum komnir út fyrir hafnarmynnið, upphóf vor prestur morgunsöng með bæn,

þakkargjörð og blessan, og nær söngur var endaður, voru flestöll skip komin aftur í sjón, þau sem fyr voru úr sigti sigld. Svo gekk oss prýðilega, að vjer höfðum flestöll skip uppdregið, þá sól var í landsuðri, eður um jafnt báðum, dagmálum og hádegi, hvar yfir sig margir forundruðu. Eitt skip var í þeim flota, sem vorir meðfylgjendur hollenskir þektu og sögðu að væri ræningjar; við hverja vor kaptugi Christophor Boye vildi gefa sig í tak með að slást og fikta, hverju kaupmenn afslógu, svo að hindraðist. En þeir sigldu oss um stund samskipa, svo vjer við ræddumst.

Síðan á öðrum degi þar eftir komum vjer sunnarlega undir England fyrir sunnan Lundún. Og að næsta morgni þar eftir sigldum vjer inn í Hæðina[1]), sem svo kallast, það er sá sjór, sem er á millum Frankaríkis og Englands. Og nær vjer komum fyrir Dofurinn í Englandi, sáum vjer land á báðar síður, og borgir tvær, sem er Dofurinn í Englandi og Calis[2]) í Frankaríki. En með því oss brast stýrimann í þess stað, sem andaðist, en þó að vjer hefðum tvo aðra, sem var Jacob og M. Jóris[3]), samt urðum vjer að uppleita oss þann þriðja, vegna sjúkdóms og háska sem viðliggur. Og nær vjer komum suðvestur betur fyrir landið, þar sem kallast Nýport[4]), þar inni liggur Vigt, þar sigldum vjer inn til þess eins, sem nú var nefnt, en það tókst ei, því stýrimenn voru þann tíð árs ekki fyrir hendi. Vjer lágum í Vigt allraheilagramessunótt og 3 skip af Buskaia og mörg skip önnur. Buskaier höfðu það skikk um þessa nótt, er þeir lágu oss nálægt, að þeir uppsettu skriðbyttur uppá hvern topp sinna skipa, og eins aftur í þeirra rúndel, sem og á framanverðu bogspjóti, og höfðu söngva langt fram á nótt. En á þeirri annari nóttu, sem vjer þar lágum í höfn, aðhleypti stormviðri hörðu af suðaustri, svo að

---

1) ɔ: Ermarsund (La Manche).

2) Dover og Calais.

3) Á skránni, sem áður er getið um, stendur ekki Jóris, en um Jacob Adrianssen er þar getið.

4) ɔ: Newport, bær í eynni Wight.

einu hollensku skipi, er lá fyrir framan oss, krakaði um nóttina, í miklu niðmyrkri, upp á oss, svo að vort bogspjót innkomst í þeirra káhyttu, og mölvaði það alt til agna, er brothætt var þar inni, svo að ef stór sjór verið hefði, þá hefði vort bogspjót að sönnu giggjað[1]) og því með fylgjandi fleira. En um morguninn urðu þeir að vinda sitt skip út af voru bogspjóti og gáfu oss skuldina, hvað þeir þó ranglega gjörðu, því vjer lágum kyrrir fyrir, er þá rak upp á oss. Svo hjeldum vjer þaðan úr höfnum á næsta eftirfylgjandi degi, og að Plemen[2]); þar gegnt sem vjer lágum var staðurinn Hanton, með sömu merkjum, sem að fornu greinir[3]). Þar lá eitt ræningjaskip mikið og vel út búið, en þeim megin sem vjer lágum kallast Drakshús, það eru þær hallir, sem kapteinn Drak[4]) hafði gjöra látið, sá eð fyr meir var í Englandi, á dögum Elísabetar, sem var forðum meykóngur í Englandi, Anno 1590, sú eð var móðursystir Jacobs kóngs[5]).

Við hafnarmynnið, sem inn er siglt, sem í austur liggur frá Hanton, nærri viku sjóar. þar stóð eitt stórt og mikið blokkhús með stykki og varnir á[6]), og hverjir sem þar innsigldu hlutu sín toppsegl að lægja til helftar, annars var til sett, að þau af því blokkhúsi í sjó skjótast skyldu. Drakshallir eru með kopar og blý þaktar, og var oss það sagt af landsmönnum, að hann lægi þar á höfninni í þremur kistum niður söktur, fyrst í trjekistu, næst henni í blýkistu

---

[1]) ɔ: bilað; cfr. geggjaður.

[2]) Plemen er líklega Plym-fljótið eða öllu heldur Plymouth-Sound og Hanton er þá bærinn Plymouth sjálfur, við mynni Tamarfljótsins (Hamoaze).

[3]) Jón Indíafari hefur ekki minst á þessa borg áður, svo þetta er misminni.

[4]) Það er auðsjáanlega átt við hinn mikla víking og farmann Sir Francis Drake († 1596).

[5]) Elísabet drotning var ekki móðursystir Jacobs 6. (1.), en Margrjet Tudor, föðursystir hennar, drotning Jacobs 4. Skotakonungs, var amma Maríu Stúart og langamma Jacobs 6. (1.).

[6]) Líkl. er átt við virki á St. Nicholas eða Drake's Island fyrir framan höfnina.

og utan yfir lengst í járnkistu, og liggur þar svo fyrir þremur atkerum vel forvaraður.[1]) Og með því þessi Vilhjam Draco var mikill sjókappi og einn fyrir sig hinn forsóktasti, sem útsiglt hafði í gegnum jarðríkið á litlu skipkorni, sem sundur skrúfa mátti í 4 parta, svo hver þess fjórðungur skyldi viðráðanlegri vera, ef yfir land þyrfti að flytja eður í þröngt knípi kæmi. Og með þetta skipkorn sigldi hann í gegnum Veigat og kom svo hingað úr norðri upp á Ísafjarðardjúp og hafði lengi legið fram undan Arnarnesi og kölluðu íslenskir menn Draks duggu[2]) þetta hans skip. Item vann hann einn tíma mikinn prís fyrir suðvestan Írland, í tíð meykóngsins Elísabetar, með 5 skipum á 60 spönskum stórskipum. Og nær sem síðast skyldi hjeðan, veitti honum mjög þröngt um andlát; þar fyrir bað hann um, að hann flyttist út á sitt skip, þar mundi Guð sig burt kalla, og tilskikkaði að svo skyldi um sína greftrun öllu haga, sem nú var greint.

Við þessi Drakshús og í þann stað, þar lá við ströndina, fóru vorir yfirmenn til lands að uppleita sjer einn stýrimann; og í einu gestaherbergi fundu þeir einn stýrimann, sem fyr hafði reist til Indíen, sá eð Albert hjet, og ræningjar höfðu tælt með sjer að sigla fyrir stýrimann, og í þann tíma meinti þá friðmenn vera. En síðan varð þeirra þessara óknytta var, að þeir ránsmenn voru, og vildi því gjarnan þá viðskildur vera og það til vinna, ef vjer gætum

---

[1]) Drake andaðist á sjó fyrir utan strönd Mið-Ameríku og var líkinu sökkt í haf, svo það er rangt að hann sje grafinn á Englandi.

[2]) Hjer er líklega blandað málum, því Sir Francis Drake mun tæplega hafa komið til Íslands sem skipstjóri; hvort hann kann einhverntíma að hafa hrakist þangað veit eg ekki, en þó getur svo verið. Hafi hann siglt þangað, þá hefur það líklega verið á árunum 1580—1585, eftir að hann kom aftur úr ferð sinni kringum heiminn, og áður en hann fór aftur til Vestur-Indía 14. Sept. 1585. Víst er það, að Drake hafði mikinn áhuga á að finna sjóleið fyrir norðan Ameríku og skrifaðist á við Davis um það (sjá Barrow, Life of Drake. 2. Ed. London 1844, bls. 80). Samt finnst mjer óhætt að álykta, að eitthvert enskt skip, með fyrirliða með nafninu Drake, hafi komið á Vestfirði á síðari hluta 16. aldarinnar eða þá laust eftir aldamótin 1600. — Um siglingar Englendinga til Íslands um þær mundir sjá Þorv. Thoroddsen, Landfræðissaga Íslands I, bls. 147—148.

sjer sem fyrst náð af þeim, sem nú í þetta sinn lágu þar ásamt öðrum skipum, lítinn veg frá oss að suðri við, á litlu og fallegu gangskipi, sem var jakt hins stóra skipsins, er lá suðvestan fram við Hanton. Um kvöldið seint, er dimt var orðið, skipuðum vjer út vorn bát af völdu fólki, og svo sem þeir höfðu við hann í landi þar um ráðslagað. Vjer höfðum 3 stykki smá af kopar, er falkónur heita, fram á bátnum. En strax sem vjer komum þeim í nánd, gjörðu þeir sterkt hróp allir oss í móti og afsögðu oss hann um kvöldið og ljetu sína glissandi lunta tendraða á bæði borð til reiðu standa og ljetust til verka búnir hinna verri, utan vjer aftur heim hjeldum, en kváðu oss frjálst að morgni næstum hann að sækja, ef ei sjálfir með kæmi Vjer hlutum hvað sem gilti heim aftur að snúa. En um morguninn komu þeir með hann til vor, og undu illa við hag sinn og kváðust seinna mundu slept hafa, hefði þeirra aðmiráll verið sjer nálægra. Þetta urðu þeir svo búið að sekkja og með þögn þola. En þessir menn voru lítt skárri að líta en þeir í gálga hafa um hríð hangið, en tillit þeirra sem viðbjóðslegra varga. Að næsta morgni eftir gjörðum vjer oss þaðan ferð-búna og fyr en dagaðist vorum vjer undir segl komnir við tunglsbirtu. En með því vindur var oss þver, nær vjer skyldum út af höfninni halda, lá oss við háska hjá greindu blokkhúsi, þegar fram hjá því strauk, svo nálægt að ei varð sjeð, hvort vjer þar mundum frá með lífi sleppa. En miskun-samur Guð leiddi oss svo farsællega hjá klettinum, að ei skað-aði nje snart, en svo nálægt rann þessum klett, á hverjum blokkhúsið stóð, að því nærri snart skipssíðuna á stjórnborða. Og sem vjer þar hjá sluppum, vorum vjer strax í þann spanska sjó komnir, hver eð umbeltar allan þann vestra part Englands, og brimið af þeirri miklu hafsöldu, sem kemur af því víða vesturhafi og út af þeim spanska sjó, gengur upp undir þann skóg, er út frá Hanton liggur, út í mót hafinu.

## VII. KAP.

Eftir miðdag sneri vindurinn sjer til landnorðurs, sem var vor beinasti byr, og nær vjer komum fram undan Barlis[1]) í Spanía, varð öllu fólki með klukkuhringing og síðan með trómetsblæstri uppbent á þilfar, artíkular upplesnir og fólkið áınint til guðrækni og góðra siða, þar með til hlýðni og hollrar umgengni fyrir guði og mönnum, og í það sinn lýst vegarlengd þaðan og til Indía rjett fram að vera 3500 mílur, en þar að auki allir afkrókar, sem mikilli vegarlengd viðbæta. Voru þá 3 orður gjörðar eður kvartjer af öllu skipsfólki, og jafnmargir menn í hverri, og þau 3 blöð og fólksregistur voru á þilið uppfest, fyrir framan káhyttudyrnar, þeim til beggja handa, er til stýris gengu. Sú fyrsta orða var nefnd kóngsins kvartjer, sú önnur prinsins kvartjer, sú þriðja hertug Uldrichs kvartjer. Þessum báru öll verk á víxl utan borðs og innan, sem er: bátsróður, skipsvakt, sem umbyltist eftir þriðjungstölu, skip að fága og útvaska hvern og einn morgun, fyr en morgunsöngur hefst, af því kvartjeri, sem dagvakt eður morgunvakt tilfellur. Í hverju kvartjeri gengur og öll vinna á víxl, svo að allir hafi og fái jafnt ómak, utan borðs að standa, vatn upp að draga, hvernin sem viðrar, nær mögulegt er, aðrir við að taka og í stampa að hella, þá fram og aftur og ofan í skip að draga og með skörpum hrísvöndum alt gróm upprífa og með hampkóstum að strjúka. Item ofan í skip að vitja, seglum að viðsnúa, púðri að umbylta, svo það ei saman renni, til pumpu að ganga, og til þess fleira sem við liggur. Yfir hvert eitt þessara kvartjera var einn kvartjersmeistari settur, sem bátstjórn hafði og var upphafs og áminningarmaður til alls þess, sem í hverju kvartjeri til fjell að athuga, erfiða og umgangast og umhirða, og við hver kvartjerskifti skyldi hrópa og sinni vakt til segja. Eg var í hertuga

---

[1]) máske ɔ: Barlenga eða Berlenga-eyjar fyrir vestan Portúgal, RC. geta upp á Belle Isle, ey fyrir sunnan Bretagne.

Uldrichs kvartjeri og minn kvartjersmeistari hjet Jacob Róð[1]), einn frómur mann og varð minn góður vinur, hann var fæddur í Stralsund og uppólst þar ei lengur en til hann var 9 ára gamall, en síðan í Hollandi, og hafði því alt hollenskt skikk, bæði í trúarbrögðum og öðru háttalagi. Ei höfðum vjer utan einn trómetaria, Jurgin að nafni. En tala alls fólksins innan skipsborðs var 88, með ungum og gömlum[2]), með yfirsettum og undirgefnum, þar af gengu til stjórnar 58, og svo 19 voru í hverju kvartjeri, enn 2 ungir menn, hjet annar Thómas, en annar Michel, voru teknir til ljósvaktara á nætur við lampann, sem á milli kompásanna brann í nátthúsinu.

Einn maður, Franz[3]) að nafni, í Danmörk fæddur en í Hollandi uppalinn, ungur mjög, nær 22 ára gamall að aldri, sat í fangelsi frá því vjer vorum í Vigt og til þess nú var nefnt, fyrir sakir þess misgjörnings, að hann í móti skipsins lögmáli og kóngl. Majest. artíkulum hafði sig svo stórum forsjeð, að hann í reiði dró sinn kníf til eins annars í bátnum, og aftur innan skipsborðs í sama sinni. En hverjir, sem slíkt gjöra á þeirri reisu, skikkast, eftir artíkulanna hljóðan, að prófossinn skuli við stóra mastrið þeim sama hnífi stinga í gegnum hans hægri hönd, hvað og einnin þennan sama mann ske skyldi, og nú af prófossinum var fyrir stóra mastrið leiddur. En með því þetta var hið fyrsta brot á þessari reisu, er straff útheimti, og alt fólkið gjörði sína almennilega bæn fyrir hann, þá varð því svo gegnt, að hann í það sinn skyldi frá því mikla straffi frelsast, en samt skyldi lögmálinu með nokkru fullnægja, svo að kóngl. Majest. lögmáli yrði ei niðrun gjörð, og varð svo ályktað, að hann skyldi slást með einu kaðalshöggi af hverjum

---

[1]) á skrá Símonar Jóhansens er hann kallaður Jacob Roude.

[2]) á skrá Símonar Jóhansens eru aðeins taldir 73 manns.

[3]) jeg tel óvíst hvort getið er um þessa þrjá menn á skrá Símonar Jóhansens. Franz er máske Franz Mönting, „kajuttvegtter", en Thómas ef til vill Thomas Jensen, sem er á skránni talinn með „bátsmönnum«,

manni, að fráteknum yfirvöldunum öllum, svo hann fjekk 80 slög á sinn bakhluta, þar hann stóð í einum ljereftsbuxum. En með því þessi maður var ungur og í mörgu vel að sjer, vorum vjer 4 ungir menn honum kærir og að nokkru leiti honum áhangandi í því sem meinlauslegri vináttu og stallbræðraskap til hnje, og höfðum vjer oss því sambundið, nær að oss kæmi, honum að vægja, en þó skyldi í ásýndinni slík línkind ei merkjast. En nær sem þetta straff af öllum var endað og útgjört, og prófoss skyldi þetta kaðalsverð (fljettað málfaðmur að lengd) afgreiðast til varðveislu, bauð kaptuginn, Christofor Boye, honum sterklega oss fjóra höndum að taka, fyrir stórmastur leiða og fjögur slög hverjum af oss til endurgjalds (sem vondum hræsnurum) að útgreiða, oss og öðrum til langgæðrar og sterklegrar viðvörunar, að engir framar slíks dirfast skyldu neina hræsni að brúka, þar straff skyldi útgreiðast, eður hæðni lögmálinu auðsýna, hvað svo mikla þýðing hefir. Eftir artíkulanna lestur (hverra innihald og tölu að mjer er ómögulegt að útskrifa og hjer inni að greina) og skipstraff yfirstaðið, fólk skrifað og skikkað í hvern skutul, sem voru að tölu 7 menn í hvern, og ráðvandur og guðhræddur maður, einn af hverjum 7, til skutulsmeistara útvalinn og skikkaður, hverjum að befalaðist að niðurþagga og öftrun gjöra þeim sem vanskikkan auðsýndu með ótuktugum orðum eður með öðrum ósómasamlegum atvikum yfir máltíð, og hver sem honum óhlýðugur fyndist, skyldi prófoss sagður og í káhyttu auglýstur og eftir málsvexti straffaður, og hans laun kortuð, og skyldi jafnan slík peningaútlát hverri líkamlegri refsing fylgja, til öftrunar blóti, eiðum, reiði, óguðlegri ræðu og mörgu öðru ósæmilegu til máls og gjörða, bæði innan máltíðar og utan. Einkum krafðist góð umsjón að væri prestsins áminningu hlýðugir í öllu því sem hans embætti við kæmi innan skipsborðs. Og yfir alt fram hafði prófoss sig með bókareiði til sterklegrar aðsjónar, umvöndunar, trúlegs aðhalds og án manngreinar og mannvirðingar hræsnislausrar aðgætni forpliktað upp á sjón og heyrn, hvað orð og verk sjerhvers manns áhrærði, hvar sem vera kynni fyrir utan

káhyttu. En öll yfirvöld, sem sinn sess í káhyttu höfðu, nefndust það breiða ráð, í hverju ráði að er prófossinn jafnt þeim öðrum kaptuga, kaupmönnum, skipherra, undirskipherra, stýrimönnum, trómeturum, hábátsmanni og þeim ypparsta assistent, ásamt prestinum þar yfirverandi í hvert sinn rjettargangur skyldi haldinn verða, og allir slíkir skyldu lögin og artíkulana styrkja með fullri auðsýnandi alvöru. Í öðru lagi voru þeir menn og tilsettir sem mersusegl skyldu inntaka í hverju kvartjeri og kallast mersclemmer eða mersuklifrarar. Enginn var vaktfrí utan presturinn, kaupmenn þá ekkert viðlá og sá elsti assistent Niels Gertzson. Vor prestur hjet Christián, ágætur ungur maður og mjer jafnan ástsamlegur. Fjórir timburmenn fóru heiman, af hverjum einn dó í Afríka á vorri útreisu, Þórður að nafni. Cláus From var þeirra hinn helsti.[1])

Og nær sem alt var í lag sett með slíkum og þvílíkum hætti sem nú var greint, svo var og einn eiginn skamtur skriflega skikkaður af brauði, smjöri, kjöti, hörðum fiski og söltuðum, víni frönsku og spönsku, item rínsku, frönsku og hollensku brennivíni. Var hverjum einum ætlað: Fyrst á kjötdögum, sem er sunnudagur, þriðjudagur og fimtudagur, var hverjum einum af kjöti hráu 2 skálpund tileinkuð í 2 máltíðir; item á fiskdögum, sem er mánudagur, miðvikudagur, föstudagur og laugardagur, var og hverjum einum tileinkað í miðdagsverð og kvöld 2 pund af hörðum kieldinafiski[2]), sem barinn, bleyttur og soðinn verður, og 1 skálpund í hvern skutul[3]) eður fyrir hverja 7 menn til bráðsmjörs út heila viku; item eins potts mælir af grjónum á fiskdögum og eins af ertum eður baunum á kjötdögum; item hvern laugar-

[1]) á skrá Símonar Jóhansens er getið um 6 timburmenn, Claus From (Fromme) virðist þeirra æðstur. Þar er enginn Þórður nefndur sem timburmaður, en meðal „Kayutvegtter och seigleger“ er nefndur Thord Nielsen, og getur verið að sje átt við hann.

[2]) ɔ: saltfiski frá Kildin við Norðuríshafið, sjá bls. 102.

[3]) á þátíðardönsku Schiöttel, nú ɔ: Bakke, svo kallast flokkur hermanna, er eiga mötuneyti saman á herskipum.

dag var smjör og brauð útvegið og hverjum einum 3½ pund brauðs, sem eru 7 merkur og 1 pund smjörs; item vart hálf mörk víns (sem þeir kalla myschen[1])) var hverjum manni, ein til miðdags og önnur til kvölds, eftir máltíð haldna gefin, fyrst af frönsku, meðan það sýrðist ekki og síðan af spönsku víni, hverja ranzon og afdeild að hver maður hlaut að drekka strax fyrir buteleries dyrum (það er brytans búri), en ekki í burt berast. En til drykks af öli, meðan það varaði, sem var í 3 mánuði, var hverjum einum 3 marka kanna tilsett, sú eð kallast flabkanna[2]) og það með degi og nóttu, sem eru 24 stundir. En strax sem menn komu suður fyrir Tyrkiríið, og þar suður á lengra, dugir ekki lengur öl til drykks nje geymslu fyrir súrleika sakir, úr því er vatn gefið hversu lengi sem þeirra útidvöl drýgist. Og hver sá innan skipsborðs, er þann glæp hendir, að hann steli hálfri flabkönnu vatns frá öðrum, hefir til hengingar unnið, svo það bevísað verður. En svo er vatn heitt sem af eldi tekið væri og þar með fordjarfast það mjög í fötum og pípum, svo alt hlýtur með járnböndum að girðast, annars dugir það ekki til þeirrar reisu, utan með þeim hætti sje það og fleira sterklega varðveitt.

Nú eftir fylgir það hvað sjerhver hlýtur með sjer til þeirrar reisu að kaupa og hafa sem er: Fyrst margar skyrtur, tóbak, negliken, muskater, comen og engifer, malið og ómalið, þar með brennivín og fleira annað. Item eitt línlak fyrir hverja tvo, sem haft verður undir það regn, er úr lofti fellur, nær skruggur, eldingar og stórar reiðarþrumur um dynja og drífa, og verður í hvert þess horn bundið og svo upphengt undir regnsteypuna, og ein lítil blýkúla er látin í mitt línlakið og þar undir er sett kannan svo lengi að hún er full, hvert vatn að menn drekka í sinni stórri neyð og ofurmikilli þorstaþvingun, hvar af þrátt koma ýmislegir sjúkdómar, svo óheilnæmt er það vatn mörgum nær svo til

---

[1]) á þeirra tíma dönsku „Møtschen“; einskonar mælir.
[2]) holl. flapkan, trjekanna til nota á skipum.

vill. Það eitt af mörgu verður í kóngl. majest. artíkulum fyrirboðið sjerhverjum, að leggja sig til svefns í votum ullfötum, sem af regni eru vot orðin, því það oftlega við ber að menn þeir sem til slíks reynt hafa, að sofa í votum fötum, hafa fengið rauðbleika orma í sitt hold, sem bartskerar útvinda úr þeirra holdi með tvinnaþræði, en sje svo að þeir slitni, verður þess manns bani, er slíkt er til fallið. Og skal hjer um nú að sinni ei meir talast, heldur aftur víkja til þess efnis, er eg frá hvarf, er setningar alls háttalags voru auglýstir, sem á reisunni skyldu orðentlega og varanlega við makt haldast. Svo og var öllum strengilega tilsagt í öllum stöðum og viðvíkjandi pörtum prestinum og öllum hans áminningum, kenningum og tilsögnum heyrugir og hlýðugir vera skyldu. En hver annars sjer breytti eður dár til orða eður gjörða auðsýndi, skyldi þess líf gilda; og sjerhver skyldi sig vakta til corum kvöld og morgna, þegar hringt væri, hver klukka að hjekk við bitann fyrir framan stýrpligtinn[1]). Henni var og hringt nær artíkular skyldu á hverjum mánudegi upplesast fyrir öllu fólkinu, en ætíð til borðs.

## VIII. KAP.

Og sem alt þetta var nú skikkanlega fram sagt og alt annað hvað til hlýddi, var til miðdagsmáltíðar hringt, og í hvern skutul 9 marka trjestaup af spönsku víni gefið fyrir utan vorn ranzon. Síðan upphófu stýrimenn, um hvert miðdegi, að taka og ná sólarinnar hæð, og byrjaðist fram undan Barlis í Spanía, sem fyr var greint, og hjeldum vjer þeim landnorðanvindi og besta hlaupbyr frá Englandi og hjeldum mjög í vestur í fyrstunni þaðan, og fyrir norðan

---

[1]) gl. d. styrpligt, holl. stuurplikt, svo nefndist einskonar pallur eða bekkur aftantil á skipinu, dálítið hærra en þilfarið, handa þeim sem stýrði.

Írland[1]) og svo í gegnum allan Spanska sjóinn, undir Barbaríið[2]), sem eg ætla 600 mílur vera muni.

Einn dag í þessum hálfum mánuði er vjer á leið vorum í gegnum Spanska hafið, nærri fram undan Stræti, sem þeir fyr kölluðu Njörfasund, mætti oss eitt skip upp á stríðsvísu útbúið, og kváðust frá Brasilíu komnir vera og til Amsturdam sigla vilja og ljetust friðmenn vera. Þeir höfðu 4 trómetarii inni, og bljesu forkunnar vel. Vjer gjörðum oss augljósa og skutum 3 stykkjum og voru mjer 2 af þeim í varðveislu sett, þau láu á stjórnborða nokkuð framarlega. Nú var alda úr Vesturhafi, en lausasjór úr norðaustri og var ógott utanborðs stykkin að hlaða og treystu fáir sjer til, en svo framandi ekki sæi lítilmensku til vor, bað constabel mig að hlaða mín stykki utanborðs, því sú skipssíðan venti til þeirra, en menn ljetu segl kala. Og nær eg var búinn að hlaða það fyrra stykkið, en lá útbyrðis á því öðru kom mikill öldu sjór þrisvar undir bakborðssíðuna og hratt skipinu niður á stjórnborðssíðuna, að stykkin rákust öll í sjó og eg með rjett á höfuðið, svo eg drakk mikinn sjó í mig, svo mjer var nær búið af stykkinu að flotna; en eg fyrir Guðs náð fjekk mjer svo fast haldið allar þær 3 bárur af, að mjer enginn skaði tilfjell utan eg allur vöknaði, en minn constabel hugði mig horfinn vera, og eg fjekk hjer af stórt lof, en Guð yfir alt. Kaptuginn sendi mjer brennivínsstaup úr káhyttu til heilsubótar, og úr því komst eg meir og meir í hans kynning og elsku. Síðan hjeldu þessir framandi skipmenn oss í frá, en hefði verið náðugra veðurlag en þá var fyrir hendi, mundum vjer betur hafa athugað frásögn þeirra og rannsakað rjettlæti þeirra, því yfirmenn vorir meintu misjafna menn verið hafa. Á þessum 14 dögum bar ekki til tíðinda stórra, utan einn sunnudagsmorgun hljóp vort skip í vind óvarlega fyrir sakir vankunnáttu þess manns,

---

[1]) Þetta er líkl. rangt; þeir hafa hlotið að sigla fyrir sunnan Írland.

[2]) Barbaríið, líka kallað Tyrkiríið, eru víkingaríkin á norðurströnd Afríku (Marokkó, Túnis og Algeir).

er við stýrið stóð, er Franz Andrjesson[1]) hjet, og var smiður að handverki, því þar voru nokkrir þeir innan skipsborðs, sem aldeilis voru til sjóferða ótamir, er sig höfðu frá ýmsum handverkum til þessarar reisu skrifa látið; en af því veðrið var hart og hvast, var búið við töpun eður segl og mastur yfir borð, en útá þilfar að ganga var stór hætturaun fyrir kaðlabraki, er um gekk höfuð allra er til voguðu, en þó fengu fáir menn þar af raun stóra, að frá teknum Thómas einum, sem var lampvaktari á nætur við kompásinn, sá eð um stund lá í svíma. En svo var þessi góði mann Franz hræddur að hann vissi ekki hvað hann af sjer gjöra skyldi og bar sig mjög lítt. En Guð gaf sína náð þar til að skipinu varð aftur snúið til lags og undan vindi, og seglin viðrjett sem hæfði. En með því að Franz var nýr bátsmaður og í námi þar um, var honum þessi misgjörningur kvittur gefinn, og það hann var einn frómur maður, einnin var hann mjög efldur en var þó hið mesta spakmenni eitt fyrir sig sem verða má.

Nú sem vort skip hafði fulla 14 daga undir seglum runnið frá Englandi sögðu stýrimenn oss þá, að nú væri undir Barbaríið komið, og þótti mönnum þá vera í óttasamlega staði komið, því fyrir Tyrkneskum er uggandi á bæði borð þá þar er komið, bæði með sín skip og galeiður, hvar með þeir jafnan grassera fólk og herfang að yfir komast, sem útsendast jafnlega af þeim smákóngum, sem í Tyrkiríiñu allvíða yfirdrotnan hafa og Baska[2]) þar nefnast, og ei síst af þeim hertugum og smákóngum, sem yfir þeim eylöndum drotna, er inni í Strætinu liggja, hverjum hertoginn af Malta[3]) mikla mótstöðu gjörir, og tíundir verða lagðar af kristninni, einn ágætur og vellauðugur herra. En með því að hlífð Drottins var daglega yfir oss, urðum vjer við

---

[1]) á lista Sím. Jóhansens er getið um smið að nafni Franz Clausen.

[2]) ɔ: Pasja, tyrkneskur titill.

[3]) ɔ: stórmeistari Jóhannesarriddaranna; þeir sátu þá í Malta og er viðureign þeirra og Tyrkja þjóðkunn.

engan voða varir, hvorki af þeirra hendi nje annara Guðs óvina; og ásettu stýrimenn sjer nú að sigla á milli þess barbariska odda og þeirra Afríkanisku eður Flamsku eylanda, sem og enn kallast Asoris. Þau liggja í vestur frá Lisbon í Spanía, nærri 200 mílur, þau reiknast til Afríka en liggja þó nálægra Evrópa, en heyra þó til kónginum af Spanía. Þessi eylönd eru sjerdeilis 7, sem er Tercora, St. Michael, St. María, Gregoria, St. Georgi, Faial og Pisco[1]). En ef vjer hefðum siglt fyrir þau norðan til, þá eykur það við nálægt 100 mílur til vegarlengdar, þar fyrir hugðum vjer oss til leiðgreiðslu í millum Barbarí og þessara Flamsku eylanda að sigla. En svo sem eg fyr á veik að vjer höfðum þá marga menn innan skipsborða, sem aldrei höfðu til skips verið eður stjórnar, þessvegna áttu stýrimenn mikla raun, fyr en slíkum mönnum varð til vits vikið eður lags leiddir, en vant er við stýri að standa og rjetta stjórn að fremja, þá vindur liggur jafnt í báðum skautum, einkum í mikilli sjóöldu og skaflasjó. Og nú fyrir sakir greindra tilefna bar svo við sem oftlega skeður, að oss var nær búið að komast í mikla ólukku og í dauðans neyð, hefði Guð oss ei hjálpað með sinni náð og útrjettri hjálparhönd. Þar sem vjer hugðum fyrnefnda leið að sigla milli Barbarí og eylandanna, hafði oss fyrir vanstjórn of mjög borið á bakborð að því fasta landi Barbaría, svo að um affarandi nótt laugardagsins, nær fyrsta vakt var afstaðin og komið var á þá aðra, og eg var fyrir lítilli stundu sofnaður, þá var stappað í þilfarið og hrópað: Land, land! og »Upp, upp, hver maður!« En sá sem við stýrið stóð, og Pjetur Jansson hjet, hljóp burt og kvaðst sínu gjaldi bjarga verða og slepti stýrinu; en einn að nafni Pjetur Van Bergen[2]) sá

[1]) Jón Indíafari á hjer við Azoreyjarnar og eyjar þær er hann nefnir eru nú kallaðar Terceira, São Miguel, Santa Maria, Graciosa, São Jorge, Fayal og Pico. — Hann sleppir hjer Corvo og Flores en nefnir þær síðar sem sjerstakan eyjaklasa. Þangað kom hópur af Flæmingjum árið 1466, og því voru þar kallaðar flamskar. Nú eiga Portúgalsmenn þær.

[2]) um hann er getið, að jeg held, á skrá Símonar Jóhansens þar

eð lá gegnt mjer aftur við stýrpligtinn, er svo kallast, hljóp í andfælum upp til stýrisins svo að hann fyr en jeg fjekk gripið til stýrisins, en eg í hjálparlínuna, sem höfð er til styrktar þegar miklir stormar eru og margir hljóta til stjórnar að ganga, en þó óforvarandis en alleina af Guðs ásettu ráði vjek á þann veg stýrinu sem skyldi, svo skipið snerist strax að vindi við, og í því gangur ákomst, tók skipið 3 dynki með eftri skutnum svo margir um koll fjellu á þilfarinu, svo kaptuginn grjet og yfirvöldin öll skipsins; en Guð gaf lukku til að skipið rann heldur fimlega frá landi, nær sem það kendi fullra segla. En vindur stóð oss í gegn úr norðausturhafi rjett þvert upp á landið, en þar oss hafði inn borið að landi var ein breið vík og var þar næsta óhægt út að komast í rúman sjó, því við hvorn enda víkurinnar skar sig einn oddi út á hvort borð, og varð það að halda sem halda vildi, og urðu öll segl í toppi að standa, svo að möstur og stengur stóðu bjúg sem bogi. En á þessum hluta landsins og Barbaríisins útodda búa mannætur, þeir eð leggja menn uppá járnristur, að steikja sjer til fæðslu og var þetta eitt fyrir sig furðanlegt dásemdarverk vors elskulega, miskunsama Guðs, hverju mjer síst hefði borið að gleyma, hans háleita nafn sje af oss og öllum tungum ljúflega lofað og dýrkað nú og æfinlega. Amen. Um morguninn nær bjart var orðið sáum vjer uppá landið, sem fagurt var álits, eggsljett, með fögrum þorpum og söndum, hvítum og bleikum, og í mörgum hópum fólk samankomið, því um nóttina hafa þeir víst mátt heyra vort svakk og kvak, og því sjer svo í margfjölda samankomið, með vopnum og herbúningi. En sá maður, sem stjórnina forljet, var um nóttina í fangelsi settur og vildi vor kaptugi að hengdur verið hefði, en hann fjekk því ei ráðið, því hann var

---

sem nefndur er byssuskyttan Peder Pedersen frá Bergen, sem þá líkl. ekki er Bergen í Noregi, en Bergen op Zoom á Hollandi; hins er ekki getið þar að eg held; að vísu er nefndur „jungmand“ Peder Jensen frá Kaupmannahöfn, en þar sem hinn, einsog rjett á eftir er sagt, var Hollendingur, getur það varla verið sami maðurinn.

hollenskur og landsmann kaupmannanna; en nokkur slög fjekk hann af prófoss fyrir stóra mastri, og nefna þeir hver 4 slög mánuðssold, það er mánaðarlaun, upp á gamla gletni og skipsvísu. Síðan var prjedikun haldin fyrir miðdag á þessum loflega 22. sunnudegi eftir Trinitatis, og af prestinum ljúflega ámintir Guði slíkt miskunarverk og föðurlegan velgerning auðmjúklega og innilega að þakka, og hann lengi og vel geyma, og oss skikkanlega eftir Guðs vilja og boðorðum halda og varast jafnan vorn Guð að styggja eða til reiði að reita, svo Drottinn ekki yfirgefi oss í ómildra hendur. Svo hjeldum vjer í vestur og vest-suðvestur, út fyrir Barbaríið, á millum þess og nefndra eylanda, og var oss land horfið fyr en rökkva tók. Svo sigldum vjer nætur og daga með besta byrleiði, hið beinasta eftir því sem vegur lá, alt hvað aftók, og hjeldum sama vindi, sem þeir kalla tapass eður masson[1]). Í Blálandshafi er eitt rif, og liggur um þvert fyrir þeim þar um sigla og er mikið umferðar. Þetta rif kalla þeir Ambroul[2]) og hafa fyr meir mörg skip á þeim sandgrynningum tortímst, og hljóta því siglingamenn er þá leið fara, mjög í vestur fyrir það að sigla frá beinum vegi, og á meðan menn eru ekki fyrir það komnir, brúka prestarnir eina mjög fagra bæn, sem kvöld og morgna er lesin nær corum er haldin. Í vestur frá þeim Flamsku eylöndum liggja tvö eylönd er kallast Covo og Floris[3]), á þeim eru 4 borgir, þau heyra og til þeim spánska kóngi. Þau Canarisku eylönd liggja nokkuð í norðvestur frá Caput de Bajador í Afríka þau eru 7. Í þessum eylöndum er mikið sykur, vín og önnur vara, þar inni eru 4 staðir. Þessi eylönd byggjast og af Spönskum og Portogaliskum og eru undir þeirra regimenti. Þau Capoverdisku

---

[1]) líklega er „tapass" afbökun. á „passat", „masson" á „monsun"; höf. á auðsjáanlega við „staðvindana" („passatvindana").

[2]) líkl. er átt við „Abrolhos", blindsker og grynningar, sem menn áður töldu vera fyrir suðvestan Grænhöfðaeyjar. Annars er orðið „Abrolhos" notað um þesskonar víðsvegar á hnettinum.

[3]) hjer er átt við tvær af Azoreyjunum, Corvo og Flores, er liggja nokkru vestar en hinar.

eylönd liggja nokkuð í vestur frá Capoverde í Afríka, og eru þau 10. St. Thómas eyland liggur rjett undir línunni, þar á er mikið sykur, og einn stór staður sem heitir Pavoasa. Anabon[1]) heitir eitt eyland fyrir sunnan línuna, og St. Helena eyland, sem Portogaliskir hafa fyrst bygt og fundið, um hvert eg vil með Guðs hjálp fleira tala nær þar að kemur, er eg var á minni heimreisu frá Indíen.

Á þessum vegi og í þessu mikla hafi urðum vjer varir við 4 fiskakyn, sem þeir svo nefna, alcorem, duradd, bónet, og sá fljúgandi fiskur[2]). Alcorem fangast með 7-önguðum ljóstri, sem hafður er í einni skutulrá, og sá sem hann fangar hlýtur að sitja útá blindránni, sú að er föst við bugspjótið, og nær hann veður uppi, skutlar hann í hans bak þessum ljóstri. Einn maður á voru skipi Andrjes[3]) að nafni, mjög efldur maður, og var kallaður Stóri Andrjes, hann skutlaði alla þá 9 er náðust á vorri útreisu. Einn tíma bar svo við að hann skutlaði einn þeirra, og var úti gott veður, en þó mjög hvast, að enginn af oss vissi neitt af, fyr en hann kòm upp á skipið á stjórnborð upp yfir sitt höfuð gegnvotur, svo oss brá undarlega við, en lá brotin sú seglrá, er hann á sat, í tvo parta, en strengir hjeldu fastri svo ei náði burt að flota; og svo stríður var sá fiskur, og svo sterkur var sá Andrjes, að í þeirra viðurvist eður viðskiftum hrökk þessi seglrá sundur hreint í tvo parta, svo Andrjes fjell í sjóinn, en fiskurinn hljóp burt með þin og ljóstur. En þó skipið stryki undir sínum seglum öllum, samt gaf Guð það, að Andrjes náði í hnattmiðans hanka,

---

[1]) ɔ: Annobón. — Á St. Thomas hefir stærsti bærinn sama nafn og eyjan, São Thomé á portúgölsku. Borgina Pavoasa þekki eg ekki.

[2]) alcorem er líkl. halicore, sækýr, sem að vísu ekki er fiskur, en spendýr er lifir í suðrænum höfum sumstaðar; duradd er fr. daurade, dorade (l. aurata) algengur fiskur í Miðjarðarhafinu og suðurhöfum; bónet = fr. bonite, e. bonito (scomber pelamys Linn.) einskonar stór makríltegund, sem ofsækir flugfiska), flugfiskurinn (exocetus volitans) er algengur í suðurhöfum.

[3]) máske AndersKnudsen, timburmaður á lista Símonar Jóhansens.

er svo sítt hjekk utanborðs, að því nær til sjómáls náði, nær hann bar aftur með skipsborðinu, og áttu menn hann svo sem úr helju að heimta, og þótti öllum hið mesta mildiverk Drottins, sem og í sannleika svo virðast mátti og sig sjálft vottaði að ei skyldi gleymast, hvað og strax var inn skrifað í vorn journal, sem og alt annað, hvað sjerhvern dag við bar á heillri reisu fram og aftur. Síðan gjörðu timburmenn aðra sterkari blindrá, og með betri kostum. Þessi Andrjes skutlaði og á þeirri útreisu 9 höfrunga og 7 hámeyjar sem vjer köllum hámerar. Höfrungar voru í hvert sinn veglega matreiddir með soðjukki stundum með hunangi, stundum með svisker[1]). Hámeyjar voru og matreiddar og með skörpu salti soðnar og með vínediki etnar. Eg og margir gátum þær ei smakkað utan í fyrsta sinni. Nær gott veður með hægð tilfellur á reisunni halda menn sjer utanborðs á skipföstum köðlum, nær fyrst sundlist læra, utan einn fram á og annar aftur á hljóta þar dyggilega vakt að standa yfir þeim í sjónum eru, því hafið er fult af þessu illþýði, nemlich[2]) hámeyjum, sem fast sækja eftir mannskjöti, og fyr meir hefir þrátt við borið að þær fyrir vangæslu sakir hafa mörgum að bana orðið, svo margt er að varast. Það annað fiskakyn er duradd, og er að stærð sem stór lax, og sumir minni, lystugur og mjög góður að eta, hann fangast með öngli, á hvern látin er rauð þríhyrnd klæðisbeita; þessi öngull hangir á tilmæltum löngum þintaum, hver taumur að bundinn er upp í blindrána vel utarlega, og nær svo sem hálfa alin ofan úr sjómáli. Á miðjan þennan öngultaum er bundinn útspýttur og þaninn einn ferskeyttur dúkur eða sem nefklútur að stærð, og nær sem siglt er undan vindi, þá blæs í þetta taumsegl, og það kippir þessum öngli upp úr sjómáli, og sýnist sem spriklandi fari með rauðan lit ofan um sjóinn; en nær þessi fiskur er í kafinu nálægt og getur sjeð öngulskvikið, meinar hann lifandi og rauðan fisk vera, og hleypur eftir honum

[1]) ɔ: d. svedsker = sveskjum.
[2]) = þ. nämlich, nefnilega.

með gin opið að grípa hann, og verður svo fastur. Og með sama hætti fangast hinn þriðji fiskurinn, sem kallast bónet. En hvernin sá fljúgandi fiskur höndlast skeður með þeim hætti, að strax sem þeirra uggavængir eru þurrir, þá falla þeir þar niður, sje þar sjór undir, skip eður hvað annað, og þar fyrir nær gott og spakt veður er, láta menn sína báta fljóta eftir skipunum á löngum kaðli, svo á morgnana með sólaruppruna koma þeir í stórhópum upp úr hafinu, og strax til flaugar hefja sig upp í riðlum, en hvað langt að mjer virðist nærri 900 faðma vera þeirra flaug, og liggja þeir svo eftir í bátnum, stundum 4, stundum 8, stundum 12, fleiri og færri, eftir því sem til vill, stundum verður fyrir þeim stóra skipið sjálft; þeirra lengd er málfet og eru góðir að eta. Villifugl mikill er í þessu hafi, sem á kvöldin setst á rámúlana, og verða svo handteknir, svo á morgnana var oftlega bátur vor fullur af þeim, sem á þilfarinu stóð bundinn, og völdum vjer af þeim oss til matar, sem oss þóttu skástir vera, hina ljetum vjer fara sinn veg, en af þeim er ekki til matar að slægjast fyrir megurðar sakir. Þessi fugl er allur svartgrár, langur í flaug en stuttur í búk, og svo er alt fuglakyn í þeim löndum. Hafsúlu sáum vjer þar víða en ei í villu hafi, því hún fer aldrei víðara en á landsbrún, og hafa siglingamenn það til marks, að nær þeir sjá hafsúlu þá vita þeir sig á landsbrún komna vera, hvar sem það er. Hollenskir kalla hana Johan De Genti[1]). Halcion[2]) er og í þessum sjó, af hverjum vor kaptugi skaut eitt sinn tvo, hverir gjörla sjást hálfa viku sjóar, þeir eru hvítir að lit, þeir eru helmingi stærri en álft. Í sinni flaug eru þeir frá einum vængsodd á annan 2 málfaðmar, þeir voru magrir, en þó góðir átu. Einn fiskur sjest stundum á þessari reisu, af hverjum vjer sáum 2, sinn í hvort sinn, er þeir kalla

---

[1]) ɔ: Jan van Gent.

[2]) Halcyon (d. Isfugl) getur ekki orðið svo stór sem hjer segir, og er því líklega átt við albatros, sem geta orðið ca. 17 fet milli vængsodda.

sunnfisk eður sólarfisk[1]), hvers náttúru að svo er hagað, að nær hann veður uppi og sje hann ei niður kominn áður en sól rennur upp, svo kemst hann allan þann dag aldrei niður, til þess að sól er undir gengin. Hann er stór vexti og óttalegur, og svo flækist hann í bárum allan þann dag, sem eitt grámórautt skrímsl, hann er digrari en hákall.

## IX. KAP.

Einn sjerdeilis viðburður sjest stundum á þessari leið, sem þeir kalla slúkupp[2]), hvern vjer og í tvær reisur sáum ei lengra burt en vel viku sjóar frá oss; hann er mjög óttalegur tilsýndar, hann stendur beint upp sem stafur, sjórinn rennur rjett upp og niður í himininn úr hafinu, og þegar að þrot og uppgjöf verður á slíku, þá þverrar fyrst uppi, sem hæst maður fær litið og hverfur svo skjótt sem augað fær nokkuð greiðlega eftir litið, og segja vitrir menn, að sá hafsdráttur eður uppsúg verði úr himins opnan, og hvað sem þar fyrir verður hlýtur upp að fara, þó eitt stórskip væri. En svo sögðu oss stýrimenn og þeir sem að Indíum siglt höfðu, að einn tíma hafi helmingur skipsins í burt numist, sá hinn fremri hluti þess. Og strax sem vjer það litum, gripum vjer vor höfuðklæði af oss og fjellum til bænar. Sá annar viðburður, sem á þessari leið er, er svo, að stundum sýnist að menn sjeu upp á grynningar komnir eður leirrif, og helst um kvöldtíma ber svo við, hvað oss og henti eitt kvöld, er vjer frá kvöldsöng gengum, og brá oss mjög

---

[2]) Á ensku eru ýmsar fisktegundir kallaðar „sunfish", er ekki gott að vita við hverja þeirra höf. á, líklega er þó átt við tunglfiskinn, d. Klumpfisk (orthagoriscus).

[2]) hjer er átt við skýstrokkinn; orðið „slúkupp" finst í lágþ. og dönsku þeirra tíma (d. slugop, lágþ. slukop) í merkingunni „sá er svelgir alt í sig", „átvagl", og er ekkert því til fyrirstöðu að sjómenn hafi notað það orð um skýstrokka.

þunglega við. Vor kaptugi kannaðist við það strax og þeir stýrimenn sem að Austindíen siglt höfðu, en þó samt til vareygðar útgreiddu stýrimenn meir 100 föðmum, hvað þó ei umgilti í einu villuhafi. Miklir straumar eru í þessum villusjó, er stundum áhlaupa, svo að furðu gegndi, ýmist með eða móti. Eitt sinn sigldum vjer í vænni byrkylju frá miðdegi til annars, og nær stýrimenn höfðu sólarinnar hæð náð eftir venjunni, spurðu þeir mig og nokkra að, hversu margar mílur á þeim 24 stundum að vjer meintum oss siglt hafa? Vjer gátum til 30, sumir 40, en þeir kváðu oss til baka 18 mílur rekið hafa. Tíu menn rannsökuðu sólargang fyrir og um hvert miðdegi, sem var fyrst 3 stýrimenn, þá kaptuginn Christophor Boye, 3 kaupmenn, skipherrann, assistent Søfren Nielsson minn góður vin, og einn byssuskytter Andrjes Ólafsson. Og strax sem vjer útsigldum, bauð kaptuginn mjer að læra upp á stýrimannsskap og taka sólarinnar hæð, en eg hafði forlofað mig 3 mönnum að kenna þeim á bók, hvað eg og fullkomnaði með guðlegri tilhjálp. En hver þeirra lofaði mjer sínum 3ja mánaða peningum en eg fjekk ekkert þar af; því í artíkulunum bannast að nokkur sá, sem ætti kvinnu, börn, foreldra eður systkini mætti sínum launum forlofa utan hann sjálfur til entist, en allir þessir 3 menn burtsofnuðu í Indíum.

Og nær vjer komum undir línuna Equinoctialis[1]), sem er miðdikismæliþráður jarðríkisins og því kallast miðjarðarlína, sögðu stýrimenn oss að vjer hefðum hana nýársnótt í gegnum siglt, reiknaðist frá því (að mig minnir) að sólin hefði verið í línunni fullar 12 eða 13 vikur. Um þann tíma kvað þar engum manni vært vera fyrir ofurhita sakir. En nær sem vjer þar vorum var þar frábær hiti, svo að sá sjór, er fyrir nauðsynja sakir var upp dreginn, var svo mjög bráðheitur, að menn gátu varla hendi í haldið, nær fyrst uppkom, og á þeim mat sem skyldi afvatnast mátti ei lengur sjór á standa en 4 glös, það eru 2 partar úr eykt. En ef lengur er, verður sá matur sem sót að lit nær soðinn er, og má

[1]) Miðjarðarlínan, æquator, var stundum kölluð svo áður, einsog sjá má á gömlum kortum.

fyrir borð berast. Nær sólin er rjett í línunni, sem tvisvar á hverju ári við ber, sem er vor og haust, eftir því sem hennar gangur er frá oss og til, þá blása þar allir vindar úr miðju lofti, svo engin skip kunna þá þaðan í 12 eður 13 vikur burt að komast, sem fyrri skeð hefir, og þar með fá menn undarlega sjúkdóma. En nú forðast menn um þann tíma þar að koma fyrir sakir þess sem nú var nefnt. Ei blása á þessari leið austan- nje vestanvindar, utan norðan- og sunnanvindar, og stendur norðanvindur á vetur og þá hljóta menn hjeðan ferð hafa þangað, en sunnanvindur um sumar, og stendur hvor í hálft ár, en á sumur sjest eigi skýskaf á himni í Indíen, og verða því hitar svo miklir að aldrei dregur fyrir sól, en á vetur blæs norðanvindur með regni úr hófi því sem hjer skeður, eldingum, skruggum, reiðarslögum og jarðskjálftum, og vara fram að páskum. Nær sem menn eru komnir suður fyrir línuna og menn hafa siglt öll himintungl aftur yfir hvirfil sjer, þá sýnist sem þau öll öfugt gangi, sem er sól, tungl og stjörnur. Nýtt tungl sýnist þá svo sem það hið síðasta í tungli vor hjer á meðal og bregður mönnum í fyrstu þar við mjög undarlega. Ský á lofti sýnast oftlega með ýmsum myndum, og skeður af sólarinnar skarpri verkan, og þeirra ofurþurk þar af. Svo er sólarinnar hiti frábærlega mikill, að menn þeir eð standa framarlega á skipinu og vilja aftur komast, hljóta sig fyrst þar til að mynda, og síðan hlaup gjöra hið harðasta, því svo verður þilfarið heitt svo sem brennandi eða sem í funa stigið væri, og alt bik fer burt af skipinu og öllum skipsins reiðskap, svo að skipið sýnist alt hvítt og skinið. En þvílíkt ormakyn, sem gegnsmjúga sum þau trje, hjer finnast rekin, gegnbora að mestu þau skip að Indíen fara, svo undir furuhúð hljóta þeir blýhúð að hafa. Og nær vjer vorum komnir 3 gráður suður yfir línuna, sáum vjer koma eitt skip í móti oss, svo sem frá landi við, og hugðum vjer óvini. En sem vjer litum þeirra toppmerki, er þeir flag nefna, þektum vjer gjörla hverjir þessir menn voru, því 11 eður 12 vikum fyr en vjer útsigldum, sendist eitt skip út frá vorum kóngi til Indíen, sem nefndist Flensborg, í það

land sem kallast Moritzen[1]), eftir svörtum við, sem blýþyngd hefir, og út verður vegið í metum, með hverjum þeir forprýða skápa, þilverk innanhúss, byssustokka og hvað annað fleira, sem viðvíkur, og skyldu sjálfir hann upphöggva, þar vex í skógi, og urðu með oss fagnaðarfundir. Með þessum vorum vjer lengi í samfylgd og varð oss það til stórrar skemtunar. En nær vjer þar næst land litum var það Afríka, 12 mílur frá Caput de Bona Sperantia, sem kallast Bay van Sardanien[2]), og voru þá liðnar 18 vikur fullar, sem vjer höfðum ei land litið, og 2 dagar að auk, frá því vjer sleptum Barbarii úr sjón, en þetta var þriðjudag. Sá maður er fyrst sá land fekk flabkönnu víns, og vjer glöddumst þar við mjög. Einn maður á hinu skipinu, sem var hollenskur, sem og hinir allir aðrir, hafði eitt sinn fyr meir við þetta landspláss komið á sinni indíaniskri reisu. Þar sem vjer innsigldum var svo sem einn breiður fjörður og eitt mjög fagurt land á báðar síður, mjög lystilegt með skógi vaxið. Úti í þessu fjarðarmynni var einn stór hólmi, á hverjum voru margir selar, þeir eð gengu sem menn væri, og vjer meintum fólk vera. Nær vjer inn hjá sigldum, lá þessi hólmi á bakborð við oss, mjög fallegur tilsýndar, á honum var og margskonar fuglamergð, einkum páfugl hver að er tveggja faðma í sinni flaug, með frábærlega fögrum lit. Item halcion með hvítum lit. Í þriðja lagi er þeir kalla crobgans[3]) eins stór með gráum lit, hvers vjer og neyttum. Í fjórða lagi einn minni fugl, er þeir kalla pihvin eður pichvin[4]), hann hefir bæði sels tegund og fugls; hann hefir sels húð en fugls sköpun. Hans vængir loða til samans sem fugls fit, og er að stærð sem æður og þvílík hans egg sem æðar, hann flýgur ei lengra en yfir breiða

---

[1]) ɔ: eyjan Mauritius, viðurinn, sem talað er um rjett á eftir. hefur líklega verið íbenviður.

[2]) Caput de Bona Sperantia = Góðrarvonarhöfði; Bay van Sardanien = Saldanhaflóinn.

[3]) holl. kropgans, d. kropgaas = pelíkani (pelecanus onocrotalus),

[4]) líklega er átt við pingvin (aptenodytes), þó lýsingin sje ónákvæm, meðal annars að því leyti að þeir fuglar geta ekki flogið.

damma; og nær hann liggur á sínum eggjum, svo vill hann ei út fljúga af sínu hreiðri, en bítur menn í hendur og fingur, sem hans eggjum ná vilja, svo ávalt hlýtur einn að hamla, nær annar skal taka. Svo skeði mig eitt sinn, að vor prestur og eg fylgdumst þrátt þegar á land gengum, og skyldum ná eggjum, og varð sá að halda þeim með stokknum, er ei tók, en nær hann svo hjelt, náði hann samt til mín og beit mig illa í minn hægri handar fingur, hvað prestinum þótti sjer mikið hafa á orðið.

## X. KAP.

Og nær í fyrstu vjer þar inn komum lögðumst vjer þar nálægt þessum hólma, og fóru yfirvöldin með þeim litla bát til hólmsins með nokkra menn, og eins af hinu skipinu, Flensborg. En mjer og mínu kvartjeri byrjaði þennan dag með þann stóra bát að fara, hvern þeir kalla skiötte[1]), og höfðum vjer þá ei með bát farið vel í 20 vikur, utan eitt sinn með þann litla, nær vor kaptugi skaut þá tvo fugla. Vjer höfðum tvö net innan skipsborða sem eitt var 200 faðma langt, en annað $1^{1}/_{2}$ hundrað faðma að lengd, hver vjer með oss tókum og rjerum nokkuð inn á þennan fjörð, vel hálfa viku sjóar, og í það sinn sáum vjer engan riðlafisk uppi krapa, fórum vjer þar á land að skoðast um. Í fjörunni láu þær fögru tómu skeljar, sem varla verða brotnar, en eru svo fagrar nálega sem gimsteinar; af þeim tókum vjer nokkrar. Þar gengum vjer upp í skóg þann, er mjög þykkur var, og lá upp á hæstu fjallshæðir og langt með sjóarströnd. Svo var hann frjófur sem smjör væri höggvið, svo með vorri verju eður pampert[2]) hjuggum vjer hvert feðmingsdigurt trje, þar vjer tilreyndum, sundur með einu

---

[1]) ɔ: skøjte, uppr. af hollensku orði schuit(je).
[2]) pampert, einskonar stutt sverð.

höggi eður tveimur. En nær maður vill sjer nokkurn efnivið af þessum skógi höggva og hann geymist í 6 vikur og náir að þorna, verður hann svo harður sem eitt bein. Þar hjuggum vjer upp nokkur grasker, er í Danmörk svo kallast, en í Spanía simpherphei[1]), það er skapt sem afmáluð sól: innan í því miðju er sem einn stór hnöttur, að stærð sem eitt lítið mannshöfuð; í þess geislandi öngum og hnetti, nær þeir það brjóta, er feitt og grænt oleum, í hverju að er sú besta lækning og smurning til meiðsla og meina, nálega jafnskjótt og því verður á brugðið. Þetta hjelt Doctor Hans Resen (góðrar minningar), erkibiskup í Sælandi forðum[2]), að verið hefði sá lundur, sem Guð ljet vaxa yfir höfði Jonæ spámanns, með sömu skikkan, sem ei er ólíklegt. Síðan komum vjer heim til skips aftur með tvær hendur tómar og engan ábata af sjóaflaföngum. Voru þá margir fuglar í skipið komnir, sem matreiðast skyldu, af slíkum er eg fyr nefnt hefi, hverjir á hólminum handtakast máttu, sem og selarnir, hverjir gægðust framan í oss og beljuðu við, af hverjum þeir velja þá hina yngstu og smærstu til matar, er með soði og sviskum og einnin með hunangi matreiddir verða. En á þessum hólmi er mjög stöðuvant, á þeim flúrum og þar gras er, sakir fugla og sela drits. Efst uppá hólms hæðinni stendur ein há stöng, á hverja negld er ein breið fjöl eður skífa, og á þeirri skífu standa meir en þúsund fangamörk. Þar uppreistum vjer og einn stólpa og skífu á neglda og skar Cláus From, vor timburmann, þar uppá og þar stendur mitt og margra annara fanga-

---

[1]) á dönsku er til jurtarnafnið „Græskar"; „simpherphei" er bersýnilega spænska orðið „siempreviva", sem er notað um ýmsar sígrænar jurtir, en það er líklega af misskilningi að Jón Indíafari notar það um þessa plöntu. Líklega hefur það heldur ekki verið grasker (lat. cucurbita, sp. calabaza), þó það máske hafi líkst því til að sjá.

[2]) Sjá ath. bls. 36; í biblíuþýðingu sinni hjelt hann því fram að Jónas spámaður hefði setið undir graskeri, og svo hefur hebreska orðið verið skilið í mörgum biblíuþýðingum (t. d. í hinum algengustu ensku og spænsku þýðingum); í ísl. þýðingunni Oxf. 1866 er orðið lagt út „undurnjóli".

mark á þessari skífu, eftir siglingamanna vísu. Við þessa hólms kletta, nálægt því sem vjer plöguðum að lenda við hólminn, lá einn mikillega stór hvalur, sem menn meintu að vera mundi 400 eða 600 álna langur, með miklum hrúður-hnyðjum á höfði og baki, með frábærlegu öskri, svo manni fanst land skjálfa við, og var því óttalegur mjög, bæði af ógna stærð, enda af hans mikilli skjálfandi raust. Að hólminum gengur mikið hafbrim, á þann veg er til hafs vendi, í hverjum brimsúg að þessir selar, á milli þess þeir gengu á landi, bárust ýmist fram af þessum flúrum eða upp aftur, en nær útdráttur kom, og þá frambar, svelgdi þessi hvalur mikinn fjölda af þeim, og sumir gáfust upp aftur, svo það var bæði óttalegt og til gamans á þetta að horfa. Presturinn og eg skutum á víxl til hans tíðum, hverju hann gegndi ei meir en litlu dufti. Þrír menn flógu einn lifandi sel einn tíma og sleptu honum svo fram í brimið til hinna, varð þá mikið gnöldur og háreysti þeirra á milli, nær þeir litu hann rauðklæddan.

Síðan, að tveimur dögum liðnum, uppdrógum vjer hvorutveggja vor atkeri og sigldum inn lengra á þennan breiða fjörð, alt inn að einu eylandi, er þar lá inni; þar lágum vjer í 14 daga og hreinsuðum vjer vor skip neðan, sem mjög voru slýjuð og hrúðruð, og þar voru skipin ofan að sjómáli og upp á topp lapsalveð[1]) og smurð, það er: öll bikuð og stoppuð, utan borðs og innan, með þilfari og öllu því þar til hlýddi, og þar ofan í voru brotnar þær fögru skeljar, sem í bikinu storknuðu, og nær alt var klemt og fullharðnað, þá glistu þessi skeljabrot í sólskini, sem gimsteinar um alt þilfarið væru niðurskrúfaðir og settir. Á meðan þetta verk yfir stóð, fór hvert kvartjers fólk langt inn á þennan fjörð, með netin til fiskidráttar, vel viku sjóar. Þar inni lágum vjer í stóru tjaldi og gjörðum oss þar einnin laufskála, og 2 er sjúkir voru í 9 eður 10 nætur, sem voru þeir Þórður og Andrjes og vildu fegnir þar andast og greftrast, en Herrann setti þeim í öðrum stað afgangstíma og legstað,

---

[1]) d. lapsalve, bika upp.

sem var þeim eina á landi, en öðrum á sjó. Þar inni höfðum vjer mikinn fiskidrátt á víxl til beggja skipanna. En þeir Hollenskir, sem voru á Flensborg, höfðu ekkert net, og meðdeildum vjer þeim allan helming við oss. Einn tíma drógum vjer í einum drætti 12 tunnur af þeim dýrlegasta fiski, hver oss var óþekkjanlegur, en á mörgum vissu þeir nöfn, eftir því sem Spanskir fá þá nefnda, þó eg hafi því sem fleira gleymt. Sá fiskur, sem þeir kalla carvala[1]), er langur og mjór sem áll, en þó flatur en ekki sívalur, hann er mjög góður átu. Abborar eru nokkrir þar í bland og karfar. Einn af þeim er sem rúða í glerglugga að sköpun, mjög góður og lystilegur átu. Einn þeirra er í fyrstu að sjá, meðan hann er ósundraður, sem eitt marglot, sem fagrast er tilsýndar, en nær sem það hýði er af honum tekið, er þar spegilfagur fiskur undir, og nær hann er krufinn, út vellur af hans kviði besta blek, sem hin besta substantia. Hinir aðrir eru með mörgum hætti að sköpun, fegurð og smekk. Einnin er þar makríll, sem þeir og kalla machrael, mjög lystugur og góður átu. En það fólk er þar bjó vildu ei nje voguðu oss að finna. Víða fundum vjer þeirra vistir við sjávarströndina, þar sem þeir veiða fiskinn í sínum netum, þar strax steikja þeir þá og matgjöra fyrir sig. En upp á fjöllunum, sem að eru öll með miklum skógi og dýrlegum grösum og blómstrum vaxin, þar kyntu þeir stórt bál, hvar margt fólk stóð um kring, en ei vildu þeir ofan koma til vor, enda voguðum vjer og ei upp til þeirra. Sumir meintu, að þeir myndu benda oss upp til sín með sínum bálloga til að finna sig. En aðrir meintu til þess að tæla oss í sínar snörur. Þriðju meintu þetta vera þeirra afguðabál. Síðan að liðnum 13 dögum hjeldum vjer þaðan og sigldum þær 12 mílur á næsta degi til Caput de Bona Sperantia. Og nær vjer komum þar fyrir, og vjer vildum upp að landi halda, þá sáum vjer þrjú stór skip þar undir land komin og vorum vjer hræddir mjög, því vjer hugðum

---

[1]) jeg veit ekki með vissu við hvaða fisk hjer er átt.

það Franska vera mundu, því þeir flakka víða fyrir hvalveiði, og vjer fundum 3 pípustampa með grotta eftir þá, á því eylandi er vjer dvöldumst. meðan vjer smurðum vor skip, en vor á milli var óvingan í þann tíma, af hverju það reis milli kónganna minnist eg ekki[1]). En frá snúið gátum vjer ei, því vindur stóð af hafi og urðum vjer undir landið að halda fyrir kost og muni, enda nauðsynjaði oss stórum þar að koma, vatn að taka og ferskt kjöt að fá fyrir vort fólk, sem mjög var svekt orðið á þeirri löngu reisu. Vjer bjuggum oss til höggva, ef með þyrfti, og lofuðu hinir að fylgja oss, meðan líf til hrykki. En nær vjer komum nær landi, sáum vjer þeirra toppmerki, að þeir voru engelskir menn, og urðum vjer þar við næsta glaðir. En nær vjer sigldum þeirra á milli upp betur að landi við, strikuðum vjer hvorugir fyrir þeim, hvað þeim illa líkaði, og kom strax þeirra aðmíráll um borð við oss og var ævareiður. En vor kaptugi var engelskur að faðerni, en norskur að móður, og talaði góða engelsku, og var strax til friðs, drukku þeir svo langt fram á nótt. Tvö þessara skipa voru á sinni heimreisu en eitt á sinni útreisu, og skal nú tala um þau 2 skip, sem voru á sinni heimreisu og mikinn ríkdóm höfðu inni, af því þeir yfirunnu eina spanska kráku á sinni útreisu, sem var fermd af kláru myntuðu silfri, sem var stykki van achten[2]), og var þeirra aðmírálsskip uppá 700 lestir, en hitt uppá 500 lestir, og höfðu þeir slegist við þá í 2 nætur og 2 daga, og mist 5 menn, höfðu þeir út varpað öllum sínum pipar og indíaniskri vöru. Og aldrei sögðu þeir svo rík skip hefðu komið inn fyrir Lundún, sem þessi 2 skip. En svo var krákan þeim stærri, að þeir gátu ei tekið nje upp-

---

[1]) Skipin, sem Ove Gjedde vann (sjá bls. 192) og taldi vera víkingaskip, voru frönsk; út af því varð ósamlyndi milli Frakka og Dana um hríð, og ljeku hvorir aðra grátt er hittust, þó eigi væri kallað friði slitið milli þjóðanna.

[2]) svo var á þeim tímum oft kallaður spænskur silfurpeningur, real de à ocho, sem gilti 8 reales, (1 real = hjerumbil 15 til 35 aurar, eftir mismunandi gæðum silfursins).

unnið alt hennar gjald, svo þeir í vald ljetu Hollenskum það eftirblifna, og þeir gátu eigi meðtekið, og bífölubu þeim krákuna upp brenna að lyktum.

## XI. KAP.

Yfirmenn þessara skipa hjeldu sig ríkmannlega í stáss og klæðaburði, svo að nær þeir gengu á land, ljetu þeir á stöng bera eina forgylta húfu yfir sjer og sínu höfði fyrir sólarinnar hita og bjartleika, er þeir kalla chipsol[1]) eftir indíanskri vísu. Ei var svo neitt lítilmenni þessara skipa, að nær á land gengu með sínum herrum, og jafnvel þeirra smáu pickers[2]), að ei væri að henda spánska dali, sem hjer plagaðist völur. Einn dag ljet M. Henrich, vor bartskeri, og eg, flytja okkur til þess stærra skipsins, nær þeirra yfirmenn voru á land komnir. Og nær eg fyrstur manna stje upp úr vorum bát, og eg stóð við borðstokkinn, var einn ungur mórskur maður að fága þeirra skip, og strax sem hann leit mig, brá honum lítt við, og bljes í sinn hnefa eftir indíaniskri vísu, og strax kom einn piltur af þjenurunum, og spurði mig hver eg væri? Eg sagði honum slíkt sem var, og hver maður bartskerinn væri slíkt hið sama og einnin. Hann rak í há köll, eitt til constabel og annað til meister barbírs, það er til þeirra bartskera, svo þar kom einn eftir honum en annar úr arkelíinu eftir mjer, og urðum í besta máta af þeim trakteraðir með því besta spanska víni. Eg skenkti honum 2 stikur af tilbúnum og góðum tóbak, og hans mæti hálfa stiku, hvað hann mjög prísaði og þakkaði og hann skenkti mjer indíansku ljerefti í 2 skyrtur, sem kallast caton, og er gjört af bómullu. En hans mæti lá

---

[1]) á eldri ensku: kippesole, síðar kittysol, kitsol, afbökun úr portúgalska orðina quita-sol, sólhlíf.

[2]) líklega er átt við vikadrengi á skipunum.

mjög lemstraður, hvers handleggur brotinn var af skotum. Hann skenkti mjer eina litla skál, sem gjörð var af perlamóðum. Að endaðri þessari þeirra veitingu, loknum kveðjum og mildu þakklæti af okkar hendi, tókum við orðlof til burtferðar og ljetu sína 4 menn flytja okkur til okkar skips, og gjörðum við þá vel lystuga eftir föngum.

Einn dag fór eg í land og mitt kvartjer og vor yfirvöld ásamt þeim engelsku; var bátsmönnum skikkað vatnsföt að fylla, en oss öðrum 24 með byssum og brennandi luntum yfir þeim vörn og vaktan hafa fyrir landsins illþýði, er sig þar tíðum hylur við ströndina í skógarrunnum, nær svo við ber, að framandi sjófólk og siglingamenn eru fyrir hendi, því þar er engin bygð við sjóinn sakir ljóna og annara meinvætta, af hverjum þar er mikill fjöldi. En þessir skálkar eru mannætur, er þar um ringla, þeir höfðu drepið 7 menn og etið af þeim 2 engelsku skipum á þeirra útferð, og höfðu náð þeim með lymskuhætti, að þeir huldu sig í runnum og skutu þaðan til þeirra með sínum bogum. Þar með sækja þeir eftir járni og kopar framan á sínar pílur, og gefa siglingamönnum naut þar fyrir oftlega. En til bygða er svo langt upp á landið, þar sem rjett fólk er, að menn naumlega komast aftur og fram á tveim dægrum. En hvað þeir fá útvegað af þessu áðurnefndu hjá aðkomandi mönnum, selja þeir það út aftur þeim, sem uppi í landinu búa. Svo fæst ein stór kýr fyrir þriðjung járnsviga af tveggja tunnu fati, og kalla þeir járn og kopar bras, en vort brauð kalla þeir vúracka[1]). En því sækja þeir svo mjög eftir járnföngum, af því þar var í þann tíma sífelt stríð að spyrja upp í landinu, í millum tveggja herra. Þetta fólk nefnist í öðrum löndum Capher[2]), af hverjum eg fjekk þrjá að líta í þessum

---

[1]) „bras“ virðist vera lánað úr ensku „brass“, en „vúracka“ get eg ekki sagt með vissu úr hvaða máli er. — Eg gæti þó helst hugsað mjer, að þessir menn hafi verið Hottentottar, og þá máske Namaqua-Hottentottar (á því máli heitir t. d. „sá sem á nóg brauð“ berecha, en brauð beréb, sjá: Kroenlein, Wortschatz der Khoi-Khoin (Namaqua-Hottentotten) 1889, bls. 42), en það er aðeins laus getgáta.

[2]) = Kaffar; nafnið er upprunalega komið úr arabisku: kâfir =

stað; þeir eru svartir, brosleitir, hýreygðir og hrokkinhærðir, en þó mótlíka sem á unglömbum er þeirra hár. Þeirra neðri vör hangir nokkuð, með snjóhvítar tennur í munni. Þessir þrír dönsuðu fyrir oss, bæði á landi og á skipi, fyrir brauð og klúta, og naktir gengu þeir utan fyrir sinni blygðan. En svo var þeirra dansleik háttað, að undir eins og þeir kváðu og sögðu »hottentott!«[1]), þá spretttu þeir með sínum 2 fingrum og með sinni tungu og fótafari, svo alt að fylgdist. Þessir þrír lofuðu oss einni kú til forfrískunar fyrir oss, sem mjög höfðum þess þörf, því flest af voru fólki tók til að þvingast í limaburðum og stirðna í viðvikum, en þó blóðtökur og púrgatsíur væru tíðkaðar á reisunni. En vjer fórum fyr en þeir aftur komu, en launin hálf tóku þeir út áður. Nú er til þess að víkja, sem vjer gengum á land frá bátnum með vorum yfirvöldum ásamt þeim engelsku og spátseruðum með sjóströndinni, hvar að voru fagrir sandar með sjerdeilis skemtilegu áliti. En sá þari, sem á land rekur, er allur öðruvís en hjer plagast. Hann er flestur á mynd sem trómetspípur og allur holur innan; þá er enn annars slags, að mynd sem egg, og er líka holt innan, svo að sumt af því tekur hálftunnu, og sumt heila, en er svo ljett upptaks sem pappír, af því taka siglingamenn sjer nokkuð til hnattmiða, nær þess við þarf. Og nær vjer svo gengum með ströndinni að spátsera, litum vjer hóp þessara illþýðisskálka fyrir framan landið, og þar fyrst á braut, þeir eð án báta á sundi lögðu net sín. En vjer, sem hjer um ókendir vorum, meintum selahnapp vera.

---

vantrúaður; það hefur verið notað um ýmsar Suður-Afríkuþjóðir, einkum þær er tala bantú-málin. Stundum eru Hottentottar taldir undir þann flokk.

[1]) orðið „hottentot“ og þjóðarnafnið Hottentottar er svo til komið, að í bantú-málunum eru til ýms hljóð, sem ekki eru til í öðrum málum, og eru mynduð með því að skella tungunni ýmislega í góminn; á ensku hafa þessi hljóð verið nefnd „click sounds“, og mætti kalla þau á íslensku „smellihljóð“. Hollendingar bjuggu nú til þessi atkvæði „hot en tot“ = „hott“ og „tott“ til þess að líkja eftir þessum hljóðum, og varð það smámsaman að nafni á sjerstakri þjóð og máli hennar.

En á meðan vjer svo þetta hugleiddum og hvað fleira sem fyrir sjónir bar, gengu oss úr minni vorir menn, sem vjer skyldum vaktan á hafa. Og nær vjer vorum þangað komnir, sem vor yfirvöld og Engelskir með sínum staðar numdu, tendruðu þeir þar eld og gengu sveinar til línþvottar, en aðrir til leika ýmsra. En trómetar[ar] iðulega voru í sín trómet blásandi, en herrarnir voru niður setstir í þessu skemtilega rjóðri og upphófu víndrykkju sín í milli, og var þetta nær hálf míla frá voru fólki og þar sem bátar stóðu. Og nú sem vjer vildum þangað aftur hverfa, kom einn Engelskur oss í móti heldur hvatlega gangandi, og bar oss þá fregn ógóða, að alt vort fólk væri drepið af þeim vondu mannætum, sem vjer hefðum við ána þar eftir skilið. Nú má hver vel gegna, hvernin oss muni viðbrugðið hafa, utan vjer tókum til hlaups það mest hver gat og orkaði; margir af oss töldu sjer þungar tölur á veginum, að vjer líflátnir verða mundum fyrir vonda aðgætni, svo að eg og einn að nafni Niels Fris höfðum nóg að gjöra að eyða þeirra dugleysi og vanstyrktarorðum. Og nær vjer komum svo nær, að vjer sáum þangað, er þeirra var von, gátum vjer litið hvern í sinni iðju standa, með fullri tölu, hvar af vjer stórlega glöddumst af hjarta, með gráti gjörandi Guði auðmjúkar þakkir. Vorum vjer þá svo þreyttir af hlaupum, nær vjer þangað komum, er þeir voru, og sögðum vjer þeim, hvað vjer heyrt höfðum, hvar til þeir kváðu ei annað tilhæfi vera en 5 menn af þessum óskapalýð hefðu til komið og beðið sig að gefa sjer hálfan járnsviga. En þeir aftur með bendingum kváðust ei mega, en þeir blökku bófar hefðu bent sjer upp í runnana, hvar uppá sá hinn engelski sjeð hafði, og hljóp af stað í því sama bili. Og fötin urðu fylt og hvað annað, sem tilhlýddi, fullgjörðist að mestu, sem var línklæða þvottur og ullklæða. Og þann 20 marka áttung, er eg geymt hafði undir mínu höfðalagi frá Kaupinhafn og þangað fullan vatns, fylti eg þar aftur. Síðan komu yfirvöldin hvorutveggju og fylgdumst vjer til skips. En að næsta morgni eftir drógum vjer aftur til lands með þann framliðna mann, annan þeirra er fyr voru nefndir og sjúkir

lengi legið höfðu, hver þó djúpt væri grafinn, var næstu nótt eftir hans gröf af ljónum[1]) upprótuð, svo sem plagast allra hinna annara, sem þar verða grafnir. Þar með höfðum vjer vor brjef í land, þau sem skrifuð voru um vora velgengni til Danmerkur á útreisunni þangað eftir venjunni, þar við sjóinn verða í einu koffri í eina mjög djúpa gröf niðurlögð, hvar yfir einn stólpi er settur, á hvern ein lítil fjöl er negld, með þessu marki: og þar með þessi orð skrifuð: »Hjer undir liggja þau brjef, sem komast eiga til Danmerkur, frá skipinu Christiánshöfn,« en það er siglingamanna vísa, að hverjir, sem eru á sinni heimreisu, taka hinna brjef, sem eru á sinni útreisu, og þeir finna í þessum greindum stað, með nefndum ummerkjum; það sje nú nóg hjer um talað.

En nú með fæstum orðum skal tala um Afríka[2]), sem nú er hinn fjórði partur veraldar, og er stærri en Evrópa, og minni en Asía, því Asía er svo stór sem Afríka og Evrópa. Þessi álfa, Afríka, liggur rjett undir sólinni og hennar gangi, hún afdeilist af línunni í 2 parta, og nær suður fyrir línuna og norður nær 25 gráður, svo öll sú álfa er heitust undir sólunni í allri veröldu, og nær til Asía í Egyptalandi og til Arabía, og af sjónum umbeltuð, En í millum þess og Asía er það Rauða Haf og það Mórska haf[3]), en þar sem að norðan vendir, í millum Afríka og Evrópa, er Strætið[4]). Afríka er ekki svo gagnbygð sem Evrópa, heldur víða í eyði og stór skortur á vatni. Í þeirri álfu eru mörg villidýr, sem eru fílar, sem kallast elefantar, ljón, panterdýr, drekar, apynjur, felfross[5]), pinsvín, slöngur, basiliscus, krókódílar og fleiri önnur skaðleg dýr. Afríka deilist í 13 parta, af hverjum að er Egyptaland og Barbaría og Numidia, og nær til fjallsins Atlas, sem eins er og Hekla hjer innanlands og til

[1]) það hafa líklega verið hýenur, en ekki ljón.

[2]) Þessi lýsing er tekin úr Compendium Cosmographiæ Hans Nansens, sbr. formálann.

[3]) líkl. á Jón Indíafari hjer við Indlandshaf.

[4]) = Gibraltarsundið (Njörfasund). Stundum er orðið notað um sjálft Miðjarðarhafið.

[5]) = þ. Vielfrass, d. fjældfras (gulo tuscus).

þeirrar óbygðar Lybia og í vestur að Vesturhafi. Í Nigritterlandi[1]) eru 25 kóngaríki. Í því landi eru fáar borgir. Innbyggjarnir eru svartir, þeir búa í torfþöktum húsum, sem eru með torfveggjum. Þessi lönd eru öll frjósöm með rísgrjón, bjúgmjöl[2]), bómull, fje, gull og elfenbein. Abissini[3]) er eitt gott og stórt kóngsríki. Því stjórnar Preto Jóhann[4]) eður Jóhann Belul. Það ytsta Mórland er mikill hluti af Afríka, sá syðri hluti þessarar álfu, svo sem og allur endinn af Afríka, og því lengra sem það nær, því mjórri verður hann, til þess hann verður að einum höfða eður annesi, sem kallast Caput de [Bona] Sperantia, sem er nú þessi oddi, að hverjum vjer nú vorum komnir, og hjer verður um getið, hvar við flestir Indíafarar verða að koma að taka sjer vatn og forfrísking, þegar vindar svo í vil falla.

Nú er þar aftur til máls að taka, sem vjer vorum við loknir vatn að taka og fyrir oss að hagræða einu og öðru, sem til fjell, fýsti oss ei lengur þar að dvelja. Og á þeim 4. degi frá því vjer þangað komum, að lokinni þeirri veislu, sem hvorir veittu öðrum, Danskir og Engelskir, hjeldum vjer samjafnt hvorir öðrum þaðan frá landi, hvor á sinn veg, er þá girnti, þau 2 engelsku skip á leið með sinn ofurmikla ríkdóm, sem kaptuginn eignaði sjer fimtung úr allri fragtinni, en 80,000 dali fyrir ofan þilfar við skipsfólkið í sinn hlut. En það þriðja engelska skip, sem var með oss á sinni útreisu, fór með oss þar til einn mikill stormur oss aðskildi.

Síðan kom sá dagur, að vjer og vorir stallbræður skyldum aðskiljast, drukku yfirvöldin beggja skipanna velferðar

[1]) = Súdan (Nigritia).

[2]) = byggmjel; hjá H. N. stendur „Biug".

[3]) Abyssinía.

[4]) Preto Jóhann; á þessu nafni stendur svo, að á miðöldunum bárust til Evrópu ýmsar sagnir um kristið ríki í Asíu, og síðar um hið kristna ríki í Abyssiníu, og var konungur þess nefndur í sögnum þeim „Jón prestur", en nafnið bjagað á ýmsum málum t. d. á ensku Prester John o. s. frv. — Um nafnið Jóhann Belul sjá G. Oppert: Der Presbyter Johannes. Berlin 1864, bls. 10, neðanmálsgrein. Í staðinn fyrir þessi nöfn hefur C. „Jóhann Presbyter" = Jón prestur, en eg hef haldið rithætti betri handritanna en tel ritlátt C.-handritsins leiðrjetting skrifarans.

minning fyrir, og sigldu þeir sína leið en vjer vora í Jesú nafni. Og það land, sem vjer fyrst sáum og oss girnti að ná, var Madagascar; vorum vjer á leið þangað 5 vikur, en vegar lengd í milli Capo de Bona Sperantia er nærri 300 mílur. Þetta land kallast öðru nafni Sankti Laurentz, og er eitt land frábærlega stórt, og er lengra en öll Ítalía, mjög ávaxtarsamt af öllu því, sem þjenar til mannsins uppheldis, einkum af rís, bómull, sykri, límónum, nelliker, ingiferi, safrani og mörg önnur vara. Á þessu eylandi eru engar borgir, heldur þorp nokkur og eru 6 þau helstu. Þetta eyland liggur í landnorður frá Capo de Bona Sperantia, við þetta land er mjög aðdjúpt, og skamt frá landi, sem vjer láum, var 100 faðma djúp, hvaðan ei var meir en hálf vika sjóar til lands. Það var síðla um kvöld vjer þar komum og atkeri rendum. Um morguninn tíðlega var bátur útskipaður af kvartjersfólki, og sent til lands að uppleita fólk og bygðir, hvað ei lukkaðist, og í 5 daga var þar um viðleitað, og fundust engir menn, því bygðir voru þar ei nálægar. Einn sunnudag eftir prjedikun og máltíð fórum vjer ásamt vorum yfirvöldum til lands, og nær vjer komum á mitt sund, hljóp og sprangaði einn fiskur upp úr sjónum, vel álnarlangur, oss öllum óforvarandis, rjett fyrir brjóst vorum timburmanni, Cláus From, svo hann af þóftunni fjell í óvit aftur á bak. Fiskinn tókum vjer og matreiddum síðar og var hinn besti. Þennan dag rjerum vjer inn á einn fjörð, og var mjög fagurt land tilsýndar á báðar síður. Í þann tíma var flóð, og nær vjer komum inn á þennan fjarðarbotn, gengum vjer þar á land og var alstaðar skógi vaxið. Sumstaðar fundum vjer vistir manna og hvar þeir höfðu steikt fisk og snæðing haldið. En nær vjer skyldum heimleiðis aftur, rötuðum vjer fjöru út eftir þessum firði, og sandrifjum og djúpum sjó í milli, yfir hvern vjer urðum þann þunga bát að setja með stórum erfiðismunum, og komum ekki heim til vors skips, fyr en eftir dagsetur, mjög mæddir. Að næstum morgni eftir fjell til prinsins kvartjers bátróður að hafa og fór með þeim sá yngsti kaupmaður, Daníel Lammer[s], með margslags vöru, en þó ei almennilega, því

þar gildir ei silfur nje gull, ei heldur ljereft eða nokkuð það sem gagnsamt er vor á meðal, utan brúður og barnaleikar, item smáspeglar og barna úlfliðabönd, sem vjer köllum kúríel, svo þeir fá fyrir 2 þessi úlfliðabönd 2 kýr yfrið stórar með miklum hornum. Og þess lands kýr hafa það auðkenni yfir aðrar kýr annara landa, sem eg af veit, að þær upp af herðakambinum hafa svo sem eitt horn á myndina, en er þó ei horn eiginlegt, það er hári vaxið og er ei utan mör innan undir skinninu, og hallast aftur á hrygginn nokkuð, en kjöt þeirra alt annarstaðar er magurt. Þeir voru alls að tölu, sem með bátinn til lands fóru, 25. Og nær þeir komu til lands, skildu þeir helming fólks eftir við bátinn, alla vopnaða, og gengu hinir síðan svo frá þeim líka vopnaðir og alt til miðdags, fyr en bygðir fundu Síðan litu þeir einn húsagarð mikinn og þar kom út ung stúlka, og nær hún leit þá, varð henni ilt við, og hljóp inn. Strax kom sá bóndi út, er þar átti fyrir að ráða, þar skildu hvorugir aðra, utan með bendingum. En nokkrar glósur hafði Daníel kaupmaður af þess lands máli og annara landa. Hann fylgdi þeim til bæjar, og brann eldur á skíðum, og þar yfir var leirgrýta með ferskum fiski, hver þeim var strax uppdiskaður til fæðslu, og þeir uppleystu sinn brauðpoka og meðbýttu þeim heima fyrir voru.

## XII. KAP.

Strax í fyrstu sem vorir menn komu til garðs, sendi bóndi til sinna nágranna, þeim þetta að kunngjöra, hvað á ferðum væri, að yfirheyrðu erindi vorra manna. Litlum tíma liðnum kom til þessa bónda meir en 40 fólks með 5 kýr og 300 hænsni. En engin aldini voru á þeim tíma árs fullvaxin, utan pómerans og bónantser[1]), af hverjum

[1]) pómerans hefur á ísl. verið kallað gullepli, það er skylt appelsínum, en beiskt á bragðið; bónantser er líkl. = bananar.

nokkur knippi út fluttust; þeir vaxa í aldingörðum þeirra, 30 og 40 samans í einu knippi, og eru að stærð sem hengdar kytur, einn sjerdeilis góður ávöxtur, líflegur og velsmakkandi og svo sem ífeitur sje, og eru góðir við brauði að eta. Einnin kom nokkuð af vín de palme, sem vjer köllum pálmviðarvín, er kemur af pálmviðartrjám, og er með of sætum smekk. Þessum vorum kvartjersmönnum dvaldist fram á nótt, fyr en þeir út til skips aftur komust. Nú í þetta sinn fjell mjer til fyrst vakt um kvöldið á skipinu, því við land og atkeri plagast ekki að vaka utan einn um sinn, og biður kaptuginn mig einkanlega að hlusta nú vel til og biðja til Guðs, að vorir menn mættu oss aftur með lífi sendast, og svo líður lengi fyr en þeir komu. Kaptuginn er þá óttasleginn fyrir þeim ásamt kaupmönnunum, að þeir af landsmönnum mundu lífi firtir, og gengur hann ýmist til mín eður frá, svo kaptuginn og alt skipsfólkið gjörðist hrygt og grátandi og virtist öllum til stórra rauna á horfast sem nærri má geta, hefðum vjer mist vorn bát og fólk. Þegar liðnar voru 2 eyktir af dagsetri, þá kemur enn kaptuginn til mín grátandi og hryggur mjög, og segir nú útkulin von sje þeirra framar að vænta. Eg bið hann eflausan vera um þeirra afturkomu. Hann gengur svo í burt grátandi og biður nú Guð um, að eg mætti sjer góðar frjettir færa. En skamt eftir þessa vitjan, heyrðist mjer lítið kvak til manna, fyrst lítið en síðan meira og glögt, og þá með skyndi gekk til káhyttu og segi kaptuga frá, að þeir nú komi. Hann strax á fætur og út og heyrir þá til þeirra. Varð hann þá svo glaður og fagnandi, og kaupmenn, að hann sækir eina sína flösku og skipar mjer að drekka sem mig lysti. Strax sem þeir koma að skipsborði varð þeim vel fagnað, þessar 5 kýr inn teknar, og hænsnin í kippum, sem bundin verða á fótum saman, varð slátrað, og innan miðnættis góð plögun gjörð með krydduðum soðmat og steiktum, svo kaptuginn vakti menn upp til matar, til heilsu og styrkingar.

Að morgni næstum kom á borð til vor sá kóngsson, sem nýlega hafði valdstjórn yfir þriðjungi þessa lands tilfallið eftir nýlega skeðan afgang síns föðurs, sem yfir þessu lands-

ins takmarki hafði stjórnan til þessa haldið, því á þessu stóra eylandi eru 3 kóngaríki sögð. Þessi kóngsson var nærri 20 ára að aldri, hann hafði um sig miðjan vafið einu gullegu og dýrlegu gullvefnaðarklæði, með dýrmætum gimsteinum um kring sett, það náði honum á kálfasporð niður, en upp yfir naflastað. Hann hafði þvílíku gyllinistykki um sitt höfuð vafið, með veglegum gimsteinum sett og prýtt, kostulega gullhringi bar hann um sína úlfliði, með frábæru smíði og gimsteinum þar innsmeltum. Þar með bar hann mikið eyrnaskart, sem voru mikil gersemi af gulli og gimsteinum. Gullhringa 2 bar hann sjer í nösum, sem þar innkræktir voru í þær holur, sem þeim ungum eru þar á gjörðar, og með gimsteinum. Gullhring bar hann á hverjum fingri sjer og á hverri tá, og um mjóaleggi stóra gullhringi með gimsteinum setta. Hans andlitssköpun var hýrleg og var sem brosandi að líta, með dökkbleikt hörund. Hann var mjög glaður, listugur og alteita. Hann var fluttur til vors skips á einum þeirra bát, sem er eintrjáningur, og kallast canoer[1]). Yfir þá miðja liggur eitt trje langt, sem nær langt út af báðum borðum, og er einn útklappaður veglegur steinn á hverjum trjesenda, sem jafnir eru að vigt, þar fyrir báturinn, þó annars valtur sje, má ei kollkastast. Og nær hann fyrst um borð kom til vor, var skotið 3 stykkjum og í trómet lystilega blásið. Á alt hans hold voru ýmislegar myndir áþryktar, dýra og fugla, sem og hans meðfylgjara, hverja hann aftur frá sjer ljet, og til lands sendi með sinn canoe, til merkis að oss svo vel til sín treysti. Hann kom með bónantser, með vín af pálmbómum[2]) og með tamarin[3]), er þeir svo kalla, sem mótlíkt er ásýndar og treagel[4]), það er súrt að smakka, en er mjög heilnæmt bæði að eta

---

[1]) úr spænsku canoa, af amerísku Indíánaorði, en einsog sjá má hjer, líka notað um lík skip í öðrum álfum.

[2]) = pálmatrje, holl. palmboom.

[3]) ávöxt af tamarindtrjenu; kjarnarnir (sáðkornin) og safinn eru notuð til lækninga.

[4]) hjer er átt við theriak, e. treacle, meðalasamsuðu, sem menn þá höfðu mikla trú á.

og svo í drykk, einkum í vatn að láta, og er mótlíka það vatn smakkandi þá og það vínedik er í látið. Það er sjerdeilis gott fyrir skyrbjúg. Þessu pálmvíni hjelt hann að oss með stórri alvöru og klappandi hendi. Lítið af spönsku víni meðtók hann og þvílíkt mikið af brauði. Þá nótt dvaldist hann hjá oss. Ei vildi hann í uppreiddri sæng liggja, heldur óskaði hann og með bendingum ljet merkja, að hann á kahyttugólfinu mætti sína næturhvíld hafa, hvað og gjört var eftir hans vilja, honum til þóknunar voru undir hann breiddar indíaniskar mottur, hægindi og svæflar. Sína verju lagði hann af sjer strax hann kom, kaptuganum í vald, og sín 3 smáspjót, sem kallast hasagayer[1]) og eru svo að mynd, með þeim hæfa þeir nálega hár á höfði manns. En hans verja var með veglegum hætti gjörð, með einu forkostulegu gehengi, sem menn sögðu 5000 dali gilda mundi, því það var alt með gulli baldýrað og dýrlegum gimsteinum sett.

Að morgni dró hann og yfirvöldin til lands. Þar var mikill skógur á landi, þar sem vjer lentum, og var geysilega hár, svo menn meintu 50 álna á hæð vera, 60 og 70, og allur blóðrauður og beinn sem kerti, en svo feitur og frjóvur sem smjör eður sem nýrunninn njóli, en verður sem bein harður, nær til sjerhvers efnis er afhöggvinn og þurkaður. Þar bar hann sig að skjóta með múskittu, sem vjer köllum luntabyssur, en betur tókst honum með sínum hasagayer. Hann bauð vorum yfirvöldum og oss þangað sem hans heimili var, hvað vjer þágum að morgni. En drotninguna hans móður fengum vjer ekki að sjá, því hún lá sorgfull eftir sinn kóng liðinn.

Í þeim stað eður þorpi var einn skóli fallegur, og einn

[1]) = portúg. azagaia, af arabisku nafni (al-zāgaya) á einskonar skotspjótum, er tíðkuðust í Norður-Afríku, en svo fluttist nafnið með Portúgalsmönnum, og nú eru svo kölluð spjót með breiðum blöðum, er tíðkast meðal ýmsra þjóða í Suður-Afríku (Zúlúkaffa, Masaimanna o. fl.). Myndin er tekin eftir B.-hdr.

uppmúraður brunnur fyrir dyrum, með 2 vatnsskjólum á hjóli einu, er þær verða á upp dregnar af þeim ungmennispiltum og stúlkum (sínar fætur þar með að þvo), er í skólann ganga, og ein úthöggvin skrift var með sjerlegu letri upp yfir skóladyrunum, sem vor prestur nje aðrir ei undirstóðu. Og á því torgi, er þar var, og margt fólk samankomið oss að líta, var og ein öldruð kona, með einn 18 vetra gamlan piltungsmann, sem mjög var vanskapaður, sá eð hafði engan þurftargang, heldur hlaut það alt upp að ganga af hans munni (með leyfi sagt), og bað oss gefa honum nokkuð til gustaka; sumir brauð, en sumir klúta gáfu. Síðan skildum vjer með kóngsson með vináttu.

Á þessum degi, sem vjer vorum til skips frá landi komnir, að uppdregnum vorum atkerum og seglum útslegnum, hjeldum vjer þaðan frá landi í Guðs trausti, og sigldum vjer nætur og daga alt hvað aftók og fengum góð byrleiði og masson, utan þegar dravaðer[1]) komu oss í móti, sem úr útsuðurs hafi, með mikilli ógegnd yfir falla og með þessum hætti er hjer greinir. Í fyrstu þá menn sigla hinn besta og beinasta byr og nær sem menn sjá skýflóka uppdraga svartan sem kol, oss í móti, útþenur hann sig nálega á augnabragði, svo menn hljóta öll segl að inntaka. Úr þessum skýflóka koma svo mikil veður og býsni, svo að undrum gegnir. Komi vindur fyr en sú ógn með vatnshríð yfir kemur með skruggum, reiðarslögum og skelfilegum eldingum, þá verður bærilegra. En ef vatnshríð kemur fyr, þá verður óbærilegra, vatnið kemur svo mikið niður úr lofti, sem sjó væri ofan helt. Ei tók eg það vatn til drykks, fyrir sakir hollra ráða míns góða vinar Hermanns, er mjer stórum afrjeð það að drekka, því það er stórt tilefni að menn þar af ýmislega krenkist. Engir voga undir beru lofti úti að standa, meðan slík skelfileg ógn yfirstendur, fyrir sakir þeirra miklu eldinga og reiðarslaga, sem um skipið

[1]) af portúg. travados, sem einkum er notað um fellibyli á sjó í hitabeltinu; af því er svo komið hollenska orðið travaat og danska orðið dravat, um fellibyli yfirhöfuð.

dynja og drífa, svo menn ætla þá og þá að himininn og öll veröldin muni forganga, en oft sýnist að skipið muni tortínast vegna elds og ógnarlegs stormviðris, svo öll möstur standa bjúg og bogin, en skipið liggur flatt við og því nær umbylt, svo að menn af skelfingu og óttasamlegu áliti óska sjer þrátt dauðans, en fá þó ekki. Þrátt segja menn af slíkri ógn og reiði að skip fyrirfarist hafi; og fyrir sakir eldsfluga og reiðar, hljóta menn sitt púður fram undir stafni og neðst við kjöl, með mestu og bestu gætni að forvara, svo að slík eldsógn ei til þess nái, sem fyr meir marga hent hefir, og er nú nóg að sinni talað um dravaðer (eður mótdrög), sem á leiðinni þrátt að höndum koma, og seglatsíunni stóra hindran og öftrun gjöra, þó þeir ei lengur en hálfa eykt en sjaldan heila yfirstandi. Og að þessu veðurlagi svo dvínuðu og þrotnu fellur strax á sú góða massona og venjubyr aftur, hvar af menn að nýju endurnærast.

## XIII. KAP.

Og sem vjer höfðum siglt nokkrar vikur frá Madagascareylandi, hvar inni að sögð eru 3 kóngaríki (sem mig minnir 5 vikur), voru þrjú eylönd á leið fyrir oss, sem að eru mjög dýrleg og frjósöm af margskyns ávexti og gróða. Þau kölluðu stýrimenn Comorisku[1]) eður Mayotsku eylönd, og heitir eitt Mayotha, annað Malala, og það þriðja Ansvan, en af þessum þremur var Malala hin allrabesta, en náðum því ei sakir brims, heldur Ansvan, og fundum vjer þar strax innbyggjara eyjarinnar, hverjir sig við oss glaðværa og mjög vingjarnlega tjeðu, og gjörðu oss þar alt falt, er oss girnti að um biðja, sem var níu kýr og aldini og epli

---

[1]) Comorisku eyjarnar, milli norðurendans á Madagaskar og meginlands, þær eiga Frakkar nú; eyjar þær, er hjer eru nefndar, eru nú vanal. kallaðar Mayotte, Anjouan og Mohilla (Mohéli).

margskonar, með dýrlegasta hætti af Guði gefin, af hverjum eplum eg öðlaðist þrettán karfir, og fyrir sakir þeirra ilmandi sætleika, hvar fyrir þau máttu ei geymast yfir þrjár nætur, hlaut eg þeim öllum í einu yfir borð að kasta með grátandi tárum, óskandi að öll til Íslands hverfa mætti. Þessir eylenskir menn keyptu af vorum kaupmönnum nokkrar stikur ljerefts af smæsta ljerefti, þar með brúður og barnaleiki, eður þesskonar. Þessir menn leituðu oss allra virðinga með ljúflegasta auðmýktarhætti; hvar vjer stóðum eða gengum, ljetu yfirmenn sína pilta eður þjenara eplum dreifa undir iljar oss; bónantser, þó ei væri mjög til fulls eða í sitt besta blóm runnið, voru oss heim úr þeirra aldingörðum til fæðslu og forfrískunar bornir. Þar sprettur út af þeirra ávaxtarfrjóvgu aldintrjám þessháttar, sem að var könnur, sumar með handarhaldi, en sumar með engu, og sumt er með áttungsmyndan með tveimur botnum og þar inni er vínkyns ilmsætt, þetta kallast calebatzer[1]), og er ljett sem pappír, og þó á stein sje fleygt, brotnar það ei nje springur, svo er það seigt og togótt í sjálfu sjer.

Á einum góðum veðurdegi var það, að kaptuginn stóð und eina eik í miklu margmenni, og tók sjer engan vara fyrir neinu, en ein mikillega stór kýr hyrnd stóð þar lítið bil frá, og víst einn eyktartíma stóð í sömu sporum og starði á hann, þar til hún með mikilli grimd og æði brá skjótt við og í fullum ásetningi hugði kaptugann upp við eikina í gegn nísta, hvað og víst skeð hefði, ef vor smiður Franz hefði ei til hans gripið hið bráðasta með sinni hægri hendi, en með sinni vinstri, í hverri hann hjelt á sínum stóra hamri, sló hana í pönnuna[2]), svo hún strax fjell niður og lá víst í hálfa eykt sem steindauð væri, en úr því langa roti spratt hún á fætur með miklu öskri, og

---

[1]) sp. calebaza, sem eiginl. þýðir grasker (cucurbita), en er oft notað um hylkið af ávexti kalebastrjesins (crescentia cuyete L.), sem eru notuð sem ker undir vín eður annað. Trjeð er upprunal. amerískt, en hefur flutst til gamla heimsins.

[2]) ɔ: ennið, d. Pande.

sem eitt hjól snerist um kring og hljóp í gegnum mannfjöldann, og varpaði sjer á sjóinn, svo hana rak uppbelgda með aðfalls-sjónum inn eftir einu riviere[1]) eður árós. Eyjarmenn gjörðu hjer að glaum og gaman mikið.

Og nær vjer höfðum þar fjóra daga dvalist og við eyjarmenn úttalað, og af grasi, sem mjög var hvast viðkomu, marga sekki reitt, til fæðu kúnum, sem slátrast skyldu eftir hendi, hjeldum vjer þaðan frá landi og hjeldum sama góðu byrleiði sem fyr. Nú stóð til á vorri leið að vera mjög óhreinn sjór, sökum þeirra 11000 eyja (sumar smáar en sumar stórar),[2]) sem vjer skyldum í gegn og hjá sigla, og voru í hverjum toppi menn um næturnar nær í mánuð til hugleiðingar, hvernin sem viðraði. Mjer tilfjell í mínu kvartjeri tvisvar sinnum út á bogspjótskörfunni vakt að hafa hið trúlegasta, því um líf var að tefla, en myrkur verður nærri þreifanlegt. Í fyrra sinni fjell mjer til gott veður, en í öðru sinni stormur mikill, svo í hvert sinn, er skip hjó sjó þann, er fyrir borði brautst, gekk mjer yfir höfuð. En Guð gaf oss náð til og lukku, að vjer slyslaust þar fram hjá fórum. Og á þeirri leið sigldum vjer aftur í gegnum línuna, sem er undir jarðarhnettinum, því menn sigla þá upp í móti austur aftur, svo að Sjöstjörnur, Vagn og Fiskimenn, sem vjer köllum, er lengi hafa úr sigti dregist, nær aftur sjást, stendur alt öfugt, svo sem það, sem hjer vendir upp, það þar niður.

Eitt eyland liggjandi út í því Rauða hafi kallast Zocotora[3]), og heyrir til Afríka. Þar með lyktar hjerum tala. Út af því Rauða hafi koma þrátt í veg fyrir Indíafara nokkur smá skip og skútur, sem kallast barkar, hver skip þeir taka með harðri hendi, og allri vöru; á þeim eru egyptskir og arabiskir menn, sumum sleppa þeir tómhentum,

---

[1]) fr. rivière, e. river, fljót; sjá orðamuninn.

[2]) Hjer er átt við eyjaklasana fyrir austan Afríku (Admirantes og Seychelles-eyjarnar o. fl.), sem menn hjeldu fyr á tímum að væru miklu stærri, en þeir í raun og veru eru.

[3]) Sokotra.

en suma aflífa þeir, sem eru morðingjar og sjóreyfarar. Þar fá þeir oftlega mikil býti, og nær svo við ber, að þessi smáskip koma út af þeim Rauða sjó á móti þeim, en á vorri leið skeði það ei, og ei komum vjer við nokkur lönd, fyr en vjer komum að Ceylon.

Þar lágum vjer í tvær nætur og gengum á land. Þar nálægt, skamt frá sjónum, lá einn kastali án fólks, og eftir sögn manna hafði í 300 ár óbygður verið. Hann var víða mosavaxinn. Hurð var þar klemd í hálfa gátt, sú eð var af steini, og eg meinti að 10 eða 12 menn hefði nóg hana úr stað að hræra. Mjög óttalegt og viðbjóðlegt var þar inn um gáttir að geyma. Úti fyrir kastalaportinu var stór uppmúraður brunnur, áttkantaður, og upp af hverju horni brunnsins stóðu járnstengur, og á þeim stöngum upp yfir brúninni var eitt karnat, eður sem ein húfa gjörð, upp úr hverri var einn hnappur, um hvern til flaugar búinn fugl hjelt með klónum. En hvar fyrir þessi kastali svo lá án fólks og óbygður, veit eg ei glögglega, en heyrt hefi eg talað, að þar inni hafi verið fyr meir frábært vonskufólk, yfir hverja komið hafi þungt hefndarslag af hendi Drottins, og úr því hafi þar inni engum leyfst að búa eður vogað að vera. Þessi kastali nefndist Trinchlumala, sem þeir lærðu segja að þýði ilsku inni[1]). Þar skutum vjer þremur stykkjum af, til þess eins, ef ske mætti að Eirík Grubbe væri ennþá lífs, um hvern eg hefi fyr talað, sá eð útfór með þeirri fyrstu reisu og vera skyldi generall, sá eð sendur var til keisarans á Ceylon frá vorum loflega sáluga herra kóng Christián 4. til að afmá og útrýma þá Portogalisku, sem keisarann þvinguðu til í hans eigin landi sjer skatt að gjalda. En með því það ei lukkaðist, sem fyr var mælt, snerist alt fyrir honum á bögulegan hátt, svo keisarinn þorði ei að

---

[1]) ɔ: Trinconomali eða Trincomali. Rústirnar, sem Jón Indíafari á við, eru líkl. af frægu og miklu musteri, er þar var áður, en Portúgalsmenn brutu það og notuðu til kastalabyggingar. — Skýring Jóns á nafni bæjarins er röng, en annars greinir menn á, hvernig eigi að skýra bæjarnafnið; venjulega er það skilið sem Tri-cona-malai („Þrígnýpuhóll") eða Tarangamalai („Sjávarhóll"). Sjá H. Yule og A. C. Burnell: Hobson-Jobson; a Glossary of Anglo-Indian colloquial Words and Phrases. London, 1886, undir orðinu Trincomalee.

halda hann á sínum garði fyrir þeim Portogalisku. Í öðru lagi passaði hann af sjer þau dönsku skip, þau eð eftir honum biðu í 12 vikur, og hafði brotið sinn hollustueið, svo hann þorði hvorki til Danskra nje keisarans af Ceylon að koma, og hlaut því að fela sig í skógum og næra sig með villidýraveiði og sinn svein, hver ei vildi við hann skilja eða hann yfirgefa, og þennan sinn svein sendi hann til vor, með hverjum honum urðu send nokkur línklæði og matvæli.

Hjeldum vjer svo þaðan eftir tvo daga afliðna og til Cost van Carmandel, hvar vor kastali stóð, sá eð nefndist Dansborg. Þetta kóngsríki nefnist Narsinga[1]), og er eitt mektugt kóngsríki; þar inni eru staðir: Narsinga, Bisnagar, Maliapar, Tarnasseri, og vor kastali Dansborg, hvar þeir Dönsku höfðu sitt contór. Þar inni eru fleiri kóngsríki og staðir.

Þessi kóngsríki, sem hjer nefnast, eru í þeirri álfu eður hluta Indíalands, sem kallast *intra Gangem*, fyrst *Cambaia*, sem og kallast Guzarath, hvar inni eru staðir Campaia, einn mjög stór staður, annar er Campenel, þriðji Madabar, fjórði Dium, fimti Bazuinum, sjötti Ravellum, sjöundi Canacor, áttundi Surate, níundi Bandora, tíundi Damanum; *Malabari*, þar inni eru 7 kóngaríki, sem er fyrst Calicut, 2. Cranganor, 3. Coccin, 4. Culan, 5. Cananor, 6. Travancor;

---

[1]) Öll þessi lýsing á Indlandi og lýsingin á löndum í Asíu yfirleitt í næsta kapítula er, eins og fleira um landafræði alment, tekin að miklu leyti orðrjett eftir Compendium cosmographicum Hans Nansens, og er í formálanum nánar skýrt frá því. Einsog geta má nærri eru mörg nafnanna afbökuð og mjög vafasamt hvað við er átt sumstaðar. — Hjer á eftir skal getið um nokkur hin helstu. Narsinga er annað nafn á konungsríkinu Bisnagar (Vijayanagar) og stendur svo á því, að þegar Portúgalsmenn komu þangað fyrst, rjeði þar fyrir konungur sá, er Narasingha (Narasimha) hjet (1490—1508), og kendu þeir ríkið við hann. Maliapar = Malapuram?; Campaia = Cambay (Khambhat); Campenel = Champanir; Dium = Diu; Bazuinum = Bassein (Baçaim); Surate, Damanum, Bandora, Calicut, Cranganor, Cananor og Travancor eru enn kölluð svo, en rjettritun vitanlega nokkuð breytt á sumum nöfnunum. Coccin = Cochin (Kachhi), Culan = Kayan Kulam.

*Narsinga*, þar inni eru þeir staðir, sem eg nefnt hefi, *Costen af Carmandel*, Dansborg og hinir. Sá annar hluti Indíalands, sem kallast *India extra Gangem*, þar inni eru mörg lönd, en þetta er eitt á meðal margra, sem kallast *Bengala*, og er eitt mjög mektugt kóngsríki, höfuðstaðurinn þar heitir Bengala[1]), 2. Gauro, 3. Marazaia, 4. Chatigam, 5. Satigam; þar inni eru og mörg kóngsríki; *Pegú*, það er eitt mektugt kóngsríki, og hefir fleiri en 6 kóngsríki undir sjer; Ternaseri er þar inni. *Sían* er eitt mektugt land, þar inni eru mörg kóngsríki, einkum Sían og 7 önnur. Um Ceylon hefi eg fyr skrifað, þar inni eru 9 kóngsríki, sem öll eru einum herra undirgefin, en höfuðstaðurinn heitir Colmuchi. Súmatra er eitt stórt eyland, þar inni eru 10 kóngsríki, þeir helstu staðir þar er Margana og tíu aðrir. Java Major er eitt stórt eyland, og hefur 8 kóngaríki, þeir helstu staðir þar inni er Sunda og Bantam, og þar til 3 aðrir. Borneo er eitt stórt og frjósamt eyland. Höfuðstaðurinn þar heitir Borneo, og fjórir þeir helstu aðrir. Þau Moluchisku eylönd eru sjerdeilis 5, sem er Ternate, Tidor, Motir, Machian og Bachian[2]). Í þessum eylöndum eru mikil og margskonar aldini, jurtir og kryddi, einkum negelker. Bandan[3]) eru nokkur smáeylönd, þar inni er mikið af muscat og muscatablommer, sem er engifer og caneel. Japan er eitt mjög stórt eyland, þar hjá liggja tvö eylönd, sem er Bungo og Tonsa[4]), þau liggja nokkuð austur frá Chína; í þessum eylöndum eru mörg kóngsríki og margir vænir staðir,

---

[1]) Það er óvíst, hvaða borg gamlir landfræðingar kölluðu svo. Gauro = Gaur, hin forna höfuðborg í Bengal, nú í rústum. Chatigam líkl. = Chandernagor (? ?) og Satigam = Satgaon.

[2]) Bærinn Borneo er líkl. = Brunei. Að því er snertir Mólúkkaeyjarnar, þá eru nöfnin á eyjunum enn tíðkuð, með nokkuð frábrugðinni rjettritun.

[3]) = Bandaeyjarnar.

[4]) Þessi nöfn finnast á gömlum kortum sem nöfn á tveimur af Japanseyjum; — Bungo er hjerað í eynni Kiushiu (Sakaido) og var brúkað áður um alla eyna. Tonsa er = Tosa, hjerað í Shikoku, og brúkað um alla eyna áður. Borgin Meacum heitir nú Kioto.

sá helsti er Meacum og 6 aðrir. Philippinesku eylönd liggja hjá Indíum og heyra til kónginum af Spanía, þau helstu af þeim eru Luconia, Tandair, Mindanano[1]; helstu staðir þar eru 6. Að auk þessara eru mörg önnur ágæt eylönd í Austindíen. Um Persíen vil eg ekki skrifa, hvar undir liggja mörg lönd og mektugir staðir. Hjer með endar um Asía að tala.

## XIV. KAP.

India, sem vjer köllum Austindíen, er mjög stórt kostulegt land. Það grensar til Persía með vestursíðunni, norðantil við India eru nokkur tartarisk lönd, í mót austri er China og það mikla haf, og líka einnin sunnan til. Í þessu landi eru miklar perlur, gimsteinar, dýrleg aldini og kryddi, og önnur dýrleg og kostuleg vara, sem þaðan flytst hingað í lönd. Þessir eru þeir helstu stjórnendur í India: Kóngurinn í Pegú[2], hann hefir þau lönd undir sjer: Pegú, Sían, Tangút, Proma, Melinta, Colom, Bacom, Mirandu, Ave, Brama, Araran, Macin. Annar er sá stóri Mógor[3], hann hefir undir sjer þau lönd: Cambaia, Delli, Sanca, Mandro, Bengala. Þriðja er kóngsríkið Calicut. Fjórði er stjórnari kóngurinn í Narsinga og Bisnagar.

Asía, sá fjórði hluti veraldar, er mikil álfa umferðar, hartnær svo stór sem Afríka og Evrópa. Hún nær til Ev-

---

[1]) = Luzon, Panay (?) og Mindanao.

[2]) Pegú var um tíma sjálfstætt og voldugt ríki. Sían er = Síam. Tangút = Taungu, Proma = Prome, Bacom = Pagan?, Ave = Ava, Brama = Bhamo, Araran = Arakan; Macin er af þeirra tíma landfræðingum notað um norðurhjeröð Austurindlands eða jafnvel syðstu hjeröðin í Kína.

[3]) o: stórmógúllinn, sem þá rjeði öllu Norður- og Mið-Indlandi; þá ríkti Jehangir (1605—1628); hann sat í Delhí. — Cambai er áður skýrt; Delli = Delhi, Sanca = Sanchi?, Mandro = Mandi, Bengala = Bengal.

rópa hjá Rýsslandi og til fljótsins Tanais. Síðan er á milli Asía og Evrópa það Mórska haf og það Egyptska haf og Rauðahaf, svo að Asía er því nær með sjó umbeltuð. Þessi álfa er mjög frjósöm af eðlasteinum, perlum, gulli, silfri, kopar, járni, miklu silki, flöjeli, grófgröni[1]), rabarbar, reykelsi, myrrhu, og allrahanda kryddum og allskonar vöru. Asía skiftist í 6 parta. Sá fyrsti er Tyrkiríið og öll þau lönd, sem Tyrkinn yfir drotnar; annar er sá, sem Rýssar yfir ráða í Asía; sá þriðji er það mikla Tartaría, hvar inni eru öll þau lönd, sem sá stóri Cam yfir drotnar; sá fjórði partur er það mektuga China, hvar undir liggja 15 kóngaríki; sá fimti partur er Indíen með mörgum kóngaríkjum; sá sjötti partur er Persíen með öllum þeim löndum, sem liggja undir þann persiska kóng. Þar liggja og til Asía mörg vegleg eylönd, á meðal annara óteljandi er sjerdeilis í Indíen sú væna Ceylon, sem eg fyr nefnt hefi, Súmatra, Java, Banda, og þau Moluchisku eylönd. Tyrkjans lönd í Asía nefnast Natolia[2]), meðal hverra er sú Litla-Asía, hvaðan að voru þeir hjeðan af landi fyr meir fólk herleiddu 1627[3]). Þá er Pamphilía, Cilicía, Armenía sú litla, Cappadocía, Paphlagonía, Armenía sú stóra, Mesópotamía, Arabía og Syría með Smyrna og Rodes eylöndum og fleirum. Af þessum löndum flytst mikið silki, damask, flöjel, grófgrön, catton, skarlatsfarfi, balsam, reykelsi, oleum, myrrha og mörg önnur kostuleg vara. Þessi nefnd lönd grensa til Tartaría til þess Caspiska hafs til Persíen og Egyptalands. Cilicía

---

[1]) í bók Hans Nansens stendur „groffgrøn“, og er það í hdr. af sögu Jóns Indíaf. afbakað á marga vegu. Líkl. hefur Jón skrifað grófgröni (grofgrone); orðið er úr lágþýsku grofgrön, groffgrein, holl. grofgrein, sem aftur mun vera afbökun úr fr. gros grain (e. grogram, grograin), er svo kallað einskonar gróft hálfsilki.

[2]) ɔ: Anatoli, upprunalega grískt orð, sem þýðir „sólaruppkoma“, og „austur“ yfirleitt.

[3]) einsog kunnugt er, var það til Algeirs, en það hefur vilt Jón Indíafara, að „Tyrkiríið“ var bæði notað um alt Tyrkjaveldi, einsog hjer, en líka stundum sjerstaklega um ræningjaríkin á norðurströnd Afríku (= „Barbaríið“). — Flest af nöfnum þessum eru kunn úr fornaldarsögunni og Nýja Testamentinu, og sleppi eg hjer að skýra þau.

er björgótt land, þar inni eru 5 staðir, Tarsus er einn af þeim. Þetta land með Pamphilía kallast nú Caramino. Í Armenía þeirri minni eru 5 staðir; Nichopolin er einn þeirra. Cappadocia er söndugt land; þar inni eru 6 staðir, Magnopolis er einn þeirra hinn helsti. Gallicia eður Gallogrecia, þar inni eru 7 staðir, á meðal hverra er Pompejopolis og Antiochía. Rodes er vænt eyland, 30 mílur umkring, þar inni 4 staðir. Arabía er stórt land og skiftist í þrjá parta; einn þeirra liggur undir Tyrkjann, annar undir kónginn af Persíen, en sá þriðji partur er undir þeirra valdi. Sú hin Grýtta Arabía er ófrjósamt land; þar inni er fjallið Sinai; [Medina] Talnaby[1]), þar liggur Mahómet grafinn. Syría er stórt land og margir höfðingjadómar. Þar inni er Damascum. Í Palestina eru lönd: Idúmea, Júdea, Samaría og Galílea, þar inni er Jerúsalem, sem nú kallast Cadz, Joppe, Jericho, Samaría, Gaza, Bethlehem, Capernaum, Nazareth og Cana. Í Phenicia er Tyro, Sidon og Damascum. En Cypren er vænt eyland og mjög ávaxtarsamt og liggur inn í Stræti; þar inni er Famagusta, Nicosía, Paphos og fleiri staðir. Þessi öll lönd í Asía hefir Tyrkinn í sínu valdi. China er mjög stórt og mektugt land; sunnan til við það er Indíen, vestan til við það er Tartaría, það skilur sig við Tartaría með háum fjöllum og löngum múr, sem sagður er 400 mílna langur, sem er á milli Cathay[2]) og China. Þetta land China segist að vera hið ríkasta land undir sólunni og kóngurinn hinn ríkasti af China. Innbyggjarar þessa lands eru mjög hygnir og skilningsskarpir; þeir hafa stykki, púður og lóð og þryktar bækur löngu áður fyr en vær; það er mjög frjósamt land með korn, hveiti og bygg, gull, silfur,

---

[1]) Í bók H. N. stendur Medina Talnaby, en í hdr. Jóns Indíafara stendur aðeins síðara orðið, og hefur hann líkl. haldið að það væri sjerstök borg, en svo er eigi, því borgin heitir rjettu nafni Medinatal-nabi = borg spámannsins (ɔ: Múhammeds); hún er ekki í Grýttu Arabíu einsog kunnugt er, heldur miklu sunnar, í Hedsjas.

[2]) svo nefndu menn áður einkum norðurhlutann af Kína (Mandsjúríið og Mongólíið), en annars er nafnið oft líka brúkað um aðra hluti Kínaveldis og stundum um það alt.

kopar, járn, perlur, gimsteina, sykur, silki og aðra kostulega vöru. Þetta land má vel kallast sú jarðneska paradís. Hún deilist í 15 stór lönd sjerdeilis, í þessum löndum segist að vera 590 stórstaðir, en smærri 1674 staðir og þorp óteljanleg og landsbygðir. Höfuðstaðurinn er Paquin[1]), hvar kóngurinn af Chína heldur sitt hof, þar næst er Quinsay, sem segist að vera 25 mílur umkring, og Canton. Í því mikla kóngsríki Chína er stór höndlan uppá allrahanda, og mikill kaupmannsskapur framinn.

Nú skal þar aftur til máls taka, er eg fyr frá veik, þar sem vjer komum fyrir kastalann Dansborg, lægðum segl og atkerum hleyptum nærri hálfri viku sjóar frá landi, ljetum vora flaug fljúga á stórtopp, skutum þremur stykkjum og ljetum í trómet blása. Og með því að eitt skip, útsent frá Danmörk fyrir hálfu öðru ári, lá þar fyrir, er vjer oss lag tókum, sem kallast Vaturhundur, en að öðru nafni St. Laurentz, skutu þeir þrjú skot aftur í mót oss til æru, uppsettu sitt flagg og bljesu í sín trómet. Strax kom þeirra kaptugi, Ernst[2]) að nafni, á borð til oss, hollenskur að ætt, og höfðu frjettir hvorir af öðrum, og urðu með oss fagnaðarfundir, og höfðu hvorir öðrum góð tíðindi og gleðileg að segja.

Nú er þar frá að segja, að nær kastalamenn fengu oss í sigti, þektu þeir vora sigling af vorri flaug, og jafnskjótt sem vjer vorum fyrir atkeri lagstir, útslógu þeir sinni flaug og skutu af múrunum þremur sínum stærstu stykkjum með trómeta blæstri. En þeir sem þá voru yfirvöld kastalans var rector, sá eð hjet Christofor Milner, og gubernator Henrich Hess að nafni, þessi var fæddur í Helsingeyri af nafnfrægu fólki, hinn annar í Hollandi, og voru báðir mætir menn og vel forsóktir.

Á þessum sama degi, er vjer komum fyrir kastalann,

---

[1]) Paquin = Peking; Quinsay = Hang-tschou. (Sjá: Ivar Hallberg: L'Extrême Orient, undir því orði.)

[2]) Hann hjet fullu nafni Ernst Gerritsen Pricker; sjá um hann Lind, Kr. IV. og hans Mænd, bls. 202 og ath. RC.

varð stór drykkja haldin, með báðum kaptugum skipanna, og lá við fúss yrði með þeim, því sá hollenski kaptuginn Ernst brá vorum kaptuga Christofor Boga um misferli hans kvinnu, hvar um eg hefi fyr talað, það hún hóraðist fram hjá honum, þann tíð hann var á sinni reisu í fyrra sinn að Austindíen, hvar við honum mjög lit brá, svo hann hefði hann í gegn rent með sínum rapír, hefði ei maður í milli hlaupið, því þeir voru ójafnir til hreysti, til hvers sem reyna skyldi. En með því alt vort fólk gekk til með góðri viðleitni þá að forlíka, tókst það um síðir þá að sætta, fyrir góðar umtölur. Eftir þetta alt skeð uppgafst víndrykkja öll í káhyttu og skot urðu niðurlögð; gengum vjer eftir vort erfiði, sem höfðum verið við stykkin að skjóta mestallan daginn, til þvottar, skömmu fyr en vjer gengum til snæðings. En svo bar við, að einn maður á skipinu, Ívar Jónsson[1]) að nafni, úr Jótlandi ættaður, sá eð var stórmenni og mikill fyrir sjer, hann átti nokkrar skyrtur í stampi á þvættum; þessi maður var í stórri vináttu við vorn kaptuga, því hann á fyrri reisu hafði með honum farið að Indíen, en hann var skipmann að nafnbótum, svo að nær eg var að þurka mjer, kom hann upp og hugði að taka sínar skyrtur úr stampinum til þvotts, þá sjer hann lítið kám á einni af púðri og strax sagði mig prófoss það gjört hafa, hverju eg góðmannlega neitaði, en fyrir sakir hans mikla drambs og ofsabræði, vildi mín afbötun lítið eða ekki stoða, og kvaðst mitt líf skyldi hafa, og að næsta morgni bauð mjer til einvígis við sig, svo framt sem eg vildi upp þaðan erlegt nafn og rykti hafa. Kom þá upp minn constabel, Niels Dreyer, og margt af fólkinu, til að stilla hans ofsa og greint klamarí, hvað ei tókst neinum, en kaptuginn var til hvílu genginn; lögðum við svo hendur saman hjer um, að svo ske skyldi, sem hann um mælt hafði, að bað eg Guð um, að hvorum gengi eftir því sem satt segði og betra málefni með færi. Constabel og allir afsök-

---

[1]) á skrá Símonar Jóhansens er getið um bátsmann að nafni Iffuer Hanssen.

uðu mig; hann átti góðan korða, fór strax og hvesti hann til eggjar og fjekk mjer í hendur, og bað mig vel og mannslega á halda og mig með verja sem eg kynni, en hann kvaðst skyldi mín hefna, ef mjer ósigur til fjelli, og gaf mjer sína hönd þar uppá til sannindateikns. En það hann hjet mjer svo miklu fylgi kom þar af, að hann vissi hvað í öskunni var fólgið, hvar af eg ei vissi hið minsta. Síðan gekk yfir í káhyttu og vekur kapteininn og biður hann leyfis til landsferðar, hvað honum veittist, en ei vissi kaptuginn hvað viðlá. Fór Ívar svo til lands með miklum þjósti og þungum geðsmunum, með nokkrum Indíaniskum, sem þar með bát, er þeir kalla zelinga[1]), voru á borð komnir, kvaðst til miðdags mín þar bíða skyldi, og ákvað þann tíma til hólmgöngu með stórum viðlögum, ef mig bilaði þar að koma. Svo leið sú nótt af, er næst eftir kom, og að morgni komandi, um miðsmorgunstíma, var eftir venjunni til corum hringt og blásið, en að morgunsöng með bæn og blessan enduðum, gengu menn til frúkosts, en á meðan sú máltíð yfirstóð, var einum af skipsfólkinu dagvakt skikkuð, hver eð kallaði með hárri röddu, að einn indíaniskur bátur frá landi til vors skips aðróandi væri, í hverjum sjer heyrðist sár kveinkan sjúks manns að merkja. Nokkrir sögðu að ei skyldi Ívari hafa eitthvað til fallið. Nú sem báturinn kom undir skipsborð, þá fanst svo að vera, að Ívar lá þar sjúkur í augnaverk, því nær óbærilegum, svo að menn stóðust varla hans hljóð og háemjan, og bárust mjer skjótt þessi tíðindi, að ei mundi eg þurfa hann að óttast nje ómakast við hann til hólmgöngu. Varð hann svo með kaðli uppdreginn og í sína sæng innstuddur, og ljet mjer þann boðskap bera, að hann bæði mig skjótt til sín koma, hvað eg og gjörði; var þá mesta hans móði þverrað, og kvaðst vita mitt sakleysi með sínu tilfelli sannvottað vera, bað mig grátandi um fyrirgefning, og gjörðumst við góðir vinir síðan. En vor constabel meðgekk

---

[1]) nú á ensk-indv. chelingo, af arab. orði shalandī, um litla uppskipunarbáta. (Yule-Burnell)

áðurgreint efni, er hann við mig forþenkti úm, og taldist svo alt út til lykta. Síðan að 6 vikna fresti varð Ívar heill sinna sáru meina, og lyktar svo hjer um framar að tala.[1])

## XV. KAP.

Á þessum sama degi, sem var sá næsti eftir þann, er vjer þangað komum, fór vor kaptugi til lands og til kastalans, og var honum vel fagnað af rector og gubernator; voru þá 9 skot affýrð á þeim múrum, er umkring lágu kastalann Dansborg, og með sama hætti á hvorju skipinu. Fáum dögum síðar var helmingur vors skipsfólks, sem þangað voru nú nýlega komnir með skipinu Christiánshöfn, til lands skikkaðir af rector og gubernator til að vera soldátar uppá kastalanum; á meðal hverra eg var og einnin þar til skikkaður, og þar vakt að halda. En sá annar helmingur vors liðs, ásamt vorum kaptuga Christofor Boga, var skikkaður á hitt skipið, sem nefndist Vaturhundur, en öðru nafni [St.] Laurentz, og sendast skyldi til Ternasseri, hvar að lágu 7 menn af þeirri fyrstu reisu fyrir kaupskap, og var þangað 600 mílur vegar í norður að sigla, og urðu menn þangað hafa sunnan-masson, áður en hún var útblásin, og aftur þaðan norðan-masson til vors kastala, og skyldi skipið þar liggja um veturinn eftir, og í móti páskum þangað til vor aftur koma, ef engin hindran til fjelli. En með því engin vetrarhöfn var við vorn kastala Dansborg, því hlaut skipið um veturinn allan þar að dvelja, og eru þeir á þeirri leið oftast 6 vikur þar í milli. En sá kaptugi, Ernst, sem á þessu skipi frá Danmörk var þangað kominn, skyldi heim aftur með voru skipi Christiánshöfn

---

[1]) Frásögn þessi er nokkuð ógreinileg. Líklega er „áðurgreint efni“ það, að Niels Dreyer sjálfur hafði óhreinkað skyrtuna; „hann“ = Ívar.

þaðan afferðast, og er þar sú vísa, að þeir menn, sem þar hafa lengst verið, skulu lausn fá þaðan, sem girnast til heimferðar með þeim skipum, er þá fyrst kæmi frá Danmörk, Hollandi, Englandi. Fjórir menn af voru fólki fóru heim aftur með sínu skipi, á meðal hverra var minn góður vin Pjetur Van Bergen, með hverjum eg af kastalanum Dansborg sendi mitt brjef, sem eg hingað skrifaði til Íslands mínum bróður Halldóri Ólafssyni til, sem engir þóttust vita dæmi til, að fyr hefði brjef skrifast nje sendst frá Indíen til Íslands. Vor prestur [Herra] Christián mátti og halda rjett sem fleiri, og varð að sigla með vorum kaptuga, Christofor Boga, og hans meðfylgjurum til Ternaseri og ljet sitt líf á þeirri reisu, svo mjer auðnaðist hann ei aftur að finna; hann var ungur maður að aldri, vitur og vellærður og einn góður prjedikari. Eg var mjög honum kyntur og af honum kær haldinn, sem og af vorum kaptuga, Christofor Boga, hver eð fjekk sjerdeilis elsku til mín, svo eg oftlega var hjá honum í hans kvartjeri vakt að hafa honum til skemtunar, og oft bar það til, að hann aftraði mjer með tilgripi neðar að fara eður mersusegl inn að taka, og kvaðst sjá mig oftlega framar mörgum öðrum það og annað fleira óskipað gjöra, en aðra sjer hjá hliðra; þetta kvaðst hann athugað hafa með þögn. Svo og ljetu mig allir menn sjerdeilis vel, og í þann tíma varð ei óvirtur fyrir lítilmensku sakir, þakkir sje Guði! En það segi eg hverjum, sem hlýða vill, að hver einn einstaka maður, sem gefur sig til slíkrar ferðar og á hvorki frændur innan skipsborðs, gjald, nje eftirmælendismenn að, hann má hafa 3 kosti til að bera, sem er hógværð og gott umburðarlyndi við sína yfirmenn og aðra, sem þess eru verðugir, og láta ei alt skipa sjer og vera nokkuð þá í reynir, þriðja að fara vel undan illu, en líða þó ei ofmikið og forsvara sig með æru, gegnd og skynsemi, summa: að gjöra og haga sjer ærlega til máls og gjörða, svo hann megi svara djarflega. Þetta sje hjerum nægilega talað nú um sinn.

Nærri hálfa aðra viku vorum vjer á skipinu, fyr en vjer vorum eiginlega kallaðir uppá kastalann. Svo bar við á

reisunni, að hverjum tveimur voru á ferðinni fengnir 10 ostar án annars kosts, hverja þeir áttu að hafa til fæðslu, nær ei til gæfi að matreiða, en ef það uppvíst yrði, að nokkur öðruvís þar útí höndlaði eður drægi þá undan til sölu, nær hann í Indíen kæmi, sjer til ávinnings, skyldi þar fyrir straffast og með peningaútlátum múlkterast. En nú með því eg öðlaðist svo góðan stallbróður fyrst eg fór heiman, sem var Bernt Andrjesson, sem líkjast mátti við eina góða ektakvinnu í umhyggjusamlegri tilsjón og í öllu því, sem mín dagleg nauðsyn útheimti og honum var máttugt af stað að koma mjer til góða, svo hann mátti ekki mitt mein vita nje líta. En Guð almáttugur gaf mjer og honum góða heilbrigði, svo eg kendi einskis meins, utan einn dag kendi eg litillrar köldu, og var honum svo mjög um mig hugað, að hann þann dag einskis neytti. Hann hafði lært fyrri í æskutíð skraddarahandverk. Ei var hann eldri en vel 30 ára. Einn ost tærðum við á reisunni, en útköstuðum öðrum skemdum, en 8 höfðum við til Indía, þó hljótt færi, og tókum fyrir hvern þeirra eitt stykki van achten, það er ríxdalur, og hvert eitt þeirra þar er svo gott sem 10 dalir heima í Danmörk. Nú bar svo við, að nokkrir Indíanar komu til skips einn dag, fyr en vjer vorum aldeilis við skipið skildir, og seldum við einum þeirra tvo osta með leynd fyrir tvo spánska dali. En nær þeir á land voru komnir, mætti vor kaptugi þeim, og nær hann kom fram til skips, varð alt fólk á þilfar kallað og af honum þessu yfir lýst, að hann þessum mætt hefði, og hjet þeim stórum harðindum, er gjört hefði. En með því að hann frjetti það og formerkti, eg hjer við riðinn vera mundi, varð af honum ei framar umtalað.

Einn dag vjer hugðum til lands að fara, litum vjer einn ógurlega stóran sjóarorm, sá uppi mókti meir en eyktar tíma, rjett á þeim vegi, sem vjer áttum um að fara til lands, yfir hann vatnaði í 9 stöðum, og meintu menn hann 900 álna langan eður minni kannske. Hlutum vjer við skipið í tvo daga kyrrir að blífa, sakir ótta er af slíkri skepnu og hennar stærðar ofbjóð innlæsir sig í mannsins hjarta.

Befurgjeld[1]) varð útkastað í sjóinn, sem stýrimenn plaga jafnan með sjer að hafa, hvali og sjóorma sem og önnur marskrímsli í burtu að rýma, nær svo þörf krefur, sem að er befurdýrsins eistu, hvers dýrs eðli er að vera bæði á sjó og landi, af hvers hárum að gjörast þeir dýrmætustu hattar, sem kallast befurfeld. Hann gjörir sjer hús í sjóarbökkum úr trjám, og ávalt má hans hali í sjónum liggja, nær hann sefur. Þessi dýr eru mörg í Norvegi, höndlast þar tíðum, þar með og líka otur og mordýr[2]), sem og líka í sjónum og á landi sína umgengni hafa.

## XVI. KAP.

Nú víkjum þar til aftur, sem vjer, að liðnum tveimur dögum, eftir það vjer höfðum orminn litið, sögðum laust við skipið Christiánshöfn, og fórum með vorn helming fólks til lands, og gáfumst til þess embættis, er oss af kastalans yfirvöldum varð á hendur sagt, og staðfastlega tiltrúað, að endurnýjuðum eið og frekari mánaðarlaunum nokkra af voru fólki, af hverjum eg var einn þeirra, en ei með stærri tiltekt í það sinn en einu gyllini, sem er ein hálf vætt, frekari en fyr á hverjum mánuði, og þetta skeði tveimur dögum síðar en vjer til lands fórum; varð þá á bumbuna slegið og í pípu og trómet blásið og hver með nafni munstraður og upplesinn undir strangt regimenti, stríðsrjett og orðu; vorum svo hvern dag í fyrstu exerceraðir, munstraðir, tamdir og

---

[1]) d. bævergejl, stækt efni, sem finst í pung bjórsins, er menn áður höfðu mikla trú á til lækninga og hjeldu að mikil náttúra fylgdi, einsog hjer má sjá.

[2]) Líklega dönskusletta, „maardyr“ = merðir (maar = „mörður“), sem eru náskyldir otrum, einsog kunnugt er. Almennir merðir eru þó engin vatnadýr, en máske er átt við þá tegund, sem á dönsku er kölluð „flodilder“ (mustela lutreola); hugsast getur og að þetta sje norskt mállýskunafn á læmingjum (lómundum, mus lemmus L.), og ætti þá nafnið að vera dregið af því þeir „mora“ í stórhópum. En jeg held helst að fyrsta tilgátan sje rjett.

tilvandir til stríðsatferðar eftir hermannavísu, og hverja þriðju nótt vakt skikkað með sterkum viðlögum og uppvakningu til góðrar aðgætni í heiðnu og framandi landi, þar með trygða og trúskaps eftir inntaki vors eiðs við kóng vorn og compagniið, þar sem varð hverri róðu og kvartjersfólki vakt strengilega tilsagt, í hvert sinn, er yfirvöld gengi til porta eður út, þar sem vaktin stóð, og ekki voru á sinni skildvakt uppá kastalans múrshyrningum, skyldi vopnum týgjaðir í orðu standa, eftir venjulegri stríðsmanering, þeim til æru, kónglegrar tignar vegna í Danmörk, og í framandi manna nálægð og athugasamri ásýnd. Síðan að nær vjer af þessari munstring heim gengum og að artíkulum upplesnum varð oss afdeilt og skift hverjum 7 í hvern einn skutul og herbergi fengið, hverjum út af fyrir sig, og einn á hverjum skutli útvalinn til formanns og trúlegrar aðgætni, að í hvers þeirra herbergi alt vel og kristilega tilgengi, bæði um daga, kvöld og nætur, og til slíkrar yfirsagnar höfðu þessir menn af yfirvöldunum fullan myndugleika, hver yfir sínum skutli, hvað mjer varð og einnin tilsagt og herbergi út af fengið, og ei þeir sístu af fólkinu, og varð hvert herbergi nefnt eftir nafni sjerhvers skutulsmeistara, og voru þangað fengnar til nægjanlegs borðbúnaðar krúsir, könnur, skálir og diskar, einnin þau steinker, sem vatnið skyldi í geymast og gegnt börmum í jörð niðurgrafin til kælu, og voru indíaniskar konur gamlar til vatnsburðar keyptar, sem langt var að dregið, og þær í smærri steinkerum sjer á höfði bera eftir þeirra venju, og hverri þeirra var sitt herbergi afdeilt. Og að þessu öllu svo aðgreindu og tilskikkuðu fóru þeir allir til skips í vorn stað, sem heim skyldu ferðast, en vjer settumst að nefndum herbergjum til dags og nætur, athafna, umgengni og veru. Þar með var oss skikkaður einn indíaniskur maður að þvo allra vor línklæði, Athrumbus að nafni, en sakir þess síns embættis var kallaður maynath[1]). Þessi skilaði hvern laugardag vorum

---

[1]) ɔ: af tamíl-orðinu mainato, þvottamaður. (Yule-Burnell.)

línklæðum með góðri afhendingu. Við þennan mann hafði eg þrátt gaman, hverju hann vel gegndi jafnan.

Á þriðja degi eftir vorn landgang og alt tilsagt, sem kastalans þjónustu viðveik með allri hegðan og háttalagi að slitinni munstring, sem haldin var upp á kastalans skansvelli, var hringt til máltíðar, og að henni endaðri gefin vor venjuleg ranzona, vart peli af frönsku rauðavíni, og ein flabkanna í hvern skutul. Síðan hófst vor vakt, og viðhjelst hverrar róðu hverja þriðju nótt, og var á hverri hyrningu kastalans vakt sett, sem þar stóð 2 klukkustundir í senn, en sú fimta stóð fyrir porti kastalans með sama skamti tímanna. Á hverri hyrningu kastalans eður rúndel var gjörð sem ein þró með múrverki vænu, hvar inni vaktin stóð, nær skruggur, reiðarslög og vatnssteypur úr lofti umnuddaði í þreifanlegu náttmyrkri með ofbjóðlegri ógnan og skelfilegum hætti, og þar uppaf var múrað eitt karnat eður sem ein húfa með litlum turn og gyltri flaug yfir, svo ei náði þá vatn yfir hellast, er þeir undir stóðu. En þeir, sem tilsettir voru umkring ganga um nætur og trúleik vaktmannanna að hugleiða og rannsaka, voru ei með vaktinni, sem í fyrstu var gubernator og vaktmeistarinn, og hverjir, sem sofandi þá finnast eður fyrir athugaleysi af þessum verða gripnir eður í einhvern máta lúraðir og yfirfallnir, hafa eftir lögmálinu og stríðsartikulum líftjón sjer aflað, og þvílíkur skarpur stríðsrjettur er alstaðar á hverri festingu herra og kónga, eftir sem mjer er kunnugt orðið.

En hvað voru starfi við veik á kastalanum daglega var ekkert annað en vor vakt, og fyrst vjer vorum nýlega komnir, vorum vjer drílaðir eður exerceraðir hvern morgun áður en frúkostur var tekinn, og þar með kend stríðs mentan og atferð; item nær pipar kom frá kónginum til Travanzour upp á vorn kastala, skyldum vjer hann harpa, það er hreinsa úr honum alt gras og hroða í gegnum eitt stórt sáldur, en hverjir að hjeldu vakt voru frí, og plagaðist oss ein myskin víns að gefast af vorum butiler eður bryta fyrir vort ómak. Item ein fanó,[1]) það er indíanisk gullmynt, sem gilti 11

[1]) ɔ: fanam, ýmist úr gulli eða silfri, með mjög mismunandi gildi; í Madras t. d. var 1 fanam = ca. 15 aurar (Yule-Burnell); þessum

danska skildinga, varð oss hvern laugardag útgreidd til þvottalauna, sem þó korta skyldi vor laun eftir tímans upphæð og þessara smápeninga; ein þessi fanó gilti sem ríxdalur heima í Danmörk, og nær einum spönskum dal skyldi versla, voru 10 fanó úttaldar af verslurunum, sem á kauptorginu sínar krambúðir hafa og þar daglega standa, það í tje að láta, sem hvern um nauðsynjar og eftir beiðist, eftir þess lands háttalagi, og síðar skal betur umtalast með Guðs hjálp. En fyrir eina fanó útteljast af verslurunum 86 caser, það er índíanisk koparmynt, með hverri kaupa má hvað mann girnir.

Kastalinn var veglega múraður og stafferaður með rúndelum á hverri hyrningu og smáturn yfir hverjum rúndel með gylltri flug, sem eg fyr hef um talað. Innan múra í miðjum garði kastalans stóð vor kirkja, sem var eitt gamalt hús, hverja áður fyrri hafði haft einn portogaliskur pápisti, þar inni var kvöld og morgna jafnan söngur haldinn með bæn og blessan, item hvern sunnudag prjedikun með sakramentanna útdeilingu og hvern miðvikudag. Vor prestur á kastalanum, nær eg þar kom, hjet H[erra] Jens, einn sjerdeilis góður prjedikari og söngmaður hinn besti, röggsamur, einarður og djarfmæltur í sinni prjedikun hvað áhrærði um trúarbrögð pápista og Calvinista og Lútheriana; honum var eg með öðrum þremur skikkaður til djákna, á meðan eg þar dvöl hafði, og var mjer jafnan sjerdeilis góður og eftirlátur umfram aðra.

Eirekur Smiður hjet sá maður, sem sagði fyrir öllu kastalans múrverki, en indíaniskir múrmeistarar höfðu alt verk og ómak fyrir, hverjir þar til eru mjög hraðir og tamir, framar þeim hjer í Norðurálfunni. Við syðri múr og skansvöll kastalans, innan múra, stóð ein há höll og eitt mikið hús, upptil hvers að lágu margar tröppur; þar uppi sátu vor yfirvöld daglega og hjeldu sína máltíð, svefnherbergi, samastað og sæti, item dómhús, ráðstofu og reikn-

---

peningi var skift í „cash“ (skr. karsha, tamíl kāsu, og var síðar 1 fanam = 80 cash).

ingsstofu. Önnur smá herbergi og vor svefnhús stóðu við suðursíðu og suðvestursíðu innan múra á kastalanum. Á austursíðu kastalans innan múra stóð það mikla og uppmúraða kokkhús og einn uppmúraður brunnur, úr hverjum dregið var seyði til sjerhverrar máltíðar.

Umkring allan kastalann á hans múrum í öllum veggskörðum voru járnstykki bæði stór og smá, þau stærstu þeirra skutu 18 marka lóði, en þau smæstu 9 marka lóði, og voru að tölu yfir 80 eður vart 90; item skotvopn með tvennu móti, músskveitur og fýrverk, var á kastalanum nægilegt; item lóð með fernu móti, sem voru hlekkjalóð (leinkelóð), standlóð, krosslóð, skæralóð og almennileg lóð[1]). Þessar tilgreindar varnir voru á kastalanum Dansborg með fleira því sem tilheyrði.

Hvað vorum matskamt viðvjek á kastalanum er hið sama að segja sem á reisunni og fyr hefir frá greint verið, utan vjer fengum í frúkost hvern morgun hrísgrjón í nýrri mjólk vel seydd og soðin, og oftlega ferskan fisk, item ferskt svínflesk og ferskt geitakjöt og fugla nokkurs slags. Hundrað geitfje var á þeim eftirkomandi vetri, er eg þar kom, á kastalanum alið til sláturs handa kastalafólki, og var svo magurt um veturinn að þær umveltust af vesöld, svo dauf jörð verður þar um vetrartíð af þeim stór-regnum og daglegri norðanveðráttu, er þar um drífa. Sauðfje er þar mótlíka og geitfje, utan horn og skegg skilur, ull hefir það enga heldur en geitfje, en lit ber það ýmsan, sem er hvítan og svartan, mórauðan, bláan og rauðan.

Ei smíðast þar klæði, því þar er engin ull, heldur annar margslags vefnaður, úr bómull, úr silki, úr móru[2]), það vex á sjerdeilis viðarkyni, og bera þess þræðir gullslit þar úr verkaðir, og verður því þrátt í skyrtur saumað til prýði. Þar vefst pells- og gulls-vefnaður, item silfurs og kopars,

---

[1]) Um þessar skotfærategundir sjá Blom: Kr. IV.s Artilleri, bls. 261—286.

[2]) d. mor, þ. Mohr, fr. moire, einskonar silkivefnaður; orðið er annars á frönsku upprunalega notað um vefnað úr hárum Angorageitarinnar (e. mohair, af arab. mokhayyar, sem upprunal. þýðir dúkur úr úlfaldahárum).

blýant og úr pálmviðarberki, sem er svo seigur álíka sem seymi, og úr þeim berki gjöra þeir sín segl og atkeriskaðla, sjómanna höfuðklæði, körfur og fleira. Af því einu trje mega þeir eta, drekka, klæðast, veiðarfæri og skipkaðla með öðrum reiðskap gjöra, sín skip og skútur þar úr smíða og með þess berki saman að sauma, svo sem þar plagast, hversu stór sem þau eru. Eigi eru þau með súð heldur á röndum samanfeld og fest með skíðu yfir, einni utan, en annari innan á hverjum samkomum, og yfir þær í gegn saumað með þessum berkisþræði, svo tilbúnum, sem þar til hæfir. Þessi pálmviðartrje eru mjög fallega og skikkanlega niðursett sem fylkingaraðir með vissum mælir á lengd og breidd, en standa þó ei nálægra til samans en þriggja málfaðma bil hvers þeirra á milli; lauf þeirra eru breið, nærri tveggja álna eður þriggja í kring, þau verða höfð fyrir skerdiska bæði á kóngsborði og annarstaðar í stórhófum og hjá herrafólki; þau eru neðarlega og upp til miðs 2 og 3 feðminga digur, og eru uppmjó og hol innan, svo þó sum sjeu opin neðarlega og menn megi þar inni sitja, bera þau samt ávöxt tvöfaldan árlega, svo sem alt annað þar innanlands, sem með rjettri frjósemi stendur. Þessi pálmtrje bera tvöfaldleg gæði eftir því, sem þeim er hagað, því nær þeir vilja, fyrir þeirra umbúning, bera þau cocos eður carhanske[1]) nytur, sem barnshöfuð stórar og sumar enn nokkuð stærri, í hverjum vex sá hvíti kjarni, úr hverjum þeir pressa oleum eður viðsmjör, hverjum þeir áður í bing kasta, svo þær úldni og eru síðan hafðar til pressunar, hvar þær verða sundurbrotnar og sá feiti kjarni úrtekinn, sem að er að smekk sem hið besta súra smjör, og síðan ofan í pressuna látinn, að honum körfuðum sem smæst, en sú pressa er að mynd sem strokkur, og er úr heillri eik gjörður og hörðu viðarkyni, og er innan eggsljett, neðarlega er á henni tappi, út af hverju tappað verður oleum það, sem pressast þar inni, með þvílíkum umbúningi og hjer greinir, að ein bryggja

---

[1]) hjer er vitanlega átt við kókoshnetur; hvernig stendur á nafninu „carhanske“ veit jeg ekki með vissu, þó er orðið kārhī til í maledívisku í merkingunni kókoshnot, og væri hugsanlegt að lýsingarorðið ætti eitthvað skylt við það.

eggsljett er gjörð rjett kringlótt, og upp úr henni miðri stendur þessi pressa, upp úr henni stendur ein stöng sem bulla í strokki, og út úr þeirri stöng er eitt trje, fyrir því trje er spentur einn uxi, sem pressar nefndan nytnakjarna til oleum, og vjer köllum viðsmjör. Þetta viðsmjör verður selt í pottatali, fyrst til smurninga, því Indíanar smyrja sig daglega, og þeir sig tvisvar, er þar hafa efni til og formegan; í annan máta tíðkast það til ljósa; í þriðju grein til fisks og kjöts steika. Oftast hafa Indíanar soðmat veglega kryddaðan með safranuðu soði, altíð ferskan og í oleo uppsteiktan. Engum leyfist nautum þar að slátra, hvorki innlenskum nje aðkomandi þjóðum, því þeir eftir lærdómi Pitagore[1]) halda nautin helg vera og sálir í sjer hafa, og verða nautin því þar sjálfdauð. Kóngsins son af Egyptalandi[2]) kom þar á fund þess indíanska kóngs í þann tíma, sem vjer þar dvöldum, hver eð þar dvaldi í nokkra mánuði; hann fjekk það leyfi að láta slátra tvævetra nauti, og skyldi enginn þess neyta utan hann alleina, og skyldu þess bein brennast í eldi, hvar fyrir hann varð ærnu fje við kóng til að kosta.

## XVII. KAP.

Sá indíanski kóngur, sem kallast kóngdómsins vegna Nica de Regnate[3]), hann tilbiður eina hyrnda kú, hver eð í einu sjerdeilis vel tilreiddu herbergi og luktu hefir með

---

[1]) ɔ: Pýþagoras, hinn frægi gríski spekingur, ca. 530 f. Kr.

[2]) Egyptaland var þá komið undir Tyrki (unnið af þeim 1517), og getur því ekki verið að tala um konungsson þaðan í byrjun 17. aldar, svo þetta hlýtur að vera missögn.

[3]) Nica, Nico eða Naik er titill, sem upprunalega er kominn úr sanskrít „nāyaka“, er þýðir „höfðingi“ o. s. frv., og er notað í mörgum indverskum málum, líka í tamíl og öðrum, sem ekki eru af sanskrít komin. Konungur sá, sem hjer er um getið, hjet rjettu nafni Raghunatha, en sonur hans Rambandra. — Um trúarbrögð þar í landi vísa jeg í B. Ziegenbalg, Genealogie der Malabarischen Götter. Madras 1867. Góð dönsk bók um það efni er L. P. Larsen, Hindu-Aandsliv og Kristendommen. Kbhvn. 1907.

sjerdeilis vaktan og prýðilegum samastað sína veru og stöðu með gull-legu skarti og gimsteina prýði öll tilsett, og balsameruð, og með gullvefnaðarklæði öllu bardýruðu með dýrmætustu gimsteinum yfirhulin. Til hennar gengur hann á kvöld og morgna henni lotning að veita, og, með leyfi, vaskar sínar hendur og andlit í hennar vatni, þar með sinn munn, og í hvert sinn yfireys sinn hvirfil með því sama að lyktum. Son átti kóngur sjer með sinni drotningu, sá eð var útvalinn prins og kóngsefni eftir kóng látinn, ef honum svo auðnaðist, sá eð var 17 eða 18 ára gamall, hvers mynd ásamt hans föðurs var í vorri kirkju, og var ei óhýrleg að líta. Hans innileg girnd var sú að kristnast og meðtaka vora trú, hefði honum það gagnast fyrir sínum föður, en það vildi ei svo horfa, og stóð kóngur þar mest í mót sem hann orkaði, svo hann fjekk því ei ráðið fyrir harðýðgi síns föðurs, en lengi stóð það í vigt, og var á meðan beðið fyrir honum í vorri kirkju til Guðs, að hann vildi af sinni náð upplýsa hans hjarta til rjettrar trúar.

Kóngsins höll var sögð vegleg, og hans palats prýðilega stafferað; hans trón eður kónglegur stóll er af marmara og svo sljettur sem eitt egg, umkring nærri 12 álna; þar situr hann daglega, og hans hofprestur gegnt honum, á dýrmætum og gull-legum sessum, með samanvöfðum fótleggjum eftir siðvenju Indíana, og mýkt þeirra lima, sem jafnlega sig smyrja og balsamera með oleo og dýrmætasta balsamo. Hjá hverjum þeirra standa 3 smásveinar, einn sá eð klippir arech eður paga, sem er að stærð, lit og hörku sem muscat, það taka þeir fyrst í munninn og tyggja það og útspýta því fyrsta munnvatni, síðan þau blöð, er þar vaxa, taka þeir sjer í munn með hinu og tyggja til samans; innan í þeim er það kalk, sem brent er úr gimburskeljum, lítið á riðið; af þessu öllu svo samanblönduðu og tuggnu verður þeirra munnur sem fullur blóðs sje, og nær það er fulltuggið, renna þeir því öllu niður og verða þar af druknir meir en af tóbak, og þetta kalla þeir bítilarech eða bítilapaga[1]), og

[1]) bítil er lauf af beteltrjenu, Piper betel L. sem er tuggið með þurkuðum areca-hnetum. Það er algengur siður víða í Austurlöndum.

segja gott við blóðsótt vera. Og þessi þjóð, sem eru landsins innbyggjarar og Malabarer kallast, drekka enga áfenga drykki, utan þetta oftnefnt bítilarech láta þeir í staðinn annara landa víns og öls drykkjuskapar sjer nægjast. En vín bruggast þar úr pálmviðarvíni, sem þeir kalla arrach, og er að smekk og reynslu sem brennivín, og verður það daglega selt og keypt af þeim framandi þjóðum, er þar eru innlendar orðnar, sem er fyrst Portogaliskir, Caffer, Prægier, Selinger[1]), Mórer, Bengalianer, Egyptskir, Arabiskir, Molucher, Javer, Engelskir, Hollenskir og Danskir. Portogaliskir brugga þar eitt slags vín, er þeir kalla vín to pass[2]), hvert eg eitt sinn prófaði, og er velsmakkandi og áfengt mjög.

Nú víkjum þar til sem kóngsins athæfi áhrærir og daglegt háttalag, að með því eg greindi eins hans þjenara embætti og daglega iðju þá að vera bítilarech að klippa fyrir kónginn, þá er það hans annars þjenara embætti að halda á einum gullpotti, í hvern kóngurinn spýtir af sínum munni, því nær hann tekur tóbak eður bítilarech, þarf þess jafnlega við. Þriðji hans þjenari stendur með eina gull-lega viftu að mynd sem þetta [3]) og blaktar henni fram og aftur, og af þeim vindi, sem þar af kemur, verður svali þeim, er svo við höndlast, og slíkt er almennilegur landsvani í hverju húsi, og þar með kreista þeir hver annars líkama undir svefn á kvöldin, þeim til heilsubótar, er svo við gjörast, hvert skikk að vjer og einnin tíðkuðum.

Hvað kóngsins daglega stássi og þjenaranna viðhöndlan viðvíkur, er hið sama kóngsins hofpresti auðsýnt, af hverjum kóngurinn heldur mikið, og nær sem nokkrir framandi heimsækja kónginn og hafa nokkuð sjerdeilis við hann að

---

[1]) ɔ: Cheling, Cheli, orð notað af Portúgalsmönnum um indverska kaupmenn. Uppruni þess er óljós (Yule Burnell). — Um „Prægier“ (= „paríar“) sjá lýsinguna í 20. kap. hjer á eftir.

[2]) líklega vinho de passa, vín sem er búið til úr rúsínum.

[3]) myndin er hjer tekin eftir hdr. Lbs. 723, 4°.

útrjetta, þá leyfist þeim eigi fyrir kónginn inn að ganga, fyr en presturinn segir kónginum fyrir lukkustund góða við framandi að tala, og þó það sje um miðnátt, og komi boð frá kóngi, hljóta þeir þar strax því viðbúnir vera, án dvalar, og þeir hljóta túlk að hafa, sá eð með stórri auðmýkt tuktuga meðalgöngu hefir þeirra í milli, með þeim hætti, að hann byrgir sína ásjónu fyrir hvorjum þeirra fyrir sig. Það sje hjerum talað nú um sinn að fullnægju.

Og skal enn um kónginn áminst verða, fyrst þar um, að kóngurinn að auk sinnar drotningar hafði, nær vjer fyrst þar komum, 900 frillur, en síðan aflagði hann úr þeirri tölu 300 við sinn son, en ei þær sömu, svo hann sjálfur hjelt 600 úr því í sínu syndaregistri. Þessar hans frillur hjeldu einn veglegan og vel til reiddan sal með gyltum pílárum í kring og gluggum úr christallus-gleri; að þessum sal gekk kóngurinn daglega sjer þá að útvelja til holdlegrar saurgunar, er hans hjarta í hvert sinn útkjöri. Þær plaga sig daglega að smyrja, og eru með dýrmætu skarti prýddar, um sig miðjar hafa þær gullvefnaðarklæði með gimsteinum samið og prýtt, gullhringa um tær og fingur, með gimsteinum innsmelt, item ennisgull og eyrna, og í þeirra nösum, um mjóaleggi og úlfliði gullhringar, item um þeirra höfuð gyllinistykki með gimsteinum í fest; item einn veglegur brjóstadúkur, sem mikils fjár er verður, með perlum, gulli og gimsteinum prýddur, og með þvílíku skarti eru þær daglega prýddar. Á einum góðum veðurdegi nærri miðju sumri er þeim út leyft af þessum sal að spátsera á hverju ári, samjafnt kóngi sjálfum, í þreföldum hring kóngsins æðstu stríðsmanna, og er þá á bumbur slegið vel 9 og í básúnur blásið, og stórblysum upp haldið. Annars skeður þeirra útgangur ei tíðar. Og sem nokkrar úr því tali deyi, verður talan með annara jafnmargra uppfylt. Og nær sem kóngur deyr, hljóta allar að brennast með honum lifandi[1]), því alls landsins fólks greftran skeður með þeim hætti, að

---

[1]) Þegar Raghunatha dó, 25. Nóv. 1626, voru 119 af konum hans brendar með honum (Schlegel I, 4, bls. 162).

öll lík eru brend á þriðja degi frá þeirra andláti, hvar um framar skal talast í öðrum stað og skal um kóng um sinn úttalað vera.



Musteri í Tandsjúr.

Nú með því fyr er frásagt um kóngssetrið Travanzourem, vil eg ei framar þar um tala, en um kirkjusmíði þeirra vil eg lítið áhræra, og það fleira, sem því og þeirra trúarbrögðum viðvíkur, offrunum og skurðgoðadýrkunum og slíka

fantasí, hvar með eg vil einn og sjerhvern uppvaktan hafa Guði jafnan verðugar þakkir færa, sem oss hjer í kristindóminum hefir miskunsamlega leitt úr slíku háskasamlegu myrkri villudómsins og glötun fordæmdra. Blessað sje nafnið vors miskunsama Guðs æfinlega. Amen.

## XVIII. KAP.

Í hverjum stað Indía, sem eg hefi heyrt um rætt og lesið, er ein stór höfuðkirkja, sem kallast sínagógur eður pagógur. Svo var og í þeim litla stað hjá vorum kastala, sem Trangobarich nefndist og fyr hefir verið um getið, ein þvílík uppmúruð kirkja með háum ferköntuðum turni, og einn uppmúraður hár garður um kring. Þar úti móts við kirkjudyrnar innangarðs stóð einn hár og mikill vagn með ýmislegum svívirðinga myndum of viðbjóðslegum og lastlegum frá að herma. Innan kirkju, á stöllum eður afmúruðum sætum, standa 6 afguðamyndir hvorumegin, bæði nauta, svína, geita, buffala, hver að eru sem naut að sköpun, en eru þó eigi, hverra mjólk að er sem geitamjólk. En á þverum gafli er eitt mikið altari með gulli veglega prýtt; þar upp yfir eru þrír stallar, innvik og sæti, mjög veglega tilsett, á hverjum að standa þeirra æðstu guðir þrír, sem er Suami, Rami og Tameran[1]), og standa rjett upp á enda sem menn, en þó ei í manns myndan. Suami, sá æðsti þeirra

[1]) Ekkert af þessum nöfnum er eiginlegt guðanafn nema Rami = Rama. Máske hefur presturinn kinokað sjer við að segja Evrópumanni, annarar trúar, hin heilögu eiginnöfn guðanna, og því aðeins nefnt þá tignarheitum sínum. Suami er = suāmin, sanskrítorð, sem þýðir Drottinn, Tameran er = tamburān, á malabarisku (malayalim) = Drottinn, Guð, konungur, og það er líka notað í tamíl af Shívadýrkendum (Yule-Burnell), og má af því ráða að í musteri því, er Jón Indíafari hjer lýsir, hefur Shíva verið dýrkaður. Ef það er rjett að ein af líkneskjunum hafi verið nefnd Rama, hefur Vishnú verið dýrkaður þar líka, því Rama er eitt af persónugerfum hans. — Þriðja líkneskið hefur varla verið Brahma, því ekki er vant að smíða líkneski af þeim guði. Líklega hefur það verið guðinn Pilleiyār eða Ganesha, sonur Shíva, sem er látinn vera með fílshaus.

guð, hefir manns ásjónu og snabel sem fill fram úr sínum nösum, þeirrar meiningar, að svo sem fillinn er mestur dýranna, sje þessi guð mestur guðanna. Sá sami hefir klær fjórar og kórónu á höfði með grimmu tilliti. Hinn annar hefir ei snabel, en kórónu og klær, sá eð kallast Rami. Hinn þriðji var með sama skikk og hinn annar, er þeir kalla Tameran. Þessir þrír þeirra afguðir verða útbornir einu sinni á hverju ári, á hverjum degi að er þeirra stórhátíð hin mesta. Á þeim sama degi er þeirra vagn tilreiddur, um hvern eg hefi fyr áhrært. Fyrst er sett í hann miðjan ein há stöng að mynd sem eitt mastur, og á það sama mastur eru settar svo sem þrjár mersukörfur eður þrjú sæti, eitt efst, annað á mitt mastrið og hið þriðja neðst, með prýðilegum gullvefnaðartjöldum og umbúningi þar um kring. Í þessi þrjú sæti eru settir áðurnefndir þrír guðir, Suami hefir það efsta sæti, Rami hið annað, sem á miðju mastri er gjört, og Tameran það neðsta. Í hvert sæti eru settar tvær kvennsviftir, með gull-legar viftur, að blakta þeim yfir þessum afguðum, svo að ekkert duft, ryk eða fluga megi þá á setjast nje falla. Efst á toppi er ein lítil silkiflug með mörgum litum og með gulli og gimsteinum bardýruð. Sjerhver borgari í staðnum er munstraður og með nafni upplesinn og tilskikkaður með köðlum að draga þennan afguðavagn, allan þann tilsettan dag á hverju ári, eitt stræti upp en annað ofan, alt til kvölds, með 30 eða 40 bumbum og þremur básúnistum á hvora hlið, og hermannaflokki vopnuðum alt um kring, sem kallast taliarii. En á meðan allur borgaralýður gengur heim til máltíðar, ganga allir ógiftir í þeirra starf, að draga þennan mikla vagn, þangað til þeir koma aftur að endaðri máltíð, og ganga aftur til þessa óþarfa verks, hinir til sinnar máltíðar. Þessum afguðum verður nokkru offrað af hverju húsi, er þeir verða fyrir dyr dregnir, eftir því sem hver er megandi til, af tóbak, rísgrjón, bítilarech, item þar sem þessu verður ei offrað, verður úthelt rauðu vatni. Borgarherrann eða borgmeistarinn, sem þar kallast almanich[1]), nær sem þessi afguðavagn

[1]) jeg get ekki með vissu sagt, hvaðan þetta orð er komið, líklega er þó síðari hluti þess tamíl-orðið maniyakkaren, borg rstjóri.

kemur fyrir hans húsdyr, standa þar 2 hafrar fullvaxnir og maður með einn stóran kornsigð í hendi hjá hverjum þeirra, hárbeittan, sem eftir borgmeistarans vissri tilsögn í mesta skyndi þá afhöfða. Og eftir það gjört er slegið larm uppá allar bumburnar og básúnað, þar með var þar rauðu vatni úthelt, tóbak, rís og bítilarech þeim gefið, sem vagninn drógu, líka sem annarstaðar fyrir dyrum. Item á þessum sama degi verður blótnautum útslept, sem svo eru kappalin, að þau nálega ólm eru af ofsælu og við framandi ofbjóðleg, svo menn hljóta sig til vara að taka. Vjer nokkrir gjörðum þeim stórar fortölur um þeirra blindleika, er þau vöktuðu, fyrir meðalgöngu vorra þjenara, hvernin að þeir tæki dýrðina frá Drotni og tillegði hana skepnunum, hverju að þeir svo gegndu, að þeir sæi Guð eigi. Og þegar að kvöldi leið, var þessi vagn með afguðunum og greindu stássi dreginn í sitt venjulegt pláss aftur gegnt kirkjudyrum. Og nær þeir voru svo þar með hann komnir því nær, útgengu allar hórur af kirkjunni, pagóga sirke eður kirkjuhórur, að fremja dansleiki fyrir guðunum, og með þeim þeirra meistari, sem nefndist baldor[1]); þessi selur þær daglega fyrir gjald, bæði stríðsfólkinu og þeim ógiftu í borginni, hvert gjald að innlegst í kirkjunnar rentukammer, og verður haft til hennar uppbyggingar, en þær eiga aftur víst sitt uppheldi af kirkjunnar inntekt hjá hennar forverjurum. Presturinn, sem oftast situr fyrir kirkjudyrum, og kallast brameni[2]); gengur einnin út guðunum að fagna með stórri auðmýkt og lotningu, og síðan urðu þeir af þremur þeim útvöldustu þeirra á meðal, sem voru synir prestsins, virðuglega innbornir með miklum bumbuslætti og básúnistanna skörpum blæstri og hljóðfæraslætti, item kirkjuhóranna danslátum í þeim prýðilega búningi, sem annars þar á milli, nær þær þjóna ekki

---

[1]) ɔ: portúg. bailador, af orðinn bailar, dansa; af sama orðinu er og hið alkunna nafn á dansmeyjunum við musterin „baiadera", portúg. bailadeira, þær sem Jón Indíafari kallar „kirkjuhórur"; orðin „pagóga sirke" hef jeg ekki áður sjeð notuð um þesskonar stúlkur, þær eru annars nefndar á tamíl devadāsi (guðsambátt) eða devastrī (flt. devastrīgal), og orðið „sirke" er líkl. = strīgal ɔ: stúlkur, konur.

[2]) Brahman.

fyrir guðunum, er í kirkjuna upphengdur, sem á þann hátt er í skikkan og hjer greinir, að þær hafa sem aðra uppbrók af gullvefnaði með gimsteinum og perlum veglega tilsett og verð er mikillra summu peninga, item einn veglegan brjóstadúk, sem og frábært fje kostar, með öðru frábæru hringa- og gimsteina-skarti, sem sett er á og af þeirra líkama eftir hentugleika. Síðan að loknu greindu starfi gengur hver heim til sín.

Þessar greindar kirkjufriggjur dansa alla tíma fyrir afguðunum hverja nótt frá náttmálum og til miðnættis, og um tólftu stund nætur, sem er miðnættisstundin, verður einhver af þeim tólf guðunum útborinn upp eitt stræti og annað ofan í vagni með logbröndum, eldfuðri, básúnum og danslátum, item trumbslögum og öðru þessháttar vegsemdarprjáli. Á þetta heyrðum vjer hverja nótt, sem vakt stóðum uppá kastalans skansmúr.

Um eitt miðdegi bar svo einn tíma við, að einn að nafni Pjetur Lálik, minn góður stallbróðir, og eg urðum óvarlega eftir fyrir utan portin kastalans, hver jafnan lukt stóðu um hvert miðdegi, meðan máltíð yfir stóð, og undir eins var miðdegismáltíð í borginni haldin, sem og jafnan plagaðist; gengum við og spátseruðum um torg víða, og nær við komum að þeirri stóru kirkju, er þar stóð, eður pagóga, sat goðapresturinn úti fyrir kirkjudyrum, og var að eta bítilarech. Við gengum til hans og kvöddum hann blíðlega. Hann tók okkur blíðlega með tugtugri bendingu og reverentsíu, og bauð okkur sess hjá sjer. Við slógum upp á skemt við hann, nú meðan engir til sæi, að vildi leyfa okkur kirkjuna innan að skoða. Hann kvaðst það ei voga með neinu móti, því það mundi sitt líf gilda og embætti. En fyrir okkar langgæða brekan og eftirleitni gjörðist sem við um báðum, þó bljúgur væri, fyrir tilsagt verð, og vildi hann að við afdrægjum okkar skó, og bauð okkur höndum að okkur halda og ekkert mein gjöra, utan augum renna, annars kvað hann sitt og okkar líf gilda. Skó vildum við ei af draga, enn út og inn gengum við spakferðugt og án alls piltskapar, hvað hann að lyktum prísaði,

og skildum við vel við hann að loknum launum. Ei var þar inni annað að sjá utan þá 6 afguði hvorumegin, og þá þrjá þeirra æðstu á gafli, yfir því altari veglega tilreiddu, er þar stóð; og búningur þeirra kirkjukvenna, er uppi hjekk, og fyr hefir nefnt verið.

XIX. KAP.

Innan borgar og utan standa mörg goðahús, sem nætur og daga ljóslampar inní brenna. Þar inni standa þeirra 12 afguðir, og einn af þeim æðstu þremur hinn 13. á miðjum gafli. Oft gengum vjer þar inn, þá engir til sáu, en ei þó eg, heldur stóð eg vakt úti, og fyrirbauð eg þeim neitt vont aðhafast, en ljós slöktu þeir, en eg hjet þeim harðindum ef goðin bryti eða svívirðingar sýndu, hvað eg oftlega naumlega fjekk hindrað, svo sem einn tíma skeði, að einn Hollenskur svívirti þann æðsta, er á gafli stóð, er um nótt skeði, og oss lá fyrir í fár að koma, en það hindraðist, því það var vitnalaust, hverjir helst af oss það gjört hefðu. Fyrir utan sínar kirkjur og goðahús hafa þeir fagra lunda af oleoviðartrjám með dýrri frjósemi uppvaxna, en þá umkring eru fagrar flatir sljettar. Í þessum lundum á sumrin veita þeir sínum afguðum tilbeiðni með matoffri, svo þar stendur pottur við pott og eldur undir. Ei máttum vjer þar inn ganga, utan á horfa í nálægð. Þá eru enn aðrir lundar, í hverjum að standa afguðir ýmislegra mynda, sem almenningur og fátækt fólk tilbiður og þar með framandi af almúgafólki, er til borgarinnar sína leið leggja með eitt og annað til kaups, af hverju þeir hljóta öllu toll að gjalda, jafnvel af mykjuskánum, því þeir halda mikið af þeim vegna kúanna, og í þeim brenna þeir öll sín lík. En þann toll allan til sjóar og lands, sem þar inntekst, tillagði kóngurinn sá heiðni vorum kastala, uppá vors kóngs vegna, því

allar þær skútur, sem þeir kalla siampanur[1]), er þar sigldu fyrir, hlutu kastalanum toll að gjalda. En nær það viðbar, að þeir hjeldu frá og vildu ei tolla, urðum vjer með tólfæring eftir þeim að róa, en ei vjer, heldur sjálfir Indíanar, en vjer sátum vopnaðir með brennandi lunta, svo þeir með nauðgan urðu tollinn að láta.

Nú er að tala um þeirra hátíðahöld, með því áhrært er um þeirra goðahús og dýrkan til sinna afguða og offranir, um hvern þeirra galenskab margt væri fleira að tala ef tíð tilfjelli. Eigi á björtum degi heldur á nætur halda þeir sínar hátíðir, danslæti og æfintýrleg spil, með ýmislegum myndum, er þeir sig með búa og íklæða, þau afguðaspil með stórri list og meistarasnilli að leika og spila við stór bál og blys, hvar uppá vjer eitt sinn sáum með óglöggleika af vorum skansi, og þó um nótt. Eitt þeirra spil virtist oss líkt Jónas spámanns historíu, í því hann hvalurinn svelgdi í sig, því einn þeirra íklæddi sig hvalsmyndan og svelgdi þann, er þar til kjörinn var og framkastaður. Og þessir búningar til þessara afguðaleika verða upphengdir í þeirra kirkjur og þar til varðveittir. Annað spil, sem vjer sjeð gátum, var þessháttar, að einn maður tekur sjer sjö epli í vinstri hönd og úttínir þau öll með hraðasta hætti í kring sig miðjan, og eftir því sem þau koma í hans lófa hvert eftir annað, svo útgrýtir hann þeim aftur, svo þau nema aldrei staðar, heldur sem eitt hjól renna í kring um hann svo hart, að þau ei eygjast nema þyturinn og sem eitt þeytispjald, en ekkert þeirra á jörð fellur, en að þrotnum þessum leik, falla þau öll hvert eftir öðru i hans lófa. Þriðja leik sáum vjer þann (og tíðar), að þeir taka tvo ali, einn stærri og annan minni, og sá á þeim heldur kastar þeim minni í loft upp, og nær hann vill niður á oddinn, otar hann þeim alsoddi upp í mót honum, er hann í hendinni ber, og svo gengur hann mörg hestsskeið, að sá litli alur, sem laus er, fellur aldrei niður, fyr en hann tekur hann

---

[1]) = champana, sampan, líkl. úr malajisku upprunalega; svo kallast nokkurs konar litlir bátar þar eystra (Yule-Burnell).

í sinn lófa, og þetta kallast að láta leika á als oddi. Margt fleira leika þeir gamansamt og furðanlega fásjeð. Einn klúrlegur leikur var þar um veturinn innbyggjurunum uppsettur og tilsagður að leika, þeim er vildi það til gjalds vinna, að stinga gat í gegnum sinn aflvöðva, og þar í gegn skyldi einn mjór línuþinur dragast, hver lína að fest var upp í einn eikartopp, og skyldi sá maður þangað vindast, og nær tilsagðist varð honum ofan hleypt [og slept] í einu á þessari línu, sem á snið til jarðar lá, á hverri hann hjekk með sínum handlegg með öllum sínum þunga, og í gegn lá gjörða und. Sumir urðu vitlausir og ómegna, nær þeir ofan hrukku. Vor línvaskari Athrumbus var einn þessara, sem svo mikið til gjalds gjörðu, hverjum vjer stórar ávítur veittum, og lofaði aldrei oftar þreyta skyldi.

Nærri kyndilmessu um veturinn kom þeirra prestahöfðingi eður biskup til þeirrar borgar, sem undir vorn kastala Dansborg lá, Trangobarich að nafni, og víðar til allra annara borga, sem í hans stifti og umdæmi voru. Og fyr en kom að þeirri móðu, sem á suðaustursíðu við kastalann lá (í hverri að voru margslags fiskar, ormar stórir og krókódílar), sendust boð áður fyrir honum, svo ei óvarlega upp á kæmi. Varð þá skjótt viðbrugðið í borginni. Tóku þá allar kirkjuhórur sig með venjulegu skarti að prýða og staffera, og alt staðarins stríðsfólk sig að tilbúa, item allir goðaþjenarar með prestunum. Þessi allur skari með mörgum bumburum og básúnistum gengu af borginni lítinn veg ofan eftir fögrum söndum, svo sljettum sem verða kunna, hverjir svo fagrir eru nær maður í móti sólu gengur, að ein ögn sýnist sem fegursta gull en önnur silfur. Og nær þessi prestahöfðingi á einum fíl yfir móðuna fór og miklu föruneyti, og lá í sínum palakín, í hverjum hann var borinn, sá af fílsbeinum gjörður var, gyltur og með göfugu smíði tilsettur, tók allur þessi skari til að auðsýna sitt vanalegt stáss með trumbslögum, básúnum, hóranna danslátum og stríðsmannanna vopnfimi, og sá larmur og þvílíkt látgæði varaði á allri heimleið þeirra til borgarinnar, þar til hann kom heim að kirkjunni. Var þá slegið uppá allar

bumburnar og básúnerað og kvinnurnar í sinni umbyltan ljeku margvíslega fyrir, eftir þeirra háttum, sem þeirra baldor fyrirmyndaði, sem þeim daglega stjórnar, sá eð hefir eina klingjandi og skært hljóðandi koparplötu í sínum vinstra lófa, á hverja hann með einum sjerdeilis nertugum stálhamri klappaði, og með það slag í hvert sinn þær skyldu dansmyndina fremja. Síðan gekk hann í kirkjuna og var þar í langri tilbeiðslu fyrir guðunum, og á meðan varð ein bóma sem eitt hátt mastur úti fyrir kirkjugarðshliðinu uppreist, og efst í hennar toppi eitt veglegt sæti tilreitt, í hvert hann um níundu stund nætur þeirrar uppstje, og þar þær þrjár klukkustundir til miðnættis kyrlega út dvaldi, á hverri eykt að var í munnlegu samtali við Satan, svo sem gömul ólofleg vísa jafnleg er hjá þeim Malabaris, í hverju slíkra yfirpresta stifti og umdæmi á þessum nefndum tíma sjerhvers árs, sem er þann 1. Febrúarii. Því að þeirra trú er svo varið, að þeir eiginlega tilbiðja Satan, og af honum óska sjer og árna alls þess, sem þeim þykir sig um varða. Því þeir segja, að Guð almáttugan, þann sanna og blessaða dýrðarinnar og friðarins höfðingja og kóng eilífðarinnar þurfi þeir ekki að tilbiðja, því hann sje góður og friðsamur, án stygðar og styrjaldar, og með því hann sje svo mjög blíðlundaður, þá hafi hann ei viljað kífa við Satan nje stríða, eður hafa hann sjer í nálægð, heldur afdeilt honum sinn samastað, hvar hann mætti yfir drotna, sem er loftið, jörðin og sjórinn. Og með því Satan væri illur og mjög týranniskur, þessvegna hlyti þeir hann að tilbiðja og hann með sinni iðuglegri tilbeiðni og offrunum til friðs að stilla. Þess vegna skyldi nú sá yfirprestur þeirra aðfrjetta Satan í vinsamlegri viðræðu, hverrar náðar þeir ættu af honum á eftirkomandi ári að vænta, um öll árgæði lands og sjóar, og nær skip kæmi frá Danmörk, um stríð og gagnlegar höndlanir og annað svoddan. En á meðan svo fram fór þeirra á milli, varð eitt bál mikið kynt og upptendrað um kring nefnda bómu. Og að lokinni eykt og viðræðu þeirra á milli mátti presturinn fleygja sjer úr öndverðum topp trjesins í það brennandi bál, til vitnis, að ef það bál honum ei grand

gjörði, þá skyldi þeirra samtal gegnsatt reynast eftir prestsins framburði. Og nær hann úr bálinu gekk heill, varð á bumbur barið og básúnerað, einnin af dækjum danslæti margskonar framin og með hermanna hárri siguremjan við leik lokið.

Að næsta morgni ferðast prestur þaðan og í nálægustu borg, sem nefndist Trichlagour[1]. Í þá borg gengum vjer oftlega, nær oss gafst til leyfi, að skoða þá veglegu goðakirkju og hennar veglegu uppmúran, því hún var öll utan með ýmisleg bílæti, og hver þró neðarst í hennar múrveggjum svo gjörð fyrir unga og eldri, að þeir máttu sig þar í leggja og sína bæn þar inni gjöra, svo mót var fyrir höfði, höndum, hnjám og öllum líkamans liðamótum. Einn mjög hár kirkjugarður var hana umkring, hvar uppá stóðu myndir margra kvikinda meistarlega afmálaðar, hverjar álengdar sýndust sem lifandi væri. Sú borg lá eina mílu vegar frá vorum kastala.

Einn aldingarður vænn lá þriðjung úr mílu frá vorum kastala. Firna þrátt gengum vjer þangað, þó Indíanum lítt líkaði, sakir troðnings helst. Þar vóx eitt gras, það eitt sjerdeilis að sköpun og lit, á meðal annara margra og ýmislegra, og með undarlegri luktan, sem þeir kalla dýfelsgras[2]), og er þar haft að stóru áliti. Það gras brenna þeir til púlvers eður dufts, og segja þeir, að því dufti eður ösku fylgi sá firnakraftur, að þar sem þeirri grasösku verður niður sáð, að strax úr þeim sama stað flýi sá óhreini andi, og því er sú siðvenja í sjerhverri borg Narsinga-kóngsríkis, að þessa grass ösku verður á sjerhverju vori um sjerhvert borgarstræti niður sáð og út fyrir portin sjerhvers staðar. Og í sjerhverri borg þess ríkis eru 7 menn þjónandi til þeirrar iðju að niðurdreifa þessari ösku í sama mund dags, er nú var greint, svo Satan burt rými úr þeirri borg og

---

[1]) líklega er átt við bæinn Tirukkadhavur (Trukkulur, Trikkelore).

[2]) holl. duyvelsgras, djöflagras. Líklega er átt við darbha-gras (poa cynosuroides), sem Indverjar trúa að mikil náttúra fylgi, og nota til ýmislegra heilagra athafna.

gjöri ei skaða, hvorki með eldbruna eða nokkru öðru, hvað þó þrátt skeður, að sá vondi andi brennir þar þrátt af um nætur heil stræti og verða þeir 7 menn að nafnbót kallaðir dýfeljagarar[1]). Þeir spila þar fyrir utan daglega fyrir afguðum á hljóðfæri, því þeir taka sjer ei aðra iðju fyrir hendur af engu til. Þeir ganga með gula öskusekki sjer á herðum, hverja þeir uppsetja á hverju nóni, og hafa stafi með ýmsum litum sjer í höndum, og eru allir balsameraðir með ýmsum color og farfa. En þessi aldingarður, hvar inni þetta gras vex, er eiginlega kirkjunnar og staðarins eign, og sje þarum nóg sagt að sinni.

## XX. KAP.

*Nú eftirfylgir stutt fráskýring um aðferð Indíaniskra, þá þeir úthefja sína dauðu og brenna þeirra líkami utanborgar.*

Á þriðja degi eftir hvers þeirra andlát verða líkin úthöfð, en á meðan þau eru heima í sínum húsum, syrgja ekkjurnar með sínum nágrannakonum, skyldum og tengdum, þrisvar á hverjum degi í afdeildu takmarki fyrir utan húsið með hryggilegri aðferð og sorglegri ásýnd, svo þær berja sig og bíta í hendur og hold og í andlit pústra, klóra og klípa, svo þær bláar, blóðugar og benjaðar eftir standa. Þess á milli falla þær með einum hast til jarðar, ausa þær moldu yfir höfuð sjer og hana upprífa og sinn munn með hana fylla, velta sjer og áminnilega veina. En nær sú sorgarhríð í sjerhvert sinn er yfirstaðin, standa þær strax upp og kveða sín sorgarkvæði þess á milli, inn til þess þær aftur upphefja sína sorgarlega atferð. Þessi sorg þeirra stendur yfir í hvert sinn eina klukkustund. Síðan ganga þær inn aftur. En á þeim degi, sem sjerhvert lík verður

---

[1]) auðsjáanlega úr hollensku, duyveljager ɔ: djöflaveiðandi.

út borið fyrir suðvesturport staðarins í víst afmarkað pláss, þar sem plagast jafnan líkin að brenna, þar í þeim stað er gjörður einn laufskáli ferdyraður og inn í honum eru niðurhlaðnar mykjuskánir þurrar, hvar líkið verður upp á lagt. Nú sem líkið er útborið af húsinu, stendur þar einn vel tilreiddur palakín, sem vera skulu líkbörur hins dauða, hvar inn sá framliðni verður lagður á eina sæng, og yfir línklæði haft með mörgum litum, og með silkiklæði yfir tjaldað með veglegum farfa ýmislegum. Svo nær þeir líkið upphefja á sínar axlir, sem almennilega af fjórum borið verður, verður strax á 18 bumbur slegið með einum larm, og í þrjár básúnur blásið, og ganga tveir þeim framliðna á hægri hönd en einn til vinstri handar; einn maður gengur hvoru megin við líkið með heytuggu í hvorri hendi, sem gegndýfð er í oleo, hver upptendruð verður með eldi, og gefur mikið log og glampbirtu af sjer. Sje það kvinna manns, þá gengur bóndi hennar næst líkinu og þeir nánustu og mikill fólks fjöldi af borgarlýð í pörum, allir með orðentligum hætti, en smárill undan, hverjir að keyptir eru með þeim eldri til að syrgja og sem verst að láta, einkum þegar ríkara manna börnum fellur til sín feðgin og nákomna að syrgja, svo nær laun skulu lúkast, fá þeir tvöfalt sem verst hafa látið og eru bláir og blóðugir, rifnir og hárreittir. Auðkendur er þeirra bumbusláttur, nær þeir fylgja sínum dauðu út að brenna, því það gengur alt til með sorglegri aðferð.

Og nær þeir koma út þangað, sem líkin plaga að brennast, sem er utan borgar, þar nefndur laufskáli stendur, ganga þeir, sem líkið bera, þrisvar í kringum þennan laufskála, rjett sólarsinnis, og síðan í hann innleggja þeir líkið, ofan á þann harða mykjuskánahlaða, er þar fyrirfram er niðurhlaðinn, og sá maður, sem plagar að þjóna þeim dauðu, er strax þar fyrir hendi, hver eð í þennan laufskála strax inngengur og hagar þeim dauða við, svo hann liggur á sína vinstri hlið. Síðan ganga inn allir frændur og tengdamenn, og taka með sjer það allslags, sem sá dauði, þá hann var lifandi, lagði sjer til fæðu, sem er af fiski, soðnum rísgrjónum, hænsnakjöti, aldinum, tóbak og bítilarech. Og nær þeir

allir hafa honum því offrað og lagt upp á hans varir, þá tekur hann það burt aftur alt þessi áðurnefndi maður, og lætur það sem í aðra mundlaug, og verður síðan með honum uppbrent. Og nær þetta er svo algjört, ganga allir náungar út, en þessi maður vippar þeim dauða í kring með skyndi og brýtur hann úr hnjáliðunum, og leggur báða hans fætur undir hans kvið, en hann sjálfan á grúfu, og breiðir það ytra línlak utan um hann allan, er hann haft hefir daglega um sig miðjan, þá hann lifði, er þeir kalla *kleken*[1]). — Þeirra klæðnaður er ekki utan það klæði, en sumir hafa ekkert um sig miðja utan eina þríkantaða blöku ofan fyrir sína blygðan. Sumir hafa dúk lítinn um sitt höfuð, með þessum sama dúk verður þeirra ásjóna byrgð og þeirra höfuð umdregið. Síðan eru innbornar enn meiri harðar mykjuskánir, og þeim hleður sami maður ofan á hinn dauða og umkring hann með snillilegri hleðslu, og að öllu svo búnu gengur hann út af þessum laufsal. Svo ganga allir náungar saman í einn hóp og halda hendi hver um annars háls í einum hring, og upphefja miklar hrinur og há óp með hryggilegri sorgaraðferð og eymdarlátum, og ganga þrisvar rjettsælis í kring nefndan laufsal. En allur smáríll og þeir sem fylgja, þeir klóra sig, kreista og klípa, ausa moldu í höfuð sjer og bíta sig í hendur, pústra sig og uppfylla sinn munn af moldu og dufti. Að þessu öllu svo búnu verður laufsalnum burtu svift með öllu.

Þar eru á meðal innbyggjaranna landsins eður þeirra Malabari þeir menn, sem nefnast Pragier eður Prægier[2]), og eru þeim Malabarisku viðbjóðlegir og af þeim í forakti og

---

[1]) er varla úr tamíl, á því máli er þesskonar dúkur kallaður gōvanam, en máske er orðið úr hollensku kleedje, þ. Kleidchen, lítill dúkur eða klæði, og hefur Jón Indíafari þá heyrt Hollendinga eða Þjóðverja á kastalanum kalla þetta fat svo.

[2]) þetta er auðsjáanlega sama sem orðið pariah (á tamíl parai), sem er notað um menn af lægstu stjettum víðsvegar á Indlandi, og þaðan komið inn í mörg Norðurálfumál. Í ýmsum eldri fræðibókum er sagt að það sjeu menn fyrir utan stjettir, en svo er ekki, orðið er samnefni fyrir margar lágar stjettir, og sumstaðar á Indlandi eru jafnvel til stjettir, sem eru taldar standa skör lægra en paríarnir.

forsmán hafðir og haldnir, af því þeir eru framandi, fátækir, og eta sjálfdauð naut þeirra Malabarisku, hver þeir um nætur á laun inn draga í sín hús sjer til fæðslu, nær eigendur hafa húð afflegið. Þessa menn hafa þeir og kaupa til hryðjuverka, og á meðal annars kaupa þeir 4 menn af þessum Pragier í hvert sinn nær lík skulu brennast til að bera þangað nýja og blauta kúmykju til að yfirþekja og hylja líkið og allan þann umbúning, svo það stöðvi eldsins bráða brenslu og líkaminn þess heldur gjörsamlegar uppbrenni, svo beinin á næsta morgni liggja tóm og drifthvít eftir í öskunni, hver af náungunum verða gjörvöll samanlesin og tínd, og með snilli upphlaðin í ferkantaða og uppmjóa standhrauka, og verður daglega þeim svo af náungunum við makt haldið, nær þeir af storminum niður hrynja. Strax að morgni ganga frændur út til nefndrar eldgrafar og taka eitt eða tvö sjerdeilis bein úr líkamanum, og að öllum hinum upphlöðnum ganga þeir heim með þau bein og láta í mortel og steyta þau til púlvers, þar af gjöra þeir farfa hvítan, með hverjum þeir smyrja sig yfir brjóstin bæði þrjú strik, og yfir hvern aflvöðva handleggsins þrjú strik, og yfir ennið þrjú strik. Þessum nefndum teiknum halda þeir á sínum líkama við makt heilt ár um kring í staðinn sorgarklæða, sem tíðkast meðal annara þjóða. Og fyr en líkmenn ganga frá þessum umbúningi, gjöra þeir gagnvart vindi eina holu á þessa gröf, inn að þeim hörðu skánum, hvar inn þeir settu eina heytuggu, hverri þeir áður fyrri dýfa í oleo, eldkveiktri og logandi, sú er upptendrar alla gröfina. Og að svo öllu viðloknu ganga líkmenn heim, og nær þeir koma á miðja leið, setja þeir sig þar niður, og að gjörðum reikningsskap, hvað sú líkför kostað hefir, verður sjerhverjum peningur útgreiddur, eftir sem hver er umkominn, frá meira manni til hins minsta. Síðan gengur hver heim til sín, og lyktar þar framar um að tala, utan hvað áhrærir þær konur, er sig láta viljugt lifandi brenna með sínum mönnum dauðum, af kærleik til þeirra, hvern þær þar með auðsýna.

En hverjar þær konur sjeu, er slíkt leyfist að gjöra og

svo breyta, eru þessar. Fyrst sú kona, sem ryktuð verður, að hún hafi mann fram hjá bónda sínum, en ei hefir bevísast satt vera, og deyi svo hennar bóndi, þá er það svo sem hennar eiður, að hún gengur lifandi viljugt í bál með bónda sínum, þar með augljóslega ávísandi að hún engan framar en sinn ektamann elskað hafi; en hver af þessháttar kvennmönnum ei svo breytir, verður síðan framar meir til æfiloka aldrei ærleg haldin, og ei má hún hafa sess nje samneyti með þess lands erlegum kvennmönnum. Ein slík kona ljet sig þar með slíkum hætti um vorn þardvalar tíma með sínum bónda lifandi brenna, sú eð með mikilli gleði og hljóðfæraslætti gekk og lagði sig í fang sínum liðna manni og hann að sjer faðmaði, hverri þangað fylgt var með bumbum og básúnum í flokki margra giftra kvenna. Ein kaupmannskvinna þar í borginni fjekkst naumlega frá að brennast með manni sínum, utan fyrir sterka tilhlutan vorra yfirmanna, því öll mál, sem í borginni tilfjellu, voru fyrir rjett innlögð upp á kastala, og skyldu trakterast, dæmast og úrskurðast eftir þeirri kónglegri befalningu. Sú önnur, sem leyfðist að brennast, ef svo vildi, var þessháttar kona, er engin börn átti. Annars leyfðist ei að nokkur brendist.

## XXI. KAP.

Sterkt lögmál hafa þessir Indíanar yfir sjer í hverju málaferli meðal allra stjetta þar í landi, og sjerdeilis straff til hvers brots; svo brúka þeir hengingar, steglur, eld og margskonar kvalræði, hálshögg, beinbrot, klípingar, innisveltur og ormabit. Þar var maður og kvennsvift upp á kóngsgarðinum einn tíma, þá vor general reisti til Travanzour, sem smeigt var einum stórum járnbolti í gegnum hvors þeirra báða kálfa, í hverju þau vöfruðu nakin daglega bæði. Ei fjekk eg þeirra afbrot að vita. Hvort hjóna, sem sig

missjer í sínum ektaskap, hljóta mikið straff að úttaka með mörgum hætti, hvers hætti eg ei minnist; item ungar og ógiftar, að sínu ráði spjölluðu, fá með sínum krenkjurum mikið straff og æruhnekki, en hver sú, sem ei treystir sjer til sig erlega að halda, henni leyfist að gefa sig úr selskap ærlegra og úr borginni í samfjelag hinna krenktu, hverjar vera verða utan staðar portanna, og þar kallast *avasari magni*, hvað eð útlegst hóra.

*Sirka* kallast þar kvennsvift, *abbæ* ó faðir, *ammæ*, ó móðir, *nica* herra, *nerpa* kalla Indíanar eld, *tanarí* vatn, *cundovara* að sækja hvað fyrir sig, *irima* bróðir, *irimæ* systir, *vele* sá eða það sem gamalt er, *tingra* að eta, *toccuna tingraní* eti þjer dálítið, *ní* er þjer eða þú, *culcraní* drekki þjer, *culcrulidt* er krús, *toppe* hattur, *pacra* er að horfa eftir nokkru, *ine pacraní* að hverju geymir þú?, *angra* er að ganga, *ine angraní* hvert gangi þjer?, *cumbride* sá sem hár er, *metta* mikið, *taí* tík, *teyra* mjólk, *lette* eður *lecte* er hleypt mjólk, *bumbarda* fallbyssa, *spengardi* smábyssa[1]). Eg minnist ekki úr þeirra máli meira,

---

[1]) Hr. Chr. Schlesch, gjaldkeri Trúboðsfjelagsins danska, sem hefur dvalið langvistum á Suður-Indlandi, og er ágætlega að sjer í tamíl, hefur gjört mjer þann greiða að skýra þessi orð fyrir mig. Þau eru flest talsvert afbökuð, og sum er ekki hægt að segja um með vissu hvað á að vera. — Avasāri er = hórkona, og þykir ófínt orð, fínna er að segja vipasāri; hvað magni er, er ekki víst, tamíl-orð er það tæplega; abbæ = appā, vocativus af appēn, faðir; ammæ = ammā, voc. af ammāl, móðir; nica = najāgan, herra, höfðingi; sirka = strī kona, flt. strīgal; nerpa = neruppu, eldur; tanari = tannir, vatn; cundovara = konduvara, sækja; að því er snertir irima, irimæ og veli er óvíst hvaða tamíl-orð þau eiga að tákna; tingra = tinna, borða; toccuna tingrani mundi á hærri stjetta tamíl heita kondsjam tinnu nī; ni = nī, þú; culcrani = kudi (nī), drektu; culcrulidt er óvíst hvað er; toppe = toppi, hattur (lánað úr hindústönsku); pacra = parkka, gæta að e-u; ine pacrani = jenna parkkirāj nī, að hverju ertu að gæta? angra er líkl. afbökun úr 2. pers. í eintölu = nadakkirāj, þú gengur; ine angrani? = jenge pōgirāj nī, hvert ertu að ganga? cumbride er óvíst hvað er; metta = metta, mikið; tāj er alment orð sem þýðir móðir; nāi er = hundur; teyra = tajir, súrmjólk; lette er líkl. ekki tamíl en portúgalska orðið leite; bumbarda og spengardi eru ekki heldur tamíl-

því það er alt gleymt sem fyr lítið var. En það veldur miklu, að portogaliska talast þar almennilega, eins af sjálfum Indíanum við framandi og Spanskir sjálfir, og verður svo samblandað við indíanisku hvort af öðru brjálað. Svo er *og öll portogaliska mjer gleymd, þó eg lítið þar í kynni,* fyrst eg hingað til lands úr siglingum kom, og þar með fleira margt merkilegt, eftir því eg forsómað hefi með það fyrsta þar um að skrifa.

Nú er þar aftur til máls að taka, þar eg mintist á um þeirra strangt lögmál þar í Narsinga kóngsríki og víðar annarsstaðar, og að þeir straffi allra handa misgjörðir frá mesta til minsta með tilsettu ýmislegu straffi. Til dæmis að taka eitt straff af mörgum. Við óhaldinyrðum: Sá eð þar tekur góss eður gjald til láns af öðrum mönnum og borgar ei aftur í ákveðinn tíma, þá hefir hann það vald eftir lögmálinu, sem skuldina á inn að heimta, að taka þann mann höndum, er honum átti skuldina að lúka, og leiða hann ofan á torg borgarinnar, þar daglega er kauphöndlan framin, og leggja þann þunga stein uppá hans hrygg, á hvern klappað er staðarins mark með hangandi hringi, og þar daglega til taks liggur fyrir hendi, og oss virðst hefir að vega mundi 6 fjórðunga þyngd, og láta hann í boglykkju með bundnum höndum ofan á ristar frá sólar uppkomu og til þess hún undir gengur með þann stóra stein standa, og tveir stríðsmenn standa hjá honum, hann slá, ef hann steininum af sjer veltir, og strax upp aftur láta, utan hann vilji honum meiri vægð sýnt hafa. En sjaldan plaga þeir svo strangt straff á að leggja fyr en í þriðja sinni, og hinn þá friðmælist og fullkomnar sit loforð. Hjerum ei fleira.

Á þessu staðarins kauptorgi eru aldini, hænsni, egg, fiskur ferskur margskonar, item kopar og látúnsverk með mörgu móti, caton, silki og margslags vefnaður, og allskonar aldinkjarni, einnin gulls- og koparmynt til kaups haldið daglega.

---

orð, fallbyssa er þar kölluð pīrangi, byssa tubakki, en líklega eru þessi orð úr málblendingi þeim er Norðurálfumenn og Indverjar töluðu sín á milli.

Nú er að tala fátt eitt um þeirra höndlan til sjóar og lands, eftir því sem eg fjekk fornumið. Í fyrstu sá þeir árlega þeirra akra, af hverjum vex hið dýrlega rískorn tvisvar um árið, í Aprílis og Septembri að mig minnir; það vex mannshæð, en í lægsta lagi í brjóst manns, en mjölakrar er þar hvergi, svo vjer vissum til, utan uppá Ceylon, og þar er strokkuð mjólk, en eigi þar sem vjer vorum, heldur er hún með öðrum hætti handtjeruð til smjörs, sem er fleytt ofan af hinni mjólkinni, svo sem önnur fita vor á meðal, og það smjör er rautt að lit og verður útselt til að steikja í fisk og kjöt í pottatali eður uppá mælir svo sem oleum. Af þeirra oleoviðarbómum vex viðsmjör, svo sem eg fyr hefi á vikið, í þeim nytum er þeir kalla carhaniske nytur eður cocus, í hverjum fyrir innan skel og kjarna er ilmandi vatn, hvert menn drekka til lystisemi daglega og eta kjarnann ferskan, af hverjum smjörið pressast. Sykurtrje, er menn sjúga og tyggja, sem og magnis[1]), margskonar epli og aldini, bónantser, límóner, sítrónur, pómerants og símitrer[2]). Ei er þar hunang, svo eg þess var yrði; önnur allskonar aldini meina eg þar vaxi. Í annan máta tilsetja þeir sín pálmviðartrje, þau sem þeir þar til velja, og nær sem þá svo girnir, með þeim hætti, að þau tvöföldu blöð, sem uppvaxa úr þeirra toppi og brúkuð verða þar fyrir pappír, og úr þeim gjöra sjer bækur, á hver þeir skrifa með járnstíl, hvað þá girnir, sögur, rímur, kvæði, eður og annað, sem þar tíðkast; þau sömu blöð eru mjög frammjó, og þau uppteygja þeir, svo sem þá menn upprjetta hár á höfði manns, og vefja þau hart saman þar um að utan, og úr þeim pálmaviði, er svo er við höndlað, drýpur vín í þeirra potta, er þeir kalla vín de palme, það drekka menn og kaupa daglega til þess að klukkan slær 10 fyrir miðdag; síðan súrnar það mjög, svo það verður ei drukkið, og skiftist þá um nafn þess víns, og þaðan til

---

[1]) máske er átt við aldini mangótrjesins; óþroskuð eru þau kölluð mānkāj á tamíl.

[2]) jeg get ekki með vissu sagt við hvað hjer er átt.

kvölds nefnist *súre;* úr því bruggast þar það vín, sem þeir kalla *arach,*[1]) *og er sem brennivín. Annað ölslag er þar* ekki. Af þessu drekka hvorutveggja, framandi og soldátar (en ei landsmenn) sig drukkna. Um bómull hefi eg nokkuð áhrært, sú eð vex á viðum, svo sem innan í einu eggi, hvert eð klofið er eftir miðju og situr hún þar inni sem ein þykk og hvít mygla eður hvítt silki. Þeir brúka það hálmgras undan ískorni vex fyrir sinn nautpening, hver eð alla tíma inni stendur á nætur, og úr hans mykju eru daglega mykjukökur gjörðar, bæði til eldiviðar og að brenna hina dauðu. Líka er uppá landsbygðinni á sumurin heyjað fyrir naut, buffla, því það stendur inni á vetrinum, því jörðin er dauf af ógnarlegu regni, sem þar ofan hellir, en geitur og sauðfje elur sig mest úti sjálft, þó magurt verði.

Handverksfólk mikið er í Indíum, Mórlandi og Egyptó, sem og víðar annarsstaðar í Suðurlöndum uppá allra handa, sem er múrverk, trjeverk, leirverk, járnverk uppá allrahanda munstur, bílætissmíði, koparsmíði frábreytt, úr fílsbeinum, úr tönn og fleira þessháttar, úr gulli með gimsteinum sett og perlum meistarlegt smíði, úr silfri og messing. Item upp á allra handa vefnað, og sín catons-klæði að mála og pússera með allskonar farfa, hvar til þeir hafa löng hús úti án veggja, og þar inni borð svo löng sem húsið er, og þar á sína potta með allra handa color, og sinn pensil eður penna, með hverjum þeir marka og útrita öll þau catonsklæði og silki, sem þeir vilja farfað hafa. Þeirra penslar eru úr svínsburstum gjörðir, smáir og stórir, með hverjum að þeir eru vel tamir með meistaralegri snild að gjöra allra handa myndir þar á; með stórri list, kæti og klingjandi raust, sitja þar við öllum dögum til kvölda, utan um sjálft miðdegið, nær þeir til máltíðar ganga í sín hús. Og

---

[1]) sure er notað um geraðan pálmasafa. Orðið er uppr. úr sanskrít (sura), en er komið inn í mörg önnur indversk mál. — Arach = d. arrak, e. arrach, er einskonar brennivín bruggað úr pálmasafa. Orðið er uppr. arabiskt og þýðir „sviti“.

þar inni sat eg oftlega við borðið, og mig þangað til sín vingjarnlega meðtóku. Og nær sem hvert klæði er ferðugt, verður það strax útbreitt á sljetta grund í mót sólu, og útspýtt að það þorni.

Járnsmíði smátt og stórt verður þar tiðkað, og þeir sem eru kljensmiðir ganga daglega á strætin fyrir hús í borginni, hrópandi ef nokkurn um nokkuð nauðsynjaði, er smásmíði viðvíki og það útbærist og tilsegðist, og slíkir báru belg og steðja, hamar og töng undir hendi sjer, en piltur þeirra drattar með kolapoka. Ei hafa þeir belgsmíði sem vjer, því hann er án rifja og er sífullur af vindi, með engu trje, en langri járnpípu, sem föst er og negld framan á belginn. Þennan belg leggja þeir niður á hlaðið í hverjum stað, og setja niður þar sitt steðjakorn og taka svo til á knjám standandi belgnum að blása, ei sem vjer, heldur grípa þeir í miðjan belginn og þrykkja svo og kreista hann, en strax ornar.

Eftir stór regn á vetur verður leitað í leir og sandaur eftir gimsteinum, af þeim sig þar til útgefa, og selja gimsteinafágurum og þeim, sem þá júbilera[1]) og með köntum útskera og snikka. Einnin finnast nokkur slags gimsteinar með sjó, og perlur finnast í skelfiski sjóreknum, og þær skeljar, í hverjum perlur eru, nefnast perlamóðir, og úr þeim eru smíðuð staup og skálir prýðilegar, og eru svo seigar, að varla með hamri brotnar verða. En með hverjum hætti að þeir skera þá gimsteina, veit eg ei, hverja þeir suma gjöra ferkantaða og suma áttkantaða, hverjir þó eru svo mjög harðir, að eldur grandar þeim ekki, og ei verða þeir með járnsleggju, ei heldur á ambolti eður steðja brotnir. Og fyr en vorir kaupmenn af Indíanum gimsteina kaupa, verða þeir áður með eldi og á ambolti reyndir, því Indíanar hafa marga með röngu gimsteina áliti prettað af framandi og aðkomandi þjóðum, það sem þeir hugðu gimsteina vera og reyndist oft gler, hvað margan dárað hefir, því

---

[1]) cfr. d. juvelér, gimsteinasali, „jubilera“ þýðir hjer að skera og fága gimsteina.

Indíanar eru þar uppá og margt annað pússerí behendugir, sniðugir og útlærðir. Svo nær þessir júbilerer og steinsníðarar koma upp á kastalann Dansborg með sína gimsteina til sölu til vorra yfirmanna, urðu þeir með þessum hætti reyndir og prófaðir, og alla þá, sem þeir last á lögðu og aftur ráku, máttum vjer kaupa, hefði oss gjald ei brostið, af hverjum eg öðlaðist $2^1/_2$ hundrað, þó flestir verðlitlir væri, og ei póleraðir nje tilsettir sem skyldi. Tveir smápokar af gimsteinum fullir fóru heim með Christiánshöfn, því skipi, er eg með til Indíum út sigldi, og einn gimsteinn þar í var skatteraður og virtur fyrir 500 dali, sá eð var rúbín, og svo stór sem fremsti liður á fingri manns. Kóngur á lausn á öllum gimsteinum, er frá Indíum heim flytjast, og kvittast þar með, hvað þeir urðu honum skyldugir, sem voru í því Austindiska compagnii, fyrir þann styrk, sem kóngur þeim gjörði, sem var stykki, púður, lóð og hvað annað þá nauðsynjaði.

Skipa-, skúta- og bátasmiðir eru þar. Skip nefna þeir eftir því sem Portogaliskir, *navis;* skútur kalla Indíanar *siampaner*. Þeir bátar, sem róa á 10 eður 12 menn, kallast *zelinger*[1]), en þeirra fiskibátar, sem að eru tveir eður þrír samanbundnir trjedrumbar, og á rær einn maður og á summum tveir langt út í haf með net til fiskiveiðar, á hverjum þeir hafa þríköntuð segl, og eru gjörð svo sem þeirra net og skipskaðlar úr oleoviðarberki, nefnast *cadmeda*[2]). Og þeim skútum og smáskipum, sem Malabari hafa, sigla þeir þar innanlands en ei lengra. En Mórskir hafa skip uppá 300 lestir, og eru með oleoviðarberki samansaumuð; þeim sigla þeir bæði í Arabía, Egypta[land] og til China.

Járn er nóg í Indíum, úr hverju þeir smíða sverð og hjálma, pílur og alt til hers, og hvað annað nauðsynlegt.

---

[1]) navis er latn. orðmynd, portúg. orðmyndin er nao, navio. Hin tvö orðin hafa áður verið skýrð (bls. 262 og bls. 282).

[2]) á tamíl kaddamaram, sem eiginl. þýðir trje bundin saman; að því er Hr. Schlesch hefur sagt mjer, eru það vanalega þrír bjálkar og er miðbjálkinn lengstur.

En skildir þeirra eru af leðri og eru límdir og pappaðir og með bómull innan stappaðir. Þeir gjöra þeim stóra hlífð í bardögum, því þeir kunna meistaralega sig með þeim að verja fyrir höggum. Þar með kunna þeir sjálfir kostulega með vopn að fara, bæði sín magafött sverð, með hverjum þeir höggva yfir sinn skjöld og undir, og með sín spjót, hver að eru 9 og sum 10 álna löng. Þar með og líka hlífa hermenn þar sjer með sínum skjöldum fyrir sólu um miðdegið, því hún er þar þá svo heit um sumurin, sem eitt nálægt brennandi eldsbál, og verður sandur sem eimyrja og brennir fætur og iljar, utan maður sem harðast hlaupi, en bærilegra er á jörðu og grasi að standa eður ganga en á sandi. Stál er þar ekki, annars mundu þeir hin bestu sverð smíða; því er þar stál dýrt, en menn varast stál þangað að flytja. Látún er þar nálega að lit og fegurð sem gull, tin sem silfur, kopar mjög skær og rjóður.

Á vetur geta ei fiskarar þar fyrir miklum brimum framkomist með sína trjedrumbsbáta til fiskiveiða. Í efstu viku fyrir páska eru 3 af þeirra guðum í einum vagni til strandar hafðir með mörgum bumbum og básúnum, og er sjór í veglegum gullkerum úr ströndinni uppborinn, og yfir goðin öll ausinn, hvert þeir láta í sömu ker af goðunum aftur renna. Og þeim sama sjó verður af prestinum með einum nýlaufguðum vendi dreift á sjóinn, sem vera skal eitt vígt og heilagt vatn, eftir þeirra trú og vísu, svo að því betri fiskiheill og sjóarbjörg yrði, og síðan þar eftir fara fiskimenn til sjóar með sín net, sem þeir hafa í körfum innilukt, svo þau glatist ekki í sjóinn, nær þeirra bátar umvelta, hvað oftlega við ber, en allir fiskarar eru þar svo vel syndir sem selur í sjó.

Í þeim stað Carical, er mílu vegar liggur frá vorum kastala í suður, þar inni bjuggu 600 fiskarar. Þangað gengum vjer í þrjár reisur og sáum uppá um veturinn, að þar voru um daga 300 ungir piltar sundlist að læra, 10, 12 og 16 vetra, langt fyrir framan brimbrot, svo einn fiskarason meðtekur sama embætti sem hans faðir haft hafði, og

allir hljóta þeir í sundlist útlærðir að vera. Og nær sem þessir fiskarar að landi koma, bjóða þeir sinn fiskafla til kaups í borginni og kastalanum, og verður svo daglega við þá höndlað þar um, svo þeir fá nægjanlegt gjald til sinnar atvinnu. Einn tíma um veturinn buðu fiskarar eina skelpöddu til kaups, hverja þeir höfðu í neti fiskað, og sú var mjög stór, svo sem þær stærstu skötur, er hjer dragast mega, en mönnum þótti hún dýrari en hófi gegndi, svo hún varð ei keypt í það sinn. En góðar og sætar eru þær að eta og líka heilnæmar. Það er ein undarleg skepna í sinni sköpun. Um hennar búk allan er sem ein holdgróin skel með dökkum og hvítum blettum. Sú skel er svo hörð sem tönn en seig sem horn. Hún hefir fjóra fætur og klær á þeim öllum. Þá hún liggur kyr, sjái þjer ekki neitt til hennar fóta. Einsog landpöddur eru þær að sköpun, en þær eru smáar og alast við gras og góðar jurtir á landi, og má bera í vasa sínum, af hverjum eg fann eina á minni útreisu í Afríka, og eg hef fyr umgetið að mig minnir[1]). Þessi sjópadda var svo sterk af sjer, að hún bar oss níu frá kirkjunni, sú eð stóð í miðjum slotsgarðinum, og til portsins kastalans, svo það var ritað í vora reisubók, er þeir kálla journal. En sú, eð eg fann og átti, svo mjög lítil, dró einn mann úr stað. Það virðist mörgum ófróðum þar um mjög furðanlegt, að ekki stærri skepna skuli hafa svo mikinn kraft í sjer. Ó, Guðs verk eru öll mjög frábær og fyrir allri mannlegri skynsemi undrunarsöm og furðanleg!

---

[1]) Þetta er misminni hjá Jóni Indíafara.

## XXII. KAP.

Landamerki staðarins Trangobarich, sem lá við vorn kastala, skoðaði eg í þrem stöðum, og horfði sitt hvert í ýmsar áttir. Fyrst lá þar í hverjum stað ferkantaður útklappaður eggsljettur steinn með útklappaðri þró, í hverri lágu trjekol ei fyrir löngum tíma þar innlátin. Steinninn lá jafnt jörðu niður smeltur. Umkring kolþróna voru bekkir útklappaðir, útí hverja þróarbekki var einn annar eggsljettur, ferkantaður steinn niður smeltur, og ríkisins merki á klappað, og hverjir þeir menn af landsfólkinu, sem báru nokkuð fjemætt á sjer sjálfum, hestum eða nautum, innan staðarins landamerkja, en þó þeir ættu ekki leið til borgarinnar hlutu þeir toll að gjalda, og jafnvel þó þeir hefðu hlöss af mykjuskánum. Og allur sá tollur til lands og sjóar, sem kastalanum að hnje, var af kaupmönnum borgarinnar meðtekinn og kastalanum afgreiddur, eftir befalningu þess heiðna kóngs, og eg hefi fyr um getið.

Eg hefi fyr ávikið um kastalans bygging og daglegt háttalag þar inni, utan hvað áhrærir þá nýju kirkju, er inn á kastalanum gjörðist með hvelfdum yfirmúrum, geysiháu yfirræfri og veglegum turn með gyltri flaug, sú eð gjörðist af þeim indíanisku múrmeisturum eftir vorri fyrirsögn og danskri manering.

Sú stóra pagóga og goðakirkja, sem í borginni stóð, þá hún hafði uppbygð verið í fyrstu, hafði ei meir kostað hennar uppbygging en 15 dala gildi, svo er þar alt erfiði ódýrt. Og öll landsins gæði fást þar með besta verði, ferskur fiskur, hænsni, geitfje, sauðfje, svín, mjólk, rís og allskyns epli og aldini seldist daglega til kastalans með góðu verði, því að 9 hænsni fengust þar fyrir 6 fiska gildi, og svo hvað um sig með góðu verði.

Skömmum tíma þar eftir er eg var í land og uppá kastalann kominn, bar svo við einn dag að eg með tveimur

kastalamönnum, hverjir fyrir hálfu ári voru fyr en eg þar komnir með Vaturhundinum frá Danmörk, var genginn í hús eins skraddara, sá eð var einn portogaliskur mann og kristinn, einn frómur mann, Antonius að nafni, þess erindis að láta tilsetja oss hverjum einum klæðnað af catoni, svo sem þar plagast. Því þessir Spanskir, sem nefnast Portogaliskir[1]), og fyrir 300 árum hafa þá indíanisku siglingu til sjóar fyrst uppbyrjað, eru um öll Indíen búsettir og útdreifðir, og hafa víða kastala og borgir af indíaniskum kóngum og herrum. Og nær vjer vorum þar í þessa manns húsi nýlega niður setstir kom einn indíaniskur maður þar inn, sá eð var einn af þeim 7 er nefnast dýfeljagarar; sá hinn sami hjelt á einu hljóðfæri, með hverjum þeir plaga daglega fyrir afguðum að leika og þjóna, og bauðst til fyrir gjald að uppspila, en vjer afsögðum honum gjald og gjörvalt samlag fyrir þess kristna manns túlkan og meðalgöngu, en hann því þrásamar bauð sig að spila og gjald heimti; hverjum eg gramdist, og með því eg sat innar lengst hjá skraddaranum skipaði eg öðrum minna meðfylgjara, Pjetur Arndal að nafni, að leiða þann vonda mann burt, sem hann og gjörði. Jafnsnart kom hann aftur með sama þráatvik og ávarp sem fyr. Þá stóð upp sá annar, er Salómon hjet, og með hastyrðum útleiddi. Inn kom sá vondi maður í þriðja sinn, og bað um gjald, en skraddarinn skipaði honum harðlega út, en það vildi ei stoða, heldur móðgaðist mjög við oss, og mælti: »Þjer látið yður kalla Christiana og sinioris[2]), það er herra, en tímið ekki að útláta einn cas eða tvo (það er koparmynt og ganga 86 fyrir eina fanó, sem eru 11 danskir skildingar), en þjer megið heita hundar en ei menn.« Þá svarar skraddarinn og bölvar hinum trúlausa og þaggar hann mjög, og segir til mín, hvort eg skilji orð hins ómilda manns. En eg neitaði. Þá segir

---

[1]) Portúgal lá þá undir Spánarkonung, og því kallar Jón Indíafari Portúgalsmenn þannig.

[2]) ɔ: port. senhores; á íslensku er kunn ítalska myndin af því orði: signor (ít. signore).

hann orð hans, og nær sem eg þau skiljanlega heyri bregður mjer þunglega þar við, svo eg með hast hljóp úr insta sess og fram yfir borð og menn, og greip eg hann í fullri bræði, og hýddi eg hann út fyrir húsdyrnar. En hann því meir egndi mig til reiði með sinni þrásamlegri ánauðgan og lastyrðum, svo eg greip til minnar verju, er eg bar við mína síðu, og hugða eg með henni hans hljóðfæri í sundur að höggva, en hann varð fyrir, svo hann fjekk þrjá áverka, einn í höfuðið og sinn á hvorn handlegg, svo hann fjell niður, og meinta eg hann dauðan vera. En með því þetta hús var gagnvart kastalans porthliði og sem eitt steinkast þaðan, og vaktmeistarinn var þar staddur á meðal vaktmanna í það sinn, og gat litið þennan atburð, gekk því út til mín, og upphóf með mikillri grimdar reiði mig með stóryrðum að ávarpa, og með sínum rotting[1]), sem er reyrleggur, eitt mikið slag mjer yfir herðar gefa, svo eg mjög til kendi, hvað eg fjekk ei þolað, svo eg af óþolinmæði greip í hans reyrlegg og útkipti honum af hans hendi og langt í burt fleygði, og kvaðst ei líða hans högg, með því eg væri til manns kominn og hlyti sjálfur að líða fyrir mitt brot. En með miklum móð hótaði mjer kóngsins járnum, hvað hann fullvel enti, því hann strax ljet mig með sjer ganga heim í portin, og jafnskjótt mig í járn setti, hvaryfir mínir lagsmenn stórlega hörmuðu með tárum, einkum einn, að nafni Eirík Lange, sem í þann tíma hafði fimm ár þar dvalist af þeirri fyrstu reisu, til þess er nú svo skeði. Því þessum manni hafði það á orðið einn tíma, að hann í bræði hafði einn indíaniskan mann með flatri sinni verju slegið yfir þverar herðar, hvar fyrir hann skyldi lífið mist hafa, hefði hann ei náðar notið, sakir þess stranga sáttmála milli kónganna. Og nær eg var svo í járnin kominn með öðrum fæti komu mínir stallbræður, jafnvel þeir indíanisku kaupmenn, sem þeir kalla marcatores[2]), og þeir heiðnu stríðs-

---

[1]) d. rotting, e. rattan, reyrleggir af einskonar pálmategund, sem notaðir eru fyrir göngustafi osfr.

[2]) port. mercadores.

menn, sem kallast talíarii, og þjónuðu oss jafnframt á kastalans skansmúrum innan porta, með vakt og fullum trúskap, og höfðu vestur-rúndel kastalans að vakta, hvað þeim aldrei sló feil í nokkuð sinn. Þessir komu að samharma mjer. Minn þjenari, einn indíaniskur piltur Sivile[1]) að nafni, og var af Portogaliskum kristnaður, samharmaði mjer svo mjög, að hann varð varla huggaður. Nær þessi atburður skeði var nær um þriðju stund eftir miðdag. Um kvöldið kom vaktmeistarinn eftir venju að tillykja portin, og var þá hans reiði að mestu sefuð.

Um morguninn kom minn kaptugi í land. Christofor Boye, því hann var ennþá eigi kominn uppá sína reisu til Ternasseri, þar sem 6 af Dönskum voru, og eg hefi fyr umtalað. Með honum gekk sá annar kaptuginn Ernst, sem var kaptuginn á hinu skipinu, Vaturhundinum. Og nær þeir svo í samræðu gengu í gegnum portin og sáu mig eigi, þá eg fornam það, bauð eg kaptuganum Christofor Boga góðan dag. Og strax leit hann tilbaka og sá mig í járnbelti innlæstan, hvað honum gaf stóra forundran, og aðfrjetti mig hvað mjer hefði tilfallið. Og nær eg honum hið sanna þar um segi fjell honum það þungt mjög minna vegna, og sagðist síst hafa viljað að mjer hefði slíkt til handa fallið, en þó mundi það svo hljóta að standa sem komið væri. Þá svarar hinn annar kapteinn og segir: »Það er vel þó þjer mættuð sjálfir á yður kenna, þessir ófyrirlátsamir!« Þá svarar minn kaptugi, Christofor Boye: »Ó nei, Ernst, þessi maður er ekki einn þvílíkur, sem þjer til meinið, heldur frómur og meinlítill«, og afsakar mig með föðurlegri afbatan sem mest kunni, og lofar það skuli með Guðs fulltingi gott verða, þó ei verði samdægris, og segir eg skuli án sorgar vera og hann skuli mjer jafnflatur liggja. Og nær Ernst það heyrði undrast hann mjög og vildi ótalað hafa. En mjer fjellu þungt hans mótmæli, og sagði eg hvernin það megi tilkoma, að hann mjer svo gegnmæltur sje svo lítt stöddum, og þar með ókendum, eða hverja verð-

[1]) líkl. hefur hann heitið Djīvilej, „blað lífsins“.

skuldan eg þar til hafi? Hann biður mig til góða að halda og sagðist skyldi mjer jafnmörgum gagnyrðum tæra hjá rector og gubernator. Eg kvaðst það feginn og með þakklæti vilja góðfúslega meðtaka. Kaptuginn Christofor Boye segist skuli finna mig að kvöldi nær hann til skips færi, og mjer þá nokkuð huggunarsamt í fregn færa, og gengu þeir báðir svo þaðan. Eg bað þá í friði fara. Þá sögðu mínir lagsmenn eg hefði nú mikla huggan öðlast. Um kvöldið seint gekk kaptuginn Christofor Boye frá yfirvöldunum, og kom til mín í portið, og sendi sinn þjenara eftir einum vínpotti og drakk hann þann út með mjer, og fór svo út til skips að gjörðri blessan yfir mjer og kastalanum, og lofaði að morgni næstum aftur í land að koma, og skyldi þá alt lagfærast með Guðs fulltingi.

Að morgni kom kaptuginn enn í land aftur og fann mig, og lofaði að þann dag skyldi eg laus verða og frí, hvað og skeði nær þriðju stund dags eftir miðdegi, að vaktmeistarinn kom í portið og spyr mig að, hvar minn þjenari sje. Eg segi hann muni nálægt þar vera. Þessi 15 ára gamall piltur var skírður af þeim Portogalisku og kristinn orðinn, svo sem þeir hafa fleirum gjört, sem þeir af sínum foreldrum í ungdómi keypt hafa, eiginlega til þess eins að koma þeim til Guðs. Og að honum innkölluðum og komnum segir vaktmeistarinn til hans: »Far þú og kalla á þann trúarlausa mann, sem húsbóndi þinn hefir höggvið, að hann forlíkist við hann um unnið skaðræði.« Nú var hann því nær orðinn heill sára sinna, því minn elskulegi vin, M. Henrich vor bartskeri, hafði hans sár minna vegna um bundið með dygð og hollustu. Og nær hann kom í portið þá segir minn þjenari til hans: »Sjá hjer og hugleið hvað minn herra hefir að líða fyrír þig, armur Satans þjenari!« Hann svarar: »Abbæ«, það er »ó faðir«, og eftir það talað varpar hann sjer fram á sína ásjónu flötum niður til jarðar, og fer skríðandi til minna fóta og vill kyssa þær, enn eg fyrirbauð honum það, og eg skipaði honum upp að standa aftur á sínar fætur. Síðan var hann af þjenaranum aðspurður fyrir vaktmeistarans tilsteðjan, hversu mikið fje eg skyldi

honum í sárabætur lúka. En hann kvað mig því að mestu ráða. En fyrir langa tilleitni míns þjenara Sivile ánafnar hann tvö stykki van achten, það eru tveir ríxdalir. Þjenarinn sagði að gjörvalt hans líf sje ei svo mikils vert, þar fyrir þurfi hann ei svo mikils að óska, og um síðir ljet hann sjer nægja með 2 fanóer, það reiknast að vera 5 álnir og einn fiskur, hvað mjer leyfðist ei sjálfur honum að afgreiða, heldur hver með öðrum af mínum lagsmönnum tilsögðu mjer hver sína fanó, eður hversu mikið sem með þyrfti, hvarfyrir eg öllum mjúklega þakkaði. Síðan ljet vaktmeistarinn þjenarann tilsegja honum sitt strengilegt forboð mjer framar á vegi mæta eður nokkuð til miska mæla eður gjöra, heldur jafnan mjer úr augsýn víkja, annars sagði hann hann rjettsleginn vera af minni hendi. En vor bartskeri M. Henrich lofaði mjer hans undir með allri hollri græðslu að tillykja, hvers hold hann sagðist heldur vilja lækna og slíkra 10 en eins vors hvers annars. Svo var þessi maður úr því skelkaður fyrir mjer, hvar hann sá mig álengdar, að hann tók til hlaups í mesta máta og kom hinum öðrum til að hlaupa af hans meðþjónum, er þá þar fyrir hendi og í nánd voru, og sagði: »Flýjum, flýjum! Nú er sá fyrir hendi, er oss vill höggva og deyða!« Þetta sögðu oss þeir indíanisku piltar, er oss þjónuðu.

Að þessu svo lagfærðu gekk eg með vaktmeistaranum til vorra yfirvalda, er í þeirri háu höllu voru fyrir sitjandi, verðugar þakkir að veita fyrir auðsýnda vægð og straffs linan fyrir opinbert misferli mót kónganna contract og sáttmálsgjörð þeirra á milli. Hver þessara yfirvalda fjögra, sem var rector, gubernator, kaptuginn Christofor Boye og kaptuginn Ernst drukku mjer til allir með blíðyrðum og hagkvæmu tiltali, og báðu mig sakir viðliggjandi vanda og voða að eg mig vel um sæi, svo eg í ólukku ei rataði fyrir nokkurn þvílíkra manna, hvað og skeði fyrir Guðs náðarsamlega aðstoð og fulltingi. Svo var eg framvegis í stórri vingan við mín yfirvöld, ei síður mínum samþjónum, þar með og einnin við þá Indíanisku, bæði kaupmenn í borginni og annað fólk, því þó minn kaptugi hefði ei fyrir

hendi verið bæn fyrir mig að gjöra, þá höfðu indíaniskir kaupmenn sig í eining samanbundið bæn að gjöra fyrir mjer hjá yfirvöldunum, svo sem þeir plöguðu tíðum að gjöra nær voru fólki nokkuð saknæmt tilfjell, hvarmeð þeir leituðu oss virðingar, afhalds og hróðurs vor á meðal.

## XXIII. KAP.

Það skip Christiánshöfn, með hverju eg lukkulega enti mína útreisu til kastalans Dansborg, varð um sumarið fraktað og til heimferðar búið, svo þeir í Septembris mánuði þaðan í burt sigldu í Guðs náðar trausti, og hreptu góð byrleiði og farsala heimferð með vel heilbrigðu fólki. Og með einum manni, Pjetri Van Bergen, skrifaði eg brjef af kastalanum Dansborg, sá eð var á því skipi, til míns bróður, Halldórs Ólafssonar hingað til Íslands, búandi í Súðavík við Álftafjörð, og sögðu menn slíkt ei skeð hafa, að frá Indíum og hingað hefði brjef flutst. En það sama brjef meðtók af hans hendi Hans Ólafsson Holst í Eyrarsundi, hver þá var þangað kominn uppá sína reisu til Íslands, samskipa öllum Íslands þess árs kaupförum, og var þessi maður mjer vel kunnugur að fornu og kaupmaður uppá Skutulsfirði. Þetta góða skip Christiánshöfn var 10 mánuði á sinni heimreisu, og að tveimur árum liðnum fór þetta skip aftur til Indíen og hrepti enn góða reisu. Í Nóvembermánuði sama árs, Anno 1623, afsigldi kaptugi Christofor Boye, minn kaptugi, frá vorum kastala í norðvestur til Ternasseri, sem þaðan lá 600 mílur burt, og bíhjelt góðu byrleiði þangað, sem var sunnanmasson, og dvaldist í burt allan veturinn til passionem.

Nú eftirfylgir framvegis þar um að tala með allrastyttsta hætti, hvað hið sjerlegasta viðbar á þessum vetri vor á meðal, sem kastalann bygðum Anno 1624.

Alls á kastalanum af vorum eigin selskap minnir mig

að væru nær 80 persónur ásamt yfirvöldunum, nær skip voru frá haldin. Og á þeim vetri dóu víst tveir partar fólksins af blóðsótt, hver að er þar almennileg fyrir innlenskum og framandi og þar landfarsótt, en einn partur eftirlifði um vorið. Þann sjúkdóm bar eg í 12 vikur tveim dögum fátt í, og lá eg ekki meir allan þann tíma en tvo daga, og ei forsómaðist mín vakt að heldur. En tilefni þar til að eg og nokkrir aðrir urðum svo nærri oss að taka var sú skæða blóðsótt, sem deyddi nærri tvo parta af voru fólki, svo flestir af þeim er fram stigu lágu ekki nema 2—3 og sumir lengst 4 daga. Einn afdeildur legstaður fyrir þá framliðnu var fyrir utan kastalann, með uppreistum stakkítum eður þilgerði íkring, og var hurð með sterkri læsingu þar fyrir, og var lykill þar að presti jafnan afgreiddur í hvert sinn, sem þeir framliðnu þar inn bárust til greftrunar, og var þeim dauðu ærlega útfylgt af öllu kastalafólki, með vopnaburði undir veglegu stríðsmerki með pípu, trumbu, og eftir prjedikun, sem gjörðist yfir sjerhverjum framliðnum, varð að lyktum þrisvar skotið eftir hermanna vísu, því vjer höfðum engar klukkur á kastalanum. Indíanar stóðu þar jafnan nálægt og þar um kring í stórhópum, og hugleiddu vora hegðan og aðferð, bæði í þessu, og stundum á sunnudögum nær þeir girntust nokkuð fáeinir að verða eftir á kastalanum undir prjedikun áður en portin tillukt urðu, hverjir eð stóðu utan kirkjudyra og á horfðu nær sacramentum altarisins útdeildist. Ei sögðust þeir lasta vorn lærdóm eður hegðan; samt sögðust þeir ei kunna sína lærdómshegðan og átrúnað að afleggja, svo lengi sem þeirra herrar og yfirvöld sjer ei annað bjóða nje tilsegja gjörðu. Þeir eru blindir, sem von er, því þeir hafa blinda leiðtogara, en meiri furða er yfir þeim, sem í ljósinu ganga, að þeir skyldu sýnast í sinni göngu og athöfnum til máls og gjörða líkir, eða kanske verri þeim, sem án ljóssins eru, og aldeilis í myrkrunum ganga. Þar er í öllum stöðum orðentleg skikkan eftir þeirri vísu, sem þar tíðkast, rjettur mælir og vigt og hvað annað þvílíkt, og ei má nokkur öðrum rangt tilgjöra, hvorki í orðum nje verknaði, svo sem eg

hefi fyrri lítið áhrært. Þeir lasta lesti marga og lýti, þeir lasta ofneytslu og ofdrykkju og alt óhóf, og aldrei vilja þeir nokkurt vín eður áfengan drykk til sín taka; þeir hrista sín höfuð, slá sjer á brjóst og hrækja við, nær þeir líta ofdrukkinn mann, og kalla hann að vera *búratze*[1]) sem drukkinn er, það er illa afmyndaðan. Einn af voru liði Marteinn að nafni, ungur mann og mjög góður skrifari, en þó mikill ofæsingur, dramblátur og spjegjarn, fordrakk sig um vorið um Jónsmessuleyti einn dag sem hann um máltíðartíma að luktum portum á kastalanum, svo sem plagaðist um hvern miðdegisverðs tíma að gjörast, var utan kastala. Og nær hann fann portin tillukt vildi hafa klifrað upp á múrinn, og hálsbraut sig í sínu óviti. Síðan var hann upptekinn, innborinn, og af bartskerum álitinn, og að morgni uppskorinn eftir yfirvaldanna tilskikkan, og fanst með því móti dáinn, að hann sig fordrukkið hefði, og að væri sjálfs síns banamaður orðinn. Var hann svo einn fjórða part úr mílu af Indíaniskum burtborinn, er þar til fengnir og keyptir voru hann þar að jarða, svo hann í reit vorra burtsofnaðra bræðra ei jarðaðist, heldur með slíkri greftran fráskildur yrði, oss þeim liföndum til viðvörunar.

Tveir menn af voru liði, einn að nafni Stefán Andrjesson, annar Lauritz Símonsson, drukku sig einn tíma um veturinn mjög drukkna, og í því óviti settu sig upp í móti sínum yfirvöldum, og þess vegna urðu í fangelsi og járn settir, hvar þeir ábættu yfirvöldunum slæmt umtal að veita með hótunarorðum og ásetningi burt að hlaupa, sinn trygðareið að brjóta og skyldugri hollustu undir fætur varpa, hvar upp á yfirvöldin sjálf persónulega heyrðu er í leyni stóðu. Þessir skyldu vippast tveim dögum síðar, og skyldi undir þeirra lukku komið hvort þeir biði bót eður bana. En svo er straffinu varið, að þar er reistur stigi upp undir einn ásenda, er efst stóð út úr einum húsgafli mjög háum, og þann stiga gengu þeir uppundir ásendann, í hverjum var ein hjólblökk og einn kaðall í gegnum hana, hvers

---

[1]) máske = tamíl verittu, drukkinn.

endi bundinn var um þeirra samanreyrðar hendur við þeirra bak. Og nær prófossinn, þegar blásið var í pípuna, stiganum frá kipti, þá skyldu þeir, hefði straffið framgengið, skrika því nær til jarðar, en þó ei öldungis, í einum rykk, og í hnykk verða þeirra handleggir samanknýttir fram yfir þeirra höfuð, annaðhvort öxlin úr liði eða í sundur. En strax prestur viðverandi og til reiðu og bartskeri nær svo við ber ef líf í tollir. Og nær greindir menn voru uppkomnir undir straffsins naumasta punkt, gjörðum vjer, kastalans soldátar og herlið, sem þar stóðu allir hertýgjaðir í afpassaðri orðu, eitt alarm og hróp til yfirvaldanna, um lausn á því fyrir þessa tvo menn, hverju ei varð svo skjótt gegnt, heldur stóð íríg nokkra stund. Síðan snerum vjer vorum byssum til þeirra með uppblásnum lunta, hvar við þeir blygðuðust mjög. Í því sama bili komu gangandi allir kaupmenn staðarins, sem kallast marcatores, og þeir þrír tólkar, sem voru bræður af Mórlandi, og þjónuðu vorum kastala þar fyrir nær þörf gjörðist, fram fyrir yfirvöldin með stórri auðmýkt, hið sama uppkveðandi sem vjer, að þeir menn mættu náðast, hvað strax skeði eftir herranna befalingu, að þeir voru kvittir gefnir og strax lausir látnir. Svo affýrðu soldátar sínum músskvettum yfir alt með hast. Þetta þótti þeim Indíanisku stórt virðingarteikn, hvar fyrir þeir sig vorum yfirvöldum mjög þakkláta tjáðu.

Nú er þar til máls að taka þar sem kastalans yfirvöld um haustið sendu 9 menn með einni skútu í Bengalía með blý til sölu, sem þar er sá besti kaupeyrir næst gulli. Þessum barst á í miklum stormi um nótt í niðmyrkri miklu við eitt sandrif, en varð þó mannhjálp. Þar sem þetta skeði var nálægt landi, hvar skipbrotin aðdrifu, þar nálægt stóð ein mikil og mektug borg, sem var margar mílur umkring, sem nefndist Meslapoten[1]), þar inni bjuggu 7000 sem allra handa vefnað frömdu, en eg minnist óglögt tölu gullsmiða og annars handverksfólks og borgara, er þar inni bjuggu. Skamt frá þessari borg lá einn frábærlega mikill stríðsher

[1]) ɔ: Masulipatam.

úr fjarlægð aðkominn, yfir hverjum að drotnaði Mogúla Soldáns son[1]), sá af honum var haturlega útrekinn fyrir forsvar og atlot, er hann í gegn síns föðurs ráði og vilja oftlega þeim kristnu veitt og auðsýnt hafði. Eigi minnist eg þá miklu tölu hans herliðs, en 11 þúsund fíla, 11 þúsund úlfalda og 11 þúsund hesta hafði hann[2]). Hann vildi taka sjer land hvar hann sæi vel um horfið vera í takmörkum heiðinna þjóða. Hann hjelt góðri justitie í sínum her og bauð hreinlátt framferði hverjum sínum undirgefnum. Hann hafði inntekið þennan stað og hann skattgilt undir sig. Og nær hann spurði það til sinna herbúða að nokkrir kristnir væri þar komnir, er skipbrot hefðu liðið, sendi hann strax boð eftir þeim. Og nær þær komu fyrir hann meðtók hann þá ljúflega til sín, og hjelt ljúfar samræður við þá uppá portogaliskt og hollenskt tungumál, bjóðandi þeim vist með sjer undir sitt trygt forsvar og blíðlegt yfirlæti, þar með 16 gyllini hvern mánuð og þrenna hátíðaklæðnaði, einnin skyldi þeir sinni trú og ákalli til Christum traustlega halda mega, og í síðasta máta að öðlast frítt orðlof og burtfararleyfi nær svo girnti. Einnin skyldu þeir meðan sjer þjentu sjer nálægast ganga, af öllum sjer þjenandi hirðmönnum, því hann til kristinna manna hefði stóra geðþóknan, og kvaðst fyrir þann skuld vera á þeim flótta. Hvar upp á þeir honum lítillátlega andsvöruðu, að þeir þjentu kónginum af Danmörk og væri hans eiðsvarar, og mættu því ei við

---

[1]) Það var Shah Jehan (Sultan Kharram), sonur Jehangirs stórmógúls; hann hafði þá gjört uppreisn gegn föður sínum. Um dvöl hans í Masulipatam og viðskifti við ýmsa Norðurálfumenn þar, sjá William Foster: The English Factories in India 1622—23, Oxford 1908, bls. XXVII, XXXIX, 312—316. Hann varð síðar keisari eftir föður sinn látinn (ríkti 1627—1658).

[2]) Í brjefum, sem prentuð eru hjá Foster á tilgreindum stöðum er líka getið um tölu herliðsins. Enskir kaupmenn tveir, Thomas Mills og John Dods, sem þá voru í Masulipatam, nefna 4500 riddaraliðs, 500 fíla og 10—12000 fylgdarliðs og úlfalda, alls hjerumbil 16000 manns, en hollenskur kaupmaður, Jan Libenaer, segir að í hernum hafi verið 14000 riddarar, 1500 fílar, 2500 úlfaldar og 36000 fótgönguliðs.

hann sína trygð brjóta. Og sem hann það heyrði þóknaðist honum það mjög vel, og prísaði þeirra trúskap og hollustu, og gaf þeim síðan herlega skenking og blítt burtfararleyfi og leiðibrjef alt heim til vor, hvað þeim vel lukkaðist.

Einn af voru fólki, Cornelius að nafni, sem var timburmann og fjöltamur á margt og voru margar góðar dygðir gefnar af Guði og listir ljentar, hann var manna prúðastur í daglegri umgengni, skikkanlegur, allra manna best rómaður og nálega hinn fríðasti að yfirlitum. Þessi hafði orðið fyrir ósköpum stórum fyrir eiturlegt ákast einnar galdrakonu í Hollandi fyrir skömmum tíma áður en hann afsigldi úr Hollandi, af því hann vildi ei til ekta taka hennar dótturdóttur, hverri hann þó hafði fyr gjört nokkur lofyrði, svo hann í þeim ósköpum hrapaði til nokkra óhæfilegra verka, er svo skeði, að hann einn tíma við laugar og lindiþvott, svo sem plagaðist hvern dag, að kastalamenn gengu til holdsþvottar, og var í bland annara sinna sex skutulsbræðra, og einn þeirra, að nafni Cláus timburmann misti einn spanskan dal úr sínum gjaldpungi við móðuna, og það opinberaðist af einum gömlum galdrakarli, sá eð glögglega að þeim öllum fyrirkölluðum í hans einhýsi áhæfði og með hendinni til benti til þess, er gjört hafði, sem var nefndur Cornelius, hvað alla forundraði stórlega. Þessi gamli maður hafði þrjár skrifaðar bækur úr sjerlegu bókfelli 300 ára gamlar, og ljet ei við jörð liggja, heldur hafði eina steintöflu þeim undir næst jörðu; í þeim var fyrir bókfelli mannsskinn, og mátti teygja sem einn vildi og hrökk aftur í sitt far. — Annar glæpur, er honum í ósköpum til vildi, var skelfilegur og mjög viðbjóðslegur, að hann (með leyfi) samræddist geitkvikindi á einum síðla níðmyrkvum aftni, að hverju verki og óhæfu hann stóð sú engelska kvinna Temperentzía, hverrar maður var bókhaldarinn Hieronymus, sem með einum indíaniskum pilt var á reiki fyrir utan smiðjuna, hvar inni hans verknaður gjörðist. Hann var einn af mínum skutulsbræðrum, og var orðinn rjett lútherskur, eftir því sem heyrast mátti. Hann var

gjarn að lesa í lútherskum bókum og allra psálmabókina á dönsku kenda eg honum, svo var hann minn sjerdeilis góður vinur, og hrygði mig stórlega hans hryggilegt tilfelli og missjáningur. Slík freistni kom að honum úr svefni, svo hann upp hrökk hastarlega mjög, og í einu harðlega stje á gólfið úr sænginni. Eg brá við af svefni og spyr hvað olli hans snöggvu viðbragði. En hann kvaðst ganga verða fyrir dyr, og var langan tíma úti. Og nær hann aftur inngekk og til rúms lagðist varpaði hann þungum anda. Eg spyr hann að sök til útivistar, en hann mjer engu gegndi en lá lengi eftir grátandi. Að morgni næstum eftir barst þetta vanrykti á loft, og nær eg fregna læt eg hann það vita, og ef ósatt virtist skyldi röksamlega af sjer hrinda. Hann kvaðst því samþykkur og lofaði svo reynast skyldi. Nær slíkt illmæli komst fyrir yfirmenn vora fanst þeim mikið um þvílíkt, einkum rector, því þeir voru vinir frá ungdómi og höfðu samtíðis í einn skóla gengið. Um morguninn annan þar eftir gekk hann í portin og út um þau, syngjandi með sinn bestan búning og sinn málstokk í hendi. En vaktin spurði hann að hvert hann hefði sjer ásett að ganga, en hann kvaðst við Antoní skraddara erindi eiga. Og sáu þeir hann þar ei meir. Yfirvöldunum þótti vel þó svo farið hefði, en ljetu í orði sem þeim þætti stór misgángingur orðinn, og gáfu álösur vaktinni, að þeir höfðu honum ei hindran nje öftrun gjört. Rector ljet skrifa fyrir hann í allar áttir og spurðist með seinasta til hans, að hann var kominn til Pulicat[1]), þar Hollenskir hjeldu plássi til kauphöndlunar, hvert eð lá 60 mílur þaðan frá vorum kastala Dansborg. Litlum tíma fyr en þetta skeði uppritaði hann kastalann Dansborg rjett orðentlega, og var síðan heim sent með Perlunni til kóngs og compagniisins, og varð mjög prísaður og stórum afhaldið, að með penna yrði svo vel tilsett. Hann var mikill hagleiksmaður uppá alt trjesmíði, húsa og bílæta, turna og alt snikkerí, en allra helst hinn besti skipasmiður, item hinn allra besti söngmaður og reikningsmaður.

[1]) Bær á Coromandelströndinni, nokkru fyrir norðan Madras.

## XXIV. KAP.

Sá piltur Sivile, og eg fyr nefnt hefi, þjónaði mjer 12 vikur. En fyr en hann burt veik útvegaði hann mjer einn indíaniskan ágætan og rjett náttúrugóðan pilt, 11 vetra gamlan. Hans móðir var ekkja, hana leit eg ekki utan tvisvar; hún bað mig trúlega um þennan sinn son, að aga hann og upptukta eftir minni vild og vísu, og kenna honum kristna siðsemd, og hann með mjer að taka til Danmerkur og koma honum þar undir skírn og kristindóm, hverju eg lofaði henni með því móti að þar til öðlaðist leyfi generalsins, nær hann frá Danmörk kæmi. Annar hennar sonur var áður en svo skeði til Danmerkur kominn með þeim fyrstu skipum, er Catthei hjet, en síðan Christián. En þessi hennar nefndur sonur, sá eð mjer vel og dyggilega þjenti og nokkrir öfunduðu mig af, hjet Agamemnon eða Agamenan. Hann var vel skaptur af Guði og hafði bleikt hörund. Í hvert sinn bað hann um leyfi að hann mætti utan porta stundum um nætur dvelja, að horfa á þeirra afguðahátíðir, og þau spil og þá leiki, er þeir við eldsbál og stór blys fremja; bað hann þess jafnan á knjám standandi. Og hvert kvöld gekk hann til mín, fjell á knje og tók mína hægri hönd og lagði hana sjer í höfuð og bað mig að blessa sig, og í mörgu öðru sýndi hann gott viðmót. Hvern laugardag sendi hans móðir mjer stóra svo sem eskju af látúni fulla af bökuðum sykurkökum árið út.

Einn dag seint á sumri bar svo við að vjer sjö mínir skutulbræður fengum leyfi (svo sem hinir aðrir, er með heilbrigði voru) að ganga uppí landið að rjetta bein vor, nærri tvær mílur. Og þá vjer vorum lítinn veg frá borginni gengnir, kom margt fólk ofan úr landinu oss í móti, sem bar aldini margskonar í körfum á höfði, svo sem þar plagast, og annað fleira til borgarinnar. Þessir menn kölluðu

til vor, segjandi »pampó!«[1]), það er slangi eða stór ormur, en vjer hugðum það vera mundi bambus, það eru reyrpípur, sem þeir þar taka tóbak í gegnum, og skikkuðum vjer vorum piltum að fara til þeirra og kaupa af þeim handa oss nokkrar. Og nær þeir komu á þann veg og litu hvað á ferðum var hlupu þeir aftur til vor með miklum látum og felmtri, og sögðu oss hvað fyrir hendi væri. Og nær sem þeir sáu oss taka til hlaups óttuðust þeir vorra vegna. Og nær vjer litum þennan slanga ógnaði oss hans stærð og grimt viðmót. Strax sem hann leit vora eftirför upphóf hann sig með mikillri grimd oss í mót, svo vjer tvístruðumst til beggja handa, en höfðum þó vor sverð á lofti til höggva, en hann varði sig lengi, þar til hann sá vort einþykki og öruggleik sjer í móti, upphóf því síðan að renna og gegnsmaug hvern buska, sem fyrir varð, en vjer af mesta kappi eftir runnum. Einn að nafni Pjetur Arndal gat honum eitt gilt högg gefið nálægt hans sporði, en með því mjög bitvant var á hans húð varð því lítil hans skeina. Þetta varaði vel á hálfa eykt að vjer 7 við hann sókn hjeldum. Og nær mínir lagsbræður þóttust mæðast og engu gátu að heldur til leiðar komið, hvernin sem vjer á marga vegu viðleituðum, umflúðu oss fjórir af þeim og kváðust þreyttir vera, þar með og einnin sögðust ekki lengur sig í slíkan háska leggja vilja, því svo urðum vjer sterka vakt á oss að hafa, að vjer máttum honum ei nálægra standa í sjerhvert sinn, en sem hans lengd var til, á hvern bóg, sem hann sjer veik, því hans viðbrögð urðu bæði grimm og hastarleg, og skæð meinsemd vís ef svo til viljað hefði, annaðhvort af hans eitruðum blæstri, ellegar af þeim broddi, er situr á framanverðri hans tungu, með hverjum hann plagar að stinga margan til heljar, og er með þremur litum, sem er svörtum, gráum og hvítum, hvers orms stunga eða bit er svo skaðnæmt að fáir með lífi frá komast, og lifa sumir ei meir en 12 stundir; fyrir þess sakir tilefnuðust mínir lagsbræður að rýma og báðu oss hina þrjá ei lengur

---

[1]) ɔ: tamíl. pambū, höggormur.

að til voga, sakir þvílíks háska, á meðan grið gæfust, en mjer virtist stór minkan í framandi landi, og það eg því hina tvo, sem var Pjetur Arndal og Salómon að verða eftir hjá mjer, hvað þeir og gjörðu, einkum fyrir mína bón, því þeir voru og mjög um mig hræddir, og sáu mitt kapp og stóra kostgæfni þar til orminn að yfirvinna, hefði Guð viljað mjer sigurinn senda. Og nær hinir voru í burt gengnir og frá viknir, þó oss lítt líkaði, gáfum vjer oss til með fullri alvöru og góðu samheldi sömu áfram halda og sóktum eftir orminum af mestri hörku, þar til hann hljóp inn í stóran buska, og svo hart þar inni frambrautst, að allur runnurinn skalf og bifaðist, líka jörðin undir vorum fótum. En á meðan hann svo í runninum umbrautst hljóp eg í mestri vogan fram fyrir runninn, og í því sama kom hann í grimmu áliti og miklum skunda út af runninum, og nærri tveggja álna uppreisti sinn höfuðhluta, og æddi grimmilega mjer í móti með blístri og blæstri miklum, svo mjer sýndist sem hjelublár reykur undan honum færi og hann um kring færi, og svo varð eg af Guði dýrðlega upplýstur að eg hann nje hans grimt álit ei við skelfdist, en mínir lagsbræður hljóðuðu mjög og urðu hræddir, og báðu mig í Guðs nafni mig nú að vara. Og í það sinn hann meinti mig að stinga hjó eg til hans með allri þeirri orku, sem Guð mjer ljent hafði, með breiðum pampart og mínu beggja handa afli svo geysilega, að þeim virtist að ei hefði framar af mjer að vænta verið eður mínum líka, nær álnar lengd frá hans höfði, svo í sundur tók í einu, og hljóp sverðið í jörð undir hjöltin, en nær eg vildi hafa því aftur náð þá var það í sundur undir hjöltunum, og urðum við blaðið upp að grafa. Eg gekk strax á milli stykkjanna, svo ormurinn ei aftur skriði saman, því svo plagast, hvað Indíanar höfðu áður fyrir skömmu mig um fræddan. En nær eg vildi hafa burt skorið úr höfðinu ormstunguna með fullum ásetningi, með því eg hafða nokkuð, en þó oflítið, heyrt um hennar náttúru, þá gripu mig mínir stallbræður og hindruðu, svo eg mínum vilja ei fjekk framkomið, hvers eg síðar iðraðist, því að einn bartskeri í Kaupinhafn sagði eg mundi

vist hafa fengið 60 dali, en einn vitur maður í Írlandi kvað mig í þann tíð fávísan verið hafa, er eg slíku hafnað hefði, og sagði mjer vísa hundrað dali þar í landi, sakir lækninga, er henni fylgdu, við margskonar meinsemdum og sjúkdómum. Og svo nú að þessu verki unnu og yfirstöðnu gengum vjer þaðan og vorn veg upp í landið, keyptum mjólk og hvað annað þar fyrir hendi var.

En nær yfirvöld kastalans spurðu hvað gjörst hefði gengu þeir þangað út sem ormurinn lá dauður að skoða hann, hvers stærð þá mjög undraði, en ei var hann digrari en sem tveggja álna umkring, en lengd hans hjeldu sumir 8 álna en sumir 9, hvarum eg kann ei glögt að skrifa. En inn í vora reisubók eður journal var þetta teiknað og fyrir stórt frægðarverk rómað og haldið, bæði vor á meðal og Indíana, af hverju mjer jukust stórar virðingar manna á milli og gott yfirlæti, einkum á ferskum tíma þessa verks. Og um kvöldið, strax sem vjer heim komum, skikkaðist mjer boð frá rector og gubernator uppá þá háu höll að koma. Og nær eg þar kom ávarpaði rector mig allþýðlega, og kvað mig stórt frægðarverk unnið hafa, mjer til stórs lofstírs, og vera búinn það í reisunnar bók innskrifa, og sagðist 7 ár í bili hafa í Indíum verið uppá Jackitra[1]), það liggur í Java, og í öðru sinni til Pulicat, og kvaðst svo stóran orm ei sjeð hafa unninn verið. En frá einum ormi sagði hann mjer væri í einum hól í Java, og kæmi ekki út nema hvern aðfangadag fyrir jól, og yrði í það sinn miklir dynkir og jarðskjálftar þar í nánd nær hann út og inn brytist, og sagðist hann álengdar sjeð hafa með mikillri hræðslu ásamt öðru fólki, og kvað hann litinn hvalvöxt hafa, og menn meini einn anda eður forskaptan glæpamann. Síðan gekk eg í burt með kærleika að meðtekinni allra herranna tildrykkju, og tilskikkuðu 8 marka staupi víns.

---

[1]) ɔ: Djakatra (Jakatra, Djajakarta), sem þá var merkisstaður, en nú lítilsháttar verslunarbær.

Í hvert sinn eg gekk ofan á staðartorgið gengu kaupmenn, er þar í krambúðum stóðu, mjer í mót, og einn ungur kaupmann hafði sjerdeilis venju til með faðmtökum mjer að fagna, nær eg í hvert sinn þangað kom, og kallaði mig sinior Joram[1].

Eitt kvöld síðla undir settri vakt bar mjer til orða við einn að nafni Pjetur Jensson. Sá maður hafði verið með því skipi, sem frá Danmörk var sent, Anno 1620 að mig minnir, til Spitzbergs eður Grænlands fyrir hvalveiði, þó það hindraðist, en þeir komust í miklar raunir og stóran lífsháska af þeim mikla hafís, hver eð svo mjög að þeim þrengdi, að þeir 80 mílur hjeðan frá landi í landnorðurshafi urðu á einu stríðsskipi kóng Christiáns 4. svo hart í ísnum klemdir og forfallaðir, að þeir urðu frá skipinu og mestöllu því góðu þar var inni að víkja, með sínum bát nær 30 fólks, og þær 80 vikur sjóar rjeru þeir oftast, og voru í stóru lífsfári daglega staddir af sjóarógn, frosti og vosbúð, þar til þeir náðu landi, að mig minnir, nálægt Húsavík, af hverjum margir kumluðust af frostum og freku kvalræði, þeir eð hjer um veturinn dvöldust hjá frómu fólki, á meðal hverra að var þessi Pjetur, sá eð sína vist ásamt þeirra bartskera hafði hjá Halldóri sál. lögmanni á Möðruvöllum[2]), alt til eftirkomandi sumars og skipaútkoma varð í kaupstöðunum. En til ósamþykkis okkar á milli í það sinn var ei annað efni en óþjálg Íslands umræða þessa lítt skikkaða óþakklætisbófa, sem var hans skenkur fyrir velgerðir meðteknar, lífgjöf og landsvist. Varð eg því beiskur og honum mjög gramur, svo eg gaf honum högg undir vanga, með hvert hann hljóp til yfirvaldanna og forklagaði mig, svo eg með honum varð uppá trjehestinn

---

[1]) líklega hefur Indverjinn kallað Jón á portúgölsku senhor João (Joam).

[2]) Halldór Ólafsson, lögmaður norðan og vestan 1619—1638. Um hann sjá Lögsögumannatal Jóns Sigurðssonar í Safni til sögu Íslands II, bls. 132—133.

settur, og varð strengilega fyrirboðið mig framar að móðga eður til reiði upperta, hvað hann og gjörði síðan.

## XXV. KAP.

Nærri fjórða part úr mílu frá borginni stóð einn hestur af pappi og úr leðri gjörður, mjög geysilega stór að vexti, sem var nærri 5 faðmar umkring og þvílíkt á hæð. Uppá honum sat ein mannsmynd mikil að stærð og vexti, sá eð hafði tvö andlit, eitt á bak en annað í fyrir, með grimmlegu augnatilliti ásýndar; hann var og líka úr pappi og leðri gjörður, nokkra hundrað ára gamall, og var myndaður eftir einhverju mikilmenni, sem í gamallri tíð hafði þar í landi verið. Tvennir beislistaumar voru á hestinum ímyndaðir í hendi þess, sem á baki hestinum sat, og við hverja beislis-kúlu stóð ein mannsmynd, sem í tauma hestsins hjeldu, sem sýndust athuga vilja tiltal síns herra, þess á baki sat, hestinum að halda og sleppa, nær þeim af honum svo til-segðist, af sama gjörðir sem hið annað. Undir hestsins kviði og kringum hans leyndarlim stóðu nokkur ungmenni með sama manier sem hitt annað. Út í þetta takmark gengum vjer oftlega að skoða þetta nú greint, hvað oss þótti nýstárlegt og óleiðigjarnt á að horfa, nær vjer þangað gengum.

Eitt þeirra goðahús stóð þar hjá og nálægt við, hvar inni stóðu þeirra afguðir 7 með þeim einum æðsta þeirra afguði, sá eð jafnan stendur fyrir miðjum gafli í hverju smágoðahúsi, og eftir þeirra plagsið brunnu þar ljós inni af viðsmjörsfeitleika, sem vort fólk tíðast útslökti, en til athugunar á meðan stóð eg vakt úti, því mjer fjell ei þeirra dirfska, og bað eg þá ei meir gjöra, annars hótaði eg þeim trygðrofi, en þeir óttuðust mig mjög og mínar strangar hótanir. Þetta sje nægilegt hjer um sagt.

Nú eftirfylgir um þeirra hjónaband, að þessi þjóð, Malabarí er svo nefnist (hverjir að eru djöfulsins tilbiðjendur, að hann gjöri þeim ei vont, eftir því hann sje illur), hafa þann sið, að allar þeirra ungu dætur giftast innan 10 ára, fyrst þá þær eru 4 ára og svo fram undir 10 ár; — flestir þeirra synir og með sama hætti. Á þeim degi, er þau skulu til hjúskaps trúlofast, verða þau lögð hvort um sig í einn palakín, hvar inni þau liggja á veglegum sængum, og smurð með veglegu balsami, margslags farfa. Þar yfir er tjaldað með marglitu silkiklæði. Hann sem að er brúðguminn verður borinn undan með básúnum og trumbuslögum langt fram á dag, allan staðinn í gegn, en hún á eftir með sama hætti og verður þeim af flestum húsum peningum offrað, og sumstaðar eitthvert til æru gefið, og síðan fyrir kirkjugarðshlið borin, þar presturinn þau saman vígir að jafnt þeirra höfðum lögðum með handauppáleggingu. Síðan verða þau þangað borin, sem hennar foreldrar eru fyrir ráðandi. Svo eru boðsmenn kallaðir, (hjá almúgafólki) á jörð úti settir, fæða vel tilreidd framborin, vatn rautt, ilmsætt, til drykkjar gefið, síðan eftir máltíð bítilarech etið, af hverju menn verða sem drukknir, og tóbak allra seinast tekið.

Þeirra reverentia er svo við almennilegt landsfólk, nær þeir heilsast útrjetta sína hægri hönd, en nær ypparlegir menn eða vjer kristnir þá fundum á strætum eður torgum, minnast þeir við sínar báðar hendur, og frá munni samjafnt útrjetta í breiddan faðm með hneigðu höfði. Þetta sje nóg hjer um sagt.

En sjerhver fyrnefnd barnung brúður, verður heima hjá sínum foreldrum til þess að hún er 14 ára gömul, og leggur hennar brúðgumi að helmingi á móts við hennar foreldra verð fyrir hana. Síðan á hennar fjórtánda ári tekur hann hana heim til sín til allra atlota og hjáhvílna og daglegrar forsorgunar þaðan í frá.

Nær börnum er nafn gefið, verða þau vel stálpuð þeirra brameni eður presti færð, og ber eld yfir þau með langri ræðu, annað smásmuglega veit eg ekki þarum að segja.

Einn þeirra Indíana leit eg ásamt mínum lagsbræðrum og vorum presti einn tíma besetinn af óhreinum anda, og er þar í hverri borg einn sá maður, sem venju hefir til djöfulinn út að drífa nær svo skeður, með einum hvellum klukkumálmi, hvern hann ber í sínum lófa og slær uppá hann með einum sjerdeilis nertugum stálhamri við hans eyra. Í þessum manni talaði sá óhreini andi, og gaf svar uppá hans sjerhverja spurning og ávarp, hvaðan hann hefði komið eða manninn fundið, eða hvað hann gæfi honum að sök, eður hversu lengi hann vildi hann plága. Hverju öllu hann svo gegndi: í fyrstu, að hann hefði komið frá Trichlagour, sem liggur mílu vegar frá vorum kastala, og kvaðst þar hafa eitt heilt stræti afbrent; þennan mann sagðist hafa fundið fyrir utan borgina, hvar hann hefði verið að baða sig í einu vatni; og hvað hann honum til sakar fyndi, sem væri hans óhlýðni við sig og aflögð venja sjer að offra, og meðhald kristinna, er þar væri í landið komnir. Hinn spyr hversu lengi hann vilji manninn besitja. Hann segir svo lengi sem maðurinn ei sig við sig forlíki með venjulegri tilbeiðni, lotning, offrunum og öðru þesskonar. Þessi maður segist vilja mannsins vegna við hann forlíkast með tilsagðri upphæð offursins, með öðrum tilteiknandi álögum, eftir megnandi og mögulegum hætti. Andinn óhreini tilgreinir hvað fyrir sig; í fyrstu tilskilur hann í árlegt offurgjald fyrst tvo caponiska eður gelda hana í matoffur, þar næst rísgrjón fyrir eina fanó, bítilarech fyrir aðra, tóbak fyrir þriðju, og þar með afskiljandi öll atlot við oss kristna. Þessi maður var í forsvari fyrir þann besetna, og rýrði hans atföng og formegan og kvað fátækt hans og vesaldóm meira en það offur eður þau útlát gæti árlega afhent eður lukt, leitandi því ennframar eftir meiri vægð, og um síðir gjörðist helmingi minna. Þess á milli sem þeir við ræddust leitaði þessi maður við með sínum málmklang þann óhreina anda að útrýma eftir venjunni, hvað í það sinn ei gilti, og kvaðst ei út fara fyrir þesskonar sakir fyr en sjálfum sýndist. Eftir contract og forlíkan gjörða komu að þeim auma manni miklir geispar, titran og teigjur, og varð

öllum skipað í burt að víkja, svo dyr hússins auðar stæði. Og nær sá óhreini andi útfór af manninum fjekk hann einn ofbjóðslegan geispa og teygjur, svo menn hugðu hans munnur mundi til eyrna upprífast, með miklu froðufalli og lá eftir lengi sem dauður væri. Síðan spratt hann á fætur með miklum hast og hljóp út í eitt vatn þar nálægt og lá þar lengi, svo menn hugðu hann dauðan vera. Síðan kom hann upp úr þessi vatni sem hálfrotaður væri, og fór svo sem hjá sjer lengi. Guð veri oss öllum náðugur, nálægur og miskunsamur! Amen!

## XXVI. KAP.

Nú er þar til máls að taka, að í Octobermánuði sendi kóngurinn til Travanzour sinn einn herramann mikilsháttar til vorra yfirvalda, sá eð hafði með sjer 7 sveina, er sverð báru eftir honum. Nær þeir stigu af sínum palakínum inn á kastalann í pörum gengu. Þessi nico og herra varð vel meðtekinn af kastalamönnum. Undan honum gengu 12 talíaris eður stríðsmenn með miklu hrópi, svo sem þar tíðum plagast, er sverðum voru girtir, og löng spjót báru þeir í höndum, fremjandi með þeim mikla fimleika á margan hátt eftir hermanna vísu. Allir kastalans hermenn stóðu týgjaðir tveim megin kastalans porthliðs, þeir eð þrisvar affýrðu, item þrisvar sinnum þrisvar stórstykkjum af kastalanum. Þessi nico kom með brjeflegan boðskap frá kónginum, innihaldandi að krafðist af rector og gubernator svo mikið blý að tilljetu, sem 6 vagnar naumast upptæki, hvartil rector svaraði, sem alt kastalans góss hafði í sínum reikningsskap, að svo mikið blý, sem kóngur hafði tilmælst, skyldi í tje látast, nær sem hann skriflega ávísan fengi frá kónginum, hversu mörg skippund hann girntist, og hversu dýrt hvert skippund af honum metast skyldi. Og hjer með bað hann kóng fyrir sjer vel virða þvílíkt útgefandi andsvar.

Kóngsins gesanter varð strax forreiður og strauk strax í burt mjög forsugt, og allir hans sveinar innstigu á sínar palakínar, og fóru svo ókvatt og án virðingar frá vorum kastala upp til Travanzour til Nico de Regnato, og sagði honum af sinni ferð til lykta. Og nær hann heyrði rectors andsvör, varð mjög grimdarlega reiður. Og að næsta morgni síðar útsendi hann boðskap og brjef til rectors, að ef hann ljeti ei svo mikið blý til sem hann girntist og án allrar aðspurnar við sig um nokkurn reikningskap á því sama, svo lýsti kóngurinn hann hafa rofið þann sáttmála er fyr var milli kónganna gjörður, og þar með hótaði hann honum ekki alleinasta blýið með kónglegri makt að taka fyrir ekkert, því hann ætti meir hjá oss, heldur kastalann til grunna með oss og öllu því þar inni væri, til heljar að færa, því hann kvaðst lóðið eiga og alt hvað þar á stæði, með því af oss væri trygð rofin. Og þó rector sig stórum afsakaði með brjefum, tjáandi sinn vanda og vanmátt nokkuð að gjöra óbífalað í gegn sinni fyrirsettri reglu, þá kunni það ei stoða eður mýkja hans bræði, þar til rector skrifaði alvarlega ásamt gubernator að hans vilji mætti verða, vjer mundum átaka bíða.

Kóngur sendir strax til síns hershöfðingja, sá Calicut nefnist, að hann strax með sín 40000 útbyggi sig til orustu oss í móti, hverjum kóngsins boðskap hann fúslega og skjótt gegndi, kastalann inntaka skyldi en oss lífi svifta. Þessi kóngsins hershöfðingi, nefndur Calicut, lá iðuglega í tjaldbúðum með þennan sinn mikla her 40000, og aldrei kom hann undir sótugan raft, og nær herboð kóngs kæmi að kvöldi skyldu að morgni til víga búnir. Nú hugsuðu þeir gott til krása hjá oss, og útbjuggu sig því harðlega oss í móti.

Vjer í sama máta tilbjuggum oss með hraðasta hætti með allra handa stríðsútbúnaði. Vjer hlóðum öll vor stykki, sem umkring kastalann lágu á múrunum fyrst með púðri og hampi, og síðan ljetum vjer fyrir sum stykkin knippi af 9 þumlunga járnnöglum hart samanvafin með sterkum hampþræði, og snerum oddum út, en fyrir sum ljetum vjer

standkúlur, skæralóð og hlekkjalóð. Og nær alt þetta var tilbúið og skrákoppar[1]) voru fyrir sum stykkin settir, þar með fólki, fílum, úlföldum og hestum að spilla með margskonar fýrverki, útbjuggum vjer oss í mörkina með þeim, sem vatnið áttu að sækja, svo vjer náðum 80 vatnspípum fyr en oss varð aðþrengt, sem var 800 vatnstunnur. Calicut hafði í sínum her 1100 hesta, 1100 úlfalda og 1100 elefanta eður fíla.

Síðan ljetu vor yfirvöld alla indíanska kaupmenn staðarins innkalla á kastalann, og urðu slíkir kostir fyrir lagðir, að þeir mætti útvelja sjer hvort þeim heldur geðjaðist, að inngefast í hóp sinna landsmanna, og þeim svo meðfylgi gjöra, eður með oss ljúft og leitt líða, eftir því sem uppá kæmi og tilfalla kynni. En þeir allir samjafnt með einu hljóði játuðu sig í vorn selskap, og kváðust vilja með oss líða alt hvað tilfalla kynni, með öllu því stríðsfólki og borgurum þar inni athvarf og bygð hefði. Og til sjáanlegs teikns þar uppá ljetu þeir alt sitt góss á kastalann innbera, en á nætur höfðu flestir sinn náttstað í borginni. Einnin voru talíaris, þeir indíanisku stríðsmeun, sem með oss hjeldu vörn og vakt, daglega á kastalanum í sama máta aðspurðir hvort þeir sjer kjósa vildu. En þeir með knjefalli játuðu sig allir uppá líf oss til handa, og mynduðu til, að þeir skyldu fyr láta sig kvika í sundur partera en þeir frá oss viki eða játaðri trygð töpuðu.

Nú fjell svo til að fólk daglega sýktist á kastalanum Dansborg og margir önduðust, ei þeir sístu af voru fólki, þeir eð lágu skamma stund, sumir 3, 4 og 5 daga. Ei varð þetta svo í launung lagt að ei spurðist upp í landið til herbúða Calicuts, kóngsins hersofursta, hvar við hann magnaðist til meiri illgjörða og ofsókna í gegn oss kristnum. Vjer í sama máta höfðum og njósnarmenn á stigum úti, sem og fluttu daglega fregn frá þeim til vor (en þó með duld), um

---

[1]) hjer mun líkl. átt við „skraasække", pokum með járnrusli sem var notað stundum í stað kúlna.

flutning þeirra hers daglega oss í nánd meir og meir, item um þeirra uppsát, hótanir og hreystiyrði. Mörg hrot af þeirra her komu oss mörgum sinnum í sigti, þá vjer vorum útí mörkinni hjá þeim, sem vatnið sóktu svo sem hálfa mílu í vestur frá kastalanum. Voru þar hvorir varir um sig fyrir öðrum. En um síðir, af því þá tók að fjölga dag eftir dag, sýndist oss vatnsburði best að hætta og við kastalann í kyrleika blífa, og þar með því taka er á drifi og Guð vildi oss tilfalla láta. Mörg hótunaryrði og skelfileg spurðust frá þeirra legrum[1] til vor og ýmislegar ráðagjörðir. En þó var að merkja að ótti væri sendur af Drotni í þeirra her, en þó þeir ljeti stór orð út af sínum herbúðum til vor flökta, að þeir vildu þann dag og þann oss gista, heimsækja og helfarir veita, samt aftraði Guð þeirra bráðri atför, svo þeirra dagferðir oss á nánd meir og meir smækkuðu. Þó um síðir komst Calicut með áðurnefndan allan sinn her til Trichlagour, og lá þar í 14 daga aðgjörðalaust. Þetta var um miðföstu og eftir, að hann þar svo dvaldist. En svo bar við tveimur nóttum fyrir jól um veturinn fyrri, að eitt mikið stykki úr kastalans múrvegg niðurhrundi af sjálfu sjer til, og óttuðust menn vorir, að ógott mundi merkja þessi viðburður. Og þar sem vaktmenn áður fyrri stóðu í 5 stöðum var nú einum viðbætt svo að vjer í 6 stöðum eftir þetta skeð urðum vaktstæði að hafa í hvert sinn, bæði nætur og daga, og við þetta múrskarð voru þeir menn á vakt settir, sem yfirvöldin helst treystu til vareygðar, hollustu, mannskaps, fimleika og atburða, og var mjer óverðugum og þremur öðrum í mínu kvarteri þessi vakt skikkuð, hverjum einum til umskifta fjögur stundaglös, og það var sá mesti vandi (að svo tilföllnu) við það skarð að standa, því mönnum bæði sýndist og heyrðist margt í þreifanlegu níðamyrkri um nætur við þetta múrskarð, en ei voguðu menn neinar aðgjörðir að hafa þar við að svo búnu. Og með slíkum ugg og ótta vorum vjer um allan veturinn fyrst til jóla og síðan eftir nýjárið, alt til passionis-sunnudags, á

---

[1]) sbr. d. Lejr, þ. Lager, herbúðir.

hverjum að sást vort skip St. Laurentz frá Tenasseri að sigla, með hverju að var minn kapteinn Christofor Boye og Hermann arkelímeistaramæti, minn sjerdeilis góður vin, sá eð hjer hafði 3 ár innanlands dvöl átt með kaupskap reiðaranna vegna í Danmörk. En vorn prest á útreisunni, H. Christián höfðu þeir af sjer mist og Herrans náð befalað, ásamt öðrum átta, er sitt líf á þeirri reisu mist höfðu. Og sá maður af oss til, er skipið sá aðsiglandi fyrst hjet Jens Andrjesson, og fjekk einn silkiklæðnað og stórt vínstaup fyrir gleðisjón, og urðum vjer þeim næsta fegnir sem nærri má geta, þar sem vjer vorum mannfáir orðnir af skæðri blóðsótt, sem þar í landi um naúðar, og enginn verður frí fyrir af öllum þeim til India reisa, og þeir menn af oss, sem ei önduðust í það sinn, urðu að ganga og liggja með ofbjóðlegum sjúkdómshætti sömu tegundar, en ei lá eg í þær 12 vikur nema tvo daga, en ei þó í mínu kvarteri eður vaktróðu, — og það yfirtók óvinanna makt, ilska og umsát, og heiðinna manna harðýði að utan á nótt og degi mátti oss mjög skelfa, og þar með vorra yfirmanna skörp og strengileg tilsjón og jafnleg umvöndun, hvar um sje nóg talað.

Og nær þetta skip kom fyrir kastalann útslógum vjer merkjum ásamt þeim, er sín ljetu og strax í ljósi, með skotum til skips og lands. Og nær Calicut heyrði dun þessara skota til sinna herbúða, sem var nærri mílu frá sjó, sendi hann jafnskjótt til strandar, að vita hvað á ferðum væri. Og nær hann spyr vors skips komu, hafði hann nokkuð um bil hljóðnað við, en þó upphresti sig, og kvaðst oss ei að heldur þessvegna hlífa skyldi, og skipaði að uppbrjóta sínar herbúðir og sínum her upp og af stað rykkja með skyndi. Hann bað stöðva hálfa mílu frá kastalanum í vestur, og í því plássi lá hann þá viku alla í gegn til pálmasunnudags, án allra aðgjörða, utan daglega fengum vjer hans hótanir að frjetta. En Guð sjálfur deyfði og deigði hans harðýðgi, svo hann fjekk ekkert ilt meir við oss uppbyrjað nje framkvæmt, en sem skeði. Lofað sje nafnið Drottins eilíflega! Amen!

Nú er þar til máls að taka, að pálmasunnudag sjálfan snemma morguns gekk eg til gubernator, hann var að ídraga sig sín klæði, og var nú á þessum sama degi til gesta boðinn af mínum kaptuga Christofor Boga til skips, og leita eg orðlofs af honum að eg og mætti fá leyfi til skips draga, til tveggja minna góðra vina Hermanns og Bente Andrjessonar. Hann kvaðst varla voga vegna yfirstandandi fárs og fjandskapar heiðinna mjer það að leyfa, því þá mundu fleiri hið sama girnast. Minn skutulbróðir Henrich stóð mjer til baka, og var hann sama æskjandi, hvar við hann gramdist, en varð þó með sterkum skilyrðum, að við um kvöldið til lands kæmum af öli óhindraðir til alls þess er við þyrfti og vort embætti áhrærði. Nú sem við gengum frá kastalanum og til strandar, þar fjórir Indíanar með bát biðu, birtist okkur ný sjón, við hverja við glöddumst næsta mjög. Sáum við tvö skip úr suðri sigla með drifthvítum seglum og útvarpaðri flaug á skiptoppum. Kendum við strax Perluna, það stóra skip upp á 700 lestir, og Juppiter, það minna skip. Strax á kastalanum var merkjum offrað og stykkjum jafnmörgum affýrt í móts við þau, er þeir ljetu afhlaupa til virðingar. Ei aftraðist okkar ferð að heldur, og urðum við heiðarlega meðteknir og líka skenkingar gefnar af því slagi, er þaðan úr heimi fluttist.

Öll yfirvǫldin drógu út til skipanna eftir prjedikun gjörða, og á fund generalsins Rollants Crappa, er þar var með Perlunni kominn, og 7 reisur hafði áður til Indíum gjört í kaupmannsstjett, en var nú til slíkrar tignar kominn sem greinir. Hann var ókvongaður maður, en hollenskur að ætt, og af fátæku fólki kominn, og þegar á unga aldri var í siglingum og fyrir skipsfágara og káhyttuvaktara hafður, og á meðal skipmanna í fyrstu í bókmentum æfðist, og svo eftir hendi með æðri framtökum við jók, þar til hæð sinnar lukku hann um síðir náði. Þetta greindi hann mjer einn tíma til lærdóms á litlum vegi í spátseran, með fleirum atvikum, er hans ungdómi og munaðarleysi viðkom og aðhnje.

Á næsta degi eftir fóru indíaniskir kaupmenn allir út

til skips general að fagna, þeir í staðnum bjuggu. Og nær hann dró til lands höfðu þeir tilsett allar kirkjudækjur með sínum baldor, sem þeim stjórnar, og alt stríðsfólk borgarinnar Trangobarich að mæta honum strax er hann landgang gjörði, og þeim danslátum, með þeirra venjuaðferð hjeldu þeir og það alt hyski fyrir honum heim að kastalans porthliði, og varð honum til virðingar níu stykkjum af múrnum affýrt, og allir soldátar stóðu týgjaðir innan porta sínum vopnum í orðentlegri röð, er affýrðu sínum múskvettum.

Nær hershöfðinginn Calicut spurði hvað gjörðist kom hann í miðri viku fyrir páska með 500 hertýgjaðra sveina og 9 palakínur, í hverjum hann, hans sonur 7 vetra og hinir aðrir hans æðstir, er honum í meðfylgd voru, voru bornir eftir venju þeirra, þeir eð stóðu í röð við kastalans porthlið. Og nær hann sjálfur inngekk á kastalann varð honum til virðingar 9 stykkjum affýrt, og allir týgjaðir soldátar sínum herbúningi affýrðu þrisvar sínum byssum, kastalans stórflagg uppsett og í trómet blásið. Og nær hann var uppá kastalann genginn og hans meðfylgd gekk eg og einn annar af voru fólki að skoða þeirra palakínar og fleira af þeirra ferðatýgjum. En nær eg lauk upp þeim palakín, sem hershöfðingjans sonur lá inni, brá hann við, og eg svo einnin. Hann lá þar á nokkrum silkisængum og svæflum, alt með gulli, perlum og gimsteinum sett, samið og búið, og einn ljettir, með hverjum þeir í sænginni sig viðrjetta hver í ástrjeð upp yfir sænginni er festur, var á einni sterkri gyltri snúru, christallus og fleiri gimsteinar uppá dregnir. En palakínar voru þessum ásamt með veglegu smíði af fílsbeinum gjörðir, og er að sjá sem fágað hvítt gler. Og nær einn af þeirra þjenurum sá mig þetta gjöra hljóp hann strax til og bandaði með báðum höndum segjandi »Ille! Ille! Ille!« það er »ónei, ónei, það má ekki!« Þessi ungi maður var bæði fríður og fallegur að yfirlitum, með bleikt hörund og vænn að allri líkamans sköpun, og allur var hann balsameraður með ýmsum farfa. Mikið gull með dýr-

mætum steinum bar hann víða um sig og í sínum eyrum eftir þeirra vísu.

Síðan í viðræðum gaf Calicut stóra áklögun vorum rector, og kvað hann alla orsök til þess klamariis og ósamþykkis, sem gjörst hafði vor á meðal. Níu fíla, er þeir kalla elefanta, hafði hann með sjer, og 500 hesta. Hans soldátar höfðu flestir tyrkneskan búning; þeim leyfðist alls að neyta og líka sig drukkna að drekka. Generall sýndi honum öll sín herlegheit, og með vorum viðurbúning ógnaði hann honum, og umkring allan kastalann á múrnum sýndi hann honum öll stykki, er þar í vígskörðum lágu, á eggsljettum bryggjum stóðu, og var skotið honum til virðingar, er hann nam staðar hjá hverju stykki, og af hverju skipi varð með jafnmörgum aftur svarað. Perlan hafði tvö koparstykki stór er altaf lágu úti og aldrei voru inntekin, er þeir kalla hálfa cartov, hennar kúla vegur 48 merkur, þær stóðu fyrir framan stýrpligtinn, hver eð var við káhyttudyrnar; þessum stykkjum var nú af skotið til afturvars af Perlunni með öðrum gildum stykkjum. Nær eg hafði mínum þremur affýrt er eg uppá skansinum hafði undir minni vaktan, Calicut á portogalisku tungumáli spurði general að, hvort þessum í skipunum væri nokkur stærri, en hann sagði já. Það ógnaði honum mjög, og nær hann heyrði þeim tveimur stykkjum áðurgreindum affýrt, sló hann með báðum höndum sjer á brjóst, og sagði »Abbæ! ó faðir!«

Á þessum miðvikudegi var svo mikill hiti að undrum gegndi, svo að um nónbil urðum vjer, sem vakt tilfjell á múrum kastalans, að venda oss um kring jafnaðarsamlega sem einni steik, er ei skal brenna, og einn af þeim fílum, er þar stóðu bundnir fyrir utan portin við eikur með sínum afturfæti, sem þar plagast að gjöra við hesta, fíla og camel, þessi sleit sig lausan, þó með hlekkjum bundinn væri, svo eikinni með rótum upprykti, en sá sem hann skyldi vakta var ekki í nánd, því hann sat í nálægu húsi að taka tóbak með sínum lagsmönnum. Og nær honum var þetta undirvísað gekk hann til hans með blíðmálum,

og hjelt á einni heytuggu, hverri hann hafði í oleo drepið, og bauð honum lengi fyr en til friðs fjekk stöðvað, eftir langan drykk tekinn úr því vatni, er þar var fyrir hendi. Þessir fílar skilja mál manna, og hafa vit mikið, svo þá brestur ekki utan málið eitt. Einum þessara fíla riðum við, einn að nafni Pjetur Lálik og eg, fyrir kaup lítinn veg, og þótti okkur mjög harðstígur vera, og enn þó þeir hafi ekki miðlið, samt liggja þeir og taka sjer hvíld.

Calicut var fríður maður með bleikt hörund og úr máta digran búk, og bar mikið skart á sjer af gulli og gimsteinum, og um sig miðjan gullvefnaðarklæði, og um sitt höfuð með dýrlegum gimsteinum. Einnin bar hans smásveinn gyltan staf af fílsbeinum með veglegu smíði eftir honum. Og nær aðmíráll Rollant hafði og hann úttalað sín á milli og friður staðfestur með kóngs samþykki, afreisti Calicut og hans selskapur að gjörðri lotning fyrir guðunum í þeirra pagógu eða goðakirkju, og dró strax á fund kóngs. Og þar eftir innan skamms dró vor generall til kóngs með brjef og skenkingar frá vorum kóngi í Danmörk, sem voru tvö koparstykki ný og velfáguð, sem höfðu sjö fólksmyndir steyptar í sumum stöðum á sjer, hver eð kóngur ljet innsetja í sitt svefnherbergi og meðtók fyrir mikinn æruskenk af hans hendi, ei síst fyrir sakir myndanna, þar með og eina sæng af sýprisvið uppreidda, og sitt sjálfs contrafey[1]) veglega tilsett. En sá heiðni kóngur sendi honum aftur sína sjálfs myndan vel controferaða, og af dýrum vefnaði uppreidda sæng, af fílsbeinum vel til setta, sú eð skatteruð var fyrir 100,000 dali eður tunnu gulls. En fyr en vor generall afreisti kom brjef og sterkur boðskapur frá kóngi, að vor rector skyldi meðfara til Travanzour á kóngsfund, hvað og skeði, og lá við sjálft að hann mundi lífið missa. Og þar með komst hann í ógunst vors generals, og hjelt hann hinn mesta óbótamann, að hann hefði

---

[1]) d. Kontrafej, mynd; (upprunalega = „eftirlíking“, úr fr. contrefait); — controferaða er orðskrípi, sem á að þýða „málaða“ eða „teiknaða“.

sett svo margra líf, þar með kóngsins og compagníisins góss í hættu. Svoddan órjettlæti hlaut hann að mæta, sakir síns trúleika og hollustu, en varð þó náðaður, með því móti að skyldi ferðast eina langa og farlega reisu til Moluchas eylanda, í ferð þeirra, er þangað sendust frá vorum kastala eftir allrahanda specerí og vöru.

Og slík ókjör varð vor prestur Hr. Jens að líða af generalsins harðýði (það eg meina hann væri borinn ósannri sök). Því svo bar við, að hann heimuglega bað bartskerann, þann með Perlunni kom, M. Vilhjálm, að stinga á kauni, er hann bar á sjer í heimuglegum stað, en þessi engelski bartskeri var svo ótrúr í sjer, að hann gekk til generals, og kvað prestinn hafa það fengið af indíaniskra kvenna saurgan eður samblandan. En með því generall hafði nokkurn óþokka til hans áður fyrri af djarflegu tiltali í sinni prjedikun uppá kjettara[1]) og villumenn, tók hann fegins hendi við þessum frjettum, og meinti nú að hefna sín aftur á honum, og tilskikkaði með valdi og ofríki að hann skyldi í einhýsi leggjast og þar af bartskeranum reynast með sterkustu þess slags drykkjum, er slíkt auglýsa ef satt væri, þá af flotnar þeirra gjörvalt hár og skegg, og hjer með leitaði generall honum að fyrirkoma, hefði honum það tekist, en Guð sá svo til, að ei fjell sem fjandmenn ætluðu. Generall Rollant fyrirbauð hverjum vorra manna í það hús að koma er hann var innlagður, eða nokkra hjúkrun eður atlot gjöra undir hæsta straff, og voguðu engir því þangað at vitja. En með því eg var honum kær, vitjaði eg hans við og við, en þó með leynilegum hætti, hvar við hann gladdist mjög af hjarta, enda og skelfdist fyrir mínar sakir, og nær hann í 9 nætur þar inni með gráti og kveinkan legið hafði, og til Guðs síns drjúgum andvarpað, uppstóð hann af þessari sinni píslarrekkju án þeirra teikna, er þeir meintu sig mundu á honum til sýnis gefa. Þá uppfann generall það ráð, að hann skyldi þessháttar eið vinna að hann ósaurgaður væri af allslags kvennmönnum India-

---

[1]) ɔ: d. Kætter, villutrúarmaður.

lands. En með því þar var ein portogalisk kvinna og ein ekkja, sú eð María hjet, gaf hann sig ei til eið að vinna, með því hann ljet þar sín línföt jafnan vaska; hvernin því hagaði vissi Guð best. Þá fyrirbauð generall honum prestlegt embætti að framflytja eður kirkjunnar þjónustugjörð við snerta. Presturinn kvaðst slíkt hans forboð ei akta, með því hann fyndi sjer engar löglegar sakir og augljósar, þar fyrir sagði hann ei máttugan sitt embætti af sjer að taka, og skaut sjer undan hans og slíkra veraldlegra dómi undir andlegrar stjettar og erkibiskupsins í Kaupinhafn úrskurð og ályktan. Nú með því generall sá sig engu geta til leiðar komið það prestsins embætti kynni að raska og hindran efla, þá tilsetti hann honum, svo sem til nokkurs straffs, að sigla þá fárlegu reisu samjafnt rector til þeirra Moluchisku eylanda með skipinu Juppiter, og þar með sína sök og sekt svo kvitta. Og þau prestleg klæði, er hann honum fyr skenkt hafði, og aftur í byrjan þeirra óvildar hafði frá honum gripið, í ásýnd mikils haturs til prestsins, fjekk hann honum aftur. En sá prestur, sem með Perlunni kom, var prestur á kastalanum á meðan í ríg stóð með general og Hr. Jens. Hann hjet Hr. Matthías[1]) og hann varð samt prestur á Perlunni, með hverjum eg var í samfylgd meðal annara á heimreisunni.

Sá maður kom frá Kaupinhafn með general, er Ólafur Vismar[2]) hjet. Hann bjó austan til við Eyrarsund í Skáney. Hann var nálega manna hæstur og var skartsmaður mikill, og bar daglega rauð klæði með silfursnúrum. Ei var hann stórlátur maður. Hann hafði lengi þjent kóngi vorum sálugum Christián fyrir kaptuga yfir soldátum, og fyrir það sama embætti útgafst til Indíen, og það sama meðtók, nær fyrst þar á land kom, yfir mjer

---

[1]) Hann hjet Mads [Matthías] Rasmussen, og hefur samið rit um ferð sína til Indlands og heim aftur, sem prentað er í Danske Magasin I. Række 1. Bd. bls. 104 osfr. Hann varð síðan prestur í Vallensbek nálægt Khöfn.

[2]) Mads Rasmussen kallar hann Ole Viseer. Hann mun hafa tekið við stjórn á kastalanum eftir Henrik Hess.

og mínum meðþjónum. Einn annar maður, Páll Árnason að nafni, hans sjerdeilis góður og ástkær vinur, fylgdist þangað með honum, og höfðu bæði í framandi landi og heima lengi aðfylgst, og hvor við annan hvorki kynningu nje vináttu brugðið. Þessi Páll hafði mörg ár í Skáney þingfógeti verið eður sýslumann. Þessi maður ljet mig sjerdeilis vel, hvað hann oftlega ásýndi bæði í orðum og verkum.

Þar var á kastalanum einn ungur hjörtur í uppvexti hver heim til Danmerkur skyldi fara og vor gubernator átti. Hann var oft við marga glettinn og óbýll, og skautst að mönnum illa, stangaði og stundum lítt við ljek, en engir voguðu honum með líku að launa fyrir ótta af gubernator, því hann var vandlátur um hann, og ei ásýndi það, að honum þætti hann í neinu ofgjöra við þá, er hann átti að sælda. Svo bar til einn tíma síðla dags, að eg gekk frá portinu af minni vakt sem snarast heim í mitt herbergi, að þessi hjörtur stóð í nokkurri hilmingu, svo eg fjekk hann ei sjeð, rendi skeið til mín hart, svo eg um koll fjell af hans sterku áhlaupi, og stangaði mig mjög, en eg fjekk ei við risið. Þetta leit Páll Árnason, og hljóp frá portinu með sinn forkeðjustokk í hendi, og greiddi honum mörg högg með tveim höndum yfir hrygg. Og í sama kom gubernator að rennandi með miklum skunda, og greip sína verju af balinu og vildi til Páls höggva. Og með því eg var á fætur staðinn og Páll hafði sinni verju ogsvo úr skeiðum rykt, brá eg með hast minni verju þeirra á milli, svo engar skemdir urðu, og skildust svo að, en voru þó hinir reiðustu. Vaktmenn, þeir við portin stóðu, komu allir með skyndi þar að, nær þeir sáu hvað gerðist, og voru með Páli til leika búnir hefði svo við þurft, og gáfu allir sömu klögun yfir ófyrirlátsemi hjörtsins, er svo mörgum hafði ótta og áhlaup gjört. En síður þess vegna kvaðst honum lóga mundi. En Páll sagði hans ranglæti því meira. Og nær generall það heyrði gjörði hann strax forlíkun þeirra á milli.

Og nær sem gubernator, generall, rector og þeim túlk-

um, þremur mórlenskum bræðrum, ásamt sínum meðfylgjandi þjenurum komu aftur frá Travanzour að slitnu samtali við kóng og gjörðri forlíkun um frið og fleira hvað tilhlýddi, bæði um skipsfragtina af öllu slagi er þar keyptist, eftir fyr gjörðri contract, hvað alt skyldi flytjast til vors kastala af landsmönnum eftir þess heiðna kóngs skikkan og bífalningu, stóð nú alt með friði og spekt vor á meðal. Og upp frá því meðan eg og minn selskapur þar dvaldist, alt til vorrar heimferðar, sem með Perlunni heim fórum, þá sendi kóngsins hershöfðingi Calicut hvern laugardag upp á virðing og velþóknan til stríðsmanna 3 villisvín til ferskrar fæðu úr sinni jagt með nokkrum sínum jagtsveinum og jagtrökkum, þeir eð oss skyldu sýna þeirra jagtaðferð. Þeirra hundar eru mjög stórir og hafa broddmen sjer um háls.

Allan þann pipar, er sá heiðni kóngur ljet oss í tje fyrir tilsett verð, keypti hann af kónginum til Cotzína, og frá honum varð fluttur til þeirrar borgar upp í landinu er Peita[1]) hjet, 8 mílur frá vorum kastala, og þaðan á kóngs hestum, fílum, úlföldum og uxum færður til vors kastala, og allur sá flokkur hefir klukkur sjer við háls, svo fyr heyrist til þeirra en sjest.

## XXVII. KAP.

Í Junius-mánuði kom eitt engelskt skip þar við land, eina mílu vegar frá vorum kastala í suðurátt, þar Carical nefndist. Þeirra yfirmenn reistu strax á fund þess heiðna kóngs, og óskuðu þar veru og landsvistar til að brúka

---

[1]) Cotzína = Cochin (Kochchi), höfuðborg í litlu ríki samnefndu á Malabarströndinni. Hvaða borg Peita er, er óvíst, en hugsanlegt að sje átt við Pudukota, er liggur milli Cochin og Tandsjúr, nær síðari borginni, eða Amapettah milli Tandsjúr og Tranquebar.

kaupmannsskap. Og jafnskjótt sem þeir sín erindi höfðu kóngi auglýst, sendi hann brjef og boðskap til vors generals, að með 12 sína bestu soldáta kæmi upp til Travanzour á sinn fund það hraðasta sem hann kynni á nótt eður degi, til hverrar ferðar eg einn með öðrum var tilnefndur, hvar til mig stórum langaði, en vjer fyrir blóðsótt urðum hindraðir frá þeirri ferð, svo vjer settumst aftur 5, og voru aðrir 5 í vorn stað teknir. En fyr en generall afreisti varð öllum vín gefið að drekka, og á þeirri eftirkomandi nóttu forbrutu sig 3 menn, er vakt skyldu halda á skansinum, hver á sínum rúndel, þeir eð sofandi fundust af vaktmeistaranum, er jafnan plagaði vaktina að besækja og reyna ásamt gubernator og lutinant. En á þeim fjórða rúndel vöktu taliarias, þeir indíanisku heiðnu stríðsmenn, þá sem oftar vel og trúlega. Þessir 3 menn, Pjetur Arndal, Salómon og Ljenarður, einn hollenskur meinleysismaður, urðu í fangelsi strax settir og vandlega athugaðir til þess að generall heim aftur kom frá Travanzour.

Nú er þar frá að segja, að nær generall kom fyrir kóng, auglýsti hann sitt erendi og vilja, að hann aðspyr hann, hvað svar hann vilji gefa síns herra og kóngs vegna uppá sína spurning, hvort hann samþykki það, að hann leyfi þeim Engelsku þar landsvist til að fremja þar kaupmannsskap oss í nálægð. En generall með stórri auðmýkt afbað þeirra óskan. Kóngur meðtók hans andsvör vel og lofaði hann mjög fyrir hans trúleika sakir, og kvað svo ske skyldi, og sagðist hann hjer með reynt og prófað hafa, hversu hollur hann væri sínum herra. Og að því svo úttöluðu þar um þeirra á milli, ljet kóngur þá Engelsku innkalla fyrir sig. Og að þeim inngengnum og fyrir kóng þeirra skenk framlögðum spyr kóngur þá enn að nýju, hver þeirra vild og begering væri, og var sama og fyr segir. Kóngur segir þá ofdjarfa að girnast þar landsvist hjá sjer, með því þeir um öll lönd sjeu að vantrygð ræmdir, einkum við þeirra sjálfra kóng og herra[1]), hvað miklu síður

[1]) Hjer er það nú líklega fremur Jón Ólafsson, sem talar, en Raghunatha konungur, og Jón hefur, býst jeg við, rámað í að Eng-

mundu þeir sjer hollir reynast. Og að því svo útsögðu skipaði kóngur þeim burt með hasti, segjandi uppá sitt mál: »Pá! Pá!«[1]), það er »burt! burt!« og með slíkri sneypu útgengu þeir frá honum og úr hans herbergjum, við hvert þeirra samtal generall var staddur. Og að meðtekinni góðri plögun við kóngsborð í höllinni, hver eð prýdd var mjög af gulli og gimsteinum, fjekk generall leyfi kóngs til burtferðar, og aðskildust svo með vináttu, og urðu allir með skenkingum sæmdir. Hann skenkti general tvo desmerketti, þó sinn með hvort slag, einn sá hvers eistu að var des að honum deyddum, en hins saurindi, svo lengi hann lifði, hver eð 60 sinnum hinum meir gilti að verðaurum.

Og svo að general heimkomnum með sínum selskap, að öllu óhindraður, voru greindir menn, er sig með vaktbrest forsjeð höfðu, fyrir rjett kallaðir. En með því stór mannþurð var orðin vor á meðal varð sú ályktan gjörð, að í einn hatt skyldi 3 seðlar innleggjast, tveir óskrifaðir, en »dauðinn« á hinn þriðja, og skyldi dúkur fyrir hvers augu bindast, og hver sá þeirra þriggja, er seðil dauðans tæki, skyldi líflátinn verða. Og þeim meinlausa Ljenarði tilfjell að deyja, og var strax af prestinum sakramenteraður, og síðan útleiddur að þeim stólpa, er þar stóð fyrir utan port kastalans, hvar við hann var bundinn, og dúkur um hans augu. En fyr en hann varð útleiddur kaus hann 5 menn af öllum soldátum og sína bestu vini sig í hel að skjóta alla undir eins, tvo í hjarta en þrjá í höfuð. En svo bar við fyr en hann varð útleiddur, að mjer tilfjell dagvakt að standa í portinu eftir orðentlegri tilfallandi venju og vísu. Og nær hann kom í portið og fann mig þar, sagði hann sjer brugðist hefði mín aðstoð í greindu efni. En eg eftir hugboði mínu sagði honum, að hann mundi ei þann dag líflátinn verða. Hann kvað það ei ske mega vegna

---

lendingar settu Karl 1. af völdum og ljetu hálshöggva hann, en hann hefur ekki munað eftir því, að það skeði fyrst löngu síðar, 1649.

[1]) á tamíl pō, „Farðu burt, gaktu burt", boðháttur í eintölu af pōga, ganga.

allra undangenginna aðgjörða undir dauða. Eg bað hann hughreysta sig við Guðs náð og Herrans dýrmætu forþjenustu, og minnist svo við mig með kærri kveðju og miklum gráti, og bað mig ásamt öðrum að gjöra bæn fyrir sjer til Guðs í Jesú nafni. Og nær hann stóð svo við stólpann bundinn og þeir 5 menn til aðgjörða reiðubúnir kom kall af skansinum með friðarbendingu, er þjenari generalsins eftir tilskikkan gjörði, með sterku friðarhrópi og eins hvíts klúts uppveifan. Allir sögðu Guði hátt lof, og allir soldátar affýrðu undir eins sínum byssum, og svo varð honum aftur með pípu og trumbu innfylgt, og varð með okkur fagnaðarfundur. Síðan gekk hann upp til yfirvaldanna og með auðmýkt ljúfar þakkir gjörði.

Á næsta eftirkomandi degi heimsóktu oss yfirmenn af því engelska skipi, er eg fyr nefnt hefi, og plöguðust vel. Var þá affýrt mörgum stykkjum alt til skilnaðar, er með vináttu endaðist. Síðan afsigldu þessir menn þaðan að uppleita sjer annarstaðar pláss og samastað til kaupmannshöndlunar.

Sá Páll Árnason, er eg fyr um gat, tók stríða sótt, en kaptuginn Ólafur Vismar, hans trúfastur vin, umspurðist við Temperentzíu kvinnu Hieronymi bókhaldara, sú eð var engelsk, hvern góðan mann hún vissi vor á meðal, sem hann mætti vel til treysta honum að þjóna í hans veikleika og sjúkdómi. En með því eg hafði áður fyr veitt tveimur mínum lagsmönnum litla þjónustu til þeirra andláts, svo eg þar fyrir fjekk ei stórt vanrykti, og þar með elskaði mig mjög fyrir Guðs náð, þá sagðist hún ei annan vita þar til honum hentugri en mig. Og gjörir sterka forlíkun við mig um kaupgjald þar fyrir. Og með því af nokkurs launum má ei lofast nje gefast allra þeirra manna, er kvinnu eður börn eður systkin áttu, utan alleinasta sængurföt og vopn, því lofaði hann mjer undir generalsins, gubernators, rectors og prestsins heyrn, ef hann andaðist, með handsölum, en ef hann aftur viðrjettist, skyldi hann mjer sjálfur jafngildum verðlaunum lúka. Þessir frómi mann lá í 8 daga og andaðist. Ein kona sú þar fór um landið,

kom í þær borgir, hvar sjúkir menn lágu, og varð brúkuð þeim til lækninga, er við þurftu, hverja hún trað með fótum sjer, lim fyrir lim, svo allir ófeigir öðluðust skjótt bata undir hennar fótstigi, en hinir skjótt fram stigu. Þessa konu ljet Ólafur Vismar sækja í næstu borg til síns ágæta vinar, hvað mjer ei þó geðjaðist nje honum sjálfum. En kaptuginn Ólafur vildi ráða, þar hann með stórri eftirlangan girntist að Páll mætti lifa og aftur verða heilbrigður. En strax sem hún leit hann kvað hún ei gilda mundi, hvað og skeði. Samt vildi hún sín full áskilin laun meðtaka, og við slíka peningaútgreiðslu ól hún sig rúntlega frá barndómi til æfiloka.

Að honum önduðum og úthöfðum til síns legstaðar meðtók eg öll hans sængurföt eftir hans sjálfs innilegri befalningu að honum lifandi, og yfirvaldanna, með tveimur kostulegum höttum og húfum, nokkrum skyrtum og línklæðum, og eina 5 dala verju með vænu gehengi, hvað alt virt var nær 40 dala virði. Hann biður mig þá einkanlega að unna sjer kaups á þessu vegna hans kvinnu, og skuli hann fá mjer aftur að liðnum 8 dögum til fulls betalings þar fyrir tvo silkiklæðnaði, og vilji hann þar til bæta mjer tveimur skyrtum, og hjer uppá gjörðist enn að nýju handsöl okkar á milli.

En nú með því vjer skyldum nú segja laust við kastalann, þeir allir sem heim girntust, og að allri inntekinni fragt, sem virtist fyrir 10 tunnur gulls að dýrleika, sem var 3½ hundrað lestir pipars, catonsvefnaður breyttur og óbreyttur fyrir tunnu gulls, silki og gullvefnaður með þesshátttar fleira fyrir tunnu gulls, gimsteinar fyrir 60,000 dali í 5 smásekkjum, og einn á meðal þeirra allra gilti 500 dali, item farfi, sem kallast indigo, fyrir tunnu gulls, sem brendur er úr grasi í fyrstu mjög sjerdeilis vænu; item helmingur silkis við caton ofið, er þeir kalla salvecat og bengalli[1], sem að kemur úr Ben-

---

[1]) e. bengal, svo var áður kölluð þesskonar vefnaðarvara; að því er Yule-Burnell segja notuðu Serkir á Spáni orðið al-bangala um einskonar fínt músselín og er það orð enn til í spænsku (albengala); salvecat = sauvagagi, einskonar bómullarvefnaður.

galía kóngsríki, og svo við silki blandað og viðkomu sem skinn, fyrir tunnu gulls, með fleira öðru fásjenu vor á meðal — þá tilsagðist voru fólki burtfararleyfi til skips En með því að slæm og óholl stykki reyndust vera á Perlunni fyrir hverjum dáið höfðu þeir hinir mætustu menn íbland hennar fólks, og í annan máta bauð generallinn mjer og öðrum manni, Andrjesi Ólafssyni að nafni, hjá sjer eftir að verða, ásamt Niels Dreyer mínum constabel, hvern hann kónginum til Travanzour að oss afsigldum ljeði með öðrum tveimur og fjórum stykkjum til stríðs móti kónginum af Bengalía, hvað eg vildi hafa upptekið, hefði mjer það gagnast fyrir mínum lagsmönnum, sem mjer þar frá jafnlega rjeðu, því eg hafði stóran viðbjóð vegna þeirra gamallra stykkja, sem með Perlunni voru, heim með henni að fara. En með því lítið var í boði af general, sem ekki meir en eitt gyllini á hverjum mánuði bauð til viðurlags okkar launa, þótti okkur oflítið vera og svo lengi dróst okkar burtferð undan frá kastalanum, að við urðum þeir síðustu þeirra manna, er til heimferðar bjuggust. En sakir öftrunar og andboða, er með general frá Danmörk komu, að engir Indíaniskir skyldu fleiri heim flytjast, því þeir meintu ef nokkrir fleiri heim kæmi, og einhver þeirra umhlypist til Indía aftur mundi kaupskapur þar við spillast, þar fyrir fjekk eg ekki minn pilt með mjer tekið, hvað mig og hann stórum angraði. Samt fylgdi hann mjer til strandar með miklum gráti, og nær við skildum tók hann mína hönd og lagði sjer á hvirfil, og bað mig að blessa yfir sig og sínum bróður að heilsa, og gróf sig í sand þeim indíanska bát undir kjöl er þar stóð, hvað mjög hryggilegt var að líta og eftir að hugsa, og margur yfir aumkaðist ásamt mjer, og mig löngum tregað hefir.

Fóru þann dag, sem var sá 28. Augusti, allir þeir menn til lands af Perlunni, sem eftir skyldu verða, en vjer til skips, sem heim skyldum fara í þeirra stað í Jesú nafni

Þrír herramenn af Nicopotan, fjórar mílur að suðri við, komu á næsta degi til vors kastala að heimsækja vorn general,

hverjir með æðstu virðingarmerkjum urðu meðteknir, plagaðir og afgreiddir.

Að næsta morgni síðan fórum vjer með Perlunni fjórar mílur í vestur, þangað vatn að sækja er Pularom[1]) nefndist. Þar lá eitt slot eður kastali fyrir á landi, sem 40 ár hafði í eyði legið, með áttköntuðum múr umkring, og vildi kóngur ei nokkrum leyfa þar inni að byggja, fyrir þess sakir, að einn hertugi fyr meir, er sig kónginum sama ríkis í gegn setti, og úr þessum kastala varðist í 15 ár fyrir kóngi og hans her, hverjum hann skyldi stórum spilt hafa fyr en til þrota sóktist. Þar rann ein móða ofan með kastalamúrnum, úr hverri að vjer vatn jusum í vorar pípur, fyrir neðan sjálfan kastalann um flæðar í 3 daga, nær brim og bylgjur helst gengu upp í þennan ós, og var ógott með bátinn að vera, en um fjörur, nær brim náði ekki upp yfir flúrur að komast, varð ei vatn fyrir seltu sakir tekið. Og nær vjer til skips á vorum stóra bát, sá eð bar 10 lestir og 30 menn, fórum, upphóf vor kaptugi Christofor Boye, sem sig með oss gaf til heimreisu, spurning þesskonar, hver sá væri að sjer sagt gæti, hvað til efna væri þess hlutar, að nær allur sjór væri útfallinn og í burt, þá yrði ekki vatnið tekið fyrir seltu sakir úr ósnum, en nær sjórinn rynni með brimi og boðaföllum þá væri klárt vatn, og hjet þeim einni myskin víns er þar rjett uppá hitti, nær þeir til skips kæmu. Enginn kvaðst því fá gegnt, svo yfir alt stóð í stansi, þar til eg fyrir kaptugans ávarp tillagði slíkt, sem honum ánægði.

Þann 7. dag Septembris, sem að var sá tíundi dagur, er eg frá kastalanum og landi kom, nærri nóni bar svo við sem tíðar, að skotið var á kastalanum, en generall hafði fyr svo tilsett, að hvert sinn, sem skotið væri á kastalans skansmúrum skyldi aftur af skipunum, er þar lágu, með jafnmörgum ansað verða. Nú í þetta sinn bar svo við, en

---

[1]) Það er ekki gott að vita við hvaða stað Jón á hjer; „vestur“ frá Tranquebar er sem sje upp í land. Líklegast er þó hjer átt við mynnið á Cularun-(Coleroon-)fljótinu, nokkru fyrir norðan Tranquebar; þar í grendinni eru mikil forn mannvirki (vatnsveitingastíflur) og víggirt musteri.

vor bátur var í landi, eður hið fyrsta í atróðri, því drjúg hálf vika var til lands. En áður en svo við bar sat eg og tveir assistenter fram í *galíónu* skipsins í hjegómlegu samtali um það, hjá hvers þeirra foreldrum eg skyldi um veturinn dveljast, er eg heim kæmi, og voru þar um að þrákka í mestri fávisku, hvar um eg bað þá ei tala, með því enginn af oss vissi, hvernin vorum högum háttað yrði til þess að þar kæmi, eður hvort oss auðnaðist með lífi og heilsu heim að komast. Og í því sama var skotið á skansinum. Strax var hrópað á byssuskyttur af constabel til að skjóta. Andrjes Ólafsson var krankur nokkuð, þóttist því ei geta til verks farið; varð svo þrákallað til mín, hvað menn þó sögðu ei hefði oft verið eður viðborið, svo sem hver eilendur og framandi best reynir í slíkum ókendum og misjöfnum selskap, og ei muni annað henta, ef hann annars vill fá sínum augum vel upp lokið, og ei vill sínu föðurlandi til því stærri hneyxla verða. Svoddan viðbjóð hafði eg í það sinn að ganga til skota.

Nokkrar skútar, sem þeir kalla siampaner, sigldu þar hjá, og ætluðu að skjóta sjer undan tollgjaldi, með því þeir sáu ekki vorn bát eftir sjer eður til róa. Og með því vjer sáum engin önnur því glöggvari tilefni eftir nje til að skjóta, en þessar skútur, þá bífalaðist mjer eftir þeim að skjóta, en þó þeim án skaða. En með því þær sáu ekki vorn bát sjer eftirför veita hjeldu þær djúpara frá landi. Og nær eg hafði 18 skot endað, eftir því, sem á kastalanum ogsvo gjörðist, var þar eitt stykki, sem eg fyrir góðri stundu hafði áður affýrt, að eg skyldi steyta. Og nær eg skyldi svo gjöra hafði eldur sjer eftir leynt í stykkinu í þess holum, er þar voru inni, en með cardúsum[1]) var áður með skotið, sem eru ljereftspokar, hvar inni skamtur hvers stykkis er inn látinn til flýtis, og nær stykkinu er afhleypt verða af ljereftinu eldlegir neistar eftir í þeim sviksömu holum, sem í stykkinu eru, sem í fyrstu verða nær steypt eru. En þessi stykki voru 300 ára gömul, og voru nefnd

[1]) Sjá Blom, Chr. IV.s Artilleri, bls. 283.

Súrlands-stykki[1]). Eftir það eg hafði stykkið þrisvar afþurkað eftir venjunni, og eg skyldi púðrið aftur innláta og fyrir stykkið setja, fann eg að púðrið kviknaði í stykkinu. Og nær svo skeði neytti eg minnar orku púðrinu að aftra, með þeim stjaka, forsetil[2]) og stimpil, er þar til jafnan brúkast, svo að eldgusa stóð upp af stykkisins fenggati, en sakir þess mjóddar leitaði púðrið víðar úthlaups. En þó púðursins kraftur stórum útleitaði af stykkisins munna að komast, gat eg svo fast haldið að púðrið fjekk ei svo hastarlega úthlaupið, sem þess art er til, þar til stimpillinn í smástykki molaðist, og minnar hægri handar þrír fingur í sundur brotnuðu, og aðrir þrír fingur minnar vinstri handar stórlega lerkuðust, en eldsins áhlaup brendi báðar mínar hendur og mig upp undir axlir, og í því sama bili kastaði stykkið mjer 60 faðma lengd af sjer og frá skipinu, og þar eg kom niður sökk eg því nær til grunna, hvar eð var nærri tírætt djúp. Og á meðan eg var á ferð ofan eftir kafinu bífalaði eg mína sál í hendur almáttugum Guði, og vonaði ei meir til þessa lífs að komast. En nær eg upp aftur viðleita vildi með sundi mjer að bjarga ef ske mætti, gat eg ei með höndum vör tekið fyrir minna beggja handa brotnum fingrum. En fyrir Guðs sjerdeilis náðar aðstoð fjekk eg fyrir fóta aðfylgd og meðal uppá sjóinn aftur komist. Heiður, lof og þakkargjörð veri og veitist, sje og syngist því blessaða og dýrðarfulla nafni vors Guðs, sá eð sína náð og miskun og gæsku ljet á mjer svo föðurlega og linkindarsamlega auglýsast, langtum framar en eg aumur og óverðugur hafði forskuldað eður tilverkað, heldur alleina sína náð hjer með að bevísa, öllum trúuðum til styrkingar, huggunar og dygða-aukningar, svo hans heilaga nafn mætti því heldur vegsamast og elskast, og hans dásemdarverk í

---

[1]) fallbyssur fóru fyrst að tíðkast á 15 öld, svo 300 ára hafa þessar fallbyssur ekki getað verið; Súrland = hjeraðið Sauerland milli ánna Sieg og Ruhr, er falla í Rín, þar er járn mikið í jörðu og voru þar áður steyptar fallbyssur. Sjá Blom, Chr. IV.s Art., bls. 237.

[2]) forsetill, ɔ: d. Forsætter. Sjá Blom, Chr. IV.s Art., bls. 302.

minni leggjast af mjer og hans trúuðum og með þakklæti mætti þar jafnan á minst verða. En í þessum svifum kom vor bátur frá landi, og nær þeir fengu mig litið varð þeim skjótast aðvent mig að sækja. Og nær þeir komu þangað, þar eg á grúfu flaut, og allur gagnstokkinn í blóði, en þó með máli nokkru en lítillri heyrn, því blóð og heili útflaut af báðum mínum eyrum, höfuðið aflagað af því mikla hljóði, er stykkið af sjer gaf nær þess affýring tilgekk, og nær það mjer á augnabliki í burt fleygði, brjóst og kvið sprengdi og fordjarfaði. Sá maður hjet Marcús er fyrst höndum til mín þreif, vor undirskipherra, einn sjerdeilis mætur, skynsamur maður og skarpvitur mjög. Nú var eg ei meir klæddur en einni skyrtu og ljereftsbuxum með silkihúfu á höfði, berfættur. Og nær eg með bátnum kom að skipsborði stóð fólk svo þykt sem kunni tveim megin stigans, er eg með þeirra tilstuðningi upp gekk, en báðir kaptugar fyrst Sixtus Jacobsson[1]), skipskaptuginn, þarnæst Christofor Boye, sem var á heimreisunni ásamt mjer og mínum lagsmönnum fartugi, en í öllum ráðum hinum samjafn, stóðu út við borðstokk og meðtóku mig sjer á arma. En eg voga ekki að innskrifa hjer míns kaptuga orð eða hrósun, sem hann mjög grátandi mælti, nær hann mig með kossi sjer í faðm tók, en þó með leyfi, að hann sagðist heldur hafa viljað missa 2 eður 3 menn en mig, hvað ótrúlegt má nú virðast, en samt eru það vissuleg sannindi. Þeir leiddu mig svo báðir aftur yfir miðskipa að vindustólpanum, og þar að seig mjer ómegin.

Strax tók mig Christofor Boye og bar mig ofan á kistu bartskerans, M[eistara] Arntz, en M[eistari] Vilhjálmur var í landi og nýlega kominn, sá eð var engelskur, sá eð var yfir öllum hinum, er sig með þessari reisu gefið

---

[1]) Sixtus (Sixt, Six) Jacobsen var með í Indíaför Ove Geddes. Hann var síðar í ýmsum sjóferðum, meðal annars kom hann til Íslands með Holger Rosenkranz 1629. Mads Rasmussen segir að hann hafi verið enskur að ætt. Um hann sjá annars Lind, Kr. IV. og hans Mænd, bls. 257—258.

höfðu, var nú ei til í þetta sinn eður nálægur, og fyr ei aftur von en að morgni. Christofor Boye befalaði Meistara Arntz að viðleita strax með mestu kostgæfni blóðið að stilla, og til ferskra benja sem fyrst að taka, hvar út í hann taldi sig vanmáttugan, af því meir en úr hundrað stöðum blóð pípti, og kvaðst þá vinstri hönd um unglið afliða verða, hvar við kaptuginn biturlega gramdist, svo hann sló hann högg undir hvorn vanga, svo hinum rjeð við, og fyrirbauð honum í það sinn neitt meir til að gjöra en blóðið að stilla. Bartskerinn heimti umbönd og það hvað þar meira tilhlýddi, en hann greip þá skyrtu, er með móru var saumuð víða og kosta kunni í Kaupinhafn eitt rosenobel, og hana í refla sundurreif, fjekk honum og skipaði það fleira að heimta er með þyrfti. Var svo tekin full, stór vínskál, hálfvarmt, og mínar báðar hendur þar í lagðar, með annari viðleitni blóðið að stilla, hvað þó ei varð leikið fyr en um miðnætti frá nóni. Og síðan varð eg sakramenteraður og meintu menn eg mundi þá og þá sofna og hjeðan í Herrans hendur burt fara. En eftir miðnætti tók til að vaxa minn andardráttur, og síðan smáhjarnaði eg, svo menn sáu mig gjörla með lífi og hræringu. Timburmönnum var bífalað að gjöra mjer eina breiða trjesæng með fjórum smástólpum, sem og strax gjörðist, sú eð flytjast mátti um skipið úr einum stað í annan.

Strax um kvöldið eftir þennan atburð nýlega orðinn sendu kaptugar til lands með sitt tilskrif til generals, honum þar inni að auglýsa mitt óheillasamt tilfelli hvatskeytlega orðið, hvar yfir hann ásamt yfirsettum og undirgefnum, er á kastalanum voru, og þar með indíanskum (kunningjar mínir orðnir) sig stórum aumkuðu, og að næsta morgni sjálfur persónulega með indíaniskum bát ásamt gubernator, rector, prestinum og mörgum indíanskum marcatoris eður kaupmönnum útdrógu og erusamlega vitjan gjörðu.

Og að öllu því fólki samanköllluðu og komnu varð M[eistara] Vilhjálm og M[eistara] Arntz befalað til minna brendra beina, brotinna fingra, óslitinna sina með mestri snilli, og hóglátlegri viðleitni að taka og sína ment og kunnáttu

það frekast mættu í ljósi að láta, og lofuðu drykkjupeningum og tilglýjun hverjum þeirra fyrir utan sín mánaðarlaun, ef mögulegt væri að þeir með guðlegu fulltingi fengi mig læknað. Bartskerum þótti mest um það, hvernin eg var allur brendur svo mjög að mín bein voru hvít sem í eldi hefði legið. Voru þar öll yfirvöldin áhorfandi og margir með gráti sig yfir mig aumkandi, þó allra mest minn kapteinn Christofor Boye, hver eð setti 6 menn á mjer að liggja á meðan bartskerinn Vilhjálmur mig undirlegði og viðhöndlaði sem tilhlýddi eftir venjunni. En eg bað hann mig engan snerta láta utan stór nauðsyn tilneyddi, því mjer prestarnir og þeirra hjávist með Guðs náð þar til nægði, þeir eð sátu fyrir framan mig og hugguðu með Guðs náðar fyrirheitum og orði, hvað og sannlega skeði. Ei þóttist bartskerinn hafa vitað nokkurn mann mjer þolinmóðari, hvað Guð sjálfur alleina verkaði af sinni náð, þar sem hann varð með knípitöng að sundurbrjóta fingurnar, þar sem tilhlýddi, og með járnum liðina út að taka og plokka það brenda skinn, með lítt beittum járnum í sundur sagla, og inn í hendina milli sjerhvers fingurs og liðar með margslags járnum að leita, einkum þær trjeflísar hið nákvæmasta út að höndla, er hann sagði yfir 300 vera mundi. Kaptuginn bað hann mig ei svo mjög kvelja sjer fyrir augum. Hann kvað svo vera yrði, hann hlyti sín instrúment að brúka. Þessar allar kvalir og margt annað meir varð eg að líða og útstanda, hvar yfir sig allir furða ljetu, og það eg úr slíkri dauðans neyð frelsaður og til lífs leiddur ei fyrir nokkurs manns skynsemi augljóst, heldur tillagðist það dásemdarverk Guðs heilaga nafni, honum til lofs, vegsemdar og heiðurs, svo sem alleina tilhlýddi, og með öllu verðugt var, og varð innskrifað fyrir eitt stórt jarteikn Guðs í vora reisubók, að Guð hefði mig læknað framar en þeir.

Generallinn bauð mjer þá og þrásamlega endrarnær til sín í land upp á kastalann, og svo gott með sjer hafa sem honum sjálfum veittist, hverju eg neitaði jafnan, því minn hugur stóð ætíð heim. Tveir menn af öllu skipsfólkinu

voru mjer jafnan til þjónustu og vöktunar fengnir á nóttu og degi, og þar til 2 menn af vaktinni. Í 14 vikur lá eg alls, en 8 vikur upp í loft á bakið, með útbreiddum armleggjum, hvar undir lagðir voru 80 svæflar, er mjer af sjerhverjum voru svo ljúflega framboðnir og tillátnir af sjerdeilis ástsemd, hvers eg vona að Drottinn hafi minst og athugað, þeim öllum til góða, í sinni náð. Item 7 myskin eður pelar víns voru mjer á hverjum tveim dægrum tilsögð og fram látin, einnin sá best tilreiddi matur borinn, og mjer með mjúkasta hætti boðinn, svo sem og fleira annað, er mig kynni eftir að langa, var mjer skikkað þess að óska á hverri stundu, er mín girnd til rynni, hver elskuatlot meiri háttar og minni ei verður hjer nóglega uppreiknað, en Guð allrar mildi, miskunar og náðar virðist sjerhverjum þeim, eð svo gjörðu, eilífum náðar verðlaunum aftur að miðla í dýrðinni eilíflega. En þó með mestri nákvæmni og alvöru viðleitað væri, að eg fengi nokkurs matar neytt, hefði mögulegt verið, gat eg ekki með nokkru móti, og tjáði ei þessvegna, en þó vor kokk, Hans Pjetursson að nafni, sig þar yfir oft ýfði, að eg vildi einskis neita, með því hann þóttist með mörgu móti sig stórum tillagt hafa minn mat að tilreiða með besta hætti, kunni þó ei þar með að forbetrast, því eg mátti ei matinn líta og ei vín smakka, sakir þeirrar pínu, sem eg innvortis leið, er þá hina ytri langt yfirtók, því stykkið hafði sprengt mig innvortis, og einnin mitt höfuð, inn frá hvirfli til ilja allan aflagað og úr rjettri hegðan fært, svo eg varð mínum kunningjum óþekkjanlegur.

Margir hörmuðu mitt slyslegt tilfelli, einkum minn kaptugi, generall, rector, minn góði Herra Jens, mínir lagsmenn, og jafnvel Indíanskir, og sá sem minn þjenari verið hafði kom út tvisvar að harma yfir mjer. Sú fróma Tempperentzía sendi mjer út mjólk, epli og aldini, og það fleira, sem hún meinti mjer smakkast. Generall kom út þrisvar að vitja mín, og bauð mjer vingjarnlega til lands og vist með sjer, hverju eg neitaði, því eg treysti ei þeim bart-

skerum, er á kastalanum voru, sakir þeirra ungdóms, en generall meinti að eg sjer vantreysta mundi, hvað ei var að nefna.

## XXVIII. KAP.

Að seytján dögum liðnum eftir það eg hafði þennan skaða fengið, sem var þann 24. Septembris[1]), sigldum vjer í burt þaðan í Jesú nafni, einskipa að loknum kærum kveðjum, að bæn og blessan gjörðri og flestum stykkjum affýrðum.

Þessir voru yfirvöld skipsins eiginlega: kaptugi Sixtus Jacobsson, skipherrar tveir, en Christofor Boye, tveir herramenn, Arnt Van Coten og Söfren Harebó[2]) með gubernator og flestöllu skipsfólki voru fartugar heim á því skipi, því hennar heimanferðarfólk settist að mestu alt uppá vorn kastala Dansborg í vorn stað, en vjer aftur í þeirra stað til Perlunnar. Fengum vjer góð byrleiði þaðan eftir því sem þeim árstíma tilhlýddi. Eina pagagöju[3]) þaðan höfðum vjer með oss til ferðar tekið, sú eð kunni manns mál að tala, bæði í indíanisku, portogalisku og þýsku tungumáli. Og nær vjer höfðum nær 11 vikur í sjó verið sýktist hún og talaði general hart til, að hann hefði sent sig í slíka háskasamlega reisu, og kvað hann valdan vera síns dauða, ef hún þess vegna dæi, en þó ef Guð vildi svo vera láta sagðist hún tilfriðs gjarnan skyldi vera. Og þar eftir innan þriggja daga dó hún og varð útbyrðis varpað.

---

[1]) Mads Rasmussen segir 27. Sept. 1624.

[2]) Sören Harbou var með í Indíaför Gjeddes. Um hann sjá Lind, Kr. IV. og hans Mænd, bls. 238. — Um Arent von Kalden eða Kolden er getið 1626 sem skipstjóra. Sbr. ath. RC. við dönsku þýðinguna.

[3]) Þess ber að gæta að Jón Ólafsson hefur líklega ekki sjálfur getað heyrt til páfagauksins þar sem hann var fárveikur, en hann hefur trúað því, sem honum var sagt um hann.

Eg hjarnaði smásaman fyrir Guðs náð og vilja, eftir því sem áleið, þó eg stóra þraut til þyldi, bæði hið innra og ytra, svo eg fæ þar ei nóglega umtalað. Mitt hár lá laust á mínu höfði svo það mátti af strjúka sem eitt laust duft, mitt skegg afflaut alt fyrir neðan munninn, en hitt varðveittist undir trúlegri aðgætni með hárinu, sem með dúk var umbundið, sem með hverju dægri hlaut aftakast og plokkast, og var sem úr smeltu vaxi hefði verið uppdreginn, af þeirri fitu, sem útgekk af mínu holdi, svo sem og annarsstaðar af öllum mínum líkama útkúgaðist mergur og fita, svo flestum mínum skyrtum hlaut í sjó að varpa. Það sje hjer um nóg að sinni sagt, þó hjer um mætti enn fleira og meira talast, bæði um mína drauma, sjónhverfingar og þessháttar fleira. En þó lampi brynni yfir mjer frá rökkri til albirtu og enginn skuggi mátti dragast nje komast fyrir hans birtu, og nær svo viðbar, var það líkast sem eg með sverði væri i hjarta lagður, og eigi þóttust mínir vaktarar vitað nje sjeð hafa að mig hefði svefn á runnið í ellefu vikur. Og nær 14 vikur voru frá liðnar mínum skaðadegi, varð eg í minni hvílu uppreistur, síðan á bekk settur hjá butileríinu, með umbúðum umkring, og þessir tveir menn til vöktunar. Síðan varð eg færður með sænginni og borinn uppá þilfar fyrir kaptugans befalning, hvar hann og aðrir hjeldu ljúflegu samtali við mig daglega, og vor prestur H[erra] Matthías, alt þar til eg komst á fótinn fyrir Guðs náðar fulltingi, en ei brúkaðist eg til nokkra verka, og öllum varð tilsagt af yfirvöldunum, að hver maður skyldi mjer til huggunar og gleði vera, hvað og skeði, hvað alt var furðanlegt Guðs verk. Hans nafn sje blessað að eilífu! Amen!

Ekkert sjerlegt bar til tíðinda á vorri heimreisu, utan vor kokk Hans, hvern þeir hjeldu gjört hafa contract við Satan, gjörði eitt sinn stórt klamarí, svo alt fólk var uppi honum í gegn, hvar um hann ei sinti, því hann á útreisunni hafði útboð gjört 180 fólks, og hann varð fjötraður, höfuð, hendur og fætur, og við sterka járnhringa reyrður á höfði niður en fótum upp, og á augnabragði strax laus. En eg

var einn undir þilfari nú í þetta sinn, er eg á heimreisunni tilvissi, er hann komst öllu fólkinu úr höndum, og hljóp ofan lúku hjá stórmastrinu og að sinni sæng. En eg spyr hvað nú eigi að vera. En hann segist kaptugann deyða skuli, og greip sína tvo stóru kokkshnífa. Og fyr en hann fjekk sjer umvent kom kaptuginn Christofor Boye á bak til við hann, og greip um hans báða ungliði, en hann senn friðmæltist, því mikill fjöldi fólks handgreip hann, og ljet hann sig þá viljuglega handtaka og í boltinn innsetja, og bað um 3 menn yfir sjer að vaka með byssum og brennandi luntum, og kvað þeim það best leikið, svo ekki stærri ólukku af sjer biði, og svo var gjört til næsta morguns, og varð enn laus látinn, því hann hirti um ekkert straff, og þjenti því ei neinu þesshàttar við hann að offra, nema því stóra straffi alleina, því hvað straff er slíkum hentugra? — að hinu öðru gjöra þessir spott. Í öðru sinni hafði hann til reiðu eldrauðan brandfork, og með honum hugði hann kaptugann gegn renna, hefði eg ei viðlitið og til kaptugans gripið. Það sje að sinni nóg hjer um talað, en ei að heldur er hann úr sögunni.

Fyrst vjer frá Indíum afsigldum höfðum alls innan skipsborðs 140 fólks (eg meina stórt hundrað), en nær meir og meir á heimleið dróst tók vort fólk að sýkjast smámsaman af þeirri almennilegu vatnssótt, er flestum til vill á þeirri löngu og háskasömu reisu, svo að fyr en vjer komum hingað í Afríka voru 5 vorra manna í burt sofnaðir og fyrir borð drifnir. Og þegar vjer vorum komnir fram undan Caput de Bona Sperantia í Afríka þá hljóp á mikið veður af norðvestri, svo fáir menn mundu til þvílíks. Þar kemur mikill sjór, því þá menn koma þangað tekur nokkuð loft að kólna, og þar er bærilegt hitans vegna, en ei komum vjer þar, því vjer hjeldum þar mjög djúpt fyrir[1]). En við St. Helena eyland komum vjer, sem liggur nær undir mið-

[1]) Að því er Síra Mads Rasmussen segir kom skipið við Góðarvonarhöfða 6. Nóvember og lá þar til þess á annan í jólum. Þaðan hjeldu þeir til Saldanhaflóans og lágu þar frá 2.—13. Janúar.

dikislínunni Equinoctialis, svo sem siglingamenn tíðum plaga að gjöra, nær það finst og straumar og stormar ei forhindra. Það er lítið eyland og ein vika sjóar umkring. Það er að sjá sem einn stapi mjög hár upp úr sjónum og ei gott uppferðar. Portogaliskir menn bjuggu þar fyr meir nokkra stund og höfðu þar bæði svín og geitur og annan þarflegan kvikfjenað, sem sáðu þar til tóbaks og sett hafa dýrðleg aldinviðartrje víða þar niður, en allra helst uppá þess hvirfli um þær fögru, sljettu, lystugu flatir, hver trje að bera þau lystilegustu og sætustu epli. Þar er mjög þungbært neðan að komast, því að nær maður meinar sig að sjá það hæsta þá er eftir annað og hið þriðja slíkt, og ei þykjast menn vita svo landi varið eða með þvílíkri hegðan finnast mega. Ei verður þar lent nema í einum stað, sem kallast Kirkjuhöfn, og hafa þeir portogalisku menn þar haft sína kirkju, hver eð í þann tíma var vel stæðileg sem vjer þar komum, Anno 1625. En nær Spanskir og Hollenskir voru óvinir sín á milli, svo voru og þeirra þjóðir, hvar um heim hittust, og því þorðu ei þessi eylendingar þar lengur að viðhaldast fyrir sakir flamskra manna aðþrengingar og ofsókna, er þeir þar áttu sífelt að mæta, einkum síðast, að þeir með felmtri og ótta miklum urðu bæði land og eignir að umflýja. Og því er þar á þessa eylands hæðum og um dalverpi mikill hópur svína, af þeim þar eftirskilinn, og eru orðin vilt og nást ekki nema með hlaupum, hörku og fylgi margra manna. Vopn hafa þeir þar til þau að vinna, er þeir kalla krosslensur, og er það sjómannavísa, að nær hver fyrir sig (sem þar við land koma) hafa á haldið, að þeir skilja þessi vopn á götum eftir, þeim fyrst til fjalls horfa, og má þau hver sá brúka, er þeirra við þarf. Vorir menn náðu 9 svínum mjög stórum, en þó með stóru ómaki. Eg skreiddist og upp þessar háu hæðir og lá þar eina nótt með mínum kompánum við stórt tjald; gjörðum vjer þar mikinn báleld, og sátum kringum hann, hafandi bæði vín og vistir, og einn geithafur, hvern þeir höfðu nýlega deytt, varð á þessum krossteinum steiktur og síðan etinn. Og nær vjer sátum sem værilegast yfir vorri máltíð, kom einn stór villi-

göltur heim drattandi til vor að eldbálinu. Þeir köstuðu strax, sem fyr tilnefndir voru ef við lægi, bæði knífi og stykki, og runnu eftir honum þar til þeir fengu hann deyddan, og síðan sofnuðum vjer alt til morguns, utan vökumenn einir.

Í þessari ferð náðum vjer fjórum, og á miðjum degi fórum vjer út til vors mikla skips. Og á móti kvöldi sáu menn, sem í topp stigu, eitt stórt skip sigla undir eyna. Ei bárum vjer kvíða fyrir spönskum mönnum, því kóngar voru vinir í þann tíma, en strax var kíkir gripinn og skoðuð þeirra toppmerki, og þektust að vera flamskir menn, sem var compagní-skip, og austindíanskir farar frá Amsterdam, og hjet skipið Sá Væni Haukur en þess kapteinn Jóhann Cather. Þessir voru brauðs og annarar fæðu viðþurfandi, hvað þeir strax fyrir oss auglýstu, það fyrst sem samanbar vorum fundum. Þeir buðu oss samfylgd á meðan hvorki vindur nje önnur ókjör sundur bægðu, hvað vjer gjarnan þáðum, og urðu svo hvorir öðrum fegnir. Butiler Pjetur Franzson var í káhyttu innkallaður og af yfirvöldum aðspurður, hvort hann treysti sjer til nokkurt brauð við þá að afleggja. Hann kvað það satt vera, því hann meinti oss hólpna vera til alls þess, sem matarföngum að hnje. Slíkt gjörði hann fyrir vináttusakir og landsmannsskuld, en hugleiddi ekki hvað ske mætti, en þó í þann tíð vel fjelli og byr í báðum skautum lægi. Slíkt álit og grönn umhyggja gjörist enn nú margra og víða, kanske ekki síst í æðri efnum. Ljet hann þeim hið besta brauð í tje í mörgum sekkjum, en vor yfirvöld treystu honum til fullrar forsjónar hjer um eftir hans embættisskyldu, þar með fleira af mat og víni var óspart til útláta við þessa flamsku menn, þar með og líka var skift til helminga vor á milli af þeirri villiveiði, er skeði við þetta nefnt St. Helena eyland. Og nær sem vjer höfðum þar 5 daga legið hjeldum vjer samskipa þaðan frá landi og hingað í haf og höfðum besta byrleiði.

Einn hollenskur maður Pjetur Alkmar að nafni, brann af púðri óvarlega þar hann sat í skipsins galíónu

[öllum óvitanlega][1]) á sínum bakhluta, af því stykki, sem af var fýrt og rjett fram og við stefni stóð. Þessi lá lengi undir bartskera hendi, og þótti honum ógott við að eiga sakir hans óþolinmæði, og nefndu tíðum þá dýrðlegu gjöf Guðs, sem mjer var gefin af hans náð og föðurlegri elsku í mínum hörmungum. M[eistara] Arntz og mjer fór það á milli nokkra stund, að hann hjelt mínum tveimur afteknum fingrum hjá sjer, og sagði sjer þá tilheyra með rjettu, hvað mjer lítt líkaði, en varð þó svo búið að líða, og ljet gjöra koffur að á laun og með dýrlegum smyrslum þá þar innlagði, þó ei meðkendist, og hafði sagt drukkinn einn tíma, að hann þá ei vildi missa fyrir hundrað dali nær um framandi pláss færi.[2])

Einn dag var það blíðan og byr lá í báðum skautum og horfðist vel á um hagi manna eftir holdlegu áliti, að vjer lágum í hjegómlegu samtali nokkuð framarlega á þiljum; einn að nafni Barthel[3]), minn góður vin og leikbróðir, einkum í fikterii, var að tala, en þó einfaldlega, um vor efni, og bað nú Guð það náða, hvernin það hefði tilgengið, að allir kæmi nú lífs og lima heilir heim utan eg. En kaptuginn Christofor Boye bar fljótara að en varði neinn af oss, og gekk að Barthel og lagði sitt högg honum undir hvorn vanga, og sagði honum nytsamara verið hafa að gefa mjer huggunar en hrygðaryrði, og kvað hann enn ekki heim kominn, og tók oss vara fyrir öllu oftrausti, og fyrirbauð öllum mjer nokkra stygð að gjöra í orðum nje verkum, hvað og fullkomnaðist.

Nú þegar svo langt á leið vora heimreisu að vjer vorum komnir 90 mílur hingað fyrir Tyrkiríið, og alt til þess höfðum haft gott byrleiði og vel liðið, og ei mist utan 5

---

[1]) Þangað var gengið til kamars. RC.

[2]) Dauðra manna fingur (eða hjer dauða fingur) mátti eftir þeirra tíma trú nota til margs; hjer virðist vera átt við þá hjátrú, að sá sem bæri þá á sjer gæti ekki villst.

[3]) Á lista Sím. Jóhansens er getið um bátsmann að nafni Bertill Gundersen.

menn, sem var Jacob[1]) vorn stýrimann, ein byssuskytter og 3 bátsmenn, — nú bar svo við á sjálfan pálmasunnudag, eftir prjedikan og máltíð, að upphófst ljótlegur leikur með fólkinu undir þilfari, eftir indíanskri og heiðinglegri siðvenju og dansvísu, nær indíanskar pagóguhórur dansa fyrir þeirra bölvuðum afguðum, og í þennan leik hafði Arntz vor bartskeri sig gefið, því hann var þá einn ungur mann. Og nær eg leit slíkt hvað hjer með gjörðist gramdist eg í mínum anda þar yfir mjög þunglega, og forbauð eg bartskeranum og Pjetur Lálik slíkan djöfulsleik að fremja, því þeir báðir voru mjer kærir, og setta eg þeim stórar fortölur, svo það spurðist í káhyttu. Strax ljet M[eistari] Arntz af og Pjetur Lálik. Senn hjaðnaði niður þessi vondi leikur, og þóttust sumir hafa ofgjört. Prestur vor, H[erra] Matthías, þakkaði mjer stórum fyrir, og bað mig eflast framvegis til guðlegrar vandlætingar og fleira góðs annars, því hann var þá orðinn veikur nokkuð. Líka þóknaðist það kaptugum báðum.

Svo leið þessi dagur. Og sem kvöld kom og eftir máltíð og setta vakt gengu allir menn til hvíldar, utan vaktmennirnir.

Um miðnætti nærri dreymdi mig mjög þungan draum þess háttar, að mjer þótti að eg lá í minni hvílu sem og var, og þessi maður Barthel, er eg fyr nefnt hefi, kom þangað og lyfti yfirklæði minnar hvílu af mínu andliti ofan til miðs, og þótti mjer bera mikinn kníf beittan sjer í hendi. Eg þóttist skelfast við hans reiðuglegt andlit og hans grimt og mjög hastarlegt tilgrip, og þótti mjer hann upphefja þann stóra kníf, og ljetst vilja stinga mig með honum, en eg þóttist nákvæmlega hann um vægð biðja, og segja mig stórum forundra hans umbreytt sinni við mig. En hann sagði sjer væri svo bífalað af Guði, þeim mikla konungi, mig og alt skipfólk að deyða með þeim mikla hnífi. Eg þóttist því stórlega neita að hann mig deyða ætti eður

---

[1]) Jacob Adríansen, sem á lista S. Jóh. er talinn 1. stýrimaður á ferðinni til Indlands.

guðlega skikkan þar til hafi, því Guð hefði mjer nýlega líf gefið. En mjer þótti hann segja, satt væri það, ekki ætti hann mig að deyða, hann hefði viljandi svo freistað mín. En hitt væri sannindi, að fólkið ætti hann að deyða. Eg þóttist segja hvað mjer væri einum eftir að lifa, ef alt fólk annað deytt yrði, og þóttist eg hann nákvæmlega biðja að þyrma nokkrum með mjer, sem væru mínir bestu vinir. En hann sagðist svo eiga og skyldi gjöra, og hverjir sem svo náðuðust og líf yrði gefið, það skeði fyrir mínar sakir og bænastað, en tveim megin skipsborðs væri sjer bífalað með sinn kníf að ganga. Og eg sá hann uppbyrjaði fyrst utan káhyttudyra á bakborð, og sagði: »Þjer höfðuð vondan leik í gær, nú vil eg leika í dag.« Slíkt grimt atferli ógnaði mjer svo mjög í svefni að undrum gegndi, og ei varð eg með hrópum vaktur þeirra í sængum lágu, fyr en tveir menn af vaktinni komu og fengu mig um síðir uppvakt, hverjum eg fjekk nokkra stund engu gegnt. Þeir gáfu mjer að drekka, því mjer var mjög dátt við orðið. Og nær minn kaptugi fjekk þetta að vita, jafnskjótt gekk hann til mín og kvað sjer litist þunglega á þeirra draums merking og kvíða í brjóst runninn. Menn báðu hann ei sig þar af harma eður neitt sjer til hrygðar taka, því draumum væri ei fullkomlega að trúa. Og á þeim degi fjekk eg einskis matar neytt, því þungur kjöllur var mjer að hjarta hniginn.

Um miðnætti kom Pjetur Alkmar ofan undir þiljur af sinni vakt, og gengur að minni hvílu, og spyr mig hvort eg vakandi sje. Eg sagði svo vera muni, og ei hafi eg stóra værð haft í tvær nætur. Eg spyr hann, hvernin veður sje, en hann segir vorn venjubyr þrotinn. Í öðru sinni hann kemur ofan til mín biður hann oss nú Guð náða, nú sje mótvindur kominn af norðaustri. En um sólaruppruna var komin svo mikil ógn, að varla var skiphelt og mersusegl inntekin, og skömmu síðar jók svo ógn hastarlega við, að stórsegl og fokka flugu burt sem pappír verið hefði. Var stórsegl fjórbyrgt en fokkan þríbyrgð. En af því alda var mikil úr vesturhafi áður en lausasjó jók hastarlega úr land-

norðri úr allri venjulegri gegnd, og að seglum burtdrifnum kastaði sú mikla sjóarógn því stóra skipi sem annari kistu úr einni báru í aðra, og en þó 7 málfaðma hæð væri af hennar compan eður rúndel til sjómáls samt mátti hver með hendi ausa, er þar stóð og til reyna vildi, útbyrðis sjó inn í skipið á hljeborða, nær til sjóar lagðist.

Sú fyrsta ólukka, sem skeði um morguninn, nær mersusegl skyldu inntakast, að Pjetur Alkmar fjell í sjó af rámúlanum, af einni ógnarlegri báru, er honum burt sló, *en hann hjelt sjer í brasið, sem vjer köllum aktaum*, þar til honum varð hjálpað. — Sú önnur, að seglin burtfóru sem eitt þarablað. — Sú þriðja að vorn litla bát tók útbyrðis upp yfir eins manns hvirfil, er stóð við borðstokkinn á stjórnborða í hlje, honum án skaða, sem var eitt stórt jarteikn Guðs almáttugs; þessi bátur plagaði jafnan laus að standa í þeim stóra bát. — Sú fjórða, nær vjer skyldum strika vora stórstöng með bramstöng og flagstöng þá sáu menn brest á stóra mastrinu. En báðir skipsins timburmenn voru uppi að viðleita að ofan strika mætti, hvað ei leikast mátti, af því skipið lá jafnan á stjórnborðssíðuna, og þó maður stæði við mann upp eftir reiðanum, þá fluttist ei hróp þeim til eyrna, svo þeir heyrt fengi, að þeir ofan kæmi fyr en mastrið hrykki. Og um síðir hrökk mastrið, og þessir tveir timburmenn með því út í sjó; sá eð hjet Andrjes Jónsson, norrænn, varð undir allri þyngdinni, því hann stóð í hlje, og marðist allur í sundur, en hinn annar, Cláus From, hafði staðið á vindborða, honum varð bjargað með útvörpuðum kaðli. Síðan hjuggu menn allan reiðann fyrir borð, svo alt frá laust yrði, svo skipið ei lesktist.

Hið fimta atvik ólukkunnar varð skömmu síðar, þá skipið hljóp í sjó framan brotnaði vort bogspjót við stefnið, og fokkstagurinn hrökk sundur. Þetta varð og strax höggvið laust frá skipinu. — Þá í sjötta máta, að litlum tíma liðnum, úthrökk vort fokkmastur, og með hast var frá höggvið og losað, hvað alt kostaði mikla summu peninga. Þá stóð ei annað eftir en meisanmastrið af skipsins öllum seglreið-

skap, og var þá skipið mjög hryggilegt ásýndar. Þetta skeði alt á þriðjudaginn næstan fyrir páska. Nú gekk stórsjór mikill yfir skipið svo undrum gegndi, og gengu menn til pumpuausturs, og varð ei uppausið, og voru þær alls 13 með slagpumpum. Sýndist mönnum það ljósast eftir holdlegri sjón og brest náttúrlegs meðals að ei mundi annað fyrir hendi vera en dauðinn og bráður viðskilnaður við þessa aumu veröld, hvað alt vjer settum í vald og vilja vors miskunsama og náðarfulla Guðs, hverjum vjer oss til allrar umhyggju lífs og sálar beföluðum innilega um tímanlega tíð og eilífa. Varð svo til bænar blásið og klukkum hringt, og að oss öllum samankomnum af prestinum, H[erra] Mattheo, föðurlega og ljúflegaámintir til iðrunar og angurtrega fyrir gjörðar syndir, og að hver og einn setji alla sína von uppá Guðs náðar fyrirheit í fullkomlegri trú og trausti, uppá þá dýru forþjenan og meðalgöngu vors endurlausnara og frelsara Herrans Jesú Christi. Var þá að heyra kvein og grát yfir alt. Hjer af læri sjerhver maður að athuga sig í gamni og alvöru, að varast athugalaust líferni og vita lukkan er völt, en það yfir alt fram, að minnast þess að dauðinn er vís en dauðastundin óvís. Fyrir sermón þann, sem presturinn hafði, var sunginn sá psálmur: »Hjeðan í burt með friði eg fer,« en eftir: »Nær hugraun þunga hittum vjer.« Einn maður, Adrían að nafni, flamskur, talaði til mín í miðri bæn og spurði mig að, hvort eg meinti að drukkna í sjó það harðan dauða að vera. En eg bað hann af slíkri fávitsku láta, og að hugsa meir um það eilífa en stundlega, að vera óhræddur og fela sig í Guðs vald í Jesú nafni. Einn að nafni Jóhann Christiánsson, sá eð á þeirri fyrstu reisu til Indíen hafði af þeim Portogalisku hertekinn verið, leitaðist eftir þrátt síðar og mjög eftir voru samtali, en þó við værum góðir vinir, vildi eg hvorki honum nje öðrum hans holds veikleika auglýsa, svo hann ei þar fyrir síðar fixeraðist.

Síðan eftir gjörða bæn bað minn kaptugi Christofor Boye að menn skyldu ganga til pumpna, og ennnú viðleita að bjarga lífinu, svo vjer sjálfir ei fyndumst sekir í vorum

dauða, ef vjer annars slíkt forsómuðum, en Herrann ætti frjálst á hvorn veg hann vildi vor efni tilganga láta, og játuðum oss það hollast sem hann vildi láta oss af sinni náð tilfalla, og eftir Herrans bænarformi í grasgarðinum báðum að hans náðugur vilji mætti verða og á oss auglýsast, og fólum oss svo honum á hendur til lífs og sálar.

En sem leið yfir nón þá varð allur lífatkerskaðalsstrengur Perlunnar laus, sá eð í fyrstu lá fram undir skipsstefninu á neðasta þilfari, og ei hafði á þeirri reisu ennnú brúkaður verið, sá eð var 300 faðma að lengd, en svo digur að hver faðmur hafði vættar þyngd og kostaði 5 dali. Og nær skipið reis framanvert í mót þeim mikla stórsjó því meir kastaði honum aftur í skipið og út í bæði borð svo skalf við, og vissum vjer ei nær hann þá og þá mundi skipið í sundur mola, svo vjer með óttafullu hjarta urðum án aðgjörða lengi hans aðgang og hræðilega hótan að líða. Þar með urðum vjer að áhorfa spilling og foreyðslu er hann gjörði með sinni harðbýllri umferð á allri vorri lífsbjörg, að fráteknu því litla, sem af brauðsmælki var eftir orðið eftir butilerans ofrúntleg útlát við þá Hollensku sína landsmenn af skaðsamri hans óframsýni við St. Helena eyland, og fyr var umgetið. Hann braut öll föt, pípur og ílát, þar spiltist alt vort vín, það góða og rauða spanska vín, því nær og tvær pípur fullar, sem hver þeirra tekur 10 tunnur; item tvö tveggja tunnu smjörföt; item 8 kjötföt; þar í bland spiltist tjara og lýsi, svo alt varð óætt síðar meir. Þar spiltust öll vor rísgrjón, sem til matar voru ætluð, item ertur og baunir. En vorar vatnspípur lágu undir þessu þilfari í skipsins fragtrúmi, og öll fragt skipsins, sem var pipar í blikkslegnum rúmum, og menn þurftu oftlega með rekum og járnskúflum að umvelta, sakir eldlegs hita nær vanþurkast, sem hjer taða; item lá þar og öll önnur indíanisk vara, sem vjer með oss höfðum, ásamt öllu öðru greindu aldeilis óhindrað.

Sá rjetti skipskaptugi var Sixtus Jacobsson; í þessari uppá kominni neyð varð honum ekkert til ráða, utan

lá og grjet í sinni hvílu. En minn kaptugi, Christofor Boye, hann var í allri framgöngu og ráðum fyrir öllu, svo eg sá í engum þar innan skipsborðs forstand nje atburði til nokkurs þess, sem oss gagn mætti að verða og líf af leiða, utan þessa eins manns og M[eistara] Mutten, sá eð var vor stýrimann, einn reyndur mann og gamall sjóhani, sem fyr meir hafði í hernaði og uppá fríbýterí í mörg ár verið með sín 5 sjálfseignarskip, en fyrir eitthvert eða fleiri hans frægðarstykki varð náðaður af kónginum á Englandi. Síðan leitaði kaptuginn Christofor Boye við að stilla þann mikla æðigang þessa fyrnefnda kaðalhrings, og ljet 5 menn koma 5 súlum öllum undireins innan í hringinn nær kyrrast stóð, og þær 5 stoðir ráku þeir strax undir bita, svo hann hvorki stökki, skrikan eður köstum viðkom. Alt til þess að svo gjörðist frá fyrsta var oss voði og lífsháski sýndur af umslögum þessa kaðaltogs. Og að honum svo stiltum fyrir góð ráð míns kaptuga Christofors Boga gafst meiri friður og minni ótti.

Í móti kvöldi þess sama dags komu þrjár bárur ógnarlegar, af hverra megni að stýrið frá gekk skipinu. Og hver stórsjór sýndist úr lofti yfirfalla, og ei var vært nokkrum manni á þiljum standa, svo þeir eð til reyndu rotuðust af sjómegni hverrar bylgju. Þá gafst enn meiri tvísýni til töpunar. En minn kaptugi Christofor Boye hafði því meiri hughreysti fyrir Guðs anda áfýsi, hvar með hann sig og aðra í Guði jafnlega glaðvær huggaði, og sagði nú sinn kraft og annara rjenaðan með öllu til allra mannlegra atburða, bað því alla Guð um andlegan styrk að biðja, og þó að líkamlegt skipbrot tilfjelli, ef Guð svo vildi vera láta, að vjer mættum andlega varðveitast fyrir hans náð frá trúarinnar skipbroti, svo vjer mistum ekki, heldur hreptum þá eilífu sönnu sæluhöfn með öllum rjetttrúuðum í því eilífa fyrirheitna föðurlandi, alleina fyrir þá fullkomnu afrekan vors sæla sigurvegara Jesú Christi, sú eð á tíma vorrar hörmungar af Heilagri Þrenningu samþykkilega ályktaðist manninum fyrirheitin, öllum rjetttrúuðum tilsögð og í tímans uppfyllingu kröftuglega framkvæmd og fullkomnuð.

Og að þessháttar meining framsagðri setti hann menn við pumpurnar til umskifta, en hinum öllum til hvíldar að víkja. En mig bað hann með sjer uppá þilfar að ganga ef eg gæti, og leiddi mig upp að vindustólpanum, og bað mig til Guðs biðja það innilegast eg gjöf til hlyti um svíun hörmunganna, og um líknartillit í vorri áliggjandi neyð og stórri nauðsyn. Gekk hann svo um stund litla frá mjer, og kom síðan aftur, og leiddi mig til minnar hvílu.

Meginstormur stiltist strax um kvöldið. En um nóttina beinbrotnaði einn fallegur ungur maður mjög, Jóhann Fálki að nafni, sá eð lá í 12 vikur undir bartskera hendi. Eitt undarlegt sást að morgni, að gagnsjatnaðri ógn, að hringur úr voru stærsta lífatkeri var sjálfkrafa í burt horfinn. Nú á þessum morgni drógu menn sig uppá þilfar með sorgarlegum hætti, og horfðum í ýmsar áttir eftir voru fylgdarskipi og lagsmönnum, hverjir þá voru oss úr sigti drifnir, og höfðu mist sitt stóra mastur og verið staddir í lífsneyð og mesta fári. Ei fundum vjer þá síðan. Í þessum stormi forgekk eitt hollenskt skip í Afríka upp á 500 lestir, hvers fragt að virtist 13 tunnur gulls, en það annað hollenskt skip, sem því var í meðfylgd útvörpuðu 100 tunnum pipars, og var það nær umkomið.

## XXIX. KAP.

En sem leið að miðdegi sáum vjer eitt lítið skipkorn sigla úr austsuðaustri til vor, og hugðum vjer í fyrstu vera stallbræður vora. En þetta voru Búskaier, sem fara allvíða fyrir hvali og fisk. Þessir sigldu í þrjár reisur í kringum oss og vort skip, meintu oss í herslagi verið hafa, og voguðu því eigi til vor að koma, þó vjer þá þar um þrásamlega beiddum oss í lífsneyð að hjálpa og til lands flytja fyrir þreföld verðlaun.

Þar liggur ein ey útí Spanska hafinu, sem nefnist Torney[1]), og þeir allir, sem þangað sigla, fara uppá fiskerí fyrir cabela[2]), það er fyrir þorsk og löngu, og nefnast Torneyjarfarar. Þessir og hinir er þeim síðar komu til vor, fóru þessa leið.

Nú vorum vjer komnir 90 mílur hingað fyrir Tyrkiríið og vorum djúpt fyrir Vesturhafi, og áttum hálft annað hundrað mílur til Spanía í landsuður en 500 mílur til Englands, skipið segla- og stýrislaust en vjer með öllu kostlausir. Þetta alt gaf ótta og vantraust voru fólki, og kváðu auðsjeða vora töpun, utan ef til vildi að eitthvað skip á vorn veg bæri, og þeir hinir sömu fyrir oss í land sigldu. Við svoddan menn gramdist eg í hvert sinn mjög, er sú ræða til fjell, með því þeir í meðlæti og mótlæti sýndu sig sem þeir engan Guð ættu, hvorki að óttast nje elska, og kynnu sjer því einskis af honum að vona. Þeir liðu mig vel, þó þeim þætti eg harðmæltur vera, og með því þeir fundu mig ei svo ósannsögulan vera í þessari vorri sameign og samræðu gáfu þeir tapt sitt hjegómlegt traust og ástæði, en eg hjelt á því, að sá Guð, sem oss hefði enn þá svo föðurlega líknað og við dauðanum forðað mundi sjálfur til lands leiða, þá honum sýndist. Presturinn bað mig að lýjast nje linast ekki í góðum áminningum til fólksins í sinn stað, og að aftra óguðlegu athæfi til máls og gjörða, því hann veiktist meir og meir, vort fólk ogsvo daglega eftir hendi af vatnssótt.

Oss hafði viljað það til lukku að vorar seglrár lágu eftir seglin farin á borðstokkum, og ljet kaptugi Christofor Boye timburmenn höggva úr þeim fokkmastur og seglrá.

---

[1]) Í Spánska hafinu er engin ey, er svo heitir. En það er þó auðsjeð hvað hjer er átt við. Torney er nfl. = Terre Neuve, franska nafnið á Nýfundnalandi, sem þá og nú er frægt fyrir fiskiveiðar. Jón Indíafari hefur líkl. haldið að nafnið Terre Neuve, sem danskir fjelagar hans hafa borið fram „Ternøv“ væri eitt orð, og að síðara atkvæðið væri danska orðið „Ø“, eyja; svo hefur hann snúið þessu á íslensku í Terney eða Torney.

[2]) holl. kabbeljaw, fr. cabliau, þorskur.

Vjer höfðum tvenn ný segl innanborðs. Stýri ljet hann gjöra úr 7 álna löngum bita sem þeir kalla pentelbjálka[1]), sem atkeri plagast að setjast með til rjettar, og urðu slegnir boltar úr skipinu til stýriskróka, en járnlengjur þar yfir beygðar, og alt kalt borað, og stóð það yfir í 8 daga fyr en vjer fengum því fyrir komið, en allra síst aftur inntekið, með því allur skipsreiði með trjánum var í burt. Og nær þessu stýriskorni var með stórri aflraun fyrirkomið og því litla seglkorni var útslegið og við vindi hagað, gaf Guð oss norðvestanvind í hálfan mánuð, þeir eð oss vel og frábærlega framleiddu.

Eitt kvöld, skömmu eftir skaða orðinn, litum vjer eitt mikið tyrkneskt skip í suðvestur frá oss. Sumir voru til friðs að Tyrkjar tæki oss heldur en í hungri deyja, því vjer höfðum lofun kónglega og skriflega, að leysast undan þeirra valdi, ef oss slyslega tilfjelli. Þar í móti bað eg og margir aðrir, ekki síst á þessari nóttu, að Guð vildi draga oss fyrir þeim í hlje og úr þeirra sigti, svo þeir fengi oss ekki að snerta, hvað oss veittist fyrir Guðs náð og hans mikla almættiskraft, svo að hvorki þeir nje nokkurs slags þjóð fjekk oss litið nje skaða gjört. Sje blessað nafnið vors Gúðs, miklist og víðfrægist hans dýrð, vald og dásemdir! Amen!

Á næsta degi eftir orðinn skaða voru menn sendir ofan í brauðrúmið að hugleiða hvað þar til besta væri. Þá fanst þar ekki nema nokkrir molar og þó skemdir af þeim kvikindum, sem stór mergð er af og í skipin komast þar í Indíum á nætur fljúgandi, að stærð sem óskabjörn, og cachilacar[2]) nefnast. Á kvöldin nær menn uppreiða sín rúm undir næturhvíld, þá lúra þessi kvikindi þar inni í stórri mergð, og hafa menn vendi í höndum að hýða slíkan ólýð í burt, því þeir á daginn geta ei flogið fyr en sólsett er.

---

1) Jeg veit ekki við hvað hjer er átt.

2) d. kakerlakker, holl. kakkerlak, (lat. blattidae) upprunalega úr Indíanamáli, svo nefnast einskonar ljósfælin skordýr, sem eru skaðræðisvargar.

Þar með eru völskur oft í skipum, sem mjög skemma matvæli manna. Nú sem þessi sorgarfregn fló fyrir yfirvöldin þá vildi minn kaptugi Christofor Boye að vor butiler, Pjetur Franzson hefði hengdur verið, og fleiri aðrir. En með því að kaupmenn voru flamskir sem Pjetur urðu þeir honum hjer um ei samþykkir, og var lofað straffi síðan ef lífi hjeldum.

Þeir í káhyttu höfðu eins kjör og vjer um matleysið, því alt forgekk í einu, utan á meðan þessir brauðmolar skemdir vöruðu. Gubernator hafði með sjer tvö kvikindi, sem var hjörtur og eitt indíaniskt stórt svín[1]), en svo var hann spar að lóga þessu hvorju fyrir sig og aðra, að fyrir engar umtölur manna ljet sig þar til áfýsa, en þó síns sjálfs dauða fyrir sjónum hefði. Og nær menn sáu hans miskunarleysi og harðýðgi við sig og aðra samtóku skipmenn ráð eitt kvöld sín í milli að bana þessum kvikindum á nóttu, en þó á víxl, svo ei vart við yrði, og hugðu menn að káhyttumenn mundu ekki kæft eta, og ljetu um morguninn, sem sjer sjálf í myrkri fyrirfarið hefði. Hlaut eigandinn gripanna með ekka svo búið að sekkja. En fegnir urðu yfirvöld sjálfdautt að eta, því neyðartilstand var fyrir hendi, og skiptu með oss og sjer til helminga.

Eitt kvöld síðla bauðst einn Hollenskur til að nafni Jón að bana ketti okkur til fæðslu. Eg kvaðst mundi enn við bíða nokkra stund fyr en þar til rjeðist, og dróst því undan, svo ei skeði. Vatn höfðum vjer nægilegt oss til drykkjar, og eitt fat fult ljet kokkurinn við oss alla í tje með floti, sem hann hugði skómökurum selja, er oss með brauðmolum nokkra stund treindist, eins innan káhyttu og utan.

---

[1]) Áður hefur Jón Indíafari minst á hjört sem Hess átti. Mads Rasmussen segir frá því, að á heimleiðinni komu þeir við í eynni Ascension, fóru þar á dýraveiðar og tóku með sjer hind og eitt villisvín. — Skyldi annars ekki lýsing Jóns á St. Helena eiga betur við Ascension, og hann misminna um veiðina? En vel getur verið að þeir hafi farið á veiðar á báðum stöðunum.

Og nær vjer höfðum norðvestanvindi haldið í hálfan mánuð og vorum hingað á leið vel komnir, svo vjer áttum ei yfir hundrað mílur til Englands, komu síðan, að þeim vindi þrotnum, oss stórir og mótstæðilegir vindar, suðaustan og austan þvervindar í gegn, er oss stórum í norðvesturhaf frá löndum bægðu, svo að vjer um síðir áttum ekki utan hálft annað hundrað mílur hingað til Íslands.

Þann 4. sunnudag eftir páska varð eg í káhyttu innkallaður og til ráða aðspurður, hvort mjer litist hingað að halda ef svo byðist og ef vindur svo samt stæði, því hingað var þá skemst. En eg kvað hið mesta óráð vera, þar sem vjer værum að mestu stýrislausir og segla, hingað að halda, og strax sem það bilaði, ef svo til fjelli, værum vjer í mesta lífsháska staddir. Og að þessu dæmi og mörgum öðrum framleiddum snerust þeir frá því hingað að halda, og kváðu það alt líklegt, eg tillagt hafði. Síðan að þessu svo úttöluðu og ályktuðu gekk eg burt, og sagði eg þeim oss mundi hjálp snarlega að höndum koma, fyrir efling og verkan Guðs náðar, gæsku og þolinmæði.

Skömmu síðar en þannin svo viðbar fjellu á aftur norðaustanvindar með þoku og fýlingum jafnframmi. Nú á þessum tíma jókst daglega kvein og vein innan skipsborðs meir og meir, af þeirri vatnssótt, er mönnum til vildi, af hverri menn urðu uppblásnir sem líknarbelgur, og í þessum hrakningi, sem yfir stóð því nær í 8 vikur, mistum vjer 15 þá völdustu menn af voru fólki, fyr en Guð gaf oss land í sigti, og urðu sekkjaðir og söngur yfir þeim haldinn eftir kristilegri vísu, og svo í sjó varpaðir.

Þann næsta sunnudag fyrir uppstigningardag, nærri um miðjan aftan, birtist oss land, sem var eitt eyland vestan til undir Englandi, er þeir Sjörlis[1]) nefna. Þá var mikill fögnuður innan skipsborða, og þakkargjörð Guði sögð af sjerhverjum, er með lífi og máli voru, og báru margir sig uppá þilfar af þeim sem lágu, en sumir urðu aftur til sinnar sængur að snúa. En með því nótt var fyrir hendi leitst

[1]) ɔ: Scilly-eyjarnar.

stýrimönnum og yfirsögnurum best fallið vera undir nóttina til hafs frá landi að snúa, því mikillra grynninga var að vænta. En um morguninn næstan eftir var oss land horfið, og hljóp á hart veður af norðvestri, sem varaði í 8 daga, og í því veðri mistum vjer vort litla og lasna stýriskorn, sem oss í þverviðri (en ei undan vindi) hafði stórum liðsamað, og vorum vjer þá enn í mikla þraut komnir, og ei vissum vjer, hvort vjer vorum undir Frankaríki, Englandi eður Írlandi, því þau lönd liggja hvert nálægt öðru, og hafa rauðan leir fyrir framan sig á mararbotni. Og nær sem þetta norðvestanveður slotaði sneri vindur sjer til suðausturs. Og um miðnætti vörpuðu stýrimenn sökku fyrir borð sem oftar, og fundu 28 faðma djúp, og ljetu skipmenn atker til grunns falla, og seglrá á borðstokka, og fyrir megnleysis sakir urðu seglskaut í sjó að liggja, því ekki voru utan 3 menn nú í þetta sinn á felli. Minn kaptugi Christofor Boye var nú einnin til sængur fallinn, en gengið hafði hann víst í 8 daga fyr en svo skeði á sínum knjám.

Um morguninn tíðlega heyrða eg káhyttu upplokið á efsta þilfari [og heyrði ei meir] alt þar til að mjer kom, því eg hafði mitt legurúm ljeð mínum góðum vin Andrjesi Ólafssyni. Og þetta var gubernator Henrich Hess, er þar úti stóð, og spyr mig, hvort eg muni ei geta til sín útkomið. Eg segi með hans tilstuðningi það ske megi. Og nær eg útkom, segir hann oss nú í miklum voða vera stadda, af því vjer vissum ekki hvar vjer værum. Eg segi vjer munum snart sjá land. Og leiðir hann mig yfir þvert skipið á stjórnborðssíðuna. Nú var skúraveður og sólskin á milli. Eg segi honum að mjer sýnist land vera þar sem eg hendi til banda. Hann segir nei, og býðst til að veðja um rósenóbel, eg skuli setja út dal þar í mót, og staðfestir með handsölum. Og þar skamt eftir afdreif skúrin, og blankaði sól á einn fagran múr í landi. Síðan gekk hann frá mjer og kallaði: »Land! Land!« með samanslegnum lófum, og hver maður lofaði Guð með miklum fögnuði. Og var eg svo leiddur ofan til stykkjanna, og skaut eg 15 skot, því stykkin lágu steytt fyrir. M[eistari]

Jóris, vor æðsti stýrimann, sagði það vera Írland, sem fyrir vestan England 29 mílur liggur umflotið.

Svo hafði til fallið, að einn maður hafði útgengið úr borginni er þar lá, sú eð Jóhel eður Jóchel nefndist[1]), út á eitt annes, sem til austurs horfir, óforhugsað uppá spátserun til forlystingar sjer. Sá sami fjekk oss sjeð og skotin heyrt, þó að vjer værum langt frá landi, sem var tvær vikur sjóar vel, og með mesta skyndi gekk heim í borgina og fyrir þá æðstu, og sagði sig stórt skip sjeð hafa, sem við hafið bæri og þráskjótandi væri, og sjer sýndist lítill þeirra seglreiði vera. Og að þessu svo útsögðu bífalaðist hafnarpílotum[2]) að tilreyna hverjir þessir væri. Þeir menn voru tveir, Vilhelm og Róbert[3]). Þeir báðir lögðu undireins frá landi, hvor á sinni hæringsbússu, og þreyttu kappsigling sín á milli til vors skips, því þeir hugðu sjer mikinn ábata og fjárhlut vísan er fyrst til skips næði. En görðótt veður var með skúrum, og ei sáum vjer ljósara en sig kollsigla mundu, þar til sá annar þeirra þyrmdi báðum, þó hann þess vegna ábatalaust aftur til lands hjeldi að mestu leyti. Sá eð fyrri kom gjörði stór hróp til vor, og spurðist fyrir um hagi vora og hvaðan skip væri. Vjer sögðum honum sem til hlýddi hið beinasta, og vor girnd væri, að skipi voru í hafnir hjálpað yrði. Hann bauð sig til þess að verða og heimti teikn og pant af æðsta manni vors skips þar uppá að vjer engan annan þar til tækjum en sig, og sá ábati, er sjer þar af tilfjelli, játaði sjer af Guði tilfallinn vera, sem sjer hefði unt þeirrar stórlukku oss fyrst að finna svo mjög hjálpar við þurfandi. Kapt. Sixtus Jacobsson, sá

---

[1]) ɔ: Youghal, borg á suðurströnd Írlands.

[2]) e. pilot = hafnsögumaður.

[3]) Skipinu var bjargað með mestu lífshættu af sjómanni, sem hjet John Griffin, og þótti það hið mesta frægðarverk, og ljet bæjarstjórnin í Youghal bóka það afrek í gjörðabók sína. Frá þessu og ýmsu fleira viðvíkjandi dvöl Dana í Youghal er sagt í bók, er ritað hefur Dorothea Townshend, og heitir: The Life and Letters of the Great Earl of Cork; London 1904, á bls. 111—112, og er það æfisaga „jarlsins mikla", er getur um hjer á eftir í lok 30. kap.

rjetti kaptugi Perlunnar, fjekk honum strax sinn rauðan flöjels gjaldpung með sínu gyltu silfursigneti viðfest í sáttmálspant. Og að öllu skeðnu og tilskildu á báðar síður skyldi þessi pantur af hans hendi laus og kaptuganum aftur leverast[1]).

Nú var svo statt, sem fyr hefir tjáð verið, innan vors skipsborðs, að menn nokkrir dóu daglega, en flestallir fársjúkir, svo enginn gat öðrum björg veitt, og ekki drekka tekið, svo vanmættis og vesældar kvein heyrðist yfiralt vor á meðal bæði sults og sjúkdóms vegna. Ei höfðu þessir hvorugir nokkur matvæli með sjer í sínum skipum eður skútum, utan aðrir einn þorsk ótilgjörðan, hver eð strax matreiddist og útdeildist á meðal 117 manna, og fjekk eg hans öxarþærubein með litlu þar við, hvert eg gjörvalt upptugði til agna. Hvorutveggja lið þessara pílota, þeim ásamt sjálfum, hjálpuðu vorum bát fyrir borð með tilstuðningi nokkurra vorra manna, er sig mjög þar til neyddu. Ljetu menn minn kaptein Christofor Boga í kaðli niður síga í stóli sitjandi í bát vorn, item prestinn og þá sem sjer gátu ei sjálfir lið veitt. Og sem minn kaptugi Christofor Boye var í bátinn kominn, mændi eg augum á hann, og kallaði til hans og bað hann að mín mintist, ef hann og eg lífi hjeldum, að mætti sem allra fyrst í land komast, en hann benti mjer með líndúk, og lofaði ef sjer líf til entist, að eg skyldi sem fyrst yrði til lands flytjast. Og áður en skilnaður varð vor og þeirra, er til lands fóru, kvöddumst vjer blíðlega, setjandi vora samfundi í Guðs vald og vilja[2]).

Tveir menn vorir dóu við ár til lands og tveir við borð í landi, nær ferska fæðu smökkuðu. Urðu þeir í staðn-

---

[1]) d. levere, hjer = skila.

[2]) Mads Rasmussen segir svo frá að þeir hafi lent við „Caput Irland" 1. Júní (miðvikudag fyrir hvítasunnu), og frá 4. Mars ekki sjeð annað en himin og haf; mikil veikindi, hungur og þorsti á skipinu, og ekkert eftir af matvælum nema einn poki af hrísgrjónum þegar þeir komu til Írlands. Hann segist hafa verið fluttur í land 3. Júní.

um Jóhel kærlega meðteknir, kostur margskonar og dýrlegir drykkir í tje látnir. Minn kaptugi Christofor Boye lifði tvær nætur, og andaðist síðan, og fjekk sæmdarútför og jarðan, hvers greftran að kostaði 300 dali. Sú mikla klukka af járni, hverri í 13 ár ei hafði hringt verið til þessa tíma, var brúkuð á hans greftrunardegi, honum með því fleira snillilega tilsettu og afrjettu til síðustu æru og virðingarteikns. En nær þetta svo skeði var eg eigi til lands ennþá kominn.

Á þeirri sömu nóttu eftir, sem vor bátur til lands fór frá voru skipi, varð hann af þeim æðstu í borginni Jóhel útsendur með margskonar drykk og fæðu, sem var tveir uxakroppar heilir, item 12 sauðarföll, 12 tunnur af strangbýr, item tvær tunnur af tvíbakk, og 2 tunnur af skonroggenbrauði, ein tunna smjörs, 3 ámur víns, ein sú eð var af frönsku brennivíni, önnur af spönsku víni, sú þriðja af frönsku messuvíni. Þar með fylgdu diskar nýir, hveiti, salt, edik, grásalt, ker og könnur, item jurtir og heilnæm grös, item margslags destilleruð vín og tóbak. Og með þessum vorum bát komu fáeinir af voru fólki, sem til lands fóru, ásamt þeim Engelsku, er til róðrar voru í borginni taxeraðir. Og þar fyrir utan á næsta degi eftir voru 100 menn teknir og upplesnir á staðarins ráðhúsi, þeir eð vera skyldu bæði vaktarar og verndarmenn vors skips og vöru, á meðan svo veiklega til stóð vor á meðal, og skipið ekki í hafnir kæmist, og þessir 100 menn sóru sinn hollustueið upp á lífs og sálar velferð, að þeirra öll hegðan á þeim tíma, meðan þeirra uppávaktan yfirstæði, skyldi erleg og fróm reynast og án allrar sviksamlegrar breytni. Einnin skyldu þeir, þó á landi væri, nær af voru skipi skot heyrðu til vors skips með mesta skyndi koma. Því svo hagaðist til á nefndum tíma, að einn nafnkunnugur og mjög óvinsæll ræningi og fríbýtter sem kallast dreif þar um strauma með jafnaði, og sýndi oftlega kaupförum og rjettferðugum siglingamönnum stórt afboð, ótta og ójöfnuð með ráni, morði og manndrápi. Þessi nefndist kaptuginn Compan[1]) af

[1]) Það var Claes Campane (Campaine, Compane) frægur hol-

alþýðu, en Flæmingi að ætt, og var með 7 skip í flota og bauð mörgum tráss, svo sem nýlega skeð var í þann tíma, að hann í Spanska hafinu bauð til slags og höggva við sig 32 skipum, sem kallast Spaníafarar, og hjeldu einum flota öll, og þau voru fæst sem höfðu 12 stykki. Og með þessum hætti umgekkst hann og ól sig í mörg ár. Hann átti bæði konu og börn í Hollandi, og var langvaranlega reyndur og hinn mesti í svalli og sjóferðum, og mjög iðkaður í stýrimannsskap. Þessum höfðu þær háu stater[1]), stjettir, og stjórnendur í Hollandi tilskrifað vingjarnlega, að hann frá slíku vondu athæfi skyldi aftur snúa og í fullri betran sig finna láta, og tilbuðu honum æðstu yfirráð til sjóarins í Hollandi með nokkurskonar fríheitum, og þar með fylgdi elskulegt tilskrif hans ektakvinnu, hvað alt ekki hafði að segja, því hann vissi vel hvað þessi þeirra bending og tilboð gilda mundi, þar með fann til daglega sinnar samvitsku dóms og ályktunar, hvers hann verðugur væri; vildi því ei til voga. Hans trumbslagari, Cornelis að nafni, er á hans sjálfs skipi krenkst hafði af skyrbjúg og þar fyrir á land lagðist, hann kom til vor í Jóhel í Írlandi og nærðist hjá oss, og fór síðan með Perlunni til Danmerkur. Hann frátaldi og skýrt skýrði öllu hans háttalagi innan skipsborðs og utan, að hann ljeti halda söng og bæn kvöld og morgna, og fleira skikk kristilegrar vísu, en lifði þó samt í sínum ránskap og fordæðusamlegum tilgripum.

---

lenskur víkingur, og er hans víða getið í gjörningum frá þeim tímum. Sjá Calendar of the State Papers relating to Ireland fyrir árin 1615—25, og 1625—32; London 1880—1890, registrin og staði þá, er þar eru tilgreindir, og áðurnefnt rit eftir D. Townshend, bls. 114—115.

[1]) Hjer er átt við Staaten-general, æðstu stjórnendur niðurlenska þjóðveldisins á þeim tíma.

## XXX. KAP.

Nú er þar um að tala, að nær sem nefndur kostur var út kominn í skip til vor og vjer skyldum ferskrar fæðu neyta um nóttina, þá gaf butiler sjerhverjum leyfi til að kjósa sjer hvers slags þá girnti fyrst sjer í munn að taka, matar og öls. Sumir báðu um brauð, aðrir um ost, þá nokkrir um egg, þar til matreitt yrði. Eg bað um einn öldrykk. Og sem eg hafði nær hálfmörk til mín tekið fjekk eg butiler aftur það eftir var á merkurkönnunni, og gekk eg í burt með stuðningi uppá þilfar og fram í galíón, og vafði eg kaðli mjer um hvern handlegg og settist á stólinn, og nær um heila klukkustund vissi eg ekkert til mín eða hvað um mig leið, þar til eg komst aftur til fullra vitsmuna. Þótti mjer þá sem heilu fjalli væri af mjer svift og af Guði svo sem eitt nýtt líf gefið. Og nær eg kom aftur undir þiljur til minna lagsbræðra þá hnykti butiler og fleirum við, er þeir litu mig lifandi vera, og sögðust sannlega það meint hafa, að eg í einhverjum stað mundi dauður liggja. Höfðu þá tveir aðrir á þessum tíma minnar burtdvalar andast. Og skömmu síðar en þetta svo skeði andaðist minn góður vin Eiríkur Lange og sá frómi og aldraði mann Níels Gertzson. Svo mistum vjer fólk alls frá því fyrsta er vjer af sigldum Indíum og til þess er vjer í hafnir komnir vorum á Írlandi 35 menn af voru valdasta fólki, hverra á meðal var Jacob stýrimann, Níels Gertzson, sá ypparsti assistent, með sínum stjúpsyni Andrjesi, Meistari Vilhjálmur bartskeri, og sá annar seglmakari, vor constabel, hjet Söfren Knapstop, mikill maður fyrir sjer[1]).

Svo varaði það nærri 8 daga fyr en það furustýri var búið, sem gjörðist til bráðabirgða, meðan skipinu yrði í

---

[1]) Mads Rasmussen segir að af 143 (óbreyttum) sjómönnum og undirforingjum hafi einungis 75 verið eftir, flestir veikir.

til hafna, bað hann alt fólk til bænar framfjelli, að biðja Guð um góða lukku á sínu uppbyrjuðu verki og farsæla framkvæmd. Og síðan, að bæn gjörðri, bífalaði hann að hver maður þegði og talaði ekki eitt orð meðan skip væri ekki af rifgrynningunum runnið, og stæði tveim megin borðstokka, hvað alt eftir skikkan svo tilgekk, svo að sá maður, sem við stýrið stóð, ei hindraðist og heyrði einskis orð utan leiðsögumannsins. Og nær hann inn slapp yfir það insta rif uppgaf pílot með öllu fólki innanborðs eitt mikið fagnaðarhróp og síðan allur sá mikli mannfjöldi á landi með einu hljóði og afsettu sjerhvers höfuðklæði, og að lyktum allra innanborðs auðmjúkri þakkargjörð Guði til dýrðar fyrir veittan velgjörning og lukkusamlega höfn, og var þá stykkjum af hleypt og með sama hætti varð á kastalanum á landi og í trómet blásið og á bumbuna slegið og tríumpherað, og vorum vjer á land fluttir upp á þann fagra sand, hvar mikil fólksmergð var saman komin. Og ein kostuleg eins skipherra kvinna, Vilhelms Giæers, sú eð Elísabet hjet, gekk að mjer nær hún hafði allan vorn hóp yfirlitið, tók í mína hönd og horfði á mig litla stund, og spurði mig að heiti og hvers lands maður eg væri. Og að öllu henni því tjeðu spurði hún mig að, hvort eg vildi ekki með sjer ganga til sinna heimkynna og reyna til sinnar aðhjúkrunar og dygða tilgjörða. Eg kvaðst fús og gjarnan vilja slíkt með þökkum meðtaka. Svo leiddi hún mig sjer við hönd sem ein móðir sitt barn elskulegt, svo mínir lagsmenn mændu augum eftir. Og nær eg kom í hennar hús sagði hún mig kærlega velkominn til alls þess góðs, sem hún megnaði mjer að veita, og frambar ferska fæðu fyrir mig og gott öl, og bitaði sjálf fyrir mig, og sagði síns sáluga föðurs hægri hönd hefði þvílíkt lamateikn borið, og hefði minning hans harmkvæla, nær hún hafði mig litið, sig upphvatt og áfýst mjer gott að gjöra, og bað mig að leyfa sjer einn annan að uppleita, svo við tveir nytum eins beinleika. Hún gekk út og kom með vorn butiler Pjetur Franzson, og hafði okkur svo undir sinni móðurlegri linkind og aðhjúkrun í fullar 11 vikur.

Nú er þar af að segja að kaptuginn Perlunnar, Sixtus Jacobsson, varð gramur við oss 5 er ei vildum liggja í þeim mikla solli, þar 52 menn voru í einu sjúkdómshúsi og allir vanfærir, og hótaði oss því, að vjer skyldum fyrir oss betala, og ekki einn pening vildi hann fyrir oss betala, og kvað oss sitt framboð og compagníisins elskuveiting forsmáð hafa, hvað ei voru nein sannindi, því vjer svo meintum í fyrstu að hver mundi sjer herbergi og húsbónda útvega mega, þar sjálfur fengi. En þessir voru þeir 5 menn: presturinn Herra Matthías, butiler Pjetur, Christián Jóhansson, Andrjes Ólafsson og eg Jón Ólafsson, og fjekk eg snögt að sakna míns elskulegs vinar eða sem föðurs kaptuga Christofors Boga, er i þann tíma var i Guði sofnaður. En af landsfólki þar varð oss allra virðinga leitað, svo að flestalt fólk, sem nokkuð að kvað og ei var því lengra í burtu, kom til vor og í vort skip að vitja vor af miskun og meðaumkan, að færa oss eitthvað ferskt og nytsamt til endurnæringar, margskonar slags vín og jurtir, og jafnvel mikill fjöldi eðlafólksins, karlmanna og kvenna, bæði af Enskum og Írlenskum, með stórri tukt og lítillæti, eins eðla meyjar og frúr, og báðu allir Guð lofaðan gefið hafa, er oss úr slíkum háska og hafsneyð þangað sent hefði með lífi, og báðu allir fyrir oss, að vjer aftur hressast kynnum, svo hver mætti heilbrigður sitt föðurland og sína vini vel hitta, nær þaðan hjeldum[1]). Einnin kom til vor og heimsótti oss sá virðuglegi greifi, greifinn til Cork, hver eð var sá æðsti af þeim þremur greifum, er umráð og yfirdrotnan höfðu í þann tíma yfir Írlandi vegna kóngsins af Englandi kóng Carolus Stuart[2]), og þar nefndist president, hans elskuleg frú með sínum tveimur börnum, syni og dóttur,

---

[1]) Til þakklætis fyrir það hvernig tekið var við Dönum í Youghal sendi Kristján 4. bæjarstjórninni 100 pund, og þakkaði borgarstjóri honum í brjefi á latínu og lofaði að dönskum þegnum, er þess þyrfti með, skyldi altaf hjálpað ef þeir kæmi til Youghal. Sjá áðurn. rit eftir D. Townshend, bls. 112.

[2]) Karl konungur 1. kom til ríkis 25. Mars 1625.

og skenktu þau oss skipsfólkinu þrjá jacobis[1]), sem að reiknast 12 dala gildi, til drykkjupeninga og endurkviknunar, og sjaldan bar það til, að ei væri framandi fólk hjá oss hvern dag, þeir eð gáfu oss drykkjupeninga til hvers dags veislu, er vjer daglega með stórri glaðværð og hljóðfæra ymji hjeldum.

Þessi greifi bauð helmingi fólksins til síns heimkynnis Cork með sjer til góðrar trakteringar, hvað vjer þágum með lítillæti og auðmýkt, hvar til hann setti oss að fylgja strax eftir sjer. Og nær vjer á hans slot komum vorum vjer þar heiðarlega trakteraðir með mat og drykk og öðrum mjög góðum veitingum, viðhöndlan og atlæti í 3 daga og 3 nætur, og síðan reistum vjer aftur til þess staðar, sem vort skip fyrir lá[2]). En á þessum vegi, sem vjer tilbaka reistum, var það írska landsfólk að kynda stóra elda á háum fjöllum hverja nótt, með miklum dansleik af karlmönnum og kvennmönnum í miklum mannmergðarhópum alt kring-

---

[1]) jacobus var gullpeningur, sleginn á dögum Jakobs 1. og gilti 25 shillings.

[2]) Í staðinn fyrir kaflann „Þessi greifi — fyrir lá", hefur C: „Þessi greifi, er eg meina þann sama verið hafa, er síðan var aftekinn í Englandi, bauð oss öllum upp til Cork ásamt vorum kaptuga til veislu, og hjelt sjer það stóra æru og virðingarviðurauka, að hann mætti oss fá að vera sína gesti, því ei þóttist hann þau dæmi vita eður heyrt hafa að Indíafarar hefðu þar fyr að landi eður höfnum borið. Og að fám dögum liðnum, eftir það hann var hjá oss í seinna sinni, fórum vjer með vorn stóra bát, 52 menn upp til Cork. Og að þar meðtekinni tveggja daga veislu með virðulegu atlæti og virðing trakteraðir af þeirra beggja virðulegu hjóna hendi og stórrar auðmýktar samtali, sem reiknuðu helst sjer til æru og heiðurs, að þau fengju oss þá yppursta velsemd og virðing tjeða, síðan ferðuðumst vjer heim aftur að kærum kveðjum loknum með virðulega þakklæti til vors skips." — Greifi sá, er hjer ræðir um, var Richard Boyle jarl af Cork, kallaður „jarlinn mikli" (1566—1642). Hann var Dönum mesti bjargvættur, einsog segir í áðurnefndri sögu hans og lánaði þeim meðal annars 700 pund sterling og sendi Kristján 4. honum mynd af sjer og dýrindis keðju til launa. — En það er röng tilgáta að hann hafi verið „sami er síðan var aftekinn á Englandi," því hann varð sóttdauður á Írlandi. Líkl. er átt við aftöku Straffords (1641). Það að Strafford lengi var landstjóri á Írlandi getur hafa valdið því að þeim jarlinum af Cork er blandað saman.

um eldana með mikillri lyst og gleði, hvað að er jafnlega þess írska fólks gömul landsvísa og hefir verið siðvenja af aralds tíð[1]), haldandi sjer ætíð betur gangi nær þeir þessari siðvenju uppi haldi en niðurleggi, hvað er að er svo sem þeirra trú, og enn þó Engelskir hafi þessum þeirra vana af þeim koma viljað og þeim það strengilega bannað, hafa þeir Írsku enganveginn viljað þá elda og dansleika afleggja, og er þar fyrir orðið svo sem landsvísa og vani. Þetta alt sýndi oss það írska landsfólk með vináttu á vorri heimferðarreisu til vors skips aftur. Og þá vjer þar komum sendu vor yfirvöld á skipinu þá tvo herramenn, er á heimreisunni með oss voru, heim til Danmerkur, kóngl. Majestet og compagniinu vorn skaða að ávísa með öðru, sem oss um vanhagaði að útrjetta, sem og einnin vor brjef til vorra náunga og vina að heimfæra.

## XXXI. KAP.

Þessir herramenn reistu svo snemma um sumarið frá Írlandi, og til staðarins Lundún í Englandi, hvar þeir í heilan mánuð hindruðust vegna sóttar, sem um þann tíma í þeim stað þá yfirgekk mjög mannskæð, svo að á hálfum mánuði tiltaldist að dáið hefði á hverjum einum degi 6 hundruð manns. Einnin veiktist annar þessara herramanna, hvar fyrir þeirra heimreisa hindraðist. En þó um síðir komast þeir vel heim í Kaupinhafn, og sögðu því Óstindiska compagníi um vora hrakningssömu heimreisu, og hvað annað sem oss um nauðsynjaði. En af því kóngur var þá nýlega útreistur í Þýskaland til stríðs móti keisaranum og þeim pápisku[2]), hvað nokkur ár yfirstóð og sorgarlega afgekk

[1]) dönskusletta, fra Arilds Tid: frá alda öðli (Arild = ár alda).

[2]) Kristján konungur fór í Maí 1625 suður til Holtsetalands og þaðan lengra suður á Þýskaland; hluttaka hans í þrjátíuárastríðinu er svo kunnug orðin, að hjer er ekki þörf á að orðlengja um hana.

fyrir Danmörk [og Danmörk fjekk þar af síðar stóran skaða, þá keisarans fólk innfjell í Holstein og Jótland með sverð, eld og ránskap, eyðandi og brennandi borgir og landsbýi, drepandi karlmenn, enn svívirðandi meyjar og mannskonur, svo sem stríðsfólks siðvenja er], hvar fyrir compagniins aðgjörðir undandrógust svo fljótlega oss að senda það með þurftum og um báðum, sem var helst matur og reiði, segl og siglurár, með stýri til Perlunnar, hvað alt af henni farið var, sem eg áður frásagt hefi, með öðru fleira, er vjer með þyrftum, bæði kost og annað

En um þennan tíma spurðist til Hollands þessi vor hrakningsreisa, þá tók sjer fyrir hendur Símon Jóhannsson, sem verið hafði vor æðsti kaupmaður á útreisunni, hver þá var í Hollandi búfastur, að tilbúa láta það hann spurt hafði oss um vanhaga, og kom svo sjálfur á skipi með það alt saman og vel tilbúinn kost á áliðnu sumri til Írlands, löngu fyr en þeir Dönsku með það komu frá Kaupinhafn, og bjó sjálfur með sínu fólki Perluna til að öllu, svo seglfær var áður hinir komu. Þessi Símon Jóhannsson hafði áður með Hollenskum í kringum alla veröldina siglt [og var vel forreistur maður og í mörgum löndum kunnugur].

## XXXII. KAP.

En eftir þann tíma og um, er þessir herramenn frá oss reistu, voru jafnlega hjá oss framandi fólk, bæði af Írskum og Engelskum, sem eg fyr frá sagt hefi, og einn meðal annara eitt sinn kom til vor einn mjög ríkur maður, er þeir kalla gentilmann, og var hálf aðalpersóna. Þessi ríki maður reisti til vor ofan úr landinu vel 30 mílur, yfir þrjár stórar móður, sem voru á hans vegi, með miklum kostnaði, og var hjá oss 14 eður 15 daga, bæði á skipinu og á landi, og hjelt oss daglega veislu. En eitt sinn er hann og vor rector

með öðrum fleirum drukku til samans í einu húsi á landi, upptók þessi *ríki gentilmann* sinn pung, *í hverjum* hann sagðist heiman haft hafa 60 rósenóbel í kláru gulli, auk annars gjalds í silfri, hverju öllu hann sagðist á þessari reisu útspanderað hafa, og væri nú ei eftir utan fjögur rósenóbel þar í, hver hann sagðist hafa verða til tæripenings á sinni heimreisu, því hann ætti yfir þrjár stórmóður eður vatnsföll að reisa, og kostaði sig eitt rósenóbel yfir hverja þeirra að komast, og helti svo úr pungnum í sinn lófa þessum fjórum rósenóbel, og hjelt þeim svo upp til gamans í sinni ölværð. En vor rector af keskni sló undir hans hönd sinni hönd, svo þessi öll fjögur rósenóbel hrutu úr hans hendi fram yfir borðið og niður á gólfið, hvar fyrir stór sundurþykkja þeirra á milli varð, sem von var, svo þeir í óeining með fússi struku undan borði, og ætluðu að slást, en það stiltist fyrir meðalgöngu annara, er þar nálægt voru, og þótti öllum illa gjört af rector fyrir þvílíka góðgjörð, sem þessi gentilmann hafði oss auðsýnt, bæði í örlæti, virðingu og veitingu daglega. Var síðan leitað að þessum fjórum rósenóbel, bæði undir borðinu og annarsstaðar í húsinu, sem mönnum til hugar kom, og fundust þar af ekki utan þrjú, en eitt vantaði, er aldrei fanst,

Og eftir þetta alt afstaðið reisti þessi ríki maður frá oss heimleiðis. En eftir hans burtreisu kom upp sá kvittur og ryktisrómur vor á meðal, hvort sannur verið hefir eður ei, veit eg eigi, að vor rector sjálfur mundi þessu gullstykki stolið hafa, hvað eftir því sem frá leið meir og meir uppörfaðist þessi rómur, svo það var almennilega haldið hann því með stelandi hendi náð hefði. Leið svo nokkur tími meðan Símon Jóhansson með sínu fólki með oss var að tilbúa Perluna að reiða og öðru, því hana og oss um vanhagaði, og vjer vorum allir að mestu á skip komnir. En sökum útgrynnis varð ei skipinu af höfninni útlagt og varð þess stærsta straums og stórflæða að bíða. Og eitt sinn um þetta leyti meðan vjer þar svo lengi biðum, var á meðal fólksins talað um þennan ryktisróm, sem ljek á rectori um töku þessa gullstykkis, sem áður er um-

getið. Svaraði Hans kokk, hvers eg hefi áður getið, með því kalt var einnin milli hans og rectors, og sagðist snart skyldi af koma þessu vonda rykti. Og einn morgun, sem rector hvíldi í sinni sæng í káhyttu, hljóp þessi vondi maður Hans kokk þar inn með stóran svartskeftan kníf í hendinni, og stakk honum á hol ofan með viðbeini á rectori, svo hann lá þar eftir dauður í sænginni, og vasaði svo [þessi vondi maður] út úr káhyttunni með illu geði og ógnarlegu yfirbragði fram á efsta þilfar á skipinu með mikilli bræði og ilsku, með þennan blóðugan kníf í hendinni, og gekk aftur og fram með rifsingum, otandi honum að sjerhverjum af fólkinu, sem fyrir honum varð og uppi var, með mörgum ógnarlegum heitingarorðum. En þó 6 eður 7 menn á hann í senn hlypi þá hristi hann þá alla af sjer sem ekkert væri, þar til hann kom að mjer, þar sem eg stóð, og greip annari hendi framan í minn treyjubarm, en annari hendi otaði að mjer þessum blóðuga svartskefta kníf, svo þá var ei annað að sjá, en hann mundi mig með honum í gegnum stinga til dauðs. Hafði eg þá í frammi við hann margar góðar fortölur, eftir mínu fáfræði og viti, hverjum hann lítið gegndi, heldur mjer með sömu ógnan jafnlega benti, þar til hann um síðir fyrir guðlega hjálp frá mjer hvarf, æðandi aftur og fram um þilfarið með miklum æðisgangi, svo ógn var að sjá, með þennan kníf, segjandi að hann gæti oss alla með honum til heljar fært ef vildi, en vjer með góðum orðum og fagurmælum báðum hann til friðs að vera, lofandi honum vorum góðum tillögum við yfirvöldin, að hann ei í harðasta máta fyrir þetta morð straffast skyldi, heldur eftir linkind, ef hann vildi sig til friðs gefa, hvar við hann nokkuð sefaðist, og ljet sig að nokkru leyti viljugur til fanga taka af oss með mannfjölda, og var hann þá settur í stokk á fótum en járn á höndum fram á skipinu við vinduásinn. Og eftir lítinn tíma eftir það vjer vorum frá honum gengnir aftur á skipið, að fáeinum viðstöddum, er hjá honum til vöktunar eftir voru, sagði hann til þeirra, að hann vildi þeim sýna hvern kraft eður afl að hefðu þau fjötur sjer að halda,

er þeir sig í sett hefðu, og í svip þeim ásjáendum af sjer hristi, og gekk svo laus og liðugur aftur og fram um skipið með ógóðu geði og yfirbragði, segjandi, ef vjer sjer í nokkru ýfðum, þá skyldi hann oss alla, sem á skipinu voru, til heljar færa. Síðan fór eg nokkur góð orð fyrir honum að tala, við hver hann nokkuð sefaðist, og sagði ef vjer og yfirvöldin vildu sjer því trúlega lofa, að hann skyldi ei í gálgann komast eftir írsku lögmáli, heldur með sverði höggvast fyrir sín afbrot, þá vildi hann sig til friðs gefa, hverju allir honum lofuðu. Og var þá af hans orðum að merkja, að hann mundi contract við djöfulinn gjört hafa uppá 21 ár, og væri þetta hið tuttugasta, hvar eftir hann veik sjer að skipsins borðstokk og greip blað eður spjald úr barmi sjer, undan sínum handkrík og kastaði því langt út í sjó, og sagði nú hefði djöfulinn ekki neitt framar með sig, þar ekki væri úti þeirra tiltekinn 21 árs tími, og væri hann því vel til friðs að deyja fyrir sín illverk. Þar eftir var hann aftur í járn settur á skipinu, og síðan til lands fluttur, og þar í múrað fangelsi innsettur með vakt fyrir utan, og nokkrum dögum þar eftir var hann til gálgans dauða dæmdur eftir írsku lögmáli, og síðan með sterkri vakt til aftökustaðarins útleiddur. Og þá hann sá gálgann og vissi sig hengja eiga sagði hann sig svikinn vera af sínum landsmönnum og yfirvöldunum, er honum lofað hefðu að hann skyldi með sverði rjettast, og sagði framvegis, að ef hann þessi þeirra svik fyr vitað hefði, skyldi hann sig af þeim ei svo auðveldlega til fanga látið tekið hafa. Og eftir þessa hans umræðu hröðuðu þeir Írsku hans hengingu, og enti hann svo út sínar slæmar lífsstundir hjer í heimi, og dó svo iðrunarlaust. Þetta skeði á liðnu sumri, eftir að vjer þann 6. eður 7. sunnudag eftir páska komustum inn í þá írsku höfn, Anno 1625. Framar bar þar ei neitt sjerlegt til, það eg minnist, um þennan tíma.

Og þá Perlan var að öllu tilbúin og endurbætt af Símoni Jóhannssyni og hans fólki með voru, vildi hann þaðan í burtu halda og með stórflæði Perluna út af höfn-

inni vinda með miklum tilbúningi, hvað þeim með engu móti tókst, og urðu svo búnir þar kyrrir að vera.

Og um þetta leyti eða skömmu þar eftir kom skip frá Kaupinhafn, sem það Óstindíska compagníi þar hafði móti oss sent, eftir vorum boðskap, með kost og hvað annað, sem vjer til Perlunnar aðbóta með þurftum, hvers skips formaður að var sá skipherra, er með oss á vorri reisu með Christofor sáluga Boga til Indíen skipherra verið hafði[1]). Og þá þetta skip til Írlands kom var Perlan að öllu tilbúin og lá á höfninni seglferðug hefði hún sökum djúps útflotið getað, hverju þau tvö sandrif, er fyrir hafnarmynninu lágu, böguðu, hverra eg áður getið hefi. Og af því að þessi þeirra bið og þarvera með Perlunni svo langvaranlega framfór, þar með var þar og orðin mergð af skipsfólki, er Perlunni vildi heim fylgja, því Símon Jóhannsson vildi láta sitt fólk þar á vera og með sjer til Kaupinhafnar fara, úr því hann hafði Perluna endurbætt, og vildi sínum kostnaði hjá því Óstindíska compagníi aftur ná, og af því kaptuganum, Sixtus Jacobssyni, þótti fólksfjöldinn margur og mjög á kostinn ganga, vildi hann að það fólk, sem frá Indíum fyrir fartuga á Perlunni heimleiðis fóru, og voru ekki hennar eiginlegt skipsfólk, skyldi frá víkja og sjer sjálft far heimleiðis útvega, meðal hverra eg var einn, og af því oss mjög langaði heim í Kaupinhafn, þess og annars, að vjer vissum ei hvað lengi Perlan mundi þar liggjandi verða, úr því ekki út komst um stærstu flæði; þess þriðja, að Sixtus Jacobsson vildi oss, sem á landi í vorum veikleika sjúkir legið höfðum, af hverjum 5 í Írlandi sofnuðu, auk þeirra, er áður þar komum dáið höfðu, enga kostpeninga af compagníisins gjaldi útgefa, en vor

---

[1]) Ef það er rjett að á skrá Sím. Jóhansens standi öll skipshöfnin á „Christianshavn“, þá er ekki hægt að segja við hvern er átt, því þar er enginn sjerstakur skipherra tilgreindur, en Chr. Boye nefndur „kapteinn og skipherra“, en ef svo er sem mig grunar (sbr. bls. 208, neðanmálsgrein), að ýmsa vanti á skrána, er hjer átt við Pjetur Andrjesson, sem Jón Indíaf. getur um áður (bls. 209).

pungur var að mestu tómur orðinn; í fimta máta þótti oss varla gott að umgangast á meðal svo mikils fólksfjölda, sem á Perlunni var orðinn margslags trúarbragða, sem voru pápistar, Calvínistar, endurskírarar, Jesúítar[1]) og aðrir, ljetum vjer kaptugann þessu við oss ráða, svo að vjer 53 menn, sem fartugar á Perlunni á heimreisunni verið höfðum, leigðum oss skip í Írlandi um haustið 1625, hvert oss flutti norðarlega á Hálogaland í Noregi. Og þetta var skömmu fyrir veturnætur. Ferðuðumst vjer svo þaðan ýmist á skipum eður landveg yfir Noreg og Jótland, og komustum svo heim í Kaupinhafn eftir mæðusamlega reisu þá hálfur mánuður eður 3 vikur voru af vetri, og höfðum alt vort eftir skilið á Perlunni, utan það lítið, sem sjerhver gat með sjer haft til tæripenings, hvað alt að mestu útsóað var þá heim komum, en alt hvað vjer áttum annað skildum vjer eftir á Perlunni, því vjer gátum það ei með oss haft; þar með meintum vjer og einnin að Perlan mundi fljótlega eftir oss koma, hvað þó ei varð. En það eg átti var alt undir geymslu og forvörun míns góða kaptuga Christofors sáluga Boga, af því að þá eg skaðann fjekk í Indíen var það alt undir votta virt og uppskrifað eftir indíanskum taxta, og þá strax í káhyttu borið, hvað mjer aftur afgreiðast átti ef Guð mig aftur viðrjetti, eður og mínum erfingjum, ef eg andaðist, hvað og sannarlega mundi orðið hafa, hefði Guð þann sáluga mann tilent, því hann var frómur og ráðvandur og vildi ekkert rangfengið með órjetti eignast. En upphæð þessa var virt til 600 ríkisdala með kistu og öllu því í henni var. En sú indíanska vara er seld þá heim í Kaupinhafn kemur tíu sinnum meira en hún í Indíen keypt er, svo að það, sem fyrir einn ríkisdal í Indíen keypt er, selst í Kaupinhafn fyrir 10 ríkisdali.

Nú þá vjer svo í Kaupinhafn heim komum var kóngur vor kominn í Þýskaland til stríðs þess, er hann hjelt vegna

---

[1]) Jón Indíafari virðist hafa haldið að Jesúítar væri sjerstakur trúarflokkur; líklega er það misminni hjá honum að nokkrir af þeirri reglu hafi verið á skipinu, nema þá ef til vill sem farþegar.

þeirra Lúthersku móti keisaranum[1]), en hans elsti son prins Christián fimti með ríkisins ráði stjórnaði ríkinu í hans fráveru, af hverjum eg um veturinn með auðmjúkri suplicatiu[2]) í undirgefnasta máta óskaði Hans Majestats allranáðugustu úrræða og álits, sem og góðrar aðstoðar, að mjer minn handaskaði af því Óstindiska compagnii betalast mætti, eftir artíkulanna innihaldi, þar eg aldeilís ófær orðinn var mjer atvinnu með höndunum að vinna. Í sama máta óskaði eg að Hans Maj:t vildi mig auman og fátækán miskunsamlega álíta, að eg mætti eitthvað víst uppheldi mjer til atvinnu öðlast í mínu föðurlandi af kóngl. Maj:ts jörðum eður inntekt hjer á Íslandi, eftir því eg hafði svo lengi í kóngl. Maj:ts þjónustu verið og þjónað heil 10 ár, hverju sá góði herra vel og líkindalega gegndi, og mjer meðbýtti sínu missive til höfuðsmannsins yfir Íslandi, að hann hið fljótasta hjer um sjá skyldi, hvert brjef svo hljóðaði sem eftir fylgir:[3])

Christian den Femte med Guds Naade Danmarkis, Norgis, Vendis och Gottis Vtuallde prins. Vdij kongl. Maytt.

---

[1]) ɔ: þrjátíuárastríðið.

[2]) ɔ: umsókn.

[3]) Brjefið er prentað eftir afskriftinni í Norske Tegnelser í Ríkisskjalasafninu, nema formáli þess, sem tekinn er eftir afskr. í B, þó er nokkrum orðum í honum breytt samkv. Ögursbók. Sbr. orðamuninn. Í B er brjefið inn í textanum lagt út á íslensku þannig: Christián sá fimti, með Guðs náð Danmerkur, Noregs, Vendis og Gottis útvalinn prins, útí kóngl. Majts, vors elsku kæra herra föðurs og náðugasta konungs fráveru til stjórnunarinnar skikkaður. — Vor gunst til forna. Vitið að eftir sem nærverandi Jón Ólafsson sig fyrir oss í undirdánugasta máta klagar, hvernin hann í langan tíma skal hafa verið í hæstnefndrar kóngl. Majest. þjónustu, og síðan með verið á þeirri óstindisku reisu, hvar hann skal vera orðinn limlestur, svo hann sitt uppheldi með nokkru erfiði [ekki] skal kunna að öðlast sjer inn að vinna, og hann þar fyrir um nokkra jörð þar á Íslandi til síns uppheldis fyrir vissa afgift girnist og um biður, — þá biðjum vjer yður og náðugast girnumst, að þjer eftir sömu hans umbeiðni honum tilhjálpandi sjeuð, að hann nokkra jörð þar á fyrnefndu Íslandi fyrir árlega afgift kunni að fá og öðlast. Þar með skeður vor vilji. Befalandi yður Guði. Skrifað á Koldinghús þann 23. Martii Anno 1626.

Undir vort signet.

Christian.

vores elskelige Herre faders og naadigste Konnings frauerelse til Regeringenn forordnet.

Wor gunst til fornne. Wider att efftersom Neruerende Jon Olufssen Islender sig for Os vnderdanigst beklager huorledes hand ehn thid lang schall haffue veritt wdi Hans Kong. Mayttz. thieniste och siden medveritt paa den ostindiske reise, huor hand schall vere bleffuett lemmelest, saa hand sitt liffs ophold mett Naagen arbeide icke schal kunde forhuerue, och hand derfor nogen Jord der paa Island thil sin vnderholdning paa visse affgifft begierer, Da bede vi Eder och Naadigst begiere, att i effter samme hans begiering hannem beførderlig ehre att hand Naagen Jord derpaa forsch. Iszland for aarlig affgifft kand bekomme. Koldinghuss den 23. Martij Anno 1626.

Under vort zignet.

Christian.

Framar beiddist eg og með auðmjúkri suplicatiu óskaði af þeim velvísu Óstindíanisku compagníis reiðurum að vildu mjer út af sinni gunst og meðaumkan nokkru til uppheldis meðbýta fyrir þann skaða og fingra missir, sem eg á þessari reisu í þeirra þjónustu liðið og hrept hefði, eftir artikulanna tilskikkan og innihaldi, hverju sumir af þeim að nokkru leyti vel gegndu, en aðrir þar á mót mögluðu, svo sundurlyndi þeirra á milli þar af varð, og kom ei saman, hvort þessi minn skaði skyldi reiknast og haldast svo sem eg hægri eður vinstri hönd mist hefði, eður skyldi hann minni metast[1]). Kom þeim ei saman, hvar fyrir þeir lögðu þetta efni undir hans kóngl. Majest. úrskurð og ályktan, nær hans kóngl. Majest. heim í Kaupinhafn kæmi aftur úr

[1]) Í „artíkulunum“ var meðal annars lofað að konungur skyldi láta ala önn fyrir þeim sem biði limatjón í herþjónustu. Líkt var og um þá er voru á skipum Austurindíafjelagsins, og er til taxti yfir það hvað mikið hvert mein var metið. Fyrir hægri handlegg voru t. d. borguð 800 Brabantsgyllini, 500 fyrir vinstri handlegg; fyrir hægri hönd 600, vinstri 400, báðar hendur 1000 o. s. frv. Sjá ath. RC. við þennan stað í dönsku þýð. þar sem enn nánar er skýrt frá þessu.

Þýskalandi frá því stríði, er hann þar móti keisaranum og þeim þýsku pápistum hjelt vegna þeirra lúthersku sambandsherra [hverra skutsherra og stríðsgenerall hann var], hvert stríð þennan vetur aumlega og hryggilega afgekk, svo Hans Majestat af Danmörk misti alt sitt og þeirra Lúthersku fólk þennan vetur í þessu stríði fyrir Leipzig[1]) og komst ei undan utan við þriðja mann með naumlegleikum; svo og tóku þeir Þýsku með Monsur Tille[2]), sem var keisarans generall, allar þess danska kóngs herbúðir með öllu því þar inni var að herfangi, og fjellu síðan strax eftir með miklu stríðsfólki inn í vors kóngs lönd og ríki Skáney og Jótland tveimur eður þremur nóttum eftir það kóngurinn var heim kominn, öllum óvörum og óviðbúnum, brendu og brældu borgir og kastala, stálu og rændu öllu því þeir náð gátu, og illa við fólkið höndluðu, bæði karlmenn og kvennmenn, er þeir svívirtu hvar yfirhönd höfðu, svo sem relationir, er þar um á prent útgengu þann tíma, nógsamlega útvísa.

Og eftir því svo eymdarlega ástóðst í ríkinu og nógu var að gegna hindraðist mitt málefni um minn skaða fyrir kónglega Majest. fram að bera, svo eg fjekk þar enga bót á. Og þá eg sá að þetta mjer ei hrökkva mundi, ráðlögðu margir mínir góðir vinir mjer, að eg skyldi einhverjum góðum manni í Kaupinhafn mína fullmakt gefa inn að heimta og meðtaka það, sem mjer af compagniinu fyrir minn skaða gjörðist af kóngl. Majest. með því eg það sumar með Íslands kaupförum vildi til þessa míns fátæka föðurlands aftur hverfa. Því síðan eg skaðann fjekk var allur minn hugur úr Danmörk horfinn, og sögðu þessir mínir góðu ráðgjafar mjer, að vissulega mundi Hans Majest. þessu efni vel gegna, eftir artíkulanna innihaldi, nær betur tómstund hefði og minna um að þenkja, hvar fyrir eg gaf mínum góðum vin og velgjörðamanni Söfren skraddara mína fullmakt, svoleiðis sem eftirfylgir:[3])

---

[1]) eins og kunnugt er var það ekki við Leipzig, en við Lutter am Barenberg, 27. Ág. 1626.

[2]) ɔ: Tilly, hinn frægi hershöfðingi keisarans.

[3]) Brjefið er hjer prentað stafrjett eftir B, en einstöku leshættir

Kiendes Jeg Jon Olafsson Barnnfød vd I Jsland och met dette her obne bref vitterligt giør for alle, at Jeg annamer och Tiltager Erlig og velagt Danemand Sofrin Villatsson borger og Induoner her vdy Kiobennhafnn, vdy Mitt sted og giffuer visseligenn fullmagt at annname og Opbære paa Myne vegnne vdy myn frauerelse, lyge som Jeg self personeligen til stede var, huis som mig Tilkommer, effter Kongl. May. Artcyuler lyudelse, for den store skade som Jeg hafuer bekommet vdy Compagnyens Tieneste paa den Ostindyaniske Reyse, som er 3 finger paa den høgre haand, dy foriste, Item half domelfynger paa den venstre, so vel som den Neste fynger som er blefuenn Krumm, denn lille fynger paa den samme haand er blefuenn styf, In Summa, at Jeg ikke er megtig at knappe myne Kleder, meget mindre at fortiene mitt brod, som gud og dy Compagnyens herrer selfuer er vitterligt og dy hafuer set med deris Øyenn. Her hos er myn ydmyg bon at I gode herrer lader denne myn fulldmegtig fornefnte Sofren Villatsson oppbere og bekomme effter Artyculernis liudelse so mange penge som I ville mig her vdy befordre effter eders Christelige Gemitt,

---

þó teknir úr Ögursbók, sjá orðamuninn. Í B er skjalið í textanum þýtt á íslensku þannig (viðaukar úr C í svigum):

Kennist eg Jón Ólafsson, barnfæddur í Íslandi, og með þessu opnu brjefi vitanlegt gjöri fyrir öllum, að eg meðtek og tiltek erlegan og velaktaðan dánumann Söfrin Villatsson, borgara og innbyggjara hjer í Kaupinhafn í minn stað, og gef vissulega fullmakt að meðtaka og uppbera minna vegna í minni fráveru, svo sem eg sjálfur persónulega til staðar væri, hvað sem mjer tilkemur eftir kóngl. Majest. artíkulum [og] þeirra hljóðan, fyrir þann stóra skaða eg hefi fengið í compagníins þjónustu í þeirri óstindísku reisu, sem eru þrír fingur á hægri hendi, den foristi [sic!], item hálfur þumalfingur[inn] á þeirri vinstri hendi, svo vel sem sá næsti fingur, sem er orðinn boginn, [einnin] sá litli fingur á þeirri sömu hönd er orðinn stífur — in summa að eg er ekki mektugur að hneppa mínum fötum að mjer, miklu miður að forþjena mjer brauð, sem Guð og þeim compagníins herrum sjálfum er vitanlegt, og þeir hafa sjeð með þeirra augum. Hjer með er mín auðmjúk bón, að þjer góðu herrar látið þennan minn fullmektugan, fyrnefndan Söfrin [skraddara] Villatsson uppbera og öðlast eftir artíkulanna hljóðan svo marga peninga, sem þjer viljið mjer hjer fyrir unna, eftir yðar kristilegu hjartalagi og

som I Kand andsvare for gud og Christeleg Øfrighed. Til beuising og vriggelig bekrefftelse at dette her vdy sandhed er setter eg mitt Nafnn met egenn haand her vnder. Achtum Kiobenhafnn den 10. May A⁰ 1626

Jon Olafsson Ostindyfar Islender.

Og þótt eg þetta brjef útgefið hefði velnefndum Söfren skraddara fjekk hvorki eg nje hann þar neitt af, þótt hann þar um oftlega við reiðarana ámálgaði, og varð eg svo búinn minn skaða og örkumsl að líða. Þar á ofan kom ei Perlan frá Írlandi heim til Kaupinhafn, sem á var það góss er eg og aðrir þar áttum og frá Indíen með oss haft höfðum, og þar fyrir vor laun og peninga keypt höfðum, hvert vjer urðum eftir að skilja þá frá skipinu í Írlandi heimleiðis fórum í Noreg, sem eg áður getið hefi. Og ei kom það skip þann vetur eður vor heim í Kaupinhafn meðan eg þar dvaldist, hvað mjer ogsvo stórt angur ofan á hitt jók, að eg varð þessa alls að missa, hvað sig að til greindra verðaura hljóp eftir riktugri registran, þá það í vöktun og umsjá míns kaptuga Christofors sáluga Boga kom, þá eg skaðann fjekk, sem eg áður umgetið hefi, hvað alt eg bað Söfren skraddara minna vegna að meðtaka með minni fullmakt þar til, og mjer svo til Íslands senda, ef þetta skip ei kæmi áður en eg burt færi, hvað hann mundi trúlega gjört hafa ef það öðlast hefði, því hann var trúr og ráðvandur maður, sem hann síðar mjer hingað til Íslands tilskrifaði, að þar ekkert af fengið eður meðtekið hefði, því kaptuginn Sixtus Jacobsson hefði strax að skipinu lossuðu heimreist í Holland, að afgreiddum fjemunum Christofors sál. Boga hans erfingjum, undir hvers varðveitslu mínir fjemunir voru. En hvort Sixtus hefir þá þar með afgreitt eður í Holland með sjer flutt þóttist

---

meðaumkan, sem þjer kunnið andsvara fyrir Guði og kristilegu yfirvaldi. — Til bevísingar og óhræranlegri stöðugleika og staðfestu að þetta svo í sannleika sje, set eg mitt nafn með eigin hendi hjer fyrir neðan. Actum Kaupinhafn, þann 10. Maí Anno 1626.

Jón Ólafsson Óstindífar Eh.

hann ei vita, og mista eg þetta svo alt, að eg varð snauður frá að ganga. En þó þar uppá síðar sigla vildi vissa eg ei hvar þetta mitt góss mundi niður komið vera, eður hvert sækja ætti, og kynni meiri skaða og kostnað af bíða þó þess freistað hefði, hvar fyrir eg ljet það hjá líða, og leitaði þar ei framar eftir.

## XXXIII. KAP.

Nú að afliðnu vori og sumri uppbyrjuðu bjuggu þeir íslensku kaupmenn sín skip hingað til Íslands. Þá tók eg mjer far á því skipi, sem Skutulsfjarðareyrar höfn uppsigla átti. Kvaddi eg mína góða vini, stallbræður og kunningja í Kaupinhafn, og stje svo í Jesú nafni á skip. Og eftir nokkrar vikur þaðan frá liðnar komum vjer með heilu og höldnu á Skutulsfjörð.

---



HJER BYRJAST

# ÞRIÐJI PARTUR

LÍFSHISTORÍU OG ÆFISÖGU
ÞESS FRÓMA OG VÍTT ÚTREISTA
OG FORFRAMAÐA, FORSÓKTA MANNS,

## JÓNS ÓLAFSSONAR ÓSTINDÍFAR,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA HIÐ SJERLEGASTA,
SEM VIDBORIÐ HAFÐI ÞANN VETUR, SEM HANN VAR
Í KAUPINHAFN EFTIR SÍNA INDÍANISKU REISU, SEM OG
EINNIN ÞAÐ SJERLEGASTA, SEM VIÐBORIÐ HEFIR
SÍÐAN HANN KOM AFTUR TIL ÍSLANDS. SAMAN-
SKRIFAÐ EFTIR FYRIRSÖGN HANS
SONAR **ÓLAFS JÓNSSONAR**, EFTIR
ÞVÍ SEM HANN FREKAST MINN-
AST KANN EFTIR SÍNS
SÁLUGA FÖÐURS
FRÁSÖGN.



### I. KAP.

Þann vetur, sem Jón sálugi Ólafsson þá 3 vikur voru af vetri kom hann heim í Kaupinhafn, og dvaldist þar þann vetur til lossamentis á nætur hjá þeirri frómu kvinnu Christínu Söfrinsdóttir, eftirlátinni ekkju hans stallbróðurs Jóns Halldórssonar, íslensks manns, sem var einn af kóngl. Majtt. byssuskyttum samtíða Jóni Ólafssyni, en til matar og drykkjar á daginn hjá ríkisins aðmírál, þá var honum þann vetur boðið að verða þeirra barna skólameistari er kgl. Majtt. hafði til forsorgunar og uppfræðis taka látið, hvar fyrir hann skyldi hafa 400 sljetta dali í kaup, hvað hann ekki vildi. Einnin skrifuðu honum til

frændur hans úr Hamborg Hannes og Baltazar[1]) og buðu honum til sín, til erlegs uppheldis um hans lífstíð, hverju hann ogsvo hafnaði. Í þriðja máta bauðst honum og erlegt giftumál við fjáða ekkju, sem átti tvo unga stúdenta fyrir syni, hvað hann og ei heldur girntist, heldur sagði þessu sjerhverju nei, af því hann sjer stöðuglega fyrirsett hafði, eftir því heiti, sem hann áður í sínum raunum, þá skaðann fjekk, heitið hafði, að hann skyldi til síns fósturlands aftur vitja, ef Guð gæfi sjer líf og heilsu, og þar beinin bera ef Herrann svo vildi vera láta, hvert sitt heit hann vildi enganveginn brigða eður bregðast láta, hvar fyrir hann sjer stöðuglega fyrirsetti til Íslands að næstkomandi vori fullkomlega að reisa og þar framvegis að dveljast, ef Herrann svo vildi vera láta.

Um þennan vetur var kóngur vor Christián 4. ei heima í Danmerkur ríki, heldur í Þýskalandi í því þriggja ára stríði, sem hann færði mót keisaranum, í hverju hann var generall vegna þeirra Lúthersku, sem fyr sagt verið hefir, hvert stríð með ósigri afgekk og miklu blóðbaði og mannfalli á þeim Lúthersku, og síðan með eldi, bruna og eyðileggingu á kóngsins löndum og ríkjum, Jutlandi og Holsten þá keisarans fólk undir general Tyla þar innfjell, um hvern þriggja ára tíma prins Christián 5. kóngsins sonur var til ríkisins stjórnunar settur með ríkisins ráði umsjón og skikkun að hafa. Og eftir því að minn ásetningur fullkomlegur var til Íslands um vorið fullkomlega að sigla og þar staðnæmast bað eg hans furstalega náð mig til einhverrar góðrar bestillingar hjer í landi að stoða mjer til uppheldis og forsorgunar um mína lífstíð fyrir mín örkumsl og trúlega kóngl. Majtt. þjónustu, þar það Óstindíaniska

---

[1]) Að þeir Hannes og Baltazar (rjettara Melchior, sbr. bls. 6—7), synir Pjeturs Schytt, en langömmubræður Jóns Indíafara hafi verið þá á lífi er harðla ólíklegt, en þó eigi allsendis ómögulegt, og líka er afar-ósennilegt að þeir hafi vitað nokkuð um Jón; ekki getur Jón þess neinstaðar sjálfur í æfisögu sinni að hann hafi staðið í neinu sambandi við ættingja sína á Þýskalandi. Líklegast er þetta komið til af misskilningi Ólafs Jónssonar á einhverju, sem hann hefur heyrt föður sinn segja frá.

compagní vildi mjer engan sann sjá fyrir þann handarskaða, sem eg í þeirra þjónustu á þeirri reisu fjekk, hvarum þó artíkularnir skýrlega útskýra. Þá eftir þessari minni ósk skrifaði hans furstaleg náð höfuðsmanni yfir Íslandi Holgeir Rosenkranz eitt missive til, þess innihalds, að hans herradæmi skyldi hjálpa mjer til nokkurs góðs uppheldis eður bestillingar hjer í landi, hvert hans náðar missive síðar hjer á landi í lögrjettu á Öxarárþingi upplesið var, hljóðandi sem hjer fyr í bókinni stendur.

Leið svo af þessi vetur og þar til um vorið, að Íslandsför sig hingað til Íslands siglingar bjuggu, sem og einnin höfuðsmaðurinn Holgeir Rosenkranz, hvern sá háloflegi herra, prins Christián fimti, bað mig að sjer að taka til hingaðflutnings og annarar umönnunar, hvað hann og trúlega gerði, með hverjum hann kom hingað til landsins út í Seilunni hjá Bessastöðum ásamt herra Þorláki Skúlasyni[1]) og öðrum einum Íslenskum.

En allan þennan vetur og fram á vor, þar til vjer frá Kaupinhafn útlögðum, kom ekki Perlan frá Írlandi, á hverju skipi mitt góss var, sem eg fyr frá sagt hefi, undir forvörun aðmírálsins Sixts Jacobssonar, hver það að sjer tekið hafði með öðru eftirlátnu góssi sáluga Christofor Boga, sem hann átti reikningsskap af að standa hans erfingjum, hverjir að voru í Saxen í Þýskalandi, hvar fyrir Sixt Jacobsson þóttist ei mínu góssi frá Christofors Boga góssi sleppa mega við minn meðtöku og umboðsmann Söfren skraddara, þar beggja þeirra Christofors Boga góss saman stóð, og þessvegna náði hvorki hann eður eg mínu góssi, og hlaut eg þar svo snauður frá að ganga. En eftir það að Íslandsför höfðu fyrir einum degi frá Helsingeyri úr Sundinu útlagt kom Perlan frá Írlandi inn í Sundið með sína ríku hlaðning.

Kom höfuðsmannsskipið með öllum þeim þar á voru

---

[1]) Hólabiskup 1628—1656; hann var einsog kunnugt er dóttursonur Guðbrandar biskups, og þeir Jón Indíafari voru því skyldir. Sjá ættartöluna á bls. 7 neðanmáls.

til Bessastaða fyrir Jónsmessu, hvar eg og var, þar til eg með höfuðsmanninum og hans fylgjurum uppá alþing fórum á tilsettum tíma, og fann eg þar marga Íslands höfðingja, sem að voru Gísli Hákonarson[1]) og Halldór Ólafsson lögmenn, Ari Magnússon, Björn og Þorleifur Magnússynir,[2]) og margir aðrir fleiri, sem mjer buðu til veturvistar til sín, hvað eg þó ekki þáði, utan alleinasta hjá þeim virðuglega höfðingsmanni Birni Magnússyni í Bæ á Rauðasandi um veturinn eftir er eg um sumarið fyrst út kom, hvar um framar að skrifa fyrst frá vikið er.

En vík þar til að þessi höfuðsmaður Holgeir Rosenkranz hafði með sjer til gamans hingað til lands eina apynju og affa, hvar á Íslenskum, sem það ei fyr sjeð höfðu, þótti starsýnt á að horfa og sögðu Danskir Íslenskum, að þetta væri óstindíaniskt fólk og Jón Ólafsson skildi og kynni að útþýða þeirra mál, hverju Íslenskir trúðu, og einn íslenskur maður bugtaði sig og hneigði með reverentsíu fyrir þessum indíanisku hjónum, hverjum hann gaf 4 pör sokka, sem hann sagði sín kona hefði þeim sent, hvar af þeir Dönsku höfðu mikið gaman.

Af þessa árs alþingi fylgdist Jón Ólafsson með Birni sáluga Magnússyni af alþingi, og dvaldist hjá honum það sumar. En um haustið reið hann norður til Ísafjarðar í Álftafjörð, þar sína vini, frændur og ættmenn að finna, hvar hann og nokkra stund dvaldist, og síðan aftur sama haust vestur ferðaðist, og dvaldist þar þennan vetur, á hverjum þessi frómi mann Jón Ólafsson var að aldri 34 ára, en 33 ára þá hann fyrst hingað aftur til lands kom

---

[1]) lögmaður sunnan og austan 1614—1630, nafnfrægur maður og ágætur. Um hann meðal annars Safn til Sögu Íslands II. bls. 131.

[2]) Björn Magnússon prúða varð sýslumaður í Barðastrandarsýslu 1598; hann dó 1635. Um hann sjá B. Ben. Sýslum. II. 85—87, líka athugasemd 2 við bls. 6 hjer að framan og rit Dr. Jón Þorkelssonar er þar er nefnt. Bróðir hans var Þorleifur sýslumaður í Skaftafelssýslu; hann bjó á Hlíðarenda; hann dó 1652, sama ár og Ari í Ögri bróðir hans. — Um Ara sjá áðurgr. rit J. Þork. og B. Ben. Sýsl. II, bls. 77—84; mynd af Ara og Kristínu konu hans og grein um þau eftir Jón Þorkelsson er í Sunnanfara III. 9, Khöfn. 1894.

1626, en 22 ára þá hann fyrst hjeðan af landi til Englands sigldi, sem í þeirri fyrstu bók umgetið er, og hafði hann þá alls utanlands verið í 11 ár.

Þetta sama sumar Anno 1626, sem Jón Ólafsson Óstindífar á Bessastöðum með höfuðsmanninum Holgeir Rosenkranz útkom, veitti hann eftir áður umgetnu prinsins Christiáns 5. missive Jóni Ólafssyni þrjár kóngl. Majtt. jarðir: Ingveldarstaði, Daðastaði og Skarð, í forljening um sína lífstíð, með þar með fylgjandi kúgildum, hverra afgift árlega er til kóngsins 14 ríkisdalir. Þessar jarðir liggja á Höfðaströnd og voru í veiting Ingjalds á Reykjum í Miðfirði[1]), hverjar höfuðsmaðurinn það sama sumar af honum tók fyrir nokkurskonar misklíð, er þeirra á milli innfjell, og veitti þær nefndum Jóni Ólafssyni, sem fyr umgetið er, hverjar jarðir hann tvö ár svo í forljening hafði.

## II. KAP.

Og af því honum þótti sjer óhægt og kostnaðarsamt þessara jarða landskyldir og leigur árlega hjeðan að vestan sækja láta og þar til menn og hesta kaupa, þar hann var hjer í Álftafirði hjá sínu ættfólki, hvert honum vildi ei frá sjer norður í land til vistarveru sleppa, hvar hann og ei heldur freklega á var við sitt ættfólk hjer að skilja, þar með og einnin hvarflaði honum í hug sig hjer vestra í ektaskap að inngefa með erlega dándisstúlku Ingibjörgu Ólafsdóttur, er var ráðsstúlka þeirra heiðurshjóna Jóns Magnússonar yngra[2]) og Ingveldar Guðmundsdóttur á Eyri við Seyðisfjörð, hver Ingibjörg var samfædd systir

[1]) Það var Ingjaldur hinn sterki Illhugason prests Guðmundssonar í Múla, og er hans víða getið í árbókum Espólíns. Hann var lögrjettumaður og dó 1643. Jarðirnir eru ekki á Höfðaströnd heldur á Reykjaströnd.

[2]) Jón Magnússon yngri, að viðurnefni Dan, sonur Magnúsar prúða, † 1651. Dóttir þeirra Ingveldar hjet Ólöf og giftist síðar Magnúsi Magnússyni sýslumanni í Ísafjarðarsýslu (B. Ben. Sýsl. II. bls. 48—49).

Randíðar, Síra Ólafs dóttur, er hjelt Stað í Súgandafirði[1]), er átti hans bróður; — og af því honum þessi norðurreisa svo árlega þunglega og kostnaðarsamlega fjell og stóðst á kostnaður og ábati, vildi hann ei þessar jarðir lengur í forljening hafa en fyrsögð 2 ár, hverjar hann aftur uppgaf Anno 1628 við áðurnefndan Ingjald á Reykjum, hver þær aftur í forljening fjekk. Og allan þennan tveggja ára tíma dvaldist Jón Ólafsson hjá sínu ættfólki í Álftafirði, þess á milli hann með öðrum nafnfrægum höfðingjum dvaldist, hverjir honum jafnlega til sín heim buðu, sem voru meðal annara Ari Magnússon, Magnús Arason[2]), Síra Jón Arason[3]), Sæmundur Árnason[4]) á Hóli í Buðlungavík, Gísli Hákonarson lögmann, og margir aðrir fleiri, hjá hverjum hann var jafnlega velkominn sökum sinnar forfrömunar og langvaranlegrar kóngl. Majtt. þjenustu.

Liðu nú svo fram tímar þar til það sumar Anno 1627, um sumarið í Junii mánuði, að þau tyrknesku ræningjaskip[5]) komu hingað til lands í Austfjörðu, Grindavík og Vestmannaeyjar, og ræntu í þeim plássum bæði fólki og fje, sem segir í reisubók Síra Ólafs Egilssonar prests, er þann tíð var prestur í Vestmannaeyjum, hvern þeir og einnin til fanga tóku og fram fluttu með 242 manneskjur eftir

---

[1]) Þar sem Randíður dóttir Síra Ólafs giftist árið 1600 (sbr. bls. 8 hjer að framan), er þetta sjálfsagt Síra Ólafur Sveinsson, er fjekk Stað nokkru fyrir 1569; í 2076 b og 17 er skrifað Ólafur Jónsson, en hann varð fyrst prestur þar 1650, og dó 1661 (eða 1663), 71 árs gamall, svo það er ómögulegt að hann hafi verið faðir Randíðar.

[2]) sonur Ara í Ögri. Sjá hjer að framan bls. 54 og neðanmálsgrein.

[3]) prestur í Vatnsfirði 1636—73 og prófastur í norðurhluta Ísafjarðarsýslu, sonur Ara í Ögri. Sv. Níelsson Prestatal, bls. 115, 131, 136. Um æfi hans sjá B. Ben. Sýsl. II. 77—78.

[4]) Um hann sjá Jón Þorkelsson, Ísl. ártíðaskrár bls. 9 og víðar og B. Benediktsson, Sýslumannaæfir III, bls. 88—95. Hann var sýslumaður í Snæfellsnessýslu, ritaði ættartölubók, og dó 1634.

[5]) Um Tyrkjaránið er mikið skrifað á íslensku einsog kunnugt er, og vísa jeg þeim, er meira vilja um það lesa í: Tyrkjaránið á Íslandi 1627. Söguf jelag gaf út. Reykjavík, 1906—1909.

skrifi Cláusar Eyjúlfssonar[1]), en dauðir og uppbrendir fundust í Vestmannaeyjum, 34 manneskjur auki þeirra, sem bæði í Austfjörðum og Grindavík af þeim drepnir voru. Þessir tyrknesku reyfarar hertóku og þrjú Íslands kaupför, sem var Djúpavogs kaupfar, Grindavíkur og Skutulsfjarðar kaupför, með kaupmönnum, góssi og fólki.

Sama sumar komu og til Íslands tvö engelsk stríðsskip, útsend af kónginum í Englandi til að taka Franska hjer við land eður hvar annarsstaðar í sjóum hvar þá hittu. Kaptugar yfir þessum engelsku stríðsskipum hjetu kapteinn Húuk og kapteinn Tryl. Þessi engelsku stríðsskip sigldu vestur fyrir landið og urðu ei þessara tyrknesku ránsskipa varir fyrir sunnan landið þá þaðan sigldu. En fyrir Látrabjargi vestur hjá Breiðafirði hittu þeir eitt franskt hvalveiðarskip liggjandi fyrir atker, og voru að bræða hval. Og eftir því að þá var stríð og óvinátta milli Franskra og Engelskra höfðu þessir kapteinar Húuk og Trille[2]) engelska kóng Jacobs[3]) passa að taka uppá þessa Franska, hvar sem þeir þá hittu í rúmum sjó. Því lögðu þessi bæði engelsku kóngsskip til þessa franska hvalaskips, hvers kaptugi að hjet Dominigo, og hafði gamlan passa af Danmerkur kóngi Christián 4. hjer við land á hans straumum hvali að veiða, hvern hann þessum engelsku kaptugum auglýsti, meinandi hann sjer til fríunar og frelsis vera, sem og einnin, að hann ei í rúmum sjó undir seglum væri, hvert hans forsvar þeir að engu akta vildu, heldur uppbyrjuðu strax þetta franska hvalveiðarskip með stórskotum að ásækja, hvert þó vel varðist, uppvindandi þann hvalfisk, sem við skipið fastur var, uppá skipsins síðu og ljetu hann taka við öllum skotum þeirra Engelsku. En þó að tveimur dægrum liðnum unnu og inn-

---

[1]) lögrjettumaður, † 1674.

[2]) Englendingar hjálpuðu þá mótmælendum í La Rochelle á Frakklandi, og áttu því í ófriði við Frakkakonung. — Húuk er vafalaust Francis Hooke, kapteinn, sem 1627 var sendur til Íslands til að vernda 150 ensk fiskiskip, er honum urðu samferða. Hans er víða getið í enskum gjörningum frá þeim tímum. Sjá Calendar of State Papers. Domestic Series 1627—28. Ed. by J. Bruce. London 1858, bls. 131.

[3]) á auðvitað að vera Karls 1.

tóku þessi tvö engelsku skip þetta franska hvalveiðarskip. Og þar þeir sáu sig yfirunna hlupu 18 af þessum hvalveiðarmönnum í eina stærstu hvalaslúffu eður bát, hvar á meðal að var þess franska kaptuga bróðir Jóhannes Suan til fyrirliða þessara manna. Síðan rjeru þessir menn í burt norður í sjóinn, en þeir Engelsku skutu eftir þeim í ákafa, meðan til þeirra með stykkjunum náðu, og skutu af þeim 2 menn og skamferuðu bátinn víða, en þeir Frönsku aftur á mót tróðu í götin sínum fötum og öðru, sem til höfðu sjer til bjargar að ei sykki eður töpuðust. Hjeldu síðan norður á Ísafjarðardjúp, og inn að Arnarnesi (hvern allan sjóveg þeir komust á dægri). Og þá þeir til Arnardals komu fjekk Jóhannes Suan með nokkrum mönnum sjer flutning inn í Ögur til fundar við virðuglegan og velforstandugan höfðingsmann Ara Magnússon kóngl. Majtt. sýslumann yfir Ísafjarðarsýslu, að forlagi og fyrirskipan sjálfs kaptugans Dominigo, hver alt sitt málefni (um ranga tekt að hann hjelt) undir dómsályktan velnefnds valdsmanns leggja ætlaði. Og þá Jóhannes Suan hann fann og þetta undirvísað hafði, dvaldist hann í Ögri nokkurn tíma, þar til þau engelsku kóngsskip komu hingað á Kvíarmið fyrir utan Ísafjarðardjúp, með það franska skip og kaptein Dominigo, hvert þeir strax inntekið höfðu eftir það að áðurskrifaður bátur eður slúffa hafði frá þeim farið og fyr var getið. Og þegar þessi kóngsskip voru komin á Kvíarmið, hjelt Dominigo með bát til lands í eftirspurn og leit sinna manna. Og þá hann á land kom frjetti hann til þeirra í Arnardal og Ögri, hvar af hann stórum gladdist, og gjörði sínum bróður Jóhann Suan boð sig sem fljótast á þau engelsku kóngsskip finna, hvað hann strax gjörði sem hann þessi boð fjekk. Og að þeirra samfundum gjörðist það milli Dominigo og kaptuganna, að ráðstefna og samfundur skyldi haldast í Arnardal á tilsettum degi um þessa skipstekt, hvar til og einnin að boðaður var fyrnefndur heiðursmann Ari Magnússon, til hvers og Jóhannes Suan var aftur sendur með þennan boðskap. Og þá tilsettur samfundardagur kom, ferðaðist Ari Magnússon með sínum fylgjurum til Arnardals, hverra á meðal var

og Jón Ólafsson Indíafar ei hinn síðsti. Kapteinn Húuk og kapteinn Dominigo með sínum fylgjurum komu og til þessa samfundar, og var þá þetta málefni undir *álit tekið, og kom þeim ei saman um myndugleika þess* kóngs Christiáns 4. passa, sem Dominigo hafði til hvalveiðar hjer við land, sökum hans aldurdóms og að ei endurnýjaður var. Því var það sett til höfuðsmanns á Bessastöðum og skyldi Jóhann Suan uppá hans andsvars hjer um til Bessastaða ríða með skrifi Ara Magnússonar, hverjum til fylgdar Ari Magnússon fjekk Jón Ólafsson Indíafar. Var svo slitið þessari Arnardals ráðstefnu. Bauð svo kaptugi Húuk Ara Magnússyni fram til síns skips til veislu, en Ari afsakaði sig að hann því ei við koma kynni sökum margra kóngs erinda og brjefaskriftar til alþingis, bæði um þetta efni og annað, sem gegna ætti. Og að skilnaði með góðan kærleik var Ari Magnússon fluttur heim í Ögur. En kaptugarnir Húuk og Dominigo, Jóhann Suan og Jón Ólafsson fóru til kóngsskipanna, hvar þá stór veisla stofnuð var. Þar fann Jón Ólafsson sinn gamla vin, kunningja og skipherra Ísach Brommet, með hverjum hann fyrst í sínu ungdæmi hjeðan af landi til Englands sigldi, sem í upphafi þessarar lífshistoríu Jóns Ólafssonar er umgetið; því þessi skipherra Isach lá með lóðir til fiskiríis nálægt þessum kóngsskipum; og þar var hann til þessarar veislu sóktur. Urðu þar fagnaðarfundir með Jóni og honum. Og að þessari veislu endaðri var Jóhannes Suan og Jón Ólafsson til Arnardals í land aftur fluttir. Og að skilnaði gaf kapteinn Trille Jóni Ólafssyni góðar gjafir, þar hann var til hans sendur með þakklætisbrjef Ara Magnússonar fyrir veislutilboðið, hvar með og einnin fylgdi hans afsökun að ei til hans persónulega koma mætti sökum viðliggjandi síns herra kóngs erinda, sem hann svo bráðlega fyrir þetta alþing eftir sinni embættisskyldu útrjetta ætti, hvar fyrir hann sendi þennan velforframaða mann, Jón Ólafsson Ostindíafar til hans herradæmis með þetta brjef, hvert hann kynni fyrir honum uppá engelsku útþýða og sig framar

persónulega afsaka að hann greindra orsaka vegna gæti hann ei í þetta sinn í eigin persónu fundið, hvert Jón Ólafsson kaptuga Tril afhenti, útþýddi, og sína sendimannlega skyldu gjörði Ara að afsaka, svo sem honum tiltrúað var, hvert brjef og þess innihald kapteinn Trille með mikilli æru og virðingu upptók, og sagðist þvílíkt erusemdar tilskrif af nokkrum ei fyr fengið hafa, og sagði það fyrir kónginn og herrana í Englandi koma skyldi, hvar með hann það hjá öðrum sínum brjefum í góða forvörun niðurlagði.

## III. KAP.

Þá nú Jóhannes Suan og Jón Ólafsson voru af þeim engelsku kóngsskipum aftur til Arnardals á land komnir, fengu þeir sjer þaðan beinan flutning inn í Ögur og tók [Jóhann] Suan með sjer tvo af sínum landsmönnum þeim Frönsku til fylgdar á þessari reisu, sem og einnin sína sögu fyrir höfuðsmanni að sanna, hvernin alt um skipsins tekt tilgengið hefði, ásamt kóng Christiáns 4. passbrjefi Dominigo áður útgefnu á kóngsins straumum hjer við land, sem fyr sagt var. Og sem þeir í Ögur komu hafði Ari Magnússon tilbúa látið hvað þeir til þeirrar reisu með þurftu, hesta, tjald og annað. Og var Jón Olafsson forstjóri þeirrar ferðar. Og reistu þeir svo í Herrans nafni af stað með brjef bóndans Ara til höfuðsmannsins, hver honum allar kringumstæður þessarar sendifarar og efnis undirvísuðu.

Og sem þeir komu suður í Borgarfjörð spurðu þeir fyrst þau hrygðartíðindi um þau miklu rán og mannskaða, sem skeð hafði í Austfjörðum, Vestmannaeyjum og í Grindavík þann 12. Junii 1627 af þeim tyrknesku reyfurum og ránsmönnum, sem fyr á vikið er, og þess meir, sem þeir suður á landið komu þá var þess meiri uggur og ótti á landsfólkinu með veini og grát.

Kom Jón Ólafsson svo til Bessastaða, með þessa sína fylgjara, og fann höfuðsmann Holgeir Rosenkranz fyrir alþing, og afhenti honum brjef bóndans Ara, af hverju hann vel merkti þessara frönsku manna erindi, og það að tvö engelsk kóngs stríðsskip voru fyrir Vestfjörðum, hvaraf hann varð stórlega glaður, og hugði strax Jón Olafsson aftur um hæl vestur senda með brjef til kóngsskipanna, og biðja þá suður fyrir land að halda, á móti þessum ránsmönnum. En um tekt á því franska skipi þóttist hann ei kunna úr að ráða þar kóngsins passa áhrærði; því mundi það efni til herradags [setjast verða] fyrir kónginn og ríkisins ráð, en lofaði þó þennan Jóhannes Suan í þessu efni aðstoða það gæti, takandi svo þennan Jóhannes Suan og hans fylgjara til sín til útsiglingar.

En af því höfuðsmaður Holgeir Rosenkranz hafði um þennan tíma miklu að gegna í viðurbúningi í Seilunni, hvar hann ljet virki gjöra á móti þessum ránsmönnum, ef þar koma kynnu, hvar í hann [til] varnar skikkaði alla þá Íslenska, sem til Bessastaða með sinna ljena afgiftir komnir voru, með þeirra mönnum, og vildi höfuðsmaður engum burtfararleyfi gefa fyr en vitnaðist hvert þessir ránsmenn hjeldu. Einnin hafði höfuðsmaður til sín í Seiluna kallað þau næstu kaupför, sem voru kaupskip úr Keflavík, annað úr Hafnarfirði, þriðja úr Hólminum. Þessi þrjú skip lágu til varnar með höfuðsmannsskipinu í Seilunni, með þeirra innihafandi skipsfólki vel til búin. Svo og hafði hann tilsett um öll Suðurnes strandvakt að hafa og þessum ránsmönnum landgang að varna.

Og sem nú Jón Olafsson hafði eina nótt á Bessastöðum verið og átti aftur sem fljótast vestur að ferðast með brjef höfuðsmanns til þeirra engelsku kaptuga, sem fyr er sagt, kom sú fregn sunnan, að þessi tvö ræningaskip væri allareiðu komin að Hafnarfirði, og ætlaði að leggja inn á Seiluna, hvar við ferð Jóns Olafssonar hindraðist, og fjekk befalning að bíða, þar til hann til sanns vissi, hvernin afgengi. En höfuðsmaður skikkaði öllum vel vara á taka á sinni bestillingu til varnar; svo og var Jóni Olafssyni

og þeim frönsku bífalað í skansinn að fara og [á] stykkjunum vara að taka og affýra nær þyrfti. En höfuðsmaður með sínum þjenurum og mörgum Íslenskum í stórum látúnssöðlum á landi riðu til umsjónar og aðgætni með löngum stöngum, svo sem hertýgjað fólk væri að sjá, þá sólin á söðulbryggjurnar skein.

Og þá þeir á landi voru svo til varnar búnir, uppbyrjuðu ránsskipin að leggja inn á höfnina. Og þá þeir af skipunum og skansinum það sáu fýruðu þeir nokkrum stykkjum þeim á móti, og ránsmenn í sama máta af sínum skipum á land upp. En um þetta bil, af Guðs tilsettu ráði, bar annað reyfaraskipið uppá grynningar, svo það stóð, því fjörumikið orðið var; var það það skipið, sem það hertekna fólk á var og mestalt góssið. Og þá hinir það sáu settu hvorutveggju út sína báta að flytja fólk og góss af því standandi skipi á hitt, það að ljetta, svo og köstuðu þeir út miklu tunnugóssi af mjöli, öli og annari votuvöru, sem þyngst var, og þeir höfðu á dönsku skipum tekið, hvað mestalt til lands rak, hvar á var mark kaupmannsins Boga Níelssonar, kaupmanns á Skutulsfirði, hvert Jón Olafsson þekti og þar af vissi að Skutulsfjarðarhafnar skip mundi tekið vera af þessum ránsmönnum. Og sem þeir nú í þessu sjóarsvamli og flutningi skipanna á milli voru ljetu þeir Dönsku af að skjóta á þá, bæði af skipunum þeim dönsku og skansinum (því miður), en Íslenskir vildu að að þeim sem mest skotið væri meðan þeir voru í þessu svamli, hvers þeir ei ráðið fengu, og því komst þetta ránsmannaskip af grynningunum með aðfallinu, og sneru svo þessi ránsskip bæði frá Seilunni, og sigldu aftur suður fyrir landið, og sást ei til þeirra framar, fyr en þeir komu í Vestmannaeyjar og þar ræntu í Julio mánuði. Þetta skeði skömmum tíma fyrir alþing að þessi skip fyrir Seiluna komu, og því reið höfuðsmaður og enginn þeirra, er þann tíma á Bessastöðum voru uppá alþing það sumar vegna uggs og ótta.

## IV. KAP.

Og sem þetta alt afstaðið var, og Jón Ólafsson ætlaði frá Bessastöðum að ferðast aftur hingað vestur með brjef höfuðsmanns til þeirra engelsku kapteina, með hver sýslumanninum Ara Magnússyni tilskrifað og skikkað var hið fljótasta til kóngsskipanna að senda, hvar sem til þeirra hjer vestra spurðist, hverjir af höfuðsmanni [beðnir] voru suður fyrir landið sigla, og þessa ránsmenn upp að leita og í hel slá ef gætu. En Jóni var bífalað af höfuðsmanni nótt og dag að ríða hið fljótasta; hvað Jón og gjörði, og á fjórum eða fimm dögum frá Bessastöðum komst heim í Ögur, og þessi brjef Ara Magnússyni afhenti, með hver hann síðan Jón Olafsson til [þeirra] engelsku kaptuga sendi, þeim þau að afhenda, hvað hann síðan trúlega gjörði, og þeim þar um undirrjettaði sem þá komið var, hverju þeir vel tóku og sig til siglingar bjuggu suður fyrir landið þessa ránsmenn að hitta, hverra þeir þó ei varir urðu, og sigldu svo aftur hingað vestur fyrir landið.

En áður Jón við höfuðsmann á Bessastöðum skildi bað hann hann við velvísa Íslands reiðara í Kaupinhafn tilhlutast, innbyggjaranna vegna í Ísafjarðarsýslu, nær fram kæmi, að þeir vildu annað kaupfar með almúgans nauðsyn hingað á Skutulsfjarðareyrar höfn senda þetta sumar eður haust almúgans vegna, sem ei gætu aðrar hafnir til kaupskapar heimsótt; hvar um höfuðsmaður Holgeir Rosenkranz lofaði í góðri tilhlutun að vera að ske skyldi ef mögulegt væri, hvert sitt loforð hann trúlega efnt hafði, því um haustið snemma kom hingað á Skutulsfjarðarhöfn kaupskip með nauðsynlega vöru af Íslands compagníi útsent á báðar þessar hafnir. Kaupmenn hjetu . . ., þeir sögðu, að höfuðsmaður og öll kaupför utan Vestmannaeyja, Djúpavogs, Grindavíkur og Skutulsfjarðar skip, hefðu lukkulega [heim komist], og meintu þeir þau 4 skip af Tyrkjum tekin verið hafa. Einnin kom með

þessu danskt varnarskip, af vorum kóngi hingað sent, að leita eftir þessum ránsmönnum, en þeir urðu þeirra í sjónum hvergi varir, og þetta sögðu þeir að skeð hefði af forlagi höfuðsmanns Holgeirs Rosenkranz. Svo og sögðu þeir að Jóhann Suan og hans fylgjarar þeir Frönsku, hefðu vel fram komist, og höfuðsmaður hefði þeim sjálfur uppá slotið fylgt fyrir kóngl. Majest. og herrana og þeirra málefni framborið, og hefði kóng Christiáni 4. stórlega illa líkað, að Dominigo og hans skip skyldi svo nærri landi og á hans straumum móti hans eigin passa tekið hafa verið svo trássuglega, og lofaði hið fljótasta hjer um kóng Jacob[1]) í Englandi tilskrifa, að Dominigo og hans skip með tilbæri[legu] skaðagjaldi skyldi aftur laust látast, hvað og ári síðar úr Englandi spurðist að gjört verið hefði, og kóng Jacob hefði og þetta illa líkað, að þeir þá svo nærri landi liggjandi tekið [hefðu], á danska kóngs straumum, hvar af orsakast hefði mátt óeining kónganna á milli og þeirra undirsáta, hvar fyrir kaptugarnir Húuk og Trille mættu kóng Jacobs ógunst, og lá við að meiri skaða hrept hefði, hefði ei Dominigo það sjálfur afplánað, þar hann var sáttur með, að sitt skip og góss aftur fjekk.

## V. KAP.

Arið eftir, Anno 1628, kom sami höfuðsmaður, Holgeir Rosenkranz, hingað til lands í Seiluna á dönsku stríðsskipi. Sömuleiðis voru og önnur tvö dönsk varnarskip hingað undir landið send, að krissa[2]) í sjónum, og taka þessa ránsmenn, ef þeirra varir yrðu, hvað ei skeði. Einnin sendi kóng Jacob af Englandi til Íslands 2 stríðsskip sama

---

[1]) Þá rjeði Karl 1. ríkjum á Englandi einsog kunnugt er, svo þetta er misritað.

[2]) d. krydse, sigla til og frá.

erindis, og að þeim engelsku fiskiduggum að gæta. Þessir sögðu þær frjettir, að á Englandsstraumum hefðu á þessu forári 13 tyrknesk skip af Engelskum tekin og í sjó skotin verið, sem til Íslands hefðu fara ætlað. En hvorugt þessara ára Anno 1628 og Anno 1629 urðu varnarskipin neinna ránsmanna varir, hvorki í sjónum eður undir landinu, hver þó hjer bæði þessi sumur bæði dönsk og engelsk [voru], og er hjer um að þessu sinni ei fleira að skrifa.

Liðu nú svo tímar fram, að ei neitt sjerlegt skrifverðugt viðbar, og var Jón Ólafsson hjá ættfólki sínu í Álftafirði þess á milli er hann var ei hjá Ara Magnússyni eður öðrum höfðingmönnum vel látinn. Og um þennan tíma eggjaði ættfólk Jóns Ólafssonar [hann] á að staðfesta sitt ráð með ektaskaparefnum og erlegu hjónabandi; hverjum þeirra ráðum hann aðhlýddist, og í Guðs trausti eftir forsettu ráði leitaði ektaskaparmála til erlegrar sæmdarstúlku, Ingibjargar Olafsdóttur, hver eð þá til vistar og veru var á Eyri við Seyðisfjörð hjá þeim heiðurshjónum Jóni Magnússyni yngra og Ingveldi Guðmundsdóttir. Þessi Ingibjörg var dóttir Sr. Olafs [Sveinssonar], er haldið hafði Stað í Súgandafirði, en systir Randíðar Ólafsdóttir, er Halldór Olafsson bróðir Jóns átti. Og eftir góðum Guðs vilja ektaði hann tjeða Ingibjörgu, og var þeirra brauðkaup haldið á Eyri við Seyðisfjörð, og reistu þau svo bú um vorið á Tröð við Álftafjörð.

## VI. KAP.

Nú sem Jón Olafsson var fyrir nokkrum [tíma giftur] og sat í sínum búskap, en hafði litla eður enga undirhaldningu eður uppheldi af sinni fyrri kóngl. Majtt. þjenustu, en var bágt um að vinna vegna síns handarskaða og veikleika, kom honum í hug að freista við háyfirvald og þá óstindíanisku reiðara (í hvers þjenustu hann þennan handarskaða fengið hafði), hvort þeir vildi sjer ei í sinni nauðsyn

nokkurs til lífsuppheldis unna, af sínum góðum geðsmunum og sannsýnilegri guðhræðslu, hvar um hann fyrir þá auðmjúklega supliceraði skriflega, og bað velvísan Íslands compagníins kaupmann á Skutulsfjarðareyri . . . hjer um við þá sinna vegna í framkvæmd vera og þeirra andsvar hjer uppá sjer aftur færa, hvað tilsegðu. Og eftir því þann tíma svo tilhagaðist að sá constabel eður byssuskytta, sem uppá stykkin og skansinn í Vestmannaeyjum vaktað hafði, var fráfallinn, og annan velforfarinn mann til þess embættis í hans stað þurfti þar til að setja, þá var Jón Olafsson (hver lengi áður kóngsins byssuskytta verið hafði), þar til af yfirvaldinu og reiðurunum kjörinn og skikkaður constabel eður byssuskytta á skansinum í Vestmannaeyjum vera, og allan stríðstilbúning þar vakta, og umsjón hafa; svo og innbyggjurunum þar stríðsorðu kenna, og þeim upp á munstring að halda einu sinni í hverri viku, svo fólkið liðugari og vanari til væri, þá til þyrfti að taka, hverju öllu Jón Ólafsson trúlega og kostgæfilega framfylgdi, og gjörði þann tíma hann til Vestmannaeyja kom og þar dvaldist, svo sem vitnisburður umboðsmannsins Nielsar Clemenssonar (honum útgefinn þá þaðan burt vjek), útvísar og inniheldur um hans erlega höndlun og breytni með frómlegu og guðrækilegu dagfari i umgengni við sjerhvern meðan þar dvaldist, datum Anno 1640, 17. Julii[1]). En fyrir þessa sína þjónustu, ómak og embættistilsjón skyldi hann hafa fría jörð og bústað þar í Eyjunum, án alls afgjalds, item daglega mat og drykk í Dönsku húsum, hjá umboðsmanni, og þar til annað víst kaup, árlega 50 vættir.

Þá nú Jón Ólafsson þennan boðskap með kóngsbrjefi fjekk bjó hann sig með kvinnu og barni strax til ferðar um sumarið, og ofurgaf svo sína bújörð hjer Eyrardal, hvar hann hafði 11 ár búið, en seldi sína búshluti hjer með öðru því ei gat með sjer haft fyrir hesta og annað, sem til ferðarinnar þurfti, og reisti svo hjeðan með bæn og blessan og góðum viðskilnaði. Á hverri sinni suðurreisu hann marga góða og göfuga höfðingsmenn heimsótti, sem voru á meðal

[1]) Vitnisburður þessi er prentaður hjer að aftan í viðaukunum.

annara Þorleifur Magnússon á Hlíðarenda, Vigfús Gíslason á Hvoli[1]), Cláus Eyjúlfsson, og aðrir fleiri, hverjir hann heiðarlega meðtóku og góðan greiða veittu. Komst svo af Eyjasandi með beinum flutningi út í Vestmannaeyjar, og var þar af umboðsmanni Níels Clemenssyni vel tekinn og bújörð fengin til heimilisveru fyrir sig og sína, en hafði sjálfur mat og drykk daglega í Dönsku húsum, hvar hann var og oftast skansinum og stríðstilbúnaðnum umsjón og vöktun að veita eftir sinni tiltrúaðri embættisskyldu, en á næturnar var hann heima á sínum bústað hjá sinni kvinnu og öðru fólki, hverri daglega til hverrar máltíðar úr Dönsku húsum sent var ein kanna bjórs og 3 eða 4 brauðkökur. Fjell Jóni Olafssyni þar vel að vera í fyrstunni, því allir ljetu hann vel. En hans kona, Ingibjörg Ólafsdóttir, kunni ei þar við landslag og undi sjer með engu móti þar að vera, hvaraf hún um síðir sturlun og langsemi með óyndi [fjekk]; hvar fyrir Jón Ólafsson varð henni að lofa þaðan að víkja og vestur aftur, hvað hann varð um sumarið eftir að framkvæma, og varð svo hennar vegna, móti sínum eigin vilja og ásetningi í fyrstu, þaðan að rýma með sitt fólk. Og ljet umboðsmaður upp á sinn eiginn kostnað hann svo með öllu sínu á land flytja, og skrifaði með honum mörgum góðum mönnum til, og bað þá honum styrk, aðstoð og greiðskap að veita til þessarar hans vesturferðar, hvað þeir og gjörðu gefandi honum hesta og annað, sem hann til þeirrar ferðar með þurfti. Ferðaðist hann svo með sitt fólk vestur í Álftafjörð, og kom þangað um sumarið eftir alþing. Voru þá allar jarðir þar í sveit bygðar, svo Jón kunni það ár þar ei bústað að fá; því varð hann sjer vistarveru fyrir sig, konu sína og barn, hjá fólki sínu að útvega, það eftir var ársins.

---

[1]) sýslumaður í Rangárvallasýslu, † 1647.

## VII. KAP.

Um haustið þessa árs bar svo við, [að] Árni Jónsson, hvalaskutlari, er þá bjó í Hattardal meira, ferðaðist heiman og ætlaði til róðra í Vigur, og fór út eftir Álftafirði norðantil og kom við á Dvergasteini, þar þau voru. Kom Ingibjörg Olafsdóttir, kvinna Jóns Ólafssonar, og bað hann um flutning yfir undir Kambnes, því hún ætlaði til Eyrar í Seyðisfirði þau hjón Jón Magnússon og Ingveldi Guðmundsdóttur að finna. Meintu menn hennar erindi vera mundi að fá hjá þeim jörð til ábýlis eftirkomandi. Og eftir hennar umbeiðni veitti Árni henni far. Stje hún svo á skip til Árna, og sigldi hann svo hægan byr alt fram undan Tröð hjá Súðavík; þá kom garður í seglið og sló skipinu um koll, svo hvolfdi. En Árni og hans hásetar, fyrir Guðs aðstoð, komust á kjöl, og voru úr landi sóktir og varð hjálpað af Þorkeli Svartssyni, ábúanda [á] Tröð, og lífs á land fluttir. En konan Ingibjörg náðist látin, og hafði brennivínsflösku uppbundið á beltið innan undir hempunni, er hún ætlaði að gefa þeim hjónum á Eyri, og var hún liðin svo á land flutt til Traðar, og þar hennar líkami til moldar búinn, og til Eyrar í Seyðisfirði til greftrunar flutt, hvar hún hvílir. En eftir þann garð, er skipið tapaðist, hafði hvíta logn [verið] alt til kvölds, hvað öllum þótti undarlegt. En að sögn var sagt, að Ingibjörgu þessari hefði komið til við eina konu í Vestmannaeyjum veturinn fyr, svo þær deildu, og hafði þessi kona átt að segja, að hún mundi ei oftsinnis hjer eftir við sig deila, því Ingibjörg mundi aftur á Vestfjörðu komast, og þar í sjó drukkna, hvað og skeði með þeim aðburðum, sem nú var frá sagt. En Árni og hans hásetar komust vel til sinnar heilbrigði aftur og fóru svo sem þeir sjer í fyrstu ásett höfðu. Var nú Jón Ólafsson einmana ekkjumaður eftir þessa sína fyrri konu, með

sínum laungetna syni Christofor Boga um nokkra tíma þar eftir, hver eð þann sama vetur andaðist hálfum mánuði eftir jól.

## VIII. KAP.

Hjer eftir að nokkrum tíma frá liðnum hvarflaði Jóni Ólafssyni aftur í hug sig að staðfesta aftur í erlegum ektaskap, og leitaði sjer til ektamaka erlegrar sæmdarstúlku Þorbjargar Einarsdóttir, er þá var ráðsstúlka hjá Jóni Þorgeirssyni, er þann tíma bjó á Uppsölum í Seyðisfirði, hvað eftir góðum Guðs vilja, stúlkunnar og giftingarmanna samþykki fjekk Jón Olafsson þessa Þorbjörgu Einarsdóttir sjer til ektakvinnu, og reisti bú með henni á Uppsölum í Seyðisfirði, hvar þau bjuggu í næstu eftirfarandi 5 ár. Síðan sig þaðan fluttu til Eyrardals við Álftafjörð, hvar þau og bjuggu í samfeld 30 ár, til síns dauðadægurs, sem skeði Anno 1679.

## IX. KAP.

Um allan áðurnefndan tíma sat sá virðuglegi og víðfrægi höfðingsmann Ari Magnússon í Ögri, og hafði lögsögn yfir Ísafjarðar- og Stranda-sýslum, einnin umboð yfir Stranda, Ísafjarðar og Aðalvíkur kóngl. Majtt. jörðum, er svo kallast, en síðar eftir Jón Ólafsson Færey Stapasýslu og -umboðs haldara fjekk Sr. Torfi Snæbjörnsson[1]) 5 Álftafjarðarjarðir, hverjum hann 1 ár í forljening hjelt, en Ari þær að því ári liðnu tók eftir hann í forljening. Og um þann tíma eður nokkru síðar bygði hann Jóni Ólafssyni eina af þessum kónglegrar Majtts. jörðum Eyrardal við Álftafjörð með 1 hundraðs leigu og 3 kúgildum, hvar Jón Ólafsson síðan allan sinn aldur á bjó til Guð hann burtkallaði sem fyr segir. En þessum Álfta-

[1]) pr. á Kirkjubóli 1616—1668. (Sv. Níelsson Prt. bls 131).

fjarðar forljeningsjörðum með öðrum fleirum Ari hjelt alla sína lífstíð, þar til Guð hann hjeðan kallaði, hvað eð skeði um haustið á því ári Anno 1652 11. Octobris.

Fjekk Magnús Magnússon[1]) sama ár Álftafjarðar- og Aðalvíkurjarðir í forljening eftir hann, hverjum hann enn nú heldur. Um þennan tíma hafði Jón Ólafsson Óstindífar suppliceruð til kóngl. Majtt. Fridrichs 3ja um þá kónglegrar Majtt. jörð Eyrardal[2]), sem nú á bjó, að hans kóngl. Majtt. vildi sjer hennar til uppheldis um sína lífstíð náðuglega unna frí án afgjalds, í sínum aldurdómi og örvesi, þar hann væri ei tilfær sjer atvinnu að afla á sinni handbjörg sökum þess handarskaða, sem hann í kóngl. Majtt. Christiáns fjórða þjónustu fengið hafði á þeirri óstindíanisku reisu; uppá hverja suplicatíu Jón Olafsson hafði ekkert fyllilegt svar öðlast. Og því reisti Jón Ólafsson suður til Öxarár alþingis herra ljensherrann velburðugan Heinrik Bjelke[3]) að finna hjer um árinu eftir, Anno 1653, og bað hann í auðmjúkasta máta hans excellens sig hjer um stoða hjá kóngl. Majtt. Fridrich 3ja, hverju ljensherrann honum lofaði, hvað hann og síðan árinu eftir trúlega framkvæmdi við kóngl. Majtt., hvar um ljensherrann það ár um sumarið tilskrifaði sínum fullmektugum fóveta á Bessastöðum, Thómasi Niculás-

---

1) Sýslumaður í vesturhl. Ísafjarðarsýslu 1652—81. Sjá formálann. Um hann hefur próf. Finnur Jónsson skrifað fyrir framan útgáfuna í annál hans í Safni til sögu Íslands IV. bls. 99—104. Sjá líka Sýslum. B. Ben. II. 220—224.

2) Jón Indíafari hefur sótt um þetta líkl. 1650, því til er konungsbrjef til Hinr. Bjelke, dags. 10. Maí 1651, þar sem konungur úrskurðar að Jón skuli fá jörð í Álftafirði. Brjefið er prentað hjá Magnúsi Ketilssyni í Forordninger og aabne Breve til Island, III, bls. 41—42 (Útdráttur í Norske Rigsreg. X, bls. 210). — Einhverjar vífilengjur hafa þó orðið á málinu, því víst er það, að Jón fjekk ekki jörðina fyr en 1654, einsog hjer segir á eftir.

3) Hinn alkunni höfuðsmaður og ríkisaðmíráll (1615—83). Æfi hans má lesa meðal annars í Hirðstjóraannál Jóns prófasts Halldórssonar (Safn t. s. Ísl. II, bls. 745—752).

syni[1]), svohljóðandi, að til sín komið væri kónglegt missive að Jón Ólafsson Óstindífar skyldi þeirri kóngl. Majtt. jörð Eyrardal við Álftafjörð frí og frjálslega njóta sína lífstíð með þeim þremur kúgildum, þar með til leiguburðar standa, án alls eftirgjalds; því skikkar ljensherrann fóvetanum Thómasi að láta hann þessarar jarðar eftir þessu missive njótandi verða, og það inn í kóngl. Majtt. jarðabók færa, sem og einnin það skriflega undirvísa þeim Alftafjarðarjarðir í forljening hefði, og skyldi árlega í hans afgift til Bessastaða þar fyrir kvittast þrír ríkisdalir meðan Jón Ólafsson lifði, en eftir hans afgang skyldi greind jörð Eyrardalur falla aftur til umboðsins, og umboðshaldarinn megi hana þá undir sitt umboð eftir sinni festu frjálslega aftur meðtaka af erfingjum Jóns, og þar eftir árlega til Bessastaða fullri afgift svara, sem er fjórtán ríkisdali eitt ort. Og þetta ljensherrans brjefs innihald tilskrifaði fóvetinn Thómas Niculásson Magnúsi Magnússyni, er þessar jarðir þá í forljening hafði, hver honum greinda jörð í tje ljet eftir áðursögðu ljensherrans og fóvetans brjefum, hverri jörðu Jón Ólafsson síðan til alls ágóða, bæði til hvalreka og annars, frjálslega hjelt til ábúðar og byggingar í tuttugu ár. Um hvern tíma ár eftir ár Jón og hans kvinna Þorbjörg Einarsdóttir gjörðust veik eftir aldurdóms hætti, svo þeirra skilgetinn sonur Ólafur Jónsson hlaut fyrir þeim að vinna með sinni hálfsystir Þorbjörgu Þorsteinsdóttir, hverja hans móðir Þorbjörg átti við öðrum manni, áður en Jóni Ólafssyni giftist.

En þá hans elliburðir meir og meir á jukust, svo hann gat ei með höndunum þjónað, tók hann ungar stúlkur og pilta til kenslu á bók að læra að lesa og skrifa, sem og áður fyrri á veturnar meðan í sínum búskap var. Því þessi maður var þar til náttúraður alt frá sínum barndómi, sem lesa má framan til í þessari bók, svo

[1]) Hann var miður þokkaður á Íslandi. Sjá um hann áðurgr. rit í Safni til s. Ísl. II, bls. 752—53 og Ríkisrjettindi Íslands eftir Jón Þorkelsson og Einar Arnórsson, bls. 128—140.

margur góður maður og kvennpersóna eru fyrir hans tilsögn [vel iðkuð] í bóklegum mentum og góðum siðum, sem hann sínum skólabörnum í ungdómi tilhjelt, með kristilegum aga og umvöndun, [og] eru nú orðnar góðar og guðhræddar persónur. Því þessi maður, Jón Ólafsson, var ráðsvinnur, frómur og guðhræddur, siðavandur maður í sinni umgengni, svo og stóð hann vel og trúlega í sínu hreppstjórnarembætti mestallan þann tíma, meðan í búskap var. En eftir því að elliburðir meir og meir á þau hjón jukust, og eftir náttúrlegan sjúkdóm kallaði Guð þessa hans kvinnu, Þorbjörgu Einarsdóttir til sinna náða burt af þessum auma heimi. Var þá Jón Ólafsson einmana ekkjumaður eftir, hana þreyjandi í sínum aldurdómi í tvö ár, og var síðan að og var þá við og við veikur, þar til hann um vorið tók sótt, úr hverri hann sætlega í Guði burtsofnaði með bæn og ákalli til síns Endurlausnara, Anno 1679 deginum fyrir krossmessu um vorið[1]), á síns aldurs ári áttatugasta og sjöunda.

---

[1]) ɔ: 2. Maí.

# ORÐAMUNUR.

---

Einsog getið er um í formálanum er hjer einungis tekinn helsti orðamunurinn, og því nær eingöngu úr aðalhandritunum. Hjer merkja:

B = Handritas. Bókmfjel. 92, 4°.
C = Hdr. Landsbókasafnsins 405, 4°.
Ö = Ögursbók, Ny kgl. Saml. 2076, $4^{4}$.
D = Hdr. Landsbókasafnsins 723, 4°.
E = Hdr. í Árna Magnússonar safni 959, 4°.

Þar sem annara handrita er getið eru þau nefnd með númerum þeim, er tíðkast í skrám bókasafna þeirra, er þau finnast í. Sbr. formálann. Stærri og fyrri talan merkir blaðsíðu, minni og síðari línu.

---

$1^{8}$ sitt, bætt við í C. $1^{12}$ óskar, beiðist C. — 3. Inngangsbrjefið finst aðeins í ÖCE og 2076 b, auk hinnar þýðingarlausu afskriftar í 617. — $3^{4}$ furðanlegar, föðurlegar Ö. — $3^{5}$ velgjörðir Ö, styðst við orðalagið í C, dásemdir 2076 b. — Frá og með orðunum „Elskulegir vinir“ og til orðanna „veitt hefir“ í l. 6 er öðruvísi í C; þar stendur: Mjög furðanlegar eru þær óteljanlegar velgjörðir míns góða Guðs, hverjar hans guðdómleg gæska mjer svo furðanlega veitt og auðsýnt hefur. — $3^{7}$ í svefni og vöku, vantar í C. — $3^{10}$ þjóða, C 2076 b, manna Ö. — $4^{7}$ mörgum, áheyrendum C. — $4^{13}$ Guðs, ÖC, yðar 2076 b. — $4^{14}$ lífs og sálar, C hefur endirinn þannig: „sálar og lífs, í Jesú nafni. Amen. Jón Ólafsson með eigin hendi“. Mjer þykir samt líklegra að textinn í Ögursbók sje hjer upprunalegri, og hef því fylgt honum. — Undirskriftina vantar í E. — $5^{1}$ Hjer byrjast æfisagan B. — $6^{13}$ sá... Magnússona, B, vantar í Ö. — $8^{19}$ sumars og krossmessu, þessi staður í C og 617 sýnir meðal annars að C er eldra; í C er textinn svona og ber saman við eldri handritin, en í 617 stendur: „um sumarið um krossmessu“. — $8^{24}$ Andrjesarmessu, Marteinsmessu B. — $9^{12}$ flotna B, flosna ÖC. — $9^{13}$ flæði og BÖ, flæði of C. — $10^{17}$ aldir alda Ö, allar aldir BC. — $10^{32}$ hægri ÖB, vinstri C. — $10^{34}$ áeggjan Ö, ávísan B. — $11^{10}$ og bónda, bæta BC við, sl. í Ö. — $11^{16}$ eður... skepnu, sl. Ö. — $11^{19}$

skikkan og, bætir C við. — $11^{29}$ vinnuhjón, vinnuþjón B. — $12^{1}$ Þá, sl. E; skrifaðist datum, bætt við í C. — $12^{2}$ hinn mikla, þessi orð og út kapítulann vantar í B. — $12^{3}$ ár 1661, bætt við í C. — Trúels, nafnið er ritað Traculus í BÖ, Trochulus C, í dönsku þýðingunni Ny kgl. Sml. 2077 a 4⁰ Troilus; þetta er sjálfsagt danska nafnið „Troels“ (ísl. Þorgils). Jeg hef því sett „Trúels“ í textann, því svo rituðu Íslendingar á þeim tímum vanalega danska nafnið. — $12^{4}$ er síðasti, þessi orð og út kapítulann vantar í Ö, og líklega hafa þau ekki staðið í frumriti Jóns, en eru einsog fleira í C skotið inn af einhverjum fróðum manni öðrum. Konráð Íslendingur er líklega af ætt Jóns Íslendings og Dýrfinnu Gísladóttur, sbr. Sýslumannaæfir Boga Benediktssonar II, bls. 14 og 496—497, og athugasemd Jóns Pjeturssonar við fyrra staðinn. — $13^{33}$ hugleiddi ... hljóðtal BC, okkar hljóðskraf heyrði Ö. — $14^{22}$ 700, 7 C. — $15^{31}$ kölluðu C, kölsuðu BÖ. — $16^{3}$ efri, prentvilla í textanum fyrir „eftri“, B, aftari C, efri Ö. — $16^{11}$ Hollandi BC, Skotlandi Ö. — $16^{28}$ móðunni, höfninni C; hinumegin og gegnt borginni C, sl. ÖB. — $16^{33}$ Sæmund, stundum er nafnið í B skrifað Semund. Að nafnfallsendingin ekki er skrifuð með virðist líka styrkja tilgátu mína, að hjer sje um enska nafnið Simon að ræða. — $17^{14}$ misjafnt BC, mislynt Ö. — $17^{21}$ og...mist, C. sl. ÖB. — $17^{29}$ stálhamri BC, járnhamri Ö. — $18^{11}$ Brommet, Bremet ÖB, Bromel C. — $20^{21}$ svo...hagaði Ö, við einn framandi sjer svo hagaði B. — $21^{20}$ Vilhelm ÖC, Vilhjálm B. — $22^{12}$ Kvinsborg, Kvinzborg B. — $22^{17}$ bljesu ÖC, bljesu fagurt B. — $22^{25}$ tvær, sl. B. — $22^{29}$ margslags vara, þarfleg vara margslags B. — $23^{5}$ kokksins, C, kokks BÖ. — $23^{10}$ sjálf Ö, er sjálf snerust C; steikunum Ö, stykkjunum B, steikinni C. — $23^{30}$ til...ganga Ö, ljetst vilja sakramentis B. — $23^{31}$ gyllyrðum Ö, gullyrðum B. — $25^{11}$ í þeim C, í þann ÖB. — $26^{19}$ 5, þeir 5 B. — $26^{19}$ 18 BD, 15 C, 80 Ö. — $27^{7}$ Júnímánuði C, nýmánuði BDÖ. — $27^{9}$ Mandaus, svo er hann víðast kallaður í hdr. á öðrum stöðum, og því hef jeg sett hjer þá mynd nafnsins; á þessum stað er nafnið í BCDÖ ritað Manda. — $27^{15}$ eyða, hjer bæta ÖD við „og eg fyr á minst hefi“, þessi orð standa ekki í BC, og auk þess er það rangt að áður sje getið um það atvik. — $28^{24}$ luktri höfn, BCD Buckhöfn Ö. — $30^{7}$ frá C, sl. BÖD. — $30^{20}$ til betalings BC, sl. ÖD. — $31^{14}$ junkursins, ÖCD, týjunkursins B. — $33^{13}$ þegar ... unnir, þessi orð vantar í BCD. Þau eru líkl. athugagrein, sem hafa verið skrifuð á spássíuna, en sá sem hefur skrifað Ögursbók hefur tekið þau inn í textann. — $33^{32-33}$ er ..Kaupinhafn, B, sl. Ö, stytt en sömu meiningar í CD. — $35^{7-8}$ það .. kirkja BC, sl. ÖD. — $35^{21}$ M. Hr. m., þannig í B, M. Herra M., Ö, M. H. m. C, í D er eyða fyrir nafninu. — $36^{6}$ gáfna, tilgáta mín, gjafa B, gáfa C, barna Ö, þessi orðamunur virðist benda á að í frumr. hafi staðið „gáfna“. — $37^{15}$ járngjörð BC, gjörð ÖD. — $37^{27}$ Trafn, nafnið er stundum ritað Tran. — $38^{17-18}$ og ... erfð, sl. Ö. — $38^{26}$ Marín BD, María ÖC. — $39^{28}$ pungum ÖBD, reikningspeningum C. — $41^{23}$ borið og, BC, sl. ÖD. — $43^{30}$ hver, tilgáta mín fyrir „hann“ ÖC, „sem“ BD, líkl. hefur í frumritinu staðið óglögt skammstöfun af orðinu „hver“, sem ÖC hafa lesið „hann“, en BD sett „sem“ í staðinn. —

$45^{19}$ Maurus, BC, Mauritz D, Marcus Ö. — $45^{28}$ kompáns og BC, sl. ÖD. — $47^{2}$ og um koll BC, sakaði ei en það fór um koll Ö, byltist það um koll D. — $47^{8}$ voru B, sl. ÖCD. — $53^{7}$ í voru Ö, voru C, vuoxu[!] B, uxu D. — $61^{5}$ Korsør, Korsor C, Corzør BD, Kortz E, Kortsson Ö. — $62^{6}$ ofarlega ÖDCE, ovarlega B [ɔ: óvarlega?] — $62^{15-16}$ nokkurt... þýðast ÖE, nokkurt... þiggja B, nokkurt... þekkjast CD. — $62^{20}$ í 8, getgáta mín, 18 ÖCDE, 8 B; það er harðla ólíklegt að hann hafi verið hermaður í 18 ár áður en hann varð byssuskytta og er því líkl. talan rjett í B. — $68^{4}$ brygði ÖED, byrgði BC. — $68^{26}$ var .. Önnu BC, lá ... kvinnu Ö, svaf ... kvinnu D. — $72^{4}$ Bleking, tilg. fyrir Bleyren B, Beiern Ö, Alech C, Bleiren D, Beiren E. — $72^{13}$ Nafnið Lauritz er ritað í CD svona á þessum stað, annars á ýmsa vegu: Laurus, Larus, Laurz, Lortz osfr. — $72^{20}$ inntappa ÖCE, innpakka BD. — $73^{2}$ bera B, auðsjáanl. rjett, gefa ÖECD. — $74^{10}$ og ... meir, sl. B. — $74^{11}$ hjer um, hjer endar bl. 38 í B, og vantar svo eitt blað í það hdr. — $74^{18}$ Samúel, Emanúel C. — $74^{22}$ leirhnyðju 2076 b C, reyrhnyðju ÖE. — $74^{25}$ leirform, reyrform Ö. — $74^{26}$ vel sem eg E, vel 1 ₵ [!] 2076 b, sem eg CÖ. — $74^{30}$ kopar eða það sem, ... ætlað 2076 b koparinn sem ... ætlaður CÖ. — $75^{26}$ kóngi, hjer byrjar B aftur. — $78^{28}$ Gjöglarar, tilg. fyrir geiglarar C, Bigglarar ÖBDE. Máske ætti þó heldur að lesa hjer: Giglarar. — $79^{4}$ barnið, b. Jesús BD. — $79^{19}$ Uldrich, nafnið er í hdr. ýmisl. ritað, en jeg hef valið algengasta ritháttinn í þeim. — $80^{12}$ refelbusk, refilbusk C, sem er rjettara hjer en BÖ, sem hafa „refeltusk“. — $80^{27}$ Gedling BCDE, Gillding Ö. — $81^{17}$ og .. fylgd C, öll hans herraleg fylgd Ö, og öll hans herrafylgd E, með allri sinni fylgd B, með sinni fylgd D. Leshátturinn í B og D og orðið „herraleg“ í Ö benda á, að hjer hafa ef til vill orðin í l. 15 verið tekin upp aftur í ógáti af sumum skrifurunum; líkl. er þá C nánast því rjetta og hef jeg því fylgt því hdr. hjer. — $81^{33}$ þeim BD, þeim 6 C, þess ÖE. — $82^{30}$ baldýruðum, stundum ritað hjer og annarsstaðar „bardýruðum“. — $83^{23}$ óguðlegustu ÖCE, ógurlegustu BD. — $83^{29}$ hjólbörum C, hjólkorum BÖ, sl. DE. — $86^{3}$ varnir, varnarverjur B. — $88^{2}$ þar til launa, sl. B. — $88^{10}$ og, eða D, og væri B. — Kaflanum $88^{24}$—$89^{28}$ er sleppt í E. — $89^{35}$ vaktskrifarinn ÖD, vaktmeistarinn BC. — $90^{3}$ rúndel, orðið er í hdr. ýmist ritað svo eða þá „rúndeil“ og „rúndjel“. — $90^{28}$ og bestu vinum, sl. ÖD. — $92^{25-26}$ þann... var DC, þar... var Ö, þar til einn mann inn, sem sendur var í mína vakt á meðan B. — $93^{10-11}$ Eg... yfir, sl. B. — $94^{23}$ Lynbeck BD, Linbech ÖE, sl. C, — $94^{26}$ hafni hans góðvild, tilgáta mín; hafi hans g. DÖ, hafi hans g. hafnað B, hafi hans g. reynt E. — $95^{29-30}$ minni hendi ÖCDE, manna höndum B. — $95^{32}$ inni var B, sl. Ö, að bjó C, bjó D. — $96^{6}$ og ... soldátar, sl. B. — $96^{8}$ Orðið hópmann er í hdr. sumstaðar skrifað „hofmann“. — $96^{25}$ honum ÖCE, sl. BD. — $97^{14}$ Lolliks, Lalix BDE, Lach C; jeg hef síðan sannfærst um að tilgáta mín er óþörf, því að vísu er sú hugsun rjett hjá mjer, að það sje átt við danska nafnið á fólki frá Lálandi (Laalike, Lollik), en Jón Indíafari hefur vafalaust íslenskað það „Lálik“, og ætti því að rita „Láliks“ í text-

anum. A Lálandi kvað þann dag í dag tíðkast lík nafnvenja sumstaðar. — 97[28] Sindingahjeraði BDE. Sníðingahjeraði Ö, Gyrðingahjeraði C. — 98[20—21] varð...þjentum, sl. B. — 100[8] úr Austursjónum, „og ýmsum löndum" bætir E við, og sleppir svo kaflanum hjeðan og til orðsins „ósekja" 101[18]. — 101[2—3] ei fyrir meir B, vafal. rjett, fyr meir ÖDC. — 101[16] sú stóra flagg BDC, sú stóra flaug Ö. — 104[15] öl og fæðslu DE, alfæðslu Ö, öl og fæði C, öl og mat B. — 108[17] sem, hjer byrjar eyða í D. — 109[7] Winter C, Vintur Ö, eyða í B. — 109[19] á BE, af ÖC. — 110[21] Nú, hjer byrjar D aftur. — 111[15] sekk litlum B, 6 litlum pungum Ö. — 113[1—2] Yfirskriftina vantar í Ö. — 114[3] luxgufur, luxguffur B, lúxguffur D, laxgufur Ö, lagsbwar C, sbr. athugasemd við þennan stað í viðaukunum hjer að aftan. — 116[28] svo ..í, sl. B. — 122[34] fínn maður, tilgáta mín, fyrn maður BCD, fyrirmaður Ö. — 124[21] loflegri ÖE, háloflegri D, ljúflegri BC. — 124[25] Grænlands, í hdr. sumstaðar ritað Grenlands og Grynlands. — 125[12] Rúss BD, Rúls Ö, sl. CE. — 125[15] Skoster, Skostor B. — 127[25] falkónur C, kalkónur BÖ. — 128[13] gullbaldýruðu D, annars er þetta orð sumstaðar í hdr. ritað „bardýruðu". — 128[31] víns .. juku DE, öls, matar og víns stórum á juku B, öls og matar mikið við juku Ö. — 130[22] sína fíólu BE, sitt fíól ÖD. — 131[23] sjálfum mjög, sl. BDC. — 135[6] harpónajárni D, harpónujárni B, harpóni járni Ö. — 135[20] á, með styttsta hætti um. bætir B við. — 138[23] Noregur náðist, tilgáta mín: Noreg náðist B. Noreg náðum D, vjer náðum Noregi ÖE, til Noregs náðist C. — 138[25] tilviljan, tilfallandi veiki B. — 144[12] Falk B, Falke ÖDCE. — 146[14] með .. á burt, sl. B; hætti eður, sl. D. — 146[26] bljúgu BE, bjúgu CDÖ. — 148[20] þá hina D, hina BE, þá Ö. — 149[30] vissi DC, segi B, sagði Ö. — 150[26] með þeim, sl. BD. — 152[10] sanngjarnlegu ÖD, sannarlegu B. — 153[21] og dýrum B, og svo dýrum C, sl. ÖDE. — 157[21] að baka, tilgáta mín: að taka Ö, að sjer að taka E, að innkaupa C, að kaupa B, orðsaka D. — 159 Kaflanum um Zacharías er sleppt í E. — 165[24] Holstis ÖD, Holst BC. — 166[7] sængurstað, sæmdarstað B. — 166[13] bruggaði B, bruggað D, bruggandi Ö. — 169[20] báðu, hjer bætir B við: hverra bæna hann naut. — 172[1] standa ... tilbaka D, standa svo drambsamlega standa sjer tilbaka B, stóð á bak til við kóng drambsamlega Ö. — 172[14] sem einn hundur, BC, sl. Ö, sem drambsamur hundur D. — 172[21] því B, því að ÖD. — 174[10] minnst BD, minnsta ÖCE. — 175[10] óstutt BD, stutt Ö, öfugt C. — 176[8] sjö, hdr. 'sex' sem hlýtur að vera misritað fyrir „sjö". — 176[10] Björgvinsborgar, í hdr. BD er nafnið víða ritað Bjargvin. — 177[5] Boye, þannig ritað í C, BÖ hafa Bogie, Boge D. — 177[11] Spes tilg. fyrir Fides í hdr.; máske hefur það orð verið líka misritað í frumritinu; sum hdr. greina bæði skipin með að kalla annað Fides en hitt Fidis, en slíkt nær engri átt. — Að tvö skip í flotanum hafi heitið eins er mjög ólíklegt. — 178[9] hjerum. Ö bætir við: að þessu sinni. — 178[29] ökrum, B bætir við: að sinni akurvinnu. — 179[21] Bjelke ÖC, Bjalke BD. — 179[28] af honum ÖE, sl. BD. — 180[22] en B, er ÖD. — 181[6] fengið, gengið C. — 181[20] uppdragast ÖC, uppdagast B. — 181[21] Bordon ÖBDE, Berben C. — 182[27—28] á .. æfi, sl. B. — 183[15] utan .. afhleypt, sl. B. — 185[34] fyrri ÖCE, fyrsta

BD, parti sl. B. — 186$^{6-7}$ tilskikkan, og tilhlutun, bætir B við. Orðin „Hjer ... part“ einungis í Ö. — 187$^{15}$ Colmucki B, Colmucke D, Colmuchi ÖC. — 188$^{24}$ ofbjóðs DÖ, ofboðs B. — 190$^{12-13}$ og ... upplyki, sl. B. — 190$^{16}$ og ... eg D, og hann ... eg Ö, en hann spurði hvað fyrir einn eg B. — 192$^{18}$ Demant DCE, Dement B, Semat Ö. — 193$^{23}$ undir ... hendi, sl. B. — 193$^{24}$ örbenjar ÖD, örvar B. — 194$^{10}$ Caput de Leo, Caput de Feo B. — 194$^{11}$ sínum BDÖ, sínum sjúku 2076 b, sínum mönnum EC. — 194$^{21}$ eftir ... viðlá, sl. B. — 194$^{25}$ vissu C, 2076 b, sl. ÖDB, grunuðu E; þetta orð hefur vafalaust vantað í frumritið. — 195$^{2}$ en C, líkl. rjett, sl. Ö, sem BD. — 196$^{3-4}$ að ... væri, sl. B. — 197$^{19-20}$ sá...Knappstop B, Ö hefur hjer aðeins orðið „Stop“. — 198$^{27}$ atvikaðist C, útvikaðist B, útvíkkaðist Ö. — 199$^{15}$ svefnherbergis, silfurherbergis Ö. — 200$^{3}$ nokkurs grass ösku D, nokkri grasösku Ö, nokkurskonar grasösku B. — 200$^{15}$ kvortjel eður B, sl. ÖD. — 201$^{17}$ í nokkru B, mjög ÖC, sl. D. — 201$^{22}$ Síam, víða ritað Sían í hdr. einsog í bók Hans Nansens, og væri máske rjettast að halda þeim rithætti alstaðar. — 202$^{2}$ Ternasseri E, Tranafer B, Ternassari D, Ternaseri Ö, jeg hef hjer heldið rithætti Ehdr., sem er rjettastur. — 203$^{21}$ Claus, ÖDE, Hans BC. — 204$^{14}$ er, sl. hdr. en nauðsynlegt meiningar vegna — 205$^{16}$ taxteraðir BC, tracceraðir D, tacceraðir Ö. — 206$^{2}$ Hvers..er, sl. B. — 206$^{31}$ fylgd og aðstoð sl. B. — 207$^{2-3}$ til lífs...þóknan, sl. B. — 208$^{5}$ sem... vestan-útnyrðing, sl. B. — 208$^{7}$ reyndum vjer til, boneruðum svo B. — 209$^{20}$ Lammers, ritað í hdr. á ýmsa vegu Lammers D, Bonn! B, Lemer Ö osfr. — 209$^{30}$ 180 D, 100 BÖ, 150 C. — 210$^{11}$ atkerisstrengurinn B, vafal. rjett, atkerishringurinn ÖDCE. — 211$^{13}$ 82 BD, 18 Ö. — 211$^{23-27}$ og . . . leikinn, í stað þessa kafla hefur B aðeins: og tók til sig svo í ljós að leiða að mótlæti tæki í vöxt að fara. — 211$^{30-31}$ Þá ... gleði sl. B. — 213$^{3}$ til agna, sl. B. — 213$^{10}$ Plemen C, Clemen ÖDB. — 213$^{11}$ Hanton Ö, Hantún B, Haton C, Hanthon DE. — 214$^{2-3}$ Vilhjam Draco B, Vilhjalm Drack Ö, Vilhelm Draco C, Vilhjalm Draco D. — 214$^{11}$ suðvestan ÖD, suðaustan B. — 215$^{10}$ glissandi ÖD, glossandi B. — 216$^{2}$ landnorðurs ÖD, útnorðurs B. — 216$^{9}$ 3500 ÖDE, 3800 B. — 218$^{19}$ útskrifa D, uppskrifa Ö, útskýra eður skrifa B. — 219$^{25}$ kieldinafiski, Chieldinufishi D, Chieldinufiski Ö, keildýnufiski B. — 220$^{10}$ flabkanna D, flakkanna Ö. — 221$^{19}$ mánudegi ÖE, líkl. rjett, mánaðardegi BCD. — 223$^{18}$ eitt...má, sl. B. — 223$^{19}$ 14, 4 B. — 224$^{18}$ sjóöldu Ö, sjóólgu D, sjáarólgu B. — 224$^{28}$ Jansson D, 'Jensson B, Jónsson Ö. — 225$^{13}$ þar Ö, líkl. rjett, því BD. — 225$^{22-23}$ hans ... Amen, sl. B. — 226$^{7-11}$ og hann ... hendur, sl. B. — 226$^{16}$ tapass D, popass C, tapúss B, tapús Ö. — 226$^{26}$ Bajador, Bonador B. — 228$^{4-5}$ og sig ... gleymast, sl. B. — 229$^{13}$ málfet, málfaðmur B. — 229$^{25}$ Johan de Genti Ö, Jehan de Gante D, Johum De Gnate B. — 233$^{25}$ crobgans Ö, corbgans D, crotigans B. — 233$^{26}$ fjórða lagi ÖD, fjörunni lá B. — 233$^{27}$ pihvin eður pichvin D, pihuin eður puchiuin (?) B, pihum eða pichvin Ö. — 233$^{29}$ og...æður, sl. B. — 234$^{15}$ skiötte ÖC, skiutu B, sl. D. — 235$^{5}$ simpherphei, sempherphei B. — 236$^{28}$ glistu BC, listu D, litu Ö. — 237$^{33}$ þrjú C, rjett, einsog sjá má á því sem á eftir fer, tvö BDÖ. — 239$^{16}$

mórskur, morskur ÖD, norskur B. — $241^{8}$ fótafari B, fótafarg ÖDE, fótaferð C. — $242^{24}$ voru, hjer hefur 2076 b á eftir orðin „að vjer vorum nærri komnir að spreng", sem vantar í hinum hdr. — $244^{6-7}$ Preto... Belul D, Petro Jóhann eður Jóhann Belul B, Jóhann Presbíter C. — $244^{14}$ í vil falla D, í vil blása Ö, vilja falla B. — $245^{16}$ og... lands sl. B. — $248^{29}$ treagel B (?), treazel D, treagrit Ö. — $250^{23}$ veður B, undur D, vindur Ö. — $253^{3}$ riviere E, rofere ÖD, sl. BC. — $253^{12}$ nær DE, sl. BÖ. — $254^{12}$ geyma ÖD, ganga B. — $255^{12}$ Narsinga, Nausynga B, en nafnið ritað rjett þar í næstu línu sem nafn á borginni. — Annars eru nöfnin í þessum kafla eðlilega mjög afbökuð, en jeg hef leiðrjett þau flest eftir bók Nansens, sem þau eru tekin úr. — $258^{5}$ grófgröni, groffgrøn, Hans Nansen, grapgrone B, grasgrone Ö, grafgræni D. — $258^{23}$ grófgrön, hjer er orðið í B ritað „grofgrön". — $259^{5}$ Gallicia, Gallatia hjá HN. — $259^{7}$ Rodes, Rodyss HN. — $259^{17}$ Damascum, Damascena HN. — $260^{29}$ Hess, nafnið stundum í hdr. ritað Hetz. — $263^{6}$ fór... kastalans, fóru vorir kaupmenn til lands og kaptuginn til kastalans B. — $264^{10}$ Herra, tilgáta mín fyrir „hjet" í ÖDB, í frumritinu hefur líklega staðið „h", sem ýmist má lesa „hjet" eða „Herra". — $270^{29}$ móru B, njóru ÖDE. — $271^{3}$ sjómanna, tilg. sjómann D, sjómenn ÖB. — $271^{23}$ carhanske, í hdr. stundum ritað carcanske, carconiske (ÖB), caroniske D (t. d. á bls. $293^{14}$). — $277^{1}$ fantasí C, fantate BD, sl. Ö. — $281^{9-10}$ á..gafli ÖD, á miðju gólfi B. — $287^{16}$ glampbirtu, eða: glámbirtu BD? glamp burtu Ö. — $288^{27}$ Prægier, Prager BDCÖ; þetta orð hefur höf. auðsjáanlega borið fram sem Prajer, sbr. athugasemdina neðanmáls. — $290^{25}$ málaferli D, misferli B. — $290^{30}$ smeigt D, smikt BÖ (= d. smykket?). — $293^{19}$ símitrer, symitren B. — $296^{7}$ $2^{1}/_{2}$ hundrað Ö, og líkl. á líka að lesa töluna í B svo; 22 hundruð hundraða D. — $296^{25}$ cadmeda, cadmada Ö. — $297^{10}$ eimyrja, ein myrja BD. — $298^{14}$ sjái þjer ekki B, sjest ekki DC, sjá menn ekki Ö. — $302^{5}$ Sivile, nafnið ritað oftast svo í BD en stundum Siveli, Syvile C, Such Ö, Sveli E. — $302^{31}$ jafnflatur BD, jafnan flatur Ö. — $305^{8}$ til kastalans B, frá kastalanum ÖD. — $305^{31}$ 1624 E rjett, 1614 BCDÖ. — $308^{4}$ og í ÖD, eður B. — $315^{13}$ eður journal, sl. Ö eður jackanal B. — $315^{30}$ glæpamann ÖD, galdramann B. — $322^{22}$ þeir, þeir allir hdr., en þar sem allir kemur rjett á eftir er það óþarft á öðrum hvorum staðnum, og hef jeg því slept því hjer. — $324^{14}$ sem ei önduðust, hjer endar kaflinn í D, og er svo eyða í því hdr. aftur að orðunum á bls. $325^{37}$ „eftir fóru indíaniskir kaupmenn allir". — $326^{32}$ bandaði BC, bannaði DE, bannaði mjer Ö. — $327^{29}$ að venda, að vjer hlutum að venda hdr., en þar sem „urðum" stendur á undan verða þessi orð óþörf og meiningarlaus, og hef jeg því felt þau úr. — $328^{21}$ sjö fólksmyndir, vafasamt hvort í B og og D stendur „sjófólks eða sjö fólks; sjófólks E. — $339^{14}$ eilendur B, eylendur D, eylenskur ÖE. — $340^{6}$ fenggati BE, fýrgati ÖD. — $340^{20}$ viðleita vildi Ö, viðleitaði B, vildi leita D. — $341^{16}$ Sixtus, svo hjet hann, í hdr. er hann kallaður ýmist Siggus, Sigs eða Sigfús; í frumhdr. Jóns Indíafara hefur líkl. staðið Sixtus rjett, en ógreinilega skrifað. — $341^{29}$ Arntz, nafnið er í hdr. ritað á marga

vegu: Arnts, Arneth, Arntz, osfr. — $342^{11}$ móru, tilg. móu ÖDBE, mow C. — $344^{4}$ 80 BD, 30 Ö, talan er mjög ólíkleg. — $344^{31}$ sá D, sl. BÖ. — $347^{28}$ hljóp á BE, hljóp ÖD. — $350^{1}$ öllum óvitanlega C, sl. DÖ. — $351^{4-5}$ siðvenju og dansvísu ÖDE, vísu og danslátum B, dansvísu C. — $352^{24}$ kjöllur BÖCE, kjölltur D. — $352^{33}$ mersusegl C, marsegl ÖBDE. — $353^{27}$ From B, Frome ÖDE. — $354^{17}$ Herrans, sl. BD. — $355^{8}$ lífatkerskaðalstrengur BE, lífatkerskaðalshringur ÖD. — $356^{5}$ Mutten B, Muttem D, Multen ÖE. — $357^{28}$ oss og BE, sl. DÖ. — $359^{9}$ Guð, sl. B. — $359^{20}$ nokkurs slags D, nokkurs annars slags Ö, nokkur skip eður þjóðir B. — $360^{11}$ sem var hjörtur, sl. B. — $360^{20}$ gripanna ÖE, gripina BD. — $361^{27}$ sekkjaðir, tilgáta mín fyrir „serkjaðir“ ÖDB. — $362^{20}$ og...meir ÖE, sl. BD. — $363^{3-4}$ útgengið ... nefndist, þessi staður er mjög aflagaður í handritunum; C er hjer skást: „úr borginni hafði útgengið er þar lá, sá eð Johel eður Jochel nefndist“; hin hdr. sleppa öll orðunum „úr borginni, er þar lá“, og bæði C og hin hdr. nefna manninn Jóhel, en á því, sem á eftir fer, er auðsjeð að það er bæjarnafnið. Jeg hef því tekið upp viðbótina úr C, en breytt „sá“ í „sú“, og hygg jeg að *svo muni hafa staðið í frumritinu.* — $363^{10}$ *þráskjótandi* BC, þar skjótandi ÖDE. — $363^{14}$ hæringsbússu BC, bússu ÖD. — $363^{19}$ að mestu leyti C, að næsta leyti BD, sl. ÖE. — $364^{15}$ upptugði ÖD, upptögg B. — $366^{18}$ Cornelis, tilg. Cornelie B, Cornelius D. — $368^{8}$ efst ÖD, eins B. — $386^{24}$ En DE, og B, sl. Ö. — $369^{19}$ Giæers ÖB, Græers D, Gvers C. — $369^{35}$ nytum ÖE, yrðum B, værum D. — $369^{38}$ Eftir orðinu „vikur“ er í Ö með nýlegri hendi skrifað út í spássíuna „31. kap.“; engin kapítulaskifti í BCDE. — $370^{20}$ Írlenskum B, Írskum D, innlenskum Ö. — $370^{26}$ Cork, Corch C, Cortz BD, Corts ÖE. — $370^{29}$ Stúart C, St. ÖD. — 371 neðanmálsgr. 2. Jeg býst við að innskotskafli þessi sje varla úr hinu upprunalega frumriti Jóns Indíafara. Að þeir hafi farið 52 menn á stórbát skipsins til Cork frá Youghal er ótrúlegt. En hugsanlegt væri þó að jarlinn hefði boðið þeim til Lismore, herrasseturs er hann átti uppi í landi í litlum bæ samnefndum við Blackwater-fljótið, og gæti orðin „upp til Cork“ bent á það. En líklega er þetta þó heldur tilbúningur einhvers, sem hefur viljað skreyta frásögnina. — $371^{17}$ kvennmönnum Ö, kvinnum BC, kvennfólki D. — $372^{17}$ snemma sl. ÖD. — $373^{1-5}$ og Danmörk..siðvenja er BC, sl. ÖDE, líklega er þessi kafli innsettur af Magnúsi Magnússyni. — $373^{6}$ undandrógust D, hin hdr. umskrifa þetta öðruvísi. — $373^{17}$ með það B, sl. D, væntu þess Ö. — $373^{21-22}$ og ... kunnugur BC, nema hvað C sleppir orðinu „maður“; sl. ÖDE. — $374^{9}$ helti svo úr Ö, hjelt svo upp úr B. — $375^{8}$ þessi vondi maður BC, sl. ÖE, sjálfur D. — $378^{22}$ taxta, hjer við bæta BC: „sem var þar til 600 ríkisdala með kistu og öllu því í henni var“, en sleppa aftur á móti setningunni „en ... í henni var“ á eftir l. 27—28. Líklega hefur í frumritinu þessi setning staðið út á spássíu, og því hafa afskrifararnir sett hana inn á ýmsum stöðum. Talan 600 hefur líklega verið ytst í línu, seinasta núllið verið ómáð af þegar Magnús Magnússon afskrifaði, en verið máð af þegar Ögursbók og D voru skrifaðar. En setningin á betur við á síðari staðnum, og því held

jeg henni þar, — $378^{27}$ 600 BC, líkl. rjett, 60 ÖDE. — $379^{13}$ 10, hjer er eyða fyrir orðinu í BDÖ; C umskrifar að vanda; í frumhdr. hefur orðið verið máð eða vantað. — $379^{16-17}$ svo hljóðaði...fylgir Ö, svo hjóðander [!] sem eftir fylgir í íslensku útlagt B. — $380^{1}$ elskelige Ö, Elsku kiæra B.— $380^{2}$ Regeringenn Ö, Regering er B. — $380^{17}$ Framar ÖED, Þar með BC. — $381^{3}$ hverra...var. innskot í B. — $381^{33}$ mína fullmakt. m. f. til þessa. Sagan er á enda, E; í D kemur svo stuttur útdráttur á íslensku, og þar á eftir er ritað með nýlegri hendi: „Vantar niðurlag 2. hluta, svo 1 blað"; B hefur orðin: „svo hljóðandi sem eftirfylgir úr dönsku á íslensku útlagða. — $382^{1}$ Kiendes, Kendest B. — $382^{2}$ her, sl. Ö; vitterligt, vitterlegt B. — $382^{3}$ och Ö, og B. — $382^{4}$ og Induoner, sl. Ö. — $382^{7}$ self, sl. Ö; til stede Ö, til staðer B; huis...Tilkommer, tvíritað í B. — $382^{9}$ paa, tilg., pa B, udi Ö. — $382^{11}$ haand Ö, hand B. — $382^{11}$ og $^{13}$ paa Ö, ritað „á" í B. — $382^{14}$ ikke Ö, ekkj B; knappe Ö, kneppe B. — $382^{15}$ brod Ö, braud B. — $382^{17}$ ydmyg B, ydmigist Ö; lader Ö, lauder B. — $382^{18}$ fulldmegtig Ö, fullmegtid B. Sofren B, Sofrin Ö. — $382^{19}$ liudelse Ö, lydelse B. — $382^{20}$ Gemitt Ö, gemott B. — $383^{1}$ andsvare Ö, andsvara B. — $383^{1}$ Christeleg B, den christenn Ö. — $383^{2}$ vriggelig Ö, tryggelegre B. — $383^{3}$ haand Ö, hand B. — $383^{4}$ Kiobenhaffn, tilg. Kaupinnhafnn B, Kiobenhavn Ö. — $383^{5}$ Islender, sl. Ö, hjer endar Ö með undirskriftinni. — $383^{18}$ greindra 2076 b, hjer eyða fyrir orði í B, og með nýlegri hendi skrifað í hana „6 þúsund dala", í C er skrifað „6000 dala". — $384^{8}$ afliðnu, tilgáta fyrir „á liðnu BC, liðnu 2076 b. — 385. Kapítulayfirskriftina vantar í B. — $385^{2}$ 3 vikur C, rjett, 6 vikur B. — $386^{6}$ sagði þessu 668, rotið af í B. — $386^{29}$ örkumsl C, örkylms B. — $387^{2}$ á...fjekk C, 2076 b, rotið af í B. — $387^{9}$ fyr C, rotið af í B. — $387^{25}$ Sixt, Sigs B. — $387^{26-27}$ ...töku...þar beggja þeirra, 2076 b, skorin af lína í B. — $388^{18}$ 4 pör·sokka 2076 b, skorið af í B. — $389^{12-13}$ af..tók, C, rotið í B. — $390^{2}$ bróður, hjer er í B ritað á eftir með annari hendi: „Halldór átti hennar systur Randíði". — $391^{12}$ þessara, við þessara B. — $391^{20}$ Dominigo, ritað hjer í B Domminigo; franska myndin er Dominique. — $392^{20}$ nokkurn C, rotið af í B — $392^{24}$ slúffa, slofua B. — $392^{30}$ finna, hið fljótasta finna B, sem auðsýnilega er misritun, þar sem „fljótast" er komið áður. — $393^{16}$ ætti, óvíst hvort hjer á að lesa „ætti" eða „ætlaði" í B. — $393^{21}$ Brommet, ritað hjer Brymul í B. — $393^{28}$ í land..fluttir C, rotið af í B. — $394^{30}$ árstalið 1627 úti á spássíunni í B. — $395^{9-10}$ ei kunna 668, C, rotið af í B; því 668, rotið af í B. — $395^{11}$ setjast verða 2076 b, þessi orð eða eitthvað líkt þeim eru nauðsynleg meiningarinnar vegna, en vantar í B. — $395^{18}$ til 17, sl. B. — $395^{34}$ Jóns, Jón B. — $396^{1}$ á 17, sl. B. — $396^{3}$ látúns-, ritað latungs í B. — $396^{21}$ mundi, mundu B. — $396^{28-29}$ og...Seilunni 668, rotið af í B. — $396^{34}$ á, tvíritað í B. — $397^{3}$ vestur C, vestur aftur B. — $397^{7}$ beðnir C, sl. B en er nauðsynlegt meiningar vegna. — $397^{13}$ þeirra, 668, 2076 b, sl. B. — $397^{30}$ Kaupmenn hjetu, hjer er í B eyða fyrir nöfnunum. — $397^{33}$ heim komist C, vantar í B, en eitthvað þess háttar þarf þó að vera þar. — $398^{7-8}$ fylgt...málefni, 668, rotið í B. — $398^{16}$ hefðu, sl. B. — $399^{3}$ af, hefðu af B, en misritun, þar sem „hefðu" er

rjett á undan. — 399[7] voru, sl. B, en nauðsynl. meiningar vegna; við landið voru C, eftir leituðu 668. — 399[13] hann C, sl. B. — 399[20] Sveinssonar, í B hefur verið eyða fyrir nafninu, og í hana skrifað með nýlegri hendi „Jónssonar", sem er rangt, sbr. 1. athugasemdina á bls. 390. — 399[25] fjörð...vorið 668, rotið í B. — 399[27] tíma giftur, 668, eyða í B. — 400[3] velvísan, velvísa B; eyða fyrir nafninu í næstu línu. — 400[9] velforfarinn 668, velforinn ! B. — 400[16] liðugari, misritað liðugar í B. — 400[20] Clemenssonar, nafnið ritar hann sjálfur svo í skjalinu, sem er prentað hjer að aftan, en hjer og á nokkrum stöðum í B er nafnið ritað Clemusson(ar). — 401[17] fjekk, 17, sl. B. — 401[26] annað 668, rotið í B. — 402[2] að, 668, sl. B. — 402[17] á, 2076 b, sl. B. — 402[19—20] á beltið...Eyri og 668, rotið í B. — 402[23] verið 668, sl. B. — 403[16] -dægurs, -dægur B. — 403[25] tók, tók þær B. — 403[26] bygði hann, hann bygði B. — 404[2] [kall]aði, hvað ... Anno, skorið ofan af línu í B, og sjást aðeins neðri hlutar stafanna, en líklega á þó svo að lesa, að því er ráða má af C og 668. — 404[20] excellens, ritað exilen[s] i B. — 404[24] Thómasi, ritað Tummase hjer og víðar í B. — 405[1] missive 668 rotið í B. — 405[28] elliburðir...jukust, 668, rotið í B. — 406[2] vel iðkuð C, hjer vantar sögnina í B, upptuktuð 2076 b. — 406[4] og eru C, er B. — 406[13] og var síðan að, þessi orð eru óljós, annaðhvort er þetta vestfirskt orðatiltæki, og þýðir þá „vera að" sama sem að vera nærri því í kör, vera við rúmið, eða þá þetta er byrjun á setningu, sem höf. hefur ekki haldið lengra áfram, en gleymt að strika út. Afskrifararnir virðast hafa skilið þessi orð á fyrra veginn, þannig hefur 2076 b: „(í sínum aldurdómi) nær í kör um tvö ár mjög veikur", C: „(í 2 ár,) og var nær því í kör (við og við veikleika vegna)", og 668: (í sínum aldurdómi) nær í tvö ár í kör, (og var þá við og við veikur)". — 406[17] sjöunda, „ári" bætir B við, en þar sem það er bersýnileg tvíritun, sleppi eg því hjer.

---

## VIÐAUKAR.

---

### I.

### UM PJETUR SKYTTU OG ÆTT HANS.

Menn greinir á hver maður Pjetur Skytta hafi verið, og hvorki Espólín nje Jón Halldórsson nefna hann sem hirðstjóra með því nafni. En þó má telja víst að hann sje annaðhvort sami maðurinn og Pjetur Trúlsson, hirðstjóri á Íslandi 1493—1495 eða þá Pjetur Kláusson, hirðstjóri á Íslandi 1497—1498; þykir mjer líklegra að það sje Pjetur Kláusson, föðurnafnsins vegna, því Trúls (Troels) er danskt nafn en ekki þýskt, en maðurinn ættaður frá Hamborg. — Í ættartölubókum er honum stundum blandað saman við Pjetur skyttu Thomasson umboðsmann á Bessastöðum 1587—1589.

Í brjefi til útgefandans dags 25. sept. 1907 kemur Dr. Jón Þorkelsson landsskjalavörður fram með skýringu á flækjum þessum. Hljóðar sá kafli brjefsins svo:

„Ættartölubækur telja svo, að Pétur skytta Thomasson, sem umboðsmaður var á Bessastöðum 1587—1589, ætti Ástríði Sigmundardóttur, systur Jóns lögmanns, sem er uppkominn maður 1476 og deyr 1520; telja þær Ástríði dána 1588, og getur þetta á eingan hátt staðizt. Börn þeirra Péturs og Ástríðar eru talin mörg, og meðal þeirra Jacob, sem umboðsmaður var í Vestmannaeyjum um 1620 og opt er getið í ferðabók Síra Ólafs Egilssonar; Jacob ljezt 1641. Systir Jacobs og dóttir Péturs og Ástríðar er svo talin Marín langamma Jóns Indíafara. En þetta er alt jafn-ómögulegt. Það er ómögu-að Jacob Pétursson hafi verið langömmubróðir, og Pétur Thomasson, sem umboðsmaður var 1587—1589, og Ástríður, sem dó 1588, hafi verið langalangafi og langalangamma Jóns Indíafara, sem fæddur var 1593.

Hinsvegar held eg megi greiða úr þessu svona:

Pétur skytta var einn af fylgurum Diðriks Pinings 1484 og þá í yfirreið með honum hér á landi (Fornbrjefasafn VII, 12—14). Hafi hann staðnæmzt hér á landi, gæti hann tímans vegna hafa átt systur Jóns lögmanns Sigmundssonar, og mætti

hún vel hafa heitið Ástríður, þó að ekki finnist hennar getið í bréfum. Pétur þessi skytta gæti vel verið annaðhvort sami maður og Pétur Trúlsson, sem hér var hirðstjóri 1493—1495, ellegar Pétur Kláusson, sem hirðstjóri var 1497.

Marín Pétursdóttir ætti því að vera fædd á árunum c. 1494—1497. Hana átti síra Helgi sonur síra Jóns svenska Matthíassonar. Síra Jón dó 1567, og ber flestum saman um, að hann hafi þá verið fjörgamall maður, og gæti hann vel hafa verið fæddur um líkt leyti og Jón biskup Arason, c. 1484, eða jafnvel c. 1480. Þegar hann kom til Íslands 1530 gæti hann því hafa verið 46—50 ára gamall og Helgi sonur hans verið svo sem uppkominn, svo að miseldri hans og Marínar hefði ekki þurft að vera ýkjamikið. Ekki vita menn að svo komnu, hvar Helgi var prestur.

Hildur Helgadóttir, dóttir þeirra og amma Jóns Indíafara, gæti því verið fædd c. 1535. Hennar maður hét Þorsteinn Sveinsson.

Ólöf Þorsteinsdóttir, dóttir Hildar, kona Ólafs Jónssonar á Svarthamri og móðir Jóns Indíafara, gæti þá verið fædd c. 1560—1565—1570, og þá kæmi alt vel heim við það, að Jón Indíafari sonur hennur er fæddur 1593. —“

Þessi tilgáta Dr. Jóns er mjög líkleg og þekki jeg enga betri. Þegar frásögn Jóns Indíafara er borin saman við Hirðstjóraannál Jóns Halldórssonar (Safn t. s. Ísl. II, bls. 661—62) sjest, að ef Pjetur Skytta og Pjetur Trúlsson er sami maðurinn, hefir hann líkl. verið myrtur á föstunni 1496 eða 1497; en ef það er Pjetur Kláusson verður vígið á föstunni 1498 eða 1499; um Benedikt Hersten (Histen), eftirmann hins síðara er fyrst getið 1499 um sumarið. Marín hefur líklega verið fædd áður en faðir hennar var veginn; það lítur líka út fyrir að þeir synir Pjeturs, Hannes og Melchior, hafi þá verið stálpaðir. En það sem mjer þykir þó ólíklegt, er að Síra Helgi Jónsson Matthíassonar og Marín Pjetursdóttir hafi verið gift. Skyldi það ekki vera blandað málum, og vera einhver annar Síra Helgi Jónsson? Úr því sje jeg mjer ekki fært að greiða sem stendur, en tilgáta Dr. Jóns verður að vera bæði mjer og öðrum fullnægjandi, fyrst um sinn, þangað til ef eitthvað kann að koma fram, er skýri málið betur.

## II.

## NIÐJATAL JONS ÓLAFSSONAR INDÍAFARA.

Hr. Jóhann Kristjánsson ættfræðingur í Reykjavík hefur gjört mjer þann greiða að semja niðjatal Jóns Indíafara, og eru þar taldir afkomendur hans á Íslandi og ættin rakin niður til núlifandi manna. Aðalheimildarrit hans hefur verið ættartölubók Ólafs Guðmundssonar Snókdalíns († 1842), eiginhandarrit, eign Hannesar ritstjóra Þorsteinssonar. Hann hefur og stuðst við ýmsar greinar í „Þjóðviljanum" þar sem vestfirskra ætta er getið. Annars eru miklir erfiðleikar á rannsókn ætta úr Ísafjarðarsýslu, því næstum því allar prestþjónustubækur þaðan eru annaðhvort eyðilagðar með öllu eða ókomnar til Landsskjalasafnsins; því er óvíða hægt að rekja ættina niður til nútímans.

Að því er snertir ættkvísl þá, er flutst hefur til Danmerkur og þaðan til Ástralíu og víðar, hefur frú cand. mag. Ása Rohde, sem sjálf er af þeirri ætt, góðfúslega samið skrá yfir hana og gefið mjer ýmsar upplýsingar um lífsstöður og vistarverur þeirra manna, er þar er getið. Hef jeg svo skeytt saman á sínum stað íslensku og dönsku ættkvíslina.

---

Son Jón Ólafssonar Indíafara, og seinni konu hans Þorbjargar Einarsdóttur[1]) var:

Ólafur Jónsson á Kambsnesi í Álftafirði, átti fyr Halldóru Einarsdóttur, börn þeirra:

I. Jón Olafsson átti Valgerði Gilbertsdóttur, þau voru barnlaus.

II. Arnfríður Ólafsdóttir kona Halldórs Bjarnasonar; barnlaus.

III. Magnús Ólafsson á Ósi í Bolungavík, átti Guðrúnu Aradóttur, Sigmundssonar, Jónssonar í Önundarfirði, Gunnarssonar; börn þeirra:

[1]) Ólafur Snókdalín telur Þorbjörgu konu Jóns Indíafara Eyjólfsdóttur Ólafssonar Bjarnasonar og að móðir Eyjólfs hafi verið Guðný dóttir Bjarna (Björnssonar) og Guðrúnar laundóttur Jóns í Svalbarði Magnússonar í Skriðu Þorkelssonar.

A. Bjarni Magnússon á Ósi í Bolungavík, átti fyr Sesselju Björnsdóttur á Gili, Ketilssonar; börn þeirra:

a. Kolbeinn Bjarnason á Seljalandi í Skutilsfirði, átti Guðrúnu Jónsdóttur á Hafrafelli, Jónssonar í Tungu í Skutilsfirði, Sigurðssonar á Seljalandi í Skutilsfirði; börn þeirra:

aa. Jón Kolbeinsson seinni maður Sigríðar Magnúsdóttur frá Breiðabóli.

bb. Hildur Kolbeinsdóttir (fædd 2. Mars 1786) átti Jakob son „lanarunga"-Gvendar, Bjarnasonar, Hallvarðssonar úr Trjekyllisvík.

b. Bjarni Bjarnason (fæddur um 1753) á Geirastöðum, átti Ingibjörgu (f. um 1755) Ísleifsdóttur í Tungu í Skutilsfirði, Sigmundssonar, Ísleifssonar; börn þeirra:

aa. Bjarni.

bb. Sigurður.

cc. Ingibjörg.

dd. Guðrún.

Seinni kona Bjarna Magnússonar var Ragnhildur Jónsdóttir prests í Stað í Aðalvík, Einarssonar prests samastaðar, Ólafssonar á Sljettu Guðmundssonar; barnlaus.

B. Ólafur Magnússon (f. um 1729, d. 9. Mars 1785) bóndi á Hafrafelli í Skutilsfirði, átti Þorgerði Bjarnadóttur; börn þeirra:

a. Jón Ólafsson á Hafrafelli, átti Helgu Sigmundsdóttur, Magnússonar (sjá síðar); son þeirra:

aa. Jóakim (fæddur 24. Ágúst 1793).

b. Sesselja Ólafsdóttir, átti fyr Sigmund í Tungu í Skutilsfirði, Loftsson á Seljalandi, Þórðarsonar; börn þeirra:

aa. Loftur.

bb. Ísak.

cc. Ólafur.

dd. Guðrún.

Síðar átti Sesselja Jón Brynjólfsson, Jónssonar; þ. b.:

ee. Ragnhildur.

c. Ólafur Ólafsson, átti Guðrúnu Egilsdóttur, Þórðarsonar í Engidal, Pálssonar á Lónseyri, Þormóðssonar í Æðey,

Tómassonar prests á Snæfjöllum, Þórðarsonar (B. Ben. Smæf. II, 323).

d. Kristín Ólafsdóttir.

C. Sigmundur Magnússon á Gili í Bolungavík, átti Guðrúnu Guðmundsdóttur; börn þeirra:

a. Jón Sigmundsson á Stakkhamri, átti Valgerði Björnsdóttur, Jónssonar.

b. Helga Sigmundsdóttir, kona Jóns Ólafssonar, Magnússonar (sjá að framan).

c. Sara Sigmundsdóttir, átti Sigfús Egilsson „drengtetur“, dóttir þeirra:

aa. Sara.

d. Guðrún Sigmundsdóttir, kona Guðlaugs Jónssonar. Laundóttir Guðrúnar með Jenens Latzen [sic]:

aa. Herdís (f. 1789).

D. Ari Magnússon á Fæti í Álftafirði, átti Guðrúnu Jónsdóttur, Gizurssonar; börn þeirra:

a. Jón Arason (fæddur um 1750) í Hattardal, átti fyr Arnfriði Jónsdóttur fálkafangara á Uppsölum í Eyrarsveit, Árnasonar, Halldórssonar prests í Árnesi (d. 1734), Magnússonar prófasts á Stað í Steingrímsfirði (d. 1707) Einarssonar; dóttir þeirra:

aa. Arnfríður Jónsdóttir.

Seinni kona Jóns Arasonar var (19. Júní 1784) Geirlaug Halldórsdóttir á Seljalandi í Skutilsfirði, Pálssonar í Kvíanesi í Súgandafirði Jónssonar í Kvíanesi, Egilssonar í Kvíanesi, Sveinssonar, Andrjessonar (B. Ben. Smæf. II, 577); börn þeirra:

bb. Arnfríður Jónsdóttir, átti (1804) Þórarinn í Þernuvík, Jónsson í Þernuvík, Þórarinssonar á Látrum, Jónssonar, Þórarinssonar, Gíslasonar prests í Vatnsfirði (d. 1660), Einarssonar prófasts í Eydölum, Sigurðssonar.

b. Hallur Arason átti Margrjeti Jónsdóttur, systur Arnfríðar, fyrri konu Jóns bróður hans.

c. Jóhann Arason átti Ástríði Jónsdóttur, systur þeirra Arnfríðar og Margrjetar, er bræður hans áttu; s. þ.:

aa. Magnús.

d. Gísli Arason í Fremri-Hnífsdal, (fæddur um 1752), átti Margrjeti (f. um 1752) Ásgeirsdóttur prests í Álfta-

firði, Þórðarsonar í Bæ, Þorkelssonar á Kjallaksstöðum, Jónssonar samastaðar, Jónssonar í Stóradal, Magnússonar á Reykjum í Tungusveit, Björnssonar; börn þeirra:

aa. Guðrún (f. um 1783) kona Þórðar Jónssonar, Þórðarssonar í Engidal, Pálssonar á Lónseyri, Þormóðssonar í Æðey, Tómassonar (B. Ben. Smæf. II, 323); barn þeirra:

aaa. Kristján.

bb. Jóhanna Gísladóttir (f. um 1785) kona Bárðar Brynjólfssonar á Grundarhóli í Bolungavík, Tómassonar.

cc. Elízabet Gísladóttir (fædd 10. Okt. 1786).

e. Magnús Arason, átti Guðfinnu Hallgrímsdóttur, Jónssonar á Vigri í Ögursveit, Sigurðssonar, Jónssonar, Einarssonar í Stóru-Hvestu, Gíslasonar.

E. Halldóra Magnúsdóttir kona Jóns Ólafssonar í Mýrdal, þau voru barnlaus, en laundóttir hennar með Einari Jónssyni, Gíslasonar var:

a. Ásný Einarsdóttir, átti laundóttur með Jóni Sigfússyni á Gili í Bolungavík, Hákonarsonar samastaðar, Bjarnasonar, Ketilssonar, er hjet:

aa. Jóhanna.

F. Signý Magnúsdóttir fyrri kona Jóns Sigmundssonar í Hnífsdal; son þeirra:

a. Jón Jónsson átti Vigdísi Ísleifsdóttur, barnlaus.

G. Sigurfljóð Magnúsdóttir, átti launbarn með Magnúsi „myglu“.

H. Pjetur Magnússon í Búð í Hnífsdal (fæddur um 1730, dáinn 19. Jan. 1809), átti Elízabet Tyrfingsdóttur, Bjarnasonar, Tyrfingssonar, Jónssonar, Kálfarssonar (B. Ben. Smæf. II, 578); börn þeirra:

a. Tyrfingur Pjetursson á Seljalandi, átti (1804) Ingibjörgu Jónsdóttur Gíslasonar; barnlaus.

b. Bjarni Pjetursson á Svarthamri, átti (1792) Elínu Illugadóttur prests á Kirkjubóli (d. 1782), Jónssonar í Skinnalóni á Sljettu, Þorsteinssonar (Þjóðv. VIII, 122); börn þeirra:

aa. Þóra Bjarnadóttir (f. 14. Des. 1793) kona Jóns Jónssonar á Svarthamri; börn þeirra:

aaa. *Friðgerður.*

bbb. Elízabet.
ccc. Steinunn.
ddd. Kristjana.
eee. Halldóra.
fff. Elin.

bb. Elías Bjarnason (fæddur 30. Mai 1797), átti Margrjeti Einarsdóttur í Arnardal, Ásgrímssonar samastaðar, Bárðarsonar samastaðar, Illugasonar, Guðmundssonar, Illugasonar, Guðmundssonar, Illugasonar, Guðmundssonar úr Reykjadal.

cc. Elín Bjarnadóttir kona Jóns Teitssonar skipara úr Flatey.

c. Guðrún Pjetursdóttir (fædd um 1768) átti Hínrik í Fremri-Hnífsdal og Seljalandi (f. um 1761), Sigurðssonar í Fremri-Hnífsdal, Pálssonar (Smæf. II, 323); börn þeirra:

aa. Hildur Hinriksdóttir (f. 14. Sept. 1788) átti Guðmund Jónsson á Seljalandi; son þeirra:

aaa. Halldór Guðmundsson (f. um 1811) átti Margrjeti Þorbergsdóttur, Hjaltasonar prests á Kirkjubóli (d. 1840) Þorbergssonar prests á Eyri við Skutilsfjörð (d. 1784) Einarssonar (Tímar. J. P. 1, 20); börn þeirra:

1. Guðmundur.
2. Sigríður.

bb. Jón Hinriksson (f. 3. Okt. 1789).

cc. Pjetur Hinriksson (f. 2. Des. 1792) átti Sigríði Hallsdóttur; barn þeirra:

aaa. Guðrún.

dd. Sigurður Hinriksson á Seljalandi (f. 1794), átti Málmfríði Jónsdóttur frá Gelti; börn þeirra:

aaa. Hinrik Sigurðson kaupmaður á Ísafirði.

bbb. Guðbjörg Sigurðardóttir (fædd 18. Okt. 1826, dó 21. Sept. 1906) kona Páls útvegsbónda á Ísafirði, Guðmundssonar óðalsbónda í Arnardal, Pálssonar; börn þeirra:

1. Kristín Pálsdóttir kona Halldórs Halldórssonar kaupmanns, fóru til Ameríku.
2. Sigríður Pálsdóttir kona Samúels (d. 3. Marz 1905) á Naustum í Skutilsfirði, Hall-

dórssonar í Árbæ, Þórðarsonar, Halldórssonar (Þjóðv. XIX, 48); börn þeirra: Rannveig kona Jóns Hróbjartssonar verslunarstjóra á Ísafirði, Halldór, Páll (d. 9. Júlí 1907), Kristján og Bjarney.

ccc. Kristín Sigurðardóttir átti Halldór í Tungu í Bolungavík, Magnússonar samastaðar, Árnasonar á Hóli í Bolungavík, Magnússonar í Meirihlíð, Sigmundssonar, Sæmundssonar (Smæf. II, 224); son þeirra:

1. Magnús Halldórsson.

ddd. Guðrún Sigurðardóttir, átti fyr Hannes prest á Stað í Grunnavík, er druknaði 18. Des. 1851, Arnórsson prests í Vatnsfirði, Jónssonar (B. Ben. Smæf. III, 503); börn þeirra (sbr. Þjóðv. VIII, 134):

1. Jóhannes Hannesson hreppstjóri á Botni í Súgandafirði, kvæntur Guðrúnu Ólafsdóttur frá Griðum í Önundarfirði.
2. Sigurður Hannesson stýrimaður, dó í Kaupmannahöfn ókv. og bl.
3. Petrína Hannesdóttir ógift og bl.

Guðrún Sigurðardóttir átti síðar Friðrik Verner Gíslason (d. 3. Apríl 1899) bónda á Kvíanesi í Súgandafirði áttu 7 börn á lífi 1899; þar á meðal:

4. Petrína Friðriksdóttir kona Jóns Tómassonar á Úlfsá í Skutilsfirði (Þjóðv. VIII, 147).

eee. Margrjet Sigurðardóttir kona Jens á Ísafirði, Guðmundssonar skutlara í Vigri, Guðmundssonar á Kúlu í Arnarfirði, Arasonar (B. Ben. Smæf. III, 450).

ee. Hinrik Hinriksson (f. 1796); dóttir hans:

aaa. Elízabet.

ff. Elízabet Hinriksdóttir (fædd 23. Júlí 1797) kona Jóhanns Jónssonar úr Álftafirði; börn þeirra:

aaa. Dagmey Jóhannsdóttir kona Otúels á Skarði á Snæfjallaströnd, Vagnssonar í Dynjanda,

Ebenezerssonar, Jónssonar í Tjaldanesi, Sveinssonar (B. Ben. Smæf. II, 391); barn þeirra:
1. Ebenezer.

bbb. Valgerður Jóhannsdóttir.
ccc. Hinrik.
ddd. Guðrún.
eee. Hildur.
fff. Helgi.
ggg. Jón.

gg. Tyrfingur Hinriksson (fæddur 18. Sept. 1799) átti Ástu Jónsdóttur, Bjarnasonar í Æðey, Jónssonar hrekks í Æðey, Einarssonar, Gunnlaugssonar (B. Ben. Smæf. III, 451; b. þ.:

aaa. Sigurður Tyrfingsson.

bbb. Oddur Tyrfingsson bóndi á Hafrafelli í Bolungavík (d. 1882), átti Eleónóru Kristínu Pjetursdóttur; börn þeirra:

1. Guðmundur Helgi Oddsson (f. 6. Des. 1855, d. 1. Sept. 1907) bóndi á Hafrafelli, átti (10. Sept. 1877) Ólöfu Sveinsdóttur (Þjóðv. 21, 183); börn þeirra: Oddur, Ólafur Elías, Halldór, Magnús, Sveinn, Kristín Eleónóra, Guðmundur Helgi.
2. Pjetur Oddsson kaupmaður í Bolungavík, kvæntur Guðnýju Bjarnadóttur; börn þeirra voru 5, 4 dætur og 1 sonur er hjet Ólafur Helgi (d. 6. Ágúst 1907; Þjóðv. XXI, 165).
3. Rannveig Oddsdóttir kona Rósmundar Jónssonar í Tungu í Skutilsfirði (Þjóðv. XXI, 183).

ccc. Halldór Tyrfingsson.
ddd. Sigríður Tyrfingsdóttir.
eee. Guðmundur Tyrfingsson.
fff. Hildur Tyrfingsdóttir (f. 1832, d. 22. Febr. 1899) ljósmóðir í Ögurhreppi (Þjóðv. VIII, 100 launson hennar með Einari hreppstjóra á Hvítanesi, Hálfdanarsyni prests á Eyri í Skutilsfirði (d. 1865) Einarssonar (Tímar. J. P. 4, 13) var

1. Ásgeir Einarsson (f. 7. Marz 1869, d. 7/1 1905) bóndi í Hvítanesi í Ögursveit, átti (1896) Halldóru Pjetursdóttur bónda á Kleifum í Skötufirði, Halldórssonar (Þjóðv. XIX, 67), b. þ.: Kristín Álfheiður, Þórunn, Kristján, Gunnhildur, Petrína Sigríður.

Annar launson Hildar Tyrfingsdóttur:

2. Guðjón Jónsson skipstjóri á Ísafirði (Þjóðv. VIII, 100).

d. Sigríður Pjetursdóttir kona Jóns Jónssonar á Hrauni í Hnífsdal; b. þ.:

aa. María Jónsdóttir átti Guðmund Bjarnason á Ósi í Bolungavík; b. þ.:

aaa. Pálmi.
bbb. Eiríkur.
ccc. Friðrik.
ddd. Guðmundur.
eee. Matthildur.
fff. Ólöf.

bb. Kristjana Jónsdóttir kona Jóns Guðmundssonar í Búð í Hnífsdal; börn þeirra:

aaa. Guðmundur.
bbb. Valgerður.
ccc. Jón.
ddd. Sigríður.
eee. Ívar.

cc. Sigurborg Jónsdóttir kona Pálma Ásmundssonar á Gili í Bolungavík; börn þeirra:

aaa. Tyrfingur.
bbb. Guðrún.
ccc. Einar.
ddd. Helga.

dd. Þórður Jónsson.

e. Valgerður Pjetursdóttir (d. 1808) átti fyr (10. Apríl 1790) Ernst Matthías Heidemann (d. 1799), kaupmann í Ísafirði, Grundarfirði og Ólafsvík; b. þ.:

aa. Juliana Katrín (f. 27. Des. 1789).
bb. Anna Katrín (f. 28. Nóv. 1790, † 1874).
cc. Elízabet (f. 6. Marz 1792, † 22. Júlí 1796).

Seinni maður Valgerðar var Holger Peter Clausen, kaupmaður; son þeirra:

dd. Hans Arreboe Clausen (f. 15. Júlí 1806, d. 27. Mars 1891) etatsráð, stórkaupmaður í Kaupmannahöfn, átti 1830 Ásu Óladóttur Sandholts borgara í Reykjavík, Egilssonar borgara í Reykjavík, Helgasonar í Sandhólum á Tjörnesi, Egilssonar, Helgasonar (f. 16. Okt. 1815, d. 15. Jan. 1899); b. þ.:

aaa. Holger Peter Clausen (f. 1. Ágúst 1831, d. 29. Maí 1901) síðast kaupmaður í Reykjavík, átti fyr enska konu Harriott Barbara Cook (f. 1837). Þeirra börn:

1. Hans Arreboe, blaðamaður í Melbourne í Ástralíu (f. 14. Maí 1859), giftur Esther Schytte (f. 1860) dóttur málafærslumanns Schytte og konu hans, fæddrar Höffding.
2. Amy Taylor (f. 26. Ág. 1860), gift Hermann Christesen (f. 1850) áður verksmiðjueiganda, nú jarðeiganda nálægt Melbourne.
3. Vigand Barker (f. 1863), gullnemi í Vestur-Ástralíu.
4. Olga Emily (f. 9. Sept. 1866), ritstjóri blaðsins „Norden“ í Melbourne.

Síðari kona H. P. Clausens var Guðrún Þorkelsdóttir prests á Staðarstað (d. 1891) Eyjólfssonar; börn þeirra:

1. Ragnheiður (f. 24. Ág. 1879), átti Benedikt Jónsson verzlunarmann í Reykjavík; b. þ.: Guðrún Olga.
2. Jóhannes (f. 4. Júlí 1882).
3. Þorkell (f. 26. Nóv. 1884).
4. Óskar (f. 7. Febr. 1887).
5. Axel (f. 30. Apríl 1888).
6. Ása (f. 21. Nóv. 1889).
7. Arreboe (f. 5. Sept. 1892).
8. Herluff (f. 28. Des. 1896).
9. Hulda (f. 3. Apríl 1898).

Laundóttir Holgers Clausens með Ásdísi Lýðsdóttur í Ólafsvík, Hálfdanarsonar:

10. Geirþrúður (f. 9. Sept. 1872), kona Helga Zoëga kaupmanns í Reykjavík; börn þeirra: Jósephína Antonía (f. 30. Júlí 1893), Guðrún (f. 24. Ág. 1894), Ásta (f. 27. Okt. 1895), Geir (f. 1. Nóv. 1896), Hildur (f. 3. Apríl 1898), Einar (f. 17. Ág. 1900), Kristján og Helgi (f. 25. Júlí 1904).

bbb. Harriet (f. 9. Jan. 1842), gift Joh. Henrik Emil Zöylner cand. jur., fyrrum stórkaupmanni, nú vogarmeistara í Khöfn., syni C. F. Zöylners († 1866) prests í Alsted og Fjenneslev; þ. b.:

1. Agnete (f. 22. Ág. 1871), gift William Bendix (f. 17. Febr. 1865) stórkaupmanni í Khöfn. Börn: Jörgen Ulrik (f. 27. Júlí 1892), Tyge Zöylner (f. 5. Marz 1894).
2. Ása (f. 3. Júní 1874), cand. mag., gift Johan Gudmann Rohde málara (f. 1. Nóv. 1856); þeirra börn: Gabriele (f. 7. Sept. 1904), Abelone (f. 11. Apríl 1908).
3. Carl (f. 16. Maí 1875), kaupmaður í Khöfn., giftur Jutta Birgitte Meyer (f. 15. Des. 1880); þeirra börn: Hans Christian (f. 2. Júní 1902), Ruth (f. 18. Jan. 1904), Grete (f. 24. Nóv. 1908).
4. Maria (f. 4. Júlí 1876), á verzlunarskrifstofu í Khöfn.
5. Inger (f. 21. Júlí 1877), gift Dr. phil. Tommy Bonnesen (f. 27. Marz 1873), skólastjóra við Borgerdydskolen í Khöfn., syni Bonnesens vínsala († 1892).
6. Johanne (f. 3. Okt. 1879), á verzlunarskrifstofu í Khöfn.
7. Christian, cand. phil. (f. 31. Jan. 1883), áður járnbrautarmaður í Buenos Ayres í Argentina, nú verzlunarmaður í New York.

ccc. Vigand (f. 11. Maí 1844, d. 16. Febr. 1903), hans kona Anna Nöhr († 1901); hann var fyrst leikandi í Danmörk, síðan faktor fyrir föður sinn á Íslandi. Börn þeirra:

1. Eva (f. 1870) gift James Lee, stjórnarráðsskrifara í Melbourne.
2. Astrid (f. 1873), í Ameríku.
3. Poul (f. 1874), bóndi í Ástralíu.

Seinni kona Ólafs í Kambsnesi, Jónssonar Indíafara, Ólafssonar, var Ólöf Árnadóttir; b. þ.:

IV. Jón Ólafsson yngri, átti Margrjeti Svartsdóttur á Látrum, Þórðarsonar, Svartssonar; börn þeirra:

A. Svartur Ólafsson, átti Önnu Þormóðsdóttur í Múlakoti, Arasonar, Þormóðssonar lögrjettumanns (B. Ben. Smæf. I, 504), Arasonar, b. þ.:

a. Ólafur Svartsson (f. um 1755) á Bakka í Hnífsdal, svo Sljettu í Aðalvík, átti fyr (19. Júní 1785) Elínu (f. um 1764) Halldórsdóttur, systur Geirlaugar seinni konu Jóns Arasonar (bls. 420); börn þeirra:

aa. Margrjet Ólafsdóttir (f. 3. Ágúst 1786) átti Jón Jónsson í Hnífsdal, Jónssonar samastaðar, Jónssonar samastaðar, Sveinssonar á Kirkjubóli, Jónssonar, Jónssonar í Gjörfurdal, Jónssonar, Guðmundssonar í Króksfirði, Einarssonar prests á Stað á Reykjanesi, Guðmundssonar; þau voru barnlaus.

bb. Ingibjörg Ólafsdóttir.

cc. Jón Ólafsson.

dd. Halldóra Ólafsdóttir.

Seinni kona Ólafs Svartssonar var Ingibjörg Jónsdóttir, Þorvaldssonar; bl.

b. Margrjet Svartsdóttir átti fyr Halldór Loftsson á Seljalandi, Þórðarsonar; son þeirra:

aa. Ísak Halldórsson.

Margrjet Svartsdóttir átti síðar Jón Jónsson, Þorleifssonar.

c. Jón Svartsson (f. um 1761) átti Arnfríði Ólafsdóttur.

B. Ólafur Jónsson.

C. Halldóra Jónsdóttir.

V. Þorbjörg Ólafsdóttir átti Martein Pjetursson danskan; dóttir þeirra:

A. Guðfinna, átti launson með Olafi Bjarnasyni, Magnússonar.

a. Björn á Seli, átti Sigríði.

VI. Halldór Ólafsson átti Guðrúnu Sigfúsdóttur, Sigfússonar, Sveinssonar, Andrjessonar, b. þ.:

A. Hlaðgerður.

VII. Guðný Ólafsdóttir, launson hennar:

A. Árni.

III.

## ÞJÓÐSÖGUR UM JÓN ÓLAFSSON INDÍAFARA.

(Ritaðar af kennara Karli Finnbogasyni eftir frásögn Jóns Jónssonar blinda frá Mýlaugsstöðum.)

Jón Indíafari var með Kristjáni 4. Danakonungi. Einhverju sinni átti konungur orustu við Svía, og fylgdust þeir Jón að. Bardaganum kom svo, að Danir ljetu undan síga. Gengu Svíar hart fram og sóttu að konungi. Einn þeirra hjó til hans og kom höggið á eyrað. Sneiddist eyrað nokkuð, en konungur fjell í ómegin. Jón var þar nær staddur og lagði Svíann þegar í gegn. Síðan þreif hann til konungs og kom honum undan á óhultari stað. Þar var hann hjá honum þangað til af honum rann ómeginið. Eftir þetta hafði konungur meiri mætur á honum en öðrum mönnum.

Einhverju sinni kom konungur að máli við Jón og mælti á þessa leið: „Eg hefi sent tvö skip til Indía hvort eftir annað, en þau hafa aldrei aftur komið. Fellur mjer það þungt, því margt mætti þaðan flytja til vor, sem ekki er auðfengið í Evrópu. Hef eg því afráðið að senda þangað hið þriðja skip, ef eg fengi þann að formanni, er fyrir því væri trúandi. Vildi eg nú biðja þig að færa skipið, því engan veit eg hentari til slíkra stórræða í ríki mínu.“ Jón tók vel máli konungs, og lofaði förinni. Voru þá valdir sterkustu menn og mestir fyrir sjer í Danaveldi. Það voru flest Norðmenn, og hjeldu nú af stað 11 saman. Sóttist þeim ferðin greiðlega, og drukku sjer til dægrastyttingar. Boruðu þeir gat á tunnubotnana, en hjeldu síðan á tunnunum og drukku úr gatinu. Sagði Jón að sjer hefði þótt það skömm mikil, að þeir voru allir sterkari

honum, því þeir hjeldu tunnunni milli handa sjer meðan þeir drukku án þess að hún kæmi við bringu þeim, en Jón varð að styðja henni að bringunni. Þó bar hann jafnan hærra hlut ef í glímu kom eða ryskingar. Á heimleið komu þeir við á Góðrarvonarhöfða. Skorti þá eitthvað, og fór Jón á land til kaupa. Þar kvaðst hann hafa sjeð ljótasta menn og illmannlegasta á æfi sinni. Hann gekk inn í búð eina og lauk erindum sínum. Þar var margt manna, og höfðu flestir glerskefta hnífa. Þóttist hann sjá, að þeir væru svo gjörðir, til þess að brjóta mætti fljótlega af þeim skaftið, þegar blaðinu hefði verið stungið inn, og væru þá hættulegustu morðvopn. Þegar Jón gekk út, fylgdi honum annar maður og hafði þriggjapelaflösku í hendi. Talaði hann til hans vinsamlega og gekk með honum á leið til skips. En er þeir nálguðust skipið hóf náungi þessi flöskuna á loft og sló henni á gagnauga Jóni. Fjell hann þegar í rot, en er hann reis úr því aftur, sá hann að maðurinn lá þar hjá honum og var hálsbrotinn. „Guð einn veit hver drap hann. Eg held helst að eg hafi gert það, því mig rankar við að eg þrifi til hans um leið og hann reiddi að mjer flöskuna“, sagði Jón síðar. Eftir þetta hjeldu þeir heim, og náðu heilu og höldnu til Danmerkur. En konungur tók þeim fegins hendi.

Þegar Jón var á áttræðisaldri, átti hann eitt sinn leið um Ölfus, og gisti þar á bæ einum. Um nóttina kviknaði í bænum, og komst alt í uppnám. Jón vaknaði við, og varð skjótt áskynja orsakanna. Hann þreif stigvjel sín og kápu og óð síðan um eldana einsog berserkur. Varð honum betur ágengt en öðrum yngri að bjarga mönnum og munum úr eldinum. Þegar alt fólkið var út komið, og bærinn að mestu brunninn, stóð Jón og húsfreyja í nánd við búrið. Fjell þá niður þekjan búrsins, og sást í skyrsá mikinn — tveggja tunnu ílát, gegnum reykjarmökkinn og rústina. Þá segir konan: „Flest fer nú að einu fyrir mjer og mínum! Þetta ílát var alveg fult af ágætu skyri og besta slátrinu sem eg átti, en það fer forgörðum einsog annað.“ Jóni reis hugur við að slíkt góðmeti skyldi að engu verða, enda fann hann að konan saknaði sáarins innilega. Hann brá sjer inn yfir vegginn, þreif sáinn báðum höndum og setti hann upp á vegginn, axlarháann.

„Takið nú við, drengir góðir, ekki miður en rjett er," sagði hann um leið og hann hljóp út yfir vegginn og hristi af sjer rykið.

## IV.

## VITNISBURÐUR NÍELS CLEMENSSONAR UMBOÐSMANNS Í VESTMANNAEYJUM.

(Prentaður eftir B-hdr. Sbr. lýsinguna á því hdr. í formálanum. Endir skjalsins afbakaður.)

Eptter som Jon Olafsson hafuer her vdy Vestpen Øe fortöfuet paa ett ärs tyd og agtter sig Nu met guds hielp at forfoye sig Nu herfra og Vester til sinne Venner og Kunninger, Og eftter dij at hand er af mig begerendis faaein Ord huorleidis hand sig her vdy Vestpen Øy hafuer forholldet sig I Mydler tyd hand haffuer her veret, da er dette den vidnnesburd som eg hanem gyffuer og kand her iche I mod vere, at fornefnde Jon Olafsson haffuer forholldid sig her fromachttig Erligenn og vel Til Ord og Giernninger, so at Jeg haffuer Icke andet af hanem fornummit end at hand maa vere og faare huor hand vil Obehyndret I alle Maader aff huer Mand Og er jeg venligenn begerendis at huor forneffnde Jon Olafsson er betorttid[!] er Jeg alle Erlige Mend hanem at befordre til det[1]) beste sligt Igen at forskylde I lyge Maader eller andre[2]) huor jeg kand giore og forskylde.

Skreffuet I Vestpen Ø denn 17. July 1640.

Nyels Clemensson Eh.

---

[1]) tvíritað í hdr.

[2]) hjer eyða fyrir orði í hdr.

## V.

## ATHUGASEMDIR OG LEIÐRJETTINGAR.

Bls. 5 neðanmálsgr. Það kann að virðast rangt í fljótu bragði að fæðingurdagur Jóns Indíafara verði 7. Nóv. 1593 ef talið er eftir nýjum stíl, þar sem það er víst að 1. sunnudagur eftir Allraheilagramessu 1593 er 4. Nóv. í gl. stíl en 10 daga mismunur á stílunum um þetta leyti, svo þá ætti fæðingardagur hans að teljast eftir nýjum stíl 14. Nóv. sem það ár er *annar* sunnudagur eftir Allraheilagramessu og svo verður líka að telja ef maður heldur sjer við mánaðardaginn 4. Nóv. — En haldi maður sjer við það, að fæðingardaginn beri upp á *fyrsta sunnudag* eftir Allraheilagramessu 1593 og reikni eftir nýja stíl verður hann 7. Nóv. einsog hjer er sagt.

$7^{12}$ *til Hamborgar*, þýskusletta (zu Hamburg) = í Hamborg. Líkar þýskuslettur koma oft fyrir hjá Jóni Ólafsyni, þannig t. d. bls. $23^{35}$ til Lundún, o. sv. fr.

$8^{19}$ *Píning*, veturinn 1600—1601; Espólín kallar þennan vetur Lurk eða Þjóf.

$12^{16}$ *mæti*, d. mat, holl. maet, e. mate, eiginlega „fjelagi“, „aðstoðarmaður“, oft notað um þann, sem gengur e-m næstur í sömu stöðu; hjer hefur líkl. „mætið“ verið stýrimaður. — „Bátmeistari“ er víst sama og d. „Baadsmand“, bátstjóri, sem líka hefur umsjón yfir skipreiða.

$13^{25}$ *vatursegl*, d. Vaterseil, „þríhyrnt segl, sem stundum er viðhaft og sett neðarlega“ (Konr. Gísl.)

$13^{28}$ *mersusegl*, d. Mærssejl, „ferhyrnt segl næst fyrir ofan siglupallinn (pallsegl)“. (Konr. Gísl.)

$15^{26}$ *lífskip*, eiginlega er þetta orð notað um skip til persónulegra afnota einhvers höfðingja („lífskip konungs“), en hjer táknar það vafalaust „varðskip“ eða tollgæsluskip.

$16^{3}$ *stáfferað* = prýtt, d. staffere, af mið-lágþýsku orði stafferen, sem aftur er komið úr fr. estoffer, étoffer.

$19^{10}$ prjámur, e. prame, holl. praam, d. Pram, ísl. prammur (karlk.) og prammi.

$22^{1}$ Grafsund = Gravesend.

$22^{17}$ trómet, á þátíðardönsku Tromet, Trommete, af miðháþ. orði trumet, á nútíðardönsku Trompet, lúður.

$22^{26}$ fartugar = farþegar.

24—25. Myndin er tekin hjer eftir mynd framan við J. R. Green, A short history of the English people; Vol. 3. London 1893; frummyndin er geymd í Magdalen College í Cambridge.

$27^{12}$ Veigat. Sbr. neðanmálsgr. 1. við bls. 103.

$27^{16}$ Kaptuginn. Sbr. bls. 181, neðanmálsgr. 2.

$28^{18}$ músskyttur, líka ritað múskveittur, músskittur, músskvettur = d. Musket, af fr. mousquet, stór handbyssa.

$29^{3}$ pússmenterí = kögurvefnaður, dreglagjörð, d. Possementarbejde, úr fr. passementerie.

$29^{17}$ berideri og stallknekt, d. Berider og Staldknægt, tamningarmaður og hesthúsþjónn.

$30^{10}$ lossamenti, d. og fr. logement (nú sjaldg.), = leiguherbergi, húsnæði.

$30^{12}$ dravant, d. Drabant, lífvörður.

$31^{1}$ silfurpopp, d. Sølvpop, silfurkeravörður.

$31^{6}$ regimente, þetta orð hefur tvær merkingar, sumpart „herþjónusta“ (vera undir r. = vera í herþjónustu), sumpart herdeild, (í nútíðardönsku Regiment).

32. Myndin er tekin úr hinu merkilega riti eftir Joachim Arentsehe: Ein Buch . . . wie ein Zeughausz . . . gehalten werden sol . . . Kph. 1578.

$33^{31}$ ordíneraður = vígður (d. ordinere).

$35^{21}$ M. Hr. m., sbr. orðamuninn. Það er óvíst hvað þessir stafir eiga að þýða. Líklega er fyrsta m-ið = meistari. Sjálfsagt er átt við einhvern háskólakennara eða prest.

$35^{29}$ hoffrakt, hjer = ríkilæti, skraut, einkum í klæðaburði; á eldri d. hoffart.

$36^{3}$ afsettum skóm = d. Afsætsko, skór með háum hælum.

$37^{8}$ vippu, líklega er hjer ekki átt við þesskonar vippugálga sem getið er um í neðanmálsgreininni, heldur við þá sem lýst er og mynd er af á bls. 106.

$37^{13}$ Truncen; að því er RC segja stóð sú bygging enn 1862, en var svo rifin niður þegar Gammelholm var úthlutað til húsagjörðar.

$44^{16}$ lempe, lempni, hægð, vægð, lipurð.

$44^{35}$ undir sverð, það þótti smánarlegri dauðdagi að vera hengdur en hálshögginn.

$48^{19}$ blokkhús, d. Blokhus „vígi gjört af timburstokkum“ (Konr. Gísl.)

$50^{19}$ vínstaup, staup er hjer og víða annarsstaðar í bókinni notað til að tákna „stob“, mæliker, sem tók ýmist 4, 8 eða 12 merkur.

$51^{6}$ veitur, þýðing þessa orðs er ljós, hjer er „á veitur“ = „í fórur“, en uppruninn óljós; líkl. er „veita“ þó upprunalega = engi, einkum engi, sem vatni er veitt á, og í ísl. alþýðumáli er orðið oft þann dag í dag brúkað um mýrlendi og jafnvel forarbleytu. — Sjá orðabækur Björns Halldórssonar, Fritzners, Eir. Jónssonar undir þessi orði. — Að eitthvað „komi á veitur“ e-s er þá einsog að það komi inn á engi eða landareign hans og hefur sjálfsagt upprunalega verið notað um gripi.

$51^{7}$ prófoss, á þeim tímum var prófossinn einskonar umsjónarmaður við herdeildirnar; hann gat tekið menn fasta fyrir yfirsjónir af eigin ramleik og var opinber ákærandi við hermannarjettinn. Síðar á tímum minkaði valdið og tignin. Nú þýðir orðið á dönsku oftast nær „böðull“.

$51^{13}$ Grábeinar, Próf. B. M. Ólsen hefur bent mjer á að líkl. eigi að skilja þetta svo, að menn fyrsta árið í herþjónustu hafi verið kallaðir þannig. — Í Noregi eru úlfar kallaðir „Graaben“, á Jótlandi sauðir og lýs.

$52^{22}$ strika, d. stryge, taka ofan flaggið einsog kveðju og heiðursmerki.

$52^{28}$ rosenobel, sjá 2. neðanmgr. við bls. 127.

$53^{5}$ oratiu, ræðu, lat. oratio. — $53^{17}$ ásetning, þessi staður er nokkuð óljós, en líkl. er svo að skilja að Metta á að hafa komist á snoðir um að konungur hafi ásett sjer að refsa henni eitthvað.

$55^{19}$ prófors, afdráttarlaust.

$56^{16}$ uppþrekt, þetta er danska orðið „trække op“, sem er notað um þegar varðmenn ganga til varðar í fylkingu („Vagten trækker op“).

$56^{19}$ liður = d. Geled, (fylkingar) röð.

$57^{11}$ skildvakt, Skildvagt á dönsku er bæði notað um varðmanninn sjálfan og athöfnina að vera á verði; staa S. (standa s.) = vera á verði.

$60^{5}$ próberast, d. probere, reyna.

$61^{2}$ renteríið, hjer = ríkisfjárhirslan.

$61^{9}$ fenggötin, d. Fænghul, púðurgat á byssum.

$61^{20}$ pússerí, d. Pudseri, brellur.

$63^{14}$ útafgöngu, bjóða til ú. = skora á hólm.

$67^{12}$ grassera (sjá prentv.), d. grassere, geysa.

$68^{33}$ hann og þeirra hálærðu, meiningin er: hann [ɔ: týhúsrjetturinn], sem átti að fjalla um mál Jóns, ef hann var ákærður, og [rjettur] þeirra hálærðu [ɔ: háskólaráðið, sem átti að dæma Finn, sem var stúdent, og mundi hafa tekið málstað hans, þar sem hann var saklaus].

$70^{5}$ Hann kvað sá vísari vera = hann sagðist ekki vera svo heimskur að fara að hjálpa Jóni, þó hann færi í áflog út úr þessu.

$72^{26}$ bringja, d. bringe, færa, hjer = koma, vestfirskt orð; sbr. vestf. bringingarbátur = uppskipunarbátur.

$78^{22}$ kvaksalver = skottulæknir.

$78^{28}$ Gjöglarar = loddarar.

$78^{36}$ comedi, d. Komedie, vanal. = gleðileikur, hjer = sjónleikur yfir höfuð.

$80^{23}$ orðið „og" stendur í beztu hdr. en er óþarft og ætti að falla burt.

$80^{24}$ rýtarakompagníið = riddaraliðssveitin (rýtari = d. Rytter, reiðmaður, riddari).

$80^{34}$ nýdregin, Próf. B. M. Ólsen hefur bent mjer á, að hjer eigi líklega að lesa nýdrifin (n. drift = nýfallin mjöll), og hygg jeg hann hafi rjett að mæla.

$81^{20-21}$ gefinn fýr, gefa fýr = d. give Fyr, skjóta, hleypa af byssunum.

$81^{25}$ trómetaríi = lúðurþeytarar.

$82^{15}$ skalmeyar, d. Skalmej (þ. Schalmei, af lat. calamus, reyr), einskonar blásturshljóðfæri, „smalapípa".

$83^{16}$ popelslagari = bumbuslagi.

$87^{15}$ fanticera, á nút. dönsku fantasere = tala í höfuðórum.

$88^{20}$ á sínum skildbekk að standa = standa á verði; skildbekkur = bekkur þar sem varðmenn sitja.

$88^{29}$ uppþrekkjast, sbr. ath. við $56^{16}$.

$90^{11}$ hópmanninn, sbr. orðamuninn; á þátíðardönsku Hopmand, = höfuðsmaður, hjer = kastalastjóri.

$92^{24}$ af skildbekknum = af verði sbr. ath. v. $88^{20}$.

$101^{2}$ Grjónklukka, þegar Svíar tóku Krónborg fluttu þeir þessa klukku til Stokkhólms og þar er hún nú.

$101^{17}$ máttu láta sín segl í toppi standa, ɔ: þurftu ekki að lægja toppseglið til virðingarmerkis og kveðju.

$109^{10}$ eðlaknapar, ungir menn af aðalsættum, þ. Edelknaben.

$112^{6}$ músskittum, sjá ath. við bls. $28^{18}$.

$114^{3}$ felfrossskinn, sjá ath. við bls. 243; — á ísl. hefur dýrið verið kallað fjallfress.

$114^{3}$ luxgufur, jeg er hjerumbil viss um að í frumriti Jóns hefur ekki staðið luxgufur. — Jeg sá síðar, eftir að þessi staður var prentaður, að allur kaflinn um Rússland er tekinn úr Compendium Cosmographiæ Hans Nansens. Í útgáfunni 1646, sem hann hefur farið eftir (sbr. formálann) er þessi staður svona „Aff disse Lande føris i andre Lande, Hør, Hamp, Vox, Tallig, Elandszhuder, andre Huder, Sobel, Maard, Feldfrads, Refskind, Wllfskind, Lux, Otter, Bewer . . ." o. sv. sfr. Annaðhvort hefur nú Jón í frumritinu skrifað „otrar" (eða oturskinn) mjög ógreinilega, eða þá tvískrifað orðið „Bewer", sem vel gat afbakast í = Gufur, einkum hafi það á fyrra staðnum verið skrifað „Bevur", og dregist saman við orðið „lux" næst á undan, og þykir mjer síðari tilgátan líklegri. Af vangá hef jeg lesið skakkt í afskrift minni af þessum stað í C., og því tilfært „luxhúfur" í ath. sem leshátt þar, en svo er eigi, og hef jeg í orðamuninum tilfært rjettan leshátt þess handrits.

$119^{5}$ corum, guðsþjónusta með söng (lat. chorus, d. Kor, sem nú er vanal. í merkingunni söngflokkur).

$120^{11}$ Calaman, Próf. B. M. Ólsen hefur bent mjer á að hjer muni

líkl. átt við Sölmundarfjörð, sem í daglegu tali er kallaður Sölmundi; það er bygð í Austurey við Skálafjörð austanverðan. Á kortinu í bók N. Andersens, Færøerne 1600—1709 er bygðin kölluð Solmunde. Þaðan er Lambhagi í áttina „út með sjó“ (l. 11), og liggur þó ekki við sama fjörð heldur við Lambavík, en þar er aðeins mjótt eiði milli fjarðanna, og mjög eðlilegt að Jón gæti haldið að Lambhagi heyrði til Skálafjarðarbygðunum.

120[12] lögmaðurinn Michael, hann var ekki lögmaður en lögrjettumaður, sjá áðurgr. rit N. Andersens bls. 192, lögmaður í Færeyjum var þá Zakarías Þormóðsson á Eiði (s. rit, bls. 210).

122[32] limhlaupa, ɔ: sá sem hleypur undan liminu (ɔ: vendinum), hræddur (Próf. B. M. Ólsen hefur bent mjer á þessa skýringu).

125[7] respit = frest, d. Respit, af forn-fr. orði respit (lat. respectus).

126[26] Thómas Smiðs Bæ = Sir Thomas Smiths Bay; svo var áður nefndur fjörður sá, sem nú er vanal. kallaður Wijde Bay (Sir Wm. Martin Conway, The first Crossing of Spitsbergen, London 1897, bls. 297).

131[35] brimmár er vestfirskt orð = straumönd (anas histrionica), líka kölluð brimönd og brimdúfa, að því er próf. B. M. Ólsen hefur frætt mig á.

132[35] harpónerinn = skutlarinn, d. Harpunér.

135[33] cameratis, d. Kammerat, fjelagi.

137[5] tran = d. Tran, lýsi.

138[16] börs, hjer = sjóð, d. Börs, fr. bourse.

144[25] Brockenhús, RC. halda að þetta orð sje ekki notað sem staðarheiti, heldur sje svo kallað strangt fangelsi yfir höfuð. Nafnið sje svo dregið af fangavist Ejlers Brockenhuus á Dragsholm. En Jón Indíafari talar altaf um það sem sjerstakan stað, og bls. 158[35] segist hann hafa verið í fangelsi „í þremur stöðum“, nfl. Brockenhus, Blátorni og týhúsinu, og tekur það af öll tvímæli, að mjer finnst. Hitt er annað mál að það er óvíst hvar fangelsi þetta hefur legið.

149[20] Boye Lauritssen. Íslenska karlmannsnafnið Bogi er ekki annað en danska nafnið Boje eða Boye umskrifað á íslensku; það á ekkert skilt við -bogi í Finnbogi, Húnbogi osfr., því þar hefur orðið 'bogi' sína vanalega merkingu, skotvopnið bogi. En Boje mun upprunalega vera komið úr lágþýsku, og er líklega, að því er menn halda, einsog svo mörg önnur mannanöfn, úr barnamáli (bō, gælunafn fyrir bróðir, og -je deminutivending, sbr. Kaj(e) af Karl). Hugsast getur og að það sje skylt frísneska orðinu boi, boy, á ensku boy = drengur. — Christofor Boye (sjá hjer síðar) segir Jón að hafi verið enskur að ætt, og máske hefur þá ættarnafn hans verið 'Boy'. En af því orðið Boje hljómaði eins í íslenskum eyrum og 'bogi' var eðlilegt að það yrði skilið og ritað svo. Nafnið mun fyrst komið til Vestfjarða með dönskum kaupmönnum, og enn mun það tíðast í sjerstökum vestfirskum og breiðfirskum ættum.

155[21] eftirlegumaður. Svo voru kallaðir verslunarmenn er voru skildir eftir á Íslandi til að annast verslanirnar, en ekki sigldu samsumars aftur, einsog siður var flestra útlendra verslunarmanna.

$158^{12}$ þar sem, vafalaust hjer dönskusletta = dersom, ɔ: ef.

$170^{4}$ vindaugum = gluggum, d. Vindue.

$173^{28}$ forskona = hlífa, d. forskaane.

$174^{7}$ höybátsmaður = hábátsmaður, d. Højbaadsmand.

$175^{10}$ óstutt, líklega á hjer heldur að lesa „stutt" einsog sum hdr. líka hafa.

$177^{21-22}$ stafferuð, sjá ath. hjer í viðbætinum við bls. $16^{3}$; bolsaner sjá 1. ath. neðanm. bls. 48.

$179^{6}$ skutul, sjá 3. athugas. neðanmáls bls. 219.

$180^{21}$ credentsker, líklega er hjer aðeins átt við stórt drykkjarker, en upprunalega voru svo kölluð einskonar tildrykkjuker, sem voru notuð í heldri veislum við tildrykkjur, svo og þegar matreiðslumenn eða veislustjórar brögðuðu á drykk áður til að sýna að alt væri ósaknæmt. — Rósenobel sjá 2. ath. v. bls. 127.

$181^{16}$ Lessey = Hljesey, d. Læsø.

$188^{12}$ riktugheit, ɔ: rjettindi.

$188^{16}$ því hann hvorki í önnur lönd sinni sigling hjeldi, meiningin er að hann þessvegna hefði nóga hentugleika til að reka verslun á Indlandi.

$188^{26}$ víða utanlandshöndlanir = höndlanir víða utanlands.

$198^{23}$ palats = höll, d. Palads.

$199^{4}$ klenodí (hjer í flt) = dýrgripir, d. Klenodie.

$199^{20}$ túrkos, gimsteinn, sem er ýmist bláleitur eða grænleitur, e. turkois, turquoise, þ. turkis, d. Tyrkis.

$199^{21}$ kattauga, e. cats eye, svo nefnist hörð og hálfgagnsæ kvartstegund, sem bregður á ýmsum litum, líkt og í auga á ketti, eftir því hvernig ljós fellur á.

$200^{2}$ caton, d. Katun, e. cotton, bómullarvefnaður.

$200^{29}$ compagnii, svo nefnir Jón Ól. vanalega danska verslunarfjelagið „Det Dansk-Ostindiske Compagni" er stofnað var 1616 til að reka verslun á Indlandi.

$201^{12}$ pagógur, síðara „g" ið hefur líkl. ekki heyrst í frb. Jón hefur líkl. borið fram „pagóur".

$201^{26-27}$ bíkvæmni ígjen = aðstoð til endurgjalds.

$207^{6}$ móðunni, hjer = höfninni.

208, 3. neðanmgr. l. 15 frá Ísafirði, er ekki nákvæmt. Issefjord er hjer auðvitað í *merkingunni Ísafjarðardjúp, því áður á tímum var* alt djúpið kallað svo, en ekki eingöngu insti fjörður þess, einsog nú. Af þessari máls- venju skilst nafn kaupstaðarins í Skutulsfirði.

$213^{11}$ Hanton, máske er hjer þó ekki átt við sjálfan bæinn Plymouth, heldur við Devonport, er liggur rjett á móti; þeir bæir eru nú vaxnir saman.

$217^{12}$ nátthús = d. Nathus, „leiðarsteinskompa (á hafskipi)" (Konr. Gísl.).

$220^{6}$ ranzon, hjer, skamtur; hjer hefur Jón blandað saman dönsku orðunum Ranson, lausnargjald, og Ration, skamtur, bæði uppr. úr frönsku.

$224^{30}$ Pjetur Van Bergen; hugsanlegt er at Jón hafi mismint og

að það hafi verið Pjetur Van Bergen, sem hljóp frá stýrinu en Peder Jensen frá Khöfn, sem bjargaði. Þá skilst líka betur hversvegna maðurinn fjekk að halda lífinu, því að byssuskyttur munu naumast hafa verið of margar. Próf. B. M. Ólsen hefur bent mjer á þetta atriði.

$227^{9-10}$ og ath. 2. Alcorem. Það er líkl. rangt, sem jeg hef getið til að hjer sje átt við sækúna, halicore. Jeg hef síðar í bókum um elstu ferðir Portúgalsmanna í þeim höfum sjeð getið um fisk með líku nafni, og býst við hjer sje átt við hann nfl. albacores, (albachores, albicores), sem er af hundfiskakyni (d. Tunfisk), og er orðið notað um ýmsar tegundir, einkum unga fiska, en mest um þá er náttúrufræðingar nefna orcynus alalonga. Mynd af þessum fiski frá þeim tímum er prentuð í Collection des ouvrages anciens concernant Madagascar I; Paris 1904, bls. 10 bis, sjá líka sama bindi bls. 162.

$228^{6}$ journal = dagbók, lánað í d. úr frönsku.

$231^{28}$ 12 eða 13 vikur — á nýársnótt eru liðnar rúmar 14 vikur frá jafndægrum.

$232^{9-10}$ norðan- og sunnanvindar, staðvindarnir í Indlandshafi blása í 6 mánuði (Nóvember—Mars) hjerumbil úr norðausturátt, en í aðra sex næstu mánuðina (Apríl—Október) úr suðvesturátt.

$237^{16}$ substantia, lat. = efni, hjer efni til að búa til blek úr.

$238^{22}$ kráka, d. Krake, stórt flutningaskip.

$241^{19}$ sem trómetspípur. —Skyldi hjer vera átt við þarategund þá, er á frönsku er kölluð tromb(s) af ættinni Laminariacea (Ecklonia buccinalis, Agardh)?

$248^{6}$ gyllinistykki, d. Gyldenstykke, úr þ. Goldstück, „einskonar gullfjallað rósasilki". (Konr. Gísl.)

$254^{15}$ karnat, hjer = þak, himinn.

$258^{10}$ sá stóri Cam; Cam = Khān, tyrkn. orð, sem upprunal. þýðir „höfðingi"; það var einkum notað sem tignarheiti fyrir afkomendur Dsjengis-khans og líka í Norðurálfu oft haft um Kínverjakeisara. Nú er það orð algengur titill í ýmsum Austurlöndum.

276. Myndin er tekin úr J. Fergusson, History of Indian and Eastern Architecture; London 1876.

$284^{5}$ nertugum = laglegum, vestfirskt orð.

$300^{7}$ fyrir 300 árum; Vasco da Gama fann 1498 sjóleiðina fyrir Góðrarvonarhöfða til Indlands.

$305^{28}$ passionem, passionis sunnudagur er 5. sunnudagur í föstunni (líka kallaður Judica).

$317^{19}$ manier = d. Manér, háttur, lag.

$319^{25}$ caponiska hana = geldhana, d. Kapun, lat. capo.

$321^{23}$ 40,000, líklega er þessi tala nokkuð ýkt.

$331^{37}$ rector og, hjer á sjálfsagt að standa: með rector og.

$334^{9}$ desmerketti, d. Desmerkat, ísl. desköttur (viverra civetta); dýr þessi hafa kirtil nálægt bakraufinni, og er í honum ilmandi efni.

$340^{21}$ vör tekið, „vör" er tak með ár eða eitt tak sundmanns, „taka vör" er því ɔ: „taka sundtök".

$352^{36}$ fjórbyrgt — þríbyrgð, líklega er rjettara að rita „fjórbyrt — þríbyrð“ því orðið mun skylt „borð“ í merkingunni „lag“ (= þrefaldur, fjórfaldur). Sbr. Fritzner undir orðinu tvíbyrður.

$353^{17-19}$ strika = d. stryge, hjer = fella niður.

$354^{34}$ fixeraðist, d. fiksere, gera gis að.

$363^{14}$ hæringsbússa = síldarskúta.

$363^{18}$ þyrmdi báðum, meiningin er, að hann hætti kappsiglingunni, sem stofnaði báðum í voða.

$365^{22}$ taxeraðir, hjer = útvaldir, teknir.

# REGISTUR.

(Í registur þetta eru tekin aðeins nöfnin úr sjálfri sögunni og athugasemdunum neðanmáls, en ekki úr viðaukunum fyrir aftan bókina.)

## A. Mannanöfn.

[1]) orð sem ekki finnast hjer rituð með C standa undir K.

[1]) Orð sem ekki standa hjer undir K má leita að undir C.

## B. Staðanöfn.

[1]) Orð sem ekki finnast hjer undir C má leita að undir K.

[1]) Orð sem ekki standa hjer undir K má leita að undir C.

# PRENTVILLUR.

---

Bls. IV$^{12}$ endur l. endar — 4$^{9}$ embætti l. embættis — 36$^{31}$ slotinu, ásamt l. slotinu ásamt — 47 nmgr. 3 l. 2 — 67$^{12}$ passera l. grassera — 72$^{5}$ áttu l. átti — 77$^{28-29}$ farið. Bæði l. farið, bæði — 87$^{4}$ runninu l. runninn — 90$^{27}$ stríðsmanering l. stríðs manering — 92, neðanmálsgr. l. 1. Hvert l. Hvort — 95$^{24}$ málstæki l. máltæki — 101$^{18}$ og l. eg — 115$^{26}$ stjórsjó l. stórsjó — 118$^{22}$ kveðjum l. kærum kveðjum — 121$^{32}$ skó l. skóm; komman á eftir „vörpum" ætti að falla burt. — 122$^{32}$ linhlaupa l. limhlaupa — 124$^{17}$ grynninginum l. grynningunum — 125, 1. neðanmgr., l. 1. hans l. hann — 132$^{20}$ komman eftir „sinn" falli burt. — 133$^{17}$ skilnaður l. skilnaðar — 135$^{31}$ Ein l. Einn — 136$^{34}$ lestst l. leskst — 137$^{30}$ ham l. hann — 138$^{10}$ sunna- l. sunnu- — 138$^{26}$ annara l. annari — 143$^{17}$ slippa l. sleppa — 144$^{1}$ Petta l. Þetta (brotinn stafur). — 146$^{29}$ herða l. hegða — 153$^{25}$ mit l. mitt — 158$^{29}$ aðfinni l. aðfyndni — 168$^{10}$ hvarúti l. hvarútí — 172$^{34}$ kallist l. kallast — 177$^{5}$ Christofer l. Christofor — 181$^{34}$ om l. um — 183$^{9}$ Hinn l. Hin — 187$^{12}$ inni l. inní 190$^{4}$ géneral l. generall — 197$^{3}$ Dansborg. Þar l. Dansborg, þar — 224 nmgr. 1, 5. línu: þar l. þær — 234$^{23}$ láu l. lágu — 263$^{13}$ kastalanum; á l. kastalanum, á — 264$^{20}$ neðar l. neðan — 266$^{17}$ nokkra l. nokkurra — 279$^{25}$ brameni; gengur l. brameni, gengur — 305$^{11}$ farsala l. farsæla — 317$^{10}$ nokkra l. nokkurra — 322$^{20}$ stríðsmeun l. stríðsmenn — 323$^{15}$ á l. í — 324$^{17}$ yfirtók óvinanna l. yfirtók, óvinanna — 325$^{9}$ skutulbróður l. skutulbróðir — 329$^{4}$ farlega l. fárlega — 335$^{36}$ Þessir l. Þessi — 342$^{36}$ óslitinna l. slitinna — 347, nmgr. 1, l. 1, Góðar- l. Góðrar- — 365$^{35}$ afboð l. ofboð — 371$^{8}$ þágum l. þágum, — 371, nmgr. 2, l. 13, virðuglega = virðulegu — 389, nmgr. 1, l. 3, Jarðirnir l. Jarðirnar — 409$^{2}$ 47$^{2}$ l. 47$^{3}$ — 409$^{34}$ 88$^{24}$ l. 88$^{26}$; kaflanum er sleppt frá greinaskiftunum. — 409$^{38}$ 94$^{23}$ l. 94$^{22}$ — 410$^{5}$ ósekja l. ósekju — 411$^{17}$ heldið l. haldið.

Lesandinn er beðinn að afsaka, að við hreinprentunina hafa brotnað högg ofan af upphafsstöfum sumstaðar.

---

# EFNISYFIRLIT.

---



---

